# ALLAN QUATERMAIN.

## INNGANGUR.

23. Desember.

„Eg er nýbúinn að jarða drenginn minn, aumingja fallega drenginn, sem eg þóttist svo mikið af, og eg er yfirkominn af harmi. Það er afar þungbært að missa eina soninn sinn þannig, en verði guðs vilji. Hvað er fyrir mig að mögla? Forlaganna mikla hjól veltur áfram eins og Juggernaut*), og mer oss alla sundur á sínum tíma, nokkra fyrr, nokkra síðar, litlu varðar hvenær, því að á endan um mer það oss alla sundur. Vér fleygjum oss ekki undir það með tilbiðjandi lotningu, eins og veslings Hindúarnir; vér flýjum hingað og þangað — vér hrópum eftir vægð,

*) Juggernaut er Hindúa-skurðgoð eitt; það situr á nokkurs konar kerru, 200 feta hárri. Fyrr á dögum var það siður pílagríma að fórna sjálfum sér með því að fleygja sér undir hjólin, þegar kerran var [illegible]

en það er til einskis; blind forlögin velta áfram ei: og svart þrumuský og gera oss á sínum tíma alla dufti.

„Aumingja Harry að deyja svona fljótt, einn í blóma og broddi lífs síns. Honum gekk svo prý lega í spítalanum, í gegn um hið síðasta próf komst hann með heiðri, og eg þóttist af honum, n ið meira en hann fann til sín sjálfur., að eg held. þá þurfti hann endilega að fara á þetta bólu-sjúk hús. Hann skrifaði mér, að hann væri ekki hræd við bóluna, en langaði til að læra af reynslunni þ og nú er bólan búin að drepa hann, og eg, gamall hrumur, eftirskilinn til að syrgja hannn, án alls l er geti létt mér harminn. Þar að auki hefði eg g afstýrt þessu; eg á nóga peninga handa okkur l um, og langt fram yfir það. Námar Salómons k ungs lögðu mér þá til; en eg sagði: „Nei, lá drenginn vinna fyrir sér sjálfan, látum hann er svo hann geti notið hvíldarinnar.“ En hvíldin á undan erfiðinu. Ó, sonur minn, sonur minn!

„Eg er eins og maðurinn í bibliunni, sem s aði miklum varningi og reisti hlöður—varningi ha drengnum mínum og hlöður til þess að geyma v inginn í; og nú er sál hans heimtuð af honum, og skilinn eftir einmana. Eg vildi það hefði verið sál, en ekki hans.

„Við gröfum hann seinnipartinn í dag, í sk gamla, gráa kirkjuturnsins í þorpinu þar sem h mitt er. Það var dapurlegur Desember-dagur snjódyngjan hékk í loftinu, þó að úrkoman væri lítil. Kistan var sett niður hjá gröfinni, og fáei

stórar drífur féllu á hana. En hvað hvítar þær sýndust á svarta dúknum. Það stóð ofurlítið á því að koma kistunni ofan í gröfina — bönd, sem á þurfti að halda, höfðu gleymst , svo við vikum okkur frá, og virtum þegjandi fyrir okkur stóru drífurnar, sem sigu niður eins og himnesk blessan og urðu að tárum á líkkistu Harrys. En ekki var þar með búið. Þröstur kom að fljúgandi, öruggur eins og ekkert væri um að vera, settist á kistuna og fór að syngja. Og þá er eg hræddur um að eg hafi ekki getað varist tárum, og ekki heldur Sir Henry Curtis, þó hann kjarkmikill sé; um Good kaftein er það að segja, að hann sneri sér undan líka; jafnvel í mínu eigin hugarstríði gat eg ekki annað en veitt þessu eftirtekt.“

Það sem hér að ofan stendur með undirskriftinni Allan Quatermain, er útdráttur úr dagbók minni, skrifaðri fyrir meira en tveimur árum. Eg set það hér vegna þess, að mér finst það vera sú bezta byrjan á sögunni, sem eg er í þann veginn að skrifa, ef guði þóknast að lengja svo líf mitt, að eg get lokið því af. Ef ekki, þá gerir það ekkert til. Þessi útdráttur var skráður hér um bil sjö þúsundir mílna frá blettinum, þar sem eg ligg nú og skrifa þetta með þjáningum og í hægðum mínum, og við hliðina á mér stendur falleg stúlka, sem rekur flugurnar burt frá mínu alvörugefna andliti. Harry er í gröf sinni og eg er hér kominn, og samt getur mér einhvern veginn ekki annað en fundist að eg vera nærri honum.

Þegar eg var á Englandi, átti eg heima í mjö-
fallegu húsi — að minsta kosti eftir því sem eg k
þegar eg ber það saman við þau hús, sem e

vanist við að eiga heima í alla mína æfi í Afríku — það stendur tæp fimtán hundruð fet frá gömlu kirkjunni þar sem Harry liggur í líkkistu sinni; og þangað fór eg eftir jarðarförina og fékk mér ögn að borða, því það tjáir ekki að svelta, jafnvel þó maður sé nýbúinn að grafa allar sínar jarðnesku vonir. En mikið gat eg ekki borðað, og eg fór brátt að ganga, eða réttara sagt að haltra — því eg var stöðugt haltur eftir ljónsbit—til og frá um eikarþiljuðu forstofuna; því það er stór forstofa í húsinu mínu á Englandi. Allir fjórir veggir forstofunnar voru settir hornum, hér um bil eitt hundrað pör í alt, og hafði eg sjálfur skotið öll dýrin, sem þau voru af. Þau voru ljómandi fallég, því eg hirði aldrei nema þau sem eru með öllu gallalaus, nema einstöku sinnum, þegar eitthvað sérstaklega stendur á með þau. Þrátt fyrir það hélt eg auðum bletti í miðjum salnum uppi yfir stóra hitunarofninum, og þar hafði eg raðað öllum byssunum mínum. Sumar af þeim hefi eg átt í fjörutíu ár, gamla framhlaðninga, sem enginn mundi líta við nú á dögum. Ein þeirra var fíla-byssa, með skeftið og lásinn sívafið með ræmum af hrárri húð, eins og gerist hjá Hollendingum, og nefna þeir þær byssur „roer". Búinn*), sem seldi mér hana, sagði mér að faðir sinn hefði notað hana í bardaganum hjá Blóðá, rétt eftir að Dingaan óð inn í Natal og strádrap sex hundruð manna, karla, konur og börn, svo að sá staður var síðan kallaður „Weenen" eða „Grátstaður"; og það

———

*) Svo nefnast hollenzkir nýlendumenn í Suður

nafn helzt enn og mun ætíð haldast. Og margan fíl hefi eg skotið með þeirri gömlu byssu. Hún þurfti ævinlega handfylli af svörtu púðri og þriggja lóða kúlu, og lamdi mann eins og árinn annar, þegar af henni var hleypt.

Jæja, fram og aftur rölti eg, starandi á hornin, sem byssurnar höfðu lagt til jarðar; en um leið og eg gerði það, vaknaði inni fyrir hjá mér sterk þrá: Mig langaði burt frá þessum stað, þar sem eg lifði fyrirhafnarlausu og iðjulausu lífi, mig langaði aftur til óbygðanna, þar sem eg hafði átt heima, þar sem eg fyrst sá konuna mína elskulegu og þar sem veslings Harry fæddist, og þar sem svo margt hafði hent mig, gott, ilt og beggja blanz. Þorsti eftir óbygðalífinu logaði í mér; þessar stöðvar gat eg ekki lengur unað við; mig langaði til að deyja eins og eg hafði lifað, meðal villidýra á skógum og eyðimörkum. Já, þarna sem eg var að ganga, fór mig að langa til að sjá silfurhvíta tunglsljóss glampann hella sér yfir stóru slétturnar og dularfulla skóga-hafið og virða fyrir mér trossur af veiðidýrum þar sem þau ganga í halarófum ofan eftir ásunum niður til vatnsins. Aðalástríða mannsins er sterk í dauðanum, að sagt er, og hjarta mitt var dautt þá nótt. En þó raunir mínar væru ekki teknar til greina, þá er það víst, að enginn maður, sem lifað hefir mínu lífi um 40 ár, getur ótilneyddur lagt út í að sníða sig upp á ný eftir tízku þessa lands, með þess reglubundnu limagörðum og ræktuðu ökrum, ófrávíkjanlegu hæversku-siðum og skrautbúna manngrúa. Þann mann fer að langa — og langa sárt — til að teyga hreina eyðimerkurloftið;

hann dreymir að hann sjái *Zúlúana* gera áhlaup á fjandmenn sína, eins og brim á sjávarhamra, og í hjarta hans vaknar uppreistartilfinning gegn hinni smámunalegu takmörkun á lifnaðarháttum mentaðra þjóða.

Já. þessi mentun — hvaða gagn er annars að henni? Yfir fjörutíu ár hefi eg dvalið meðal villimanna og veitt þeim og þeirra háttum eftirtekt; og nú um nokkur ár hefi eg átt heima á Englandi, og hefi í minni einfeldni kappkostað að kynna mér siði ljóssins barna; og á hvað rek eg mig svo? Að hvaða niðurstöðu hefi eg komist? Hefi eg séð mikið djúp staðfest milli mentaðra manna og villimanna? Nei, að eins örmjóa sprungu, sem hugsun hvers óbreytts manns getur hoppað yfir um. Eg segi, að hvíti maðurinn sé eins og villimaðurinn, nema hvað hvíta manninum er sýnna um að finna upp á ýmsu, og hann hefir í sér hæfilegleika til samtaka; að því undanskildu, auðvitað, að villimaðurinn, eins og hefi kynst honum, er að kalla laus við alla peningagræðgi, sem étur sig eins og krabbamein inn í hjarta hvíta mannsins. Það er leiðinleg niðurstaða, að í öllum aðalatriðum sé villimaðurinn eins og barn mentunarinnar, en samt er því svo varið. Eg tel víst, að hver hámentuð frú, sem kann að lesa þetta, muni glotta að veiðimanns-fíflinu og dirfsku hans, þegar hún hugsar til sinnar perlusettu systur; og þá ekki síður frámuna lega vel mentaði iðjuleysinginn, sem borðar sinn miðdagsverð í klúbbnum eftir öllum kúnstnarinnar reglum, fyrir verð, sem nægði til að standa straum af sveltandi fjölskyldu í heila viku. En hvað er samt,

mín kæra ungfrú, þetta ljómandi gull, sem þér hafið um hálsinn? — Það er sterkt ættarmót með því, einkum þegar kjóllinn yðar er mjög fleginn í hálsinn, og talnabandi villikonunnar. Þér hlaupið eftir hornahljóði og trumbuslætti, hafið velþóknun á andlitslit og ilmdropum, kunnið undur vel við að gefa yður algerlega á vald riddarans, sem nað hefir á yður giftingartaki, og það stendur aldrei á steini, hverjir fjaðrahattarnir yður þykir fallegastir. Alt þetta virðist benda á skyldleiki við villikonuna; gleymið ekki því, að þegar eðli ykkar beggja er brotið til mergjar þá eruð þið alveg eins. Og eins er með yður, háttvirti herra, sem líka hlæið; setjum svo að maður komi og reki yður utan undir þar sem þér sitjið í makindum yfir skínandi krásardiskinum; það þarf þá ekki lengi að bíða eftir því að villimannseðlið komi fram í yður.

Þannig gæti eg haldið áfram endalaust, en til hvers er það? Menntunin er að eins silfraðir villimanna hættir. Fánýt dýrð er hún og líkt er henni varið og norðurljósinu sem kemur að eins til að hverfa og skilja himininn eftir dimmri en áður. Upp af jarðvegi grimdarinnar hefir hún sprottið eins og tré, og eftir mínu áliti fellur hún til jarðarinnar eins og tré aftur, fyrr eða síðar, á sama hátt og egipzka spekin, Hellenamentunin og rómverska dýrðin, sem heimurinn hefir nú að mestu mist sjónar á. Samt sem áður vil eg ekki láta skilja mig svo, sem eg sé að álasa stofnunum nútímans; þær eru auðvitað samkvæmar reynslu mannkynsins um það hvað almenningi sé heillavænlegast. Óneitanlega eru kostir þeirra

miklir, svo sem til dæmis sjúkrahúsin; en aðgætandi er, að út af okkur fæðist veika fólkið til að fylla þau. Í viltu landi eru þau engin. Og enn verður spurt: Hvað margt af þessum hlunnindum er kristindóminum en ekki annars konar mentun að þakka? Og þannig breytist jafnvægið með gangi sögunnar, vinningur og tap skiftist á, og náttúrunnar mikla meðaltal er stimplað yfir hvorttveggja, og verður svo summan, sem niður kemur, ein af aðal tölum hins mikla jafnaðarreiknings, þar sem niðurstaðan verður samsvarandi náttúrunnar óútreiknanlega tilgangi.

Eg kem með enga afsökun fyrir því þó eg hafi slegið mér út frá efninu, sízt þar sem þetta er inngangur, sem alt ungt fólk, sem ekki nennir að hugsa — og það er ljótur siður — hleypur, svo sem að sjálfsögðu, yfir. Mér sýndist æskilegt, að við tækjum oss til einstaka sinnum og reyndum að skilja takmörk eðlis vors, svo við ekki leiddumst út í gönur af þekkingar-hroka. Hugsjónir mannsins eru næstum endalausar, og lengjast eins og teygjuband, en mannleg náttúra er eins og járnhringur. Þú getur farið kring um hann aftur og aftur, þú getur gert hann fagurgljáandi, þú getur gert á hann beinan kant og með því búið til kryppu á hann annars staðar, en þú getur *aldrei* meðan heimur stendur og maður er maður aukið hans aðal-ummál. Það er einn skorðaður, óhreyfanlegur hlutur — ákvarðaður eins og stjörnurnar, staðfastari en fjöllin, óhagganlegur eins og vegur hins eilífa. Mannleg náttúra er guðs litmyndasjónpípa, og mislitu agnirnar, sem merkja vorar eigin tilfinningar, vonir, sorgir, gleði, löngun til góðs

og ills og svo framvegis, snúast í hans sterku hönd eins áreiðanlega og staðfastlega eins og stjörnurnar, og sífeldlega verða myndirnar nýjar og afstaðan ný. En undirstöðuatriðin verða æ hin sömu og mislitu gleragnirnar verða æ hinar sömu, hvernig sem sjálfri pípunni er snúið.

Sé nú þetta rétt, þá skulum við setja svo, að við skiftum sjálfum okkur í tuttugu parta, nítján vilta og einn siðaðan; við megum gera svo vel og leita til nítján viltu partanna, ef við eigum að skilja sjálfa oss, ekki til þess tuttugasta, sem er breiddur út yfir hina nítján, þó hann sé í rauninni þýðingarlítill, og gerir útlit þeirra alt annað en það í rauninni er, eins og svertan breytir stígvélinu eða spónninn borðinu. Það eru nítján óhefluðu, þörfu, viltu partarnir, sem við grípum til, þegar í harðbakkana slæst, ekki fágaði, ótrausti tuttugasti parturinn. Mentunin ætti að þerra tár vor, en samt grátum vér og finnum hvergi huggun. Hernaður er mentuninni andstygð, en samt berjumst vér fyrir heimilum vorum og ættjörð, fyrir heiðri og frama, og hælumst yfir framgöngu vorri. Og alt er eftir því.

Þegar hjartað er sært og höfuðið beygt í duftið, bregst mentanin oss algerlega. Til baka, til baka krjúpum vér og höllum oss eins og smábörn upp að náttúrunnar mikla brjósti, ef ske kynni að hún gæti látið oss gleyma, eða að minsta kostið tekið sársaukann úr endurminningum vorum. Hver er sá, sem ekki hafi í raunum sínum langað til að sjá hinn ytra svip vorrar sameiginlegu móður, að láta fyrirberast á fjöllum uppi og athuga skýin þjótandi um himininn

og heyra þrumuraust holskeflanna, sem brotna á ströndinni, og láta sitt veslings stríðandi líf um stund renna saman við náttúrunnar líf, að finna hennar hæga, eilífa hjartslátt, og gleyma eigin mótlæti og láta sína eigin tilveru svelgjast af hinu stórkostlega, óskiljanlega sístarfandi afli hennar sem vér eigum síðar að samlagast, hennar, sem fæddi oss af sér, og mun líka á sínum tíma veita oss legstað?

Og þannig fór mig í mínum sáru raunum að langa til að kasta mér á ný í náttúrunnar faðm meðan eg var að ganga til og frá um eikarþiljuðu forstofuna í húsinu mínu í Yorkshire. Ekki faðm þeirrar náttúru, sem þú þekkir, náttúru, sem gengur í plöntuðum skógaröldum og brosir í kornökrum, heldur náttúrunnar, eins og hún var að sköpunarverkinu nýafloknu, ósýkt af öllum óhreinindum, sem renna út frá hinu óheilnæma mannslífi. Eg vildi hverfa aftur þangað sem villidýrin eru, til landsins, er hefir enga sögu, sem mennirnir þekkja, til villimannanna,sem eg elska, jafnvel þó sumir þeirra séu alt að því eins miskunnarlausir og þjóðmegunarfræðin. Það gæti ef til vill orðið til þess, að eg gæti lært að hugsa um veslings Harry liggjandi í kirkjugarðinum, án þess að mér fyndist hjarta mitt ætla að bresta.

Og hér kemur þá endirinn á þessu sjálfselskutali, og ekkert meira af því skal eg bjóða. En ef þú, sem einhvern tíma kant að lesa hugsanir mínar á prenti, ert kominn svona langt, þá bið eg þig að halda lestrinum áfram, því að sagan, sem eg ætla að segja, er ekki þýðingarlaus, og hún hefir aldrei verið sögð áður og verður aldrei sögð aftur.

## I. KAPITULI.

*Saga konsúlsins.*

Vika var liðin frá jarðarför anmingja drengsins míns, og eitt kveld var eg í herberginu mínu, gekk þar aftur og fram og var að hugsa. Þá var hringt við ytri dyrnar. Eg fór ofan stigann og lauk upp sjálfur, og voru þar þá komnir gömlu vinir mínir, Sir Henry Curtis og John Good kafteinn. Þeir fóru inn í forstofuna og settust niður fyrir framan stóra arninn; eg man að þar logaði eldur á skíðum einstaklega glæðilega.

„Það var fallega gert af ykkur að koma," sagði eg til þess að segja eitthvað; „þið hljótið að hafa fengið þunga færð, annar eins snjór og kominn er."

Þeir sögðu ekkert, en Sir Henry fylti pípuna sína með hægð og kveykti í henni með glóðarmola. Um leið og hann gerði það kviknaði í gasmiklum furukubb og kom bjartur logi, sem kastaði sterkum glampa fram undan sér, og fór eg þá að hugsa um, hvað aðdáanlega gjörfulegur maður Sir Henry væri. Andlitið stillilegt og tilkomumikið, andltsdrættirnir skýrir, augun stór og grá, skeggið og hárið gult — að öllu samanlögðu var hann dýrðlegt dæmi upp á

göfuga, mannlega fegurð. Og ekki var vöxturinn lakari en andlitið. Eg hefi aldrei séð breiðari herðar né hvelfdara brjóst. Svo þrekinn er Sir Henry, að þó hann sé sex feta og tveggja þumlunga hár, þá sýnist hann ekkert hár maður. Þegar eg var að horfa á hann, gat eg ekki stilt mig um að fara að hugsa um, hve skrítilegur mismunur væri á minni uppþurkuðu, lítilfjörlegu persónu og tígulega andlitinu og vaxtarlaginu á honum. Hugsið ykkur ofurlítinn, væskilslegan, sextíu og þriggja ára gamlan mann, með gulleitt andlit, magrar hendur, stór, móleit augu, grátt hár, stuttklipt og standandi út í loftið líkt og hálfslitinn gólfbursti — 132 pund í öllum fötunum — og þá fáið þið nokkurn veginn rétta hugmynd um Allan Quatermain, sem vanalega er kallaður Quatermain veiðimaður, og af Suðurálfumönnum „Macumazahn“ —það þýðir: sá sem vörð heldur á nóttunum, eða með öðrum orðum: séður karl, sem ekki lætur fara kring um sig.

Svo var Good; hann er hvorugum okkar líkur, stuttvaxinn, dökkhærður, feitlaginn — mjög feitlaginn — dökkeygður, drepur titlinga, og augnagler alt af fast við annað augað. Eg sagði að hann væri feitlaginn, en það er of linlega að orði komist; mér þykir fyrir að þurfa að segja það, að Good hefir á síðari árum safnað ístru svo, að það er skömm að því. Sir Henry segir honum, að það sé af iðjuleysi og ofáti, og Good er illa við að heyra það, þó að hann geti ekki móti því borið.

Svona sátum við stundarkorn, og svo náði eg mér í eldspýtu og kveikti á lampanum sem stóð á borðinu,

því rökkrið fór að verða óyndislegt, eins og því hættir við að verða, þegar maður hefir fyrir einni stuttri viku jarðað allar vonir lífs síns. Næst opnaði eg þilskáp og tók þar upp whisky-flösku, vatn og nokkur staup. Eg kann betur við að gera alt þess konar sjálfur. Það væri mér gremjuefni að hafa alt af einhvern við hliðina á mér eins og eg væri átján mánaða gamalt barn. Meðan á öllu þessu stóð höfðu þeir Curtis og Good setið þegjandi, fundu til þess, býst eg við, að þeir höfðu ekkert það til að segja, sem mér gæti verið nein ánægja að, og létu sér nægja að gleðja mig með návist sinni og þegjandi hluttekning; því þeir höfðu ekki heimsótt mig nema einu sinni áður síðan jarðarförin fór fram. Og sannleikurinn er sá, þegar að er gáð, að það er einmitt í *návist* annara, sem vér finnum styrk á vorum dimmu raunastundum, en ekki í því sem þeir segja, því að það verður oss oft að eins til ama. Á undan óveðri flykkjast veiðidýrin saman; en þau þegja.

Þeir sátu og reyktu og drukku whisky og vatn, og eg stóð hjá eldinum, líka reykjandi, og horfði á þá.

Að lokum rauf eg þögnina, „Gömlu vinir,“ sagði eg, „hvað er nú orðið langt síðan við komum til baka úr Kúkúana-landi?“

„Þrjú ár,“ sagði Good. „Því spyrjið þér að því?“

„Eg spyr að því, af því eg held eg sé búinn að fá nóg af lífinu meðal siðaðra manna. Eg ætla mér að fara til baka til óbygðanna.“

Sir Henry hallaði höfðinu aftur í hægindastóln-

um og hló einn af sínum djúpu hlátrum. „Hvað það er kynlegt,“ sagði hann. „Er það ekki, Good?“

Good leit til mín glaðlega og íbyggilega gegn um gleraugað sitt og tautaði: „Já, kynlegt er það — mjög kynlegt—“

„Eg skil ykkur ekki almennilega,‘ ‘sagði eg og horfði á þá á víxl, því mér geðjaðist aldrei vel að neinu ráðgátu-tali.

„Ekki það, gamli kunningi,“ sagði Sir Henry; „þá skal eg útlista það fyrir yður. Þegar við Good vorum á leiðinni hingað áttum við tal með okkur.“

„Fyrst Good var á ferðinni, efast eg ekki um það,“ skaut eg inn háðslega, því Good er einstakur vaðalsbelgur. „Mætti maður fá að heyra, um hvað talið hljóðaði?“

„Um hvað haldið þér það hafi verið?“ spurði Sir Henry.

Eg hristi höfuðið. Það var ekki líklegt, að eg gæti gizkað á, um hvað Good talaði. Hann talar um svo margt.

„Jæja, það var um ofurlitla hugmynd, sem eg á sjálfur, það er að segja, að ef þér væruð ekki á móti því, þá skyldum við leggja af stað til Afríku í annan leiðangur.“

Eg tókst alveg á loft við þessi orð. „Er yður þetta alvara?“ sagði eg.

„Já, mér og Good líka; ekki satt, Good?“

„Eg held það,“ sagði Good.

„Heyrið þér, gamli kunningi,“ hélt Sir Henry áfram, með töluverðu ánægju-yfirbragði. „Eg er þreyttur á því líka, dauðþreyttur á að gera ekkert

nema lifa gózeignalífi í landi, sem er orðið dauðþreytt á gózeigurum. Nú í meira en ár hefi eg verið sem á nálum, líkast eins og gamall fíll, sem finnur lyktina af komandi hættu. Mig er alt af að dreyma um Kúkúanaland og Gagool og náma Salómons konungs. Eg segi ykkur það alveg satt, að eg er yfirkominn af þrá, sem eg get ekki lýst. Eg er orðinn leiður á að skjóta fasana og akurhænur og mig langar til að reyna mig á ný við eitthvað, sem meira kveður að. Þér kannist við þá tilfinning — þegar maður á annað borð er farinn að drekka kognak og vatn, þá verður mjólk bragðdauf fyrir góminn. Árið, sem við vorum saman á Kúkúanalandi, finst mér eins mikils virði eins og öll önnur ár, sem eg hefi lifað til samans. Eg veit vel, að þessar tilfinningar mínar eru flónska, en eg get ekki að þeim gert; mig langar til að fara, og það sem meira er, eg ætla að fara.“ Hann þagnaði um stund og hélt svo áfram á ný: „Og því skyldi eg ekki fara, þegar öllu er á botninn hvolft? Eg á hvorki konu, foreldra né börn til að binda mig hér. Ef mér skyldi hlekkjast eitthvað á, þá tekur George bróðir minn við barónstigninni og svo sonur hans, enda mundi það verða niðurstaðan hvort sem væri. Eg hefi enga þýðingu fyrir neinn.“

„Einmitt það,“ sagði eg; „eg hélt að svona ·ndi fara, fyr eða síðar. En þér, Good, hvaða ástæðu hafið þér til að vilja fara; eða hafið þér nokkra ástæðu?“

„Já,“ sagði Good hátíðlega. „Eg geri aldrei neitt að ástæðulausu, og út af stúlku er það ekki — að minsta kosti ef svo er, þá er það út af mörgum.“

Eg leit á hann aftur. Good er svo óviðjafnanlega léttúðarfullur. „Hvað er það þá?" sagði eg.

„Nú, ef þér þurfið endilega að vita það, þá get eg sagt yður það, þó eg vildi síður vera neitt um það að tala, því að um þess háttar heldur maður ekki hrókaræður, og svo kemur mér það einum við: Eg er að verða of feitur."

„Segið þér ekki meira, Good!" sagði Sir Henry. „En heyrið þér, Quatermain, segið þér okkur, hvert þér hafið hugsað yður að fara."

Eg kveikti í pípunni minni, því að það var dautt í henni, og svaraði svo. „Hafið þið nokkurn tíma heyrt getið um Kenia-fjallið?' 'spurði eg.

„Þekkjum ekki þann stað," svaraði Good.

„Hafið þið nokkurn tíma heyrt getið um Lamu-eyjuna?" spurði eg aftur.

„Aldrei, bíðum við samt — er hún ekki hér um bil 300 mílur norður frá Zanzibar?"

„Jú. Takið þið nú eftir. Það sem eg vil leggja til, er þetta: Að við förum til Lamu og þaðan hér um bil 250 mílur inn í landið, til Likakisera-fjallsins, aðrar 200 mílur eða um það bil, og lengra veit eg ekki til að nokkur hvítur maður hafi nokkurn tíma komið; og svo þaðan, ef við náum svo langt, beint inn í ókannaðar óbygðir. Hvað segið þið um þetta, mínir kæru?"

„Það er í mikið ráðist," sagði Sir Henry og varð hugsi.

„Svo er sem þér segið," svaraði eg. „Það er mikið; en eg lít svo á, sem við allir þrír séum að leita einhvers mikils. Við þurfum á breytingu að halda,

og það er líklegt að við fáum hana — algerð umskifti. Alla mína æfi hefir mig langað til að vitja þessara stöðva, og eg hefi ásett mér að gera það, áður en eg dey. Dauði drengsins míns hefir brotið síðasta hlekkinn milli mín og siðaða lífsins, og héðan fer eg til minna eigin stöðva. Og nú skal eg segja ykkur annað, og það er það, að í mörg, mörg ár hefir leikið orð á, að til væri mikill flokkur hvítra manna, sem getið er til að eigi heima einhvers staðar í þessari sömu stefnu, og eg er góður með að grenslast eftir, hvað hæft er í því. Ef ykkur lízt að koma með, þá er það æskilegt, ef ekki, þá fer eg einn.“

„Eg fer með yður, enda þó eg trúi ekki á hvíta fólkið yðar,“ sagði Sir Henry Curtis um leið og hann stóð upp og lagði höndina á öxlina á mer.

„Eg líka,“ sagði Good; „eg fer strax að æfa mig. Um fram alt skulum við fara til Kenia-fjallsins og hins staðarins með nafninu, sem ómögulegt er að kveða að, og leita að hvítu fólki, sem ekki er til. Alt stendur mér það á sama.“

„Hvenær leggið þér til að við leggjum af stað?“ sagði Sir Henry.

„Mánuði frá í dag,“ svaraði eg, „með brezka Indlands gufuskipinu, og ekki skuluð þið reiða ykkur á að ómögulegt sé að neitt sé til, sem þið hafið ekki heyrt nefnt. Munið eftir námum Salómons konungs.“

* * *

Um fjórtán vikur voru liðnar frá deginum, þegar þetta samtal fór fram, og héðan af gerast viðburðir sögunnar á alt öðrum stöðum.

Eftir nákvæma íhugun og eftirspurn komumst við að þeirri niðurstöðu, að bezti staðurinn til að leggja upp frá í ferðina til Kenia-fjallsins, mundi vera nálægt mynninu á ánni Tana, en ekki Mombasa, sem er yfir 100 mílur nær Zanzibar. Að þessari niðurstöðu komumst við fyrir upplýsingar, sem við fengum hjá þýzkum kaupmanni, er við hittum á gufuskipinu hjá Aden. Eg held að hann hafi verið óhreinni en nokkur annar Þjóðverji, sem eg hefi séð, en hann var tilvalinn karl, og gaf okkur margar mikilsverðar bendingar. „Lamu“, sagði hann, „þér farið til Lamu — ó, þar er ljómandi fallegt,“ og hann velti upp á við spikaða skjannanum og unaðar-ljómi kom í andlitið. „Hálft annað ár átti eg þar heima og hafði aldrei skyrtuskifti — aldrei.“

Og þar kom, að við komum til eyjarinnar og gengum á land með allan okkar farangur, en af því að við vissum ekki, hvert við skyldum snúa okkur, þá gengum við einarðlega beina leið til konsúls hennar hátignar, og fengum við þar hinar beztu viðtökur.

Lamu er einkennilegur staður að mörgu leyti, en það sem bezt vakir fyrir mér í því sambandi, er það hve frámunalega óþverralegur og daunillur hann er. Þetta tvent er blátt áfram hræðilegt. Rétt fyrir neðan hús konsúlsins er fjaran, eða réttara sagt rönd af forarleðju, sem kölluð er fjara. Með útfalli er þessi spilda alveg ber, og notuð sem geymslustaður fyrir öll óhreinindi bæjarins. Þangað er það líka, sem konurnar koma með pálmaviðarhnetur og grafa þær ofan í forina geyma þær þar þangað til yzta skelin á þeim er orðin fúin, og grafa svo hneturnar upp aft-

ur og nota úr þeim himnurnar í mottur og ýmislegt fleira. Með því þetta hefir nú gengið svona undanfarna mannsaldra, þá er hægra að hugsa sér útlit fjöruborðsins en að lýsa því. Eg hefi fengið að þefa af mörgum óþverra um dagana, en alt finst mér það sem ekkert í samanburði við þá megnu fýlu, sem lagði upp frá sjávarmálinu í Lamu, þar sem við sátum í tunglsljósinu — ekki undir, heldu uppi á gestrisnisþaki konsúlsins okkar. Ekki er að undra, þó kvillasamt sé í Lamu. En þrátt fyrir alt þetta, þá er þessi staður ekki laus við að hafa við sig eitthvað þæglegt og aðlaðandi, þó verið geti—er enda miklu líklegra—að það aðdráttarafl hefði ekki verið til frambúðar.

„Jæja, hvert er ferðinni heitið, herrar mínir?“ spurði vinur vor, konsúllinn, meðan við vorum að reykja pípurnar okkar eftir miðdegisverð.

„Við höfum ásett okkur að fara til Kenia-fjallsins og svo áfram til Lekakisera-fjallsins,“ svaraði Sir Henry. „Quatermain hefir náð í einhverja þjóðsögu um að hvítt fólk sé til á ókannaða svæðinu hinumegin við það fjall.“

Það var svo að sjá, sem konsúlnum þætti mikils um vert, og hann svaraði, að hann hefði heyrt eitttlivað í sömu áttina líka.

„Hvað hafið þér heyrt?“ spurði eg.

„Og ekki mikið. Það eina, sem eg veit um það, er það, að fyrir hér um bil einu ári síðan fékk eg bréf frá Mackenzie, skozka trúboðanum, sem á heima upp með ánni Tana, þar sem lengst verður komist á bátum; hann drepur eitthvað á þetta sama.“

„Eigið þér bréfið?“ spurði eg.

„Nei, eg glataði því; en eg man, að hann sagði, að maður hefði komið til sín og staðhæft að tveggja mánaða ferð hinu megin við Lakakisera-fjállið, þar sem enginn hvítur maður hefir komið — að minsta kosti ekki svo eg viti— hafi hann fundið vatn, sem heitir Laga, og að þaðan hafi hann haldið heilan mánuð norðaustur, yfir eyðimerkur og þyrnum vaxnar sléttur og stórkostleg fjöll, þangað til hann kom í land, þar sem hvítt fólk býr í steinhúsum. Þar var gert vel við hann um tíma, þangað til á endanum, að prestur landsins breiddi það út, að hann væri djöfull, svo fólkið rak hann frá sér, og eftir átta mánaða ferðalag komst hann til heimilis Mackenzie og var þá að dauða kominn, að því er sagt var. Meira veit eg ekki, og ef yður leikur forvitni á að vita mína skoðun, þá er hún sú, að þetta sé lygi; en ef þér viljið grenslast betur eftir þessu sjálfir, þá er bezt fyrir ykkur að fara upp eftir Tana-ánni til Mackenzies og biðja hann um frekari skýringar.“

Við Sir Henry litum hvor á annan. Hér var um eitthvað að gera.

„Eg held við megum fara til Mr. Mackenzie,“ sagði eg.

„Jæja,“ svaraði konsúllinn, „það er það bezta, sem þið getið gert, en eg skal vara ykkur við, að líklegt er að ferðin gangi nokkuð skrykkjótt, því eg hefi heyrt að Masaiarnir séu þar á slóðum, og eins og þér vitið, þá eru þeir alt annað en skemtilegir viðfangs. Það verður bezt fyrir ykkur að ráða ykkur fáeina valda þjóna , sem líka séu veiðimenn, og leigja ykkur burðarmenn frá þorpi til þorps. Þetta verður vita-

skuld endalaust rag fyrir ykkur, en skeð getur, þegar alt kemur til alls, að þá reynist það ódýrara og haganlegra en að leigja sér báta, og svo er með þessu móti minni hætta á, að þeir strjúki frá ykkur.“

Til allrar hamingju var þar í Lamu staddur um þetta leyti hópur af Wakwafi Askari (hermönnum), Wakwafiarnir, sem eru kynblendingar, komnir af Masaium og Wakwaetum, eru fallegt og myndarlegt fólk, með mörgum góðum eiginlegleikum, þeim sömu og *Z*úlúarnir, en meiri hæfileikum búnir til mentunar. Þeir eru og miklir veiðimenn. Svo stóð á, að þessir menn, sem þarna voru staddir, höfðu nýlega verið í langri ferð með Englendingi, Jutson að nafni; hafði hann lagt upp frá Mombasa, sm er hafnarstaður um 150 mílur fyrir neðan Lamu, og ferðast alla leið í kring um Kilimanjairo, eitt af hæstu fjöllunum, sem þekkjast í Afríku. Veslings maðurinn, sem hafði dáið úr hitasótt, þegar hann var á leiðinni til baka, og átti ekki eftir fulla dagleið til Mombasa. Það virðist hart, að hann skyldi deyja þannig, þegar hann átti ekki eftir nema fáa klukkutíma þangað sem honum hefði verið hjálpað, og eftir að hafa gengið í gegn um margar mannraunir, en svona fór það. Veiðimennirrnir hans jörðuðu hann og komu svo þaðan hingað til Lamu. Vinur vor konsúllinn hélt að bezt mundi fyrir okkur, að reyna að ráða þessa menn og þar af leiðandi fórum við af stað morguninn eftir til að hafa tal af þeim, og höfðum með okkur túlk.

Eftir litla leit fundum við mennina í moldarkofa í útjaðri bæjarins. Þrír af þem sátu úti fyrir kofanum, og voru það fríðir og frjálsmanlegir

drengir, með meira og minna af útiti siðaðra manna. Vð tjáðum þeim erindi okkar með mestu gætni, og í fyrstu tóku þeir því mjög dauflega. Þeir kváðust ekki geta hugsað ti slíks, þeir væri þreyttir og útjaskaðir af löngu ferðalagi, og þar á ofan sorgmæddir út af að hafa mist höfðingja sinn. Þeir hefðu ásett sér að fara heim til átthaga sinna og hvílast um hríð. Þetta var síður en ekki vænlegt ,og til þess að breyta eitthvað til,, spurði eg þá, hvar hinir væru. Mér hafði verið sagt, að þer væru sex, en eg sá að eins þrjá. Einn maðurinn sagði, að hinir svæfu inni í kofanum, og væru enn að hvíla sig eftir erviðið — „svefninn héldi augum þeirra lokuðum, og sorgin hefði gert hjörtu þeirra sem blý; það væri bezt að sofa því svefninn léti mann gleyma umliðnum raunum. En mennirnir skyldu verða vaktir.“

Að vörmu spori komu þeir út úr kofanum,geispandi — og voru tveir af þeim auðsjáanlega af sama þjóðflokki og að öllu líkir hinum, er við sáum úti, þegar við komum; en þegar eg sá þann þriðja og síðasta, hnykti mér stórkostlega. Hann var mjög hár og breiðvaxinn maður, fullkomlega 6 fet og 3 þuml. þori eg að segja, en magur, með mjóa og renglulega útlimi. Ekki hafði eg fyr séð hann, en eg gekk úr skugga um, að hann var enginn Wakwafi: hann var hreinn og beinn *Zúlúi* og ekkert annað. Þegar hann kom út, hélt hann þunnu og höfðinglegu hendinni fyrir andlitinu,til þess að hylja geispa, svo það eina sem eg gat séð var það, að hann var

„Keshla", eða hringmaður* og að hann hafði stóra þríhyrnda holu í miðju enni. Í sama bili færði hann til höndina og kom þá í ljós þreklegt *Z*úlúandlit, með glettulegan munn og stutt og þétt skegg, grátt að lit og mórauð augu hvöss eins og í fálka. Eg þekti manninn þegar, jafnvel þó eg hefði þá ekki séð hann í tólf ár. „Komdu sæll, Umslopogaas," sagði eg rólega á zúlúsku.

Þessi hái maður (sem meðal síns fólks var kallaður „Drápsmaðurinn") hrökk við og nærri misti skaftlöngu bardaga öxina sína af undrun. Á næstu sekúndu þekti hann mig og heilsaði mér nú með háværri orðabunu, sem kom félögum hans til einblína á okkur.

„Koos" (höfðingi), byrjaði hann, „Koos-y-Pagata! Koos-y-umcool! (gamli höfðingi — voldugi herra) Koos! Baba! (faðir) Macumazahn, gamli veiðimaður, fíladrápsmaður, ljóna-eyðileggjari, skarpskyggni! aðgætni! hugrakki! snari! þú, sem aldrei skýtur fram hjá, sem hittir ætíð á réttan stað, þú,sem tekur í höndina og heldur henni til dauðans (þ. e. a. a. s. ert einlægur vinur), Koss! Viturleg eru þau orð fólks vors: „Aldrei mætir fjall fjalli, en í

---

*) Hjá *Z*úlúunum ber karlmaðurinn hringi, sem búinn er til úr svörtu gúmmi, snúnu saman við hár, og svo fægður með glansandi svertu, þegar hann hefir náð ákveðinni tign og aldri eða gengið að eiga nógu margar konur. Þangað til hann er orðinn því vaxinn að bera hring er litið á hann sem dreng, þó hann sé 35 ára að aldri, eða jafnvel meira. A.Q.

dögun eða á dagsetri skulu mennirnir finnast aftur.“ Sjá! sendimaður kom frá Natal; „Macumazahn er dauður!“ hrópaði hann. „Í landinu þekkist Macumazahn ekki lengur.“ Þetta var fyrir árum síðan. Og sjá, nú í þessu óþekta ólyktar heimkynni finn eg Macumazahn vin minn. Um það er engin ástæða að efast. Skegg gamla veiðimannsins hefir gránað lítið eitt; en eru ekki augun hans jafn skörp og tennurnar hans jafn hvassar? Ha! ha! Macumazahn, manstu þegar þú plantaðir kúluna í auga vísundarins — manstu.“

Eg hafði lofað honum að láta dæluna ganga, af eg sá að ákafinn í honum hafði áhrif á hina fimm Wakwafana; þeir sýndust skilja sumt af því sem hann sagði; en nú fanst mér tími til kominn að láta það taka enda, því mér fellur ekkert ver en þsssi hóflausu hólyrði *Zúlúanna*, sem þeir kalla „bongering.“ „Hljóð!“ sagði eg. „Hefir allur glamrandinn í þér verið stíflaður síðan eg sá þig síðast? er það þess vegna að hann brýst nú fram, og sópar okkur á burt? Hvað ertu að gera hér með þessum mönnum — þú sem varst höfðingi í *Zúlúalandi*, þegar eg skyldi síðast við þig? Hvernig víkur því við, að þú ert langt burtu frá þínum átthögum, og hefir slegist hóp hér með óþektum mönnum?

Umslopogaas hallaðist fram á hausinn á löngu bardagaöxinni sinni (sem var ekkert annað en öxi, með ljómandi skafti úr nashyrningshorni) og raunasvip brá yfir harðlega andlitið á honum.

„Faðir minn,“ svaraði hann, „eg hefi nokkuð að segja þér, en eg get það ekki í viðurvist þessara

dóna,“ og hann skotraði augunum til félaga sinna; „það er fyrir þín eigin eyru að eins.“

„Faðir minn, þetta get eg sagt,“ og um leið varð andlit hans mjög alvarlegt: „Kona hefir svikið mig og íklætt nafn mitt smán, eiginkona mín, kringluleit stúlka, sveik mig; en eg slapp hjá dauðanum; eg sleit mig úr höndum þeirra sem komu til að myrða mig. Eg sló að eins þrjú högg með þessari öxi minni, Inkosikaas — óefað man faðir minn eftir henni — eitt til hægri, eitt til vinstri og eitt beint áfram, og þrjá menn skyldi eg eftir dauða. Þá lagði eg á flótta, og eins og faðir minn veit, jafnvel nú, þó eg gamall sé, eru fætur mínar eins og Sassaby-fætur* og enginn maður, sem lífsanda dregur, getur náð mér á laupum, eftir að eg hefi á annað borð losast frá hlið hans. Áfram þaut eg, og á eftir mér voru sendiboðar dauðans, og rödd þeirra var sem óhljóð veiðihunda. Frá mínu eigin heimili þaut eg, og um leið og eg fór þar hjá, var hún sem sveik mig að draga vatn upp úr brunninum. Eg rann fram hjá henni líkt og dauðans skuggi, og sló um leið með öxinni, og sjá af henni datt höfuðið; það fór ofan í vatnsfötuna. Svo flúði eg til norðurs. Dag eftir dag hélt eg áfram, hvíldarlaust, nam aldrei staðar, en hljóp, reyndi að hlaupa út í gleymskuna, þangað til eg rakst á flokk hvíta veiðimannsins, sem nú er dauður, og nú er eg hingað kominn með þjónum hans. Og ekkert hefi eg með mér flutt. Eg, sem var tiginn maður, eg sem jafnvel var af kyni Chaka,

*) Einn af fljótustu antilópunum í Afríku.

hins mikla konungs, höfðingi og kafteinn yfir Nkomabakosi-herdeildinni, eg er nú flækingur í ókunnu landi, heimilislaus maður. Ekkert hefi eg með mér flutt, nema þessa öxi mína; af öllu, sem eg átti, er hún ein eftir. Þeir hafa skift með sér mínum nautpeningi; þeir hafa tekið mínar konur; börn mín þekkja andlit mitt aldrei framar. Engu að síður skal eg ryðja mér braut til fjár og frama, með þessari öxi" — og hann sveiflaði þessu voðalega vopni í kring um höfuðið á sér, svo loftið söng við um leið og hann klauf það. „Eg hefi lokið máli mínu."

Eg hristi höfuðið. „Umslopagaas," sagði eg, „eg þekki þig frá fornu fari. Þú varst jafnan metorðagjarn, varst jafnan að brugga ráð til að komast hátt; eg er hræddur um, að á endanum hafir þú farið of langt. Þegar þú ætlaðir að gera samsæri gegn Cetywayo, syni Panda, fyrir nokkrum árum síðan, þá aðvaraði eg þig og þú tókst það til greina. En nú, þegar eg var ekki til staðar til að stöðva hendur þínar, hefir þú grafið gröf, sem þú hefir fallið í sjálfur. Er ekki svo? En það er komið sem komið er. Hver getur tekið aftur töluð orð, eða kallað aftur líf þeirra sem dauðir eru? Það sem fellur niður í djúp tímans kemur ekki upp aftur. Látum það vera gleymt!"

„Og sjá þú nú, Umslopagaas, eg veit að þú ert mikil hetja og hugrakkur maður, og tryggur til dauðans. Jafnvel á Zúlúlandi, þar sem allir eru hugdjarfir, varst þú kallaður „drápsmaðurinn" og á kveldin sögðu menn sögur kring um eldana af afli þínu og afreksverkum. Heyr þú nú. Þú sér þennan mikla mann, vin minn,"— og eg benti á Sir Henry; „hann

er líka kappi eins og þú, og þó að þú sért sterkur maður, þá gæti hann fleygt þér yfir öxl sér. Incubu heitir hann. Og þú sér einnig þennan mann, með kúpuvöxnu vömbina, glansandi augað og glaðlega andlitið. Bougwan (glerauga) er nafn hans, og góður maður og trúfastur er hann; hann heyrir til kynlegum flokki manna, sem eyðir æfi sinni á sjó og lifir í fljótandi híbýlum.

„Við, þessir þrír, er þú sér hér, höfum nú ásett okkur að ferðast upp í landið, fram hjá Dongo Egere, fjallinu mikla, hvíta (Kenia), og og svo langt inn í hið ókunna svæði hinum megin. Við vitum ekki, hvað okkur kann þar að höndum að bera; við förum þangað til að veiða og leita æfintýra og nýrra bústaða, erum orðnir þreyttir á kyrrsetum og að vera æ umkringdir af því sama. Vilt þú slást í förina? Þú skalt verða settur yfir alla þjónana; en hvað fyrir þig kann að koma, get eg ekki vitað. Einu sinni áður ferðuðumst við þrír svona, og höfðum með okkur mann á borð við þig, Umbopa nokkurn; og sjá, við skildum við hann sem konung í miklu landi, með tuttugu herdeildir í þjónustu sinni, og voru þrjár þúsundir fjaðraskreyttra liðsmanna í hverri herdeild. Hvernig til kann að takast með þig, veit eg ekki; dauðinn getur beðið þín og okkar. Vilt þú eiga það á hættu, eða þorir þú ekki, Umslopagaas?"

Hinn mikli maður brosti. „Þú ferð ekki alveg rétt í sakirnar, Macumazahn," sagði hann; „eg hefi margt bröllað um dagana, en metorðagirnd er það ekki, sem mér hefir á kné komið, heldur andlitsfegurð konu einnar, þó eg skammist mín fyrir að verða að

kannast við það. Sleppum þessu. Svo við förum þá aftur að sjá nokkuð líkt því sem gerðist fyrrum, Macumazahn, þegar við börðumst og vorum á veiðum í *Zúlúlandi*? Já, eg kem með. Komi líf, komi dauði, hverju skiftir það mig, ef höggin að eins verða mörg, og blóðið rennur í lækjum? Eg er orðinn gamall, og eg hefi ekki barist nóg! og enn er eg stríðsmaður á meðal stríðsmanna; líttu á örin á mér" — og hann benti á óteljandi ör eftir stingi og skurði á brjóstinu á sér, fótum og handleggjum. „Líttu á holuna í höfðinu á mér; heilinn spýttist út um hana, og samt drap eg þann sem gaf mér það högg, og lifi enn. Veiztu, hvað marga eg hefi drepið í reglulegum bardaga, Macumazahu? Sjáðu, hérna eru merkin" — og hann benti á röð af skorum á hornskaftinu á öxinni sinni: „Teldu þau, Macumazahn — eitt hundrað og þrjú — og þó hefi eg aldrei talið aðra en þá, sem eg hefi rist á kviðinn*), né þá sem nokkur annar hefir átt þátt í að vinna á."

„Þagnaðu," sagði eg, því eg sá, að á hann var að koma berserksgangur; „þagnaðu, þú ber nafn með rentu, þar sem þú ert „Drápsmaður" kallaður. Við viljum ekki heyra um hryðjuverk þín og blóðsúthellingar. Mundu það, að ef þú ferð með okkur, þá berjumst við ekki nema við eigum hendur okkar að verja. Heyrðu, við þurfum þín; þessir menn," og

*) Þar er átt við þann sið *Zúlúmanna*, að opna kvið dauðra óvina sinna. Þeir hafa þá trú, að ef það er ekki gert, þá muni þembast út ekki að eins líkamir hinna drepnu heldur og vegendanna.

eg benti honum á Wakwafana, er höfðu vikið sér frá meðan á samtalinu stóð, „vilja ekki koma.“

„Vilja ekki,“ hrópaði Umslopagaas. „Hver er sá hundur, sem segist ekki vilja koma, þegar faðir minn æskir þess? Heyr þú,“ — og í einu hendingskasti stökk hann á Wakwafann, sem eg talaði fyrst við, þreif um handlegginn á honum og dró hann til okkar. „Hundurinn þinn!“ sagði hann, og hristi óttasleginn manninn, „sagðir þú að vildir ekki fylgjast með föður mínum? segðu það einu sinni aftur, og þá skal eg kyrkja þig“—og löngu fingurnir á honum lustust utan um háls mannsins um leið og hann talaði —„þig og þá, sem með þér eru. Hefirðu gleymt því sem eg gerði fyrir bróður þinn?‘

„Nei, við skulum koma með hvíta manninum,“ æpti maðurinn.

„Hvíta manninum!“ hélt Umslopagaas áfram, og lét sem hann væri hamslaus af reiði, og lítið tilefni hefði þurft til að sú reiði hefði orðið meira en uppgerð; „við hvern áttu, ósvífni hundur?“

„Við skulum fara með hinum mikla höfðingja.“

„Það fór, eins og eg hélt það mundi fara,“ sagði Umslopagaas, með stillilegum róm, um leið og hann slepti takinu, svo maðurinn datt aftur á bak.

„Þessi Umslopagaas sýnist hafa kynlega siðferðislega yfirburði yfir félaga sína,“ sagði Good litlu síðar og var hugsi.

## II. KAPITULI.

*Svarta höndin.*

Frá Lamu fórum við á sínum tíma, og tíu dögum síðar vorum við komnir á stað, sem Charra heitir, við ána Tana, og höfðum þá lent í mörgum æfintýrum, sem engin þörf er á að geta um hér. Meðal annars skoðuðum við rústir af gamalli borg; eru margar slíkar rústir á þessari strönd, og eftir því að dæma, hve víðáttumiklar þær eru, og hve margar leifar þar eru af musterum og steinhúsum, hljóta þetta að hafa verið mannmargar borgir. Þessar rústir eru afar-fornar ,og hafa, að því er eg hygg, verið auðugir og voldugir staðir á dögum gamla testamentisins; þá var rekin þar mikil verzlun við Indland og önnur lönd. En nú er dýrð þeirra undir lok liðin — þrælaverzlunin hefir gert út af við þær — og þar sem auðugir kaupmenn frá öllum hlutum hins mentaða heims, sem þá var, stóðu fyrir mörgum öldum síðan og keyptu og seldu á mannmörgum mörkuðum, þar heldur nú ljónið hirð á nóttunum, og í staðinn fyrir másið í þrælunum og ákefðar hrópið í kaupendunum, heyrist nú bergmál af dýrakonungsins voðalegu rödd í rústun-

um. Einmitt á þessum stað fundum við í rústum, sem þaktar voru með afarmiklu rusli, tvær þær fallegustu steindyr, sem mögulegt er að hugsa sér. Myndirnar, sem höggnar voru við dyrnar, voru blátt áfram dásamlegar og mér þykir fyrir því, að við gátum ekki haft þær með okkur. Vafalaust hafa þessar dyr einhvern tíma verið inngangur inn í höll, þó hennar sjáist nú engin merki, og geta þó leifar af henni leynst undir haugnum.

Horfnar! horfnar með öllu! á sama hátt og alt annað hverfur. Líkt og lávarðarnir og prinzessurnar, sem lifað hafa innan þeirra múra, hafa þessar borgir staðið í blóma, en nú eru þær orðnar eins og Babylon og Ninive og eins og Lundún og Paris verða einhvern tíma. Ekkert er varanlegt. Það er ófrávíkjanlegt lögmál. Menn og konur, keisaradæmi og borgir, hásæti, hertogadæmi og völd, fjöll, ár, og hin ómælanlegu höf, veraldir, rúm, alheimur — alt hefir sína tíð í tilverunni, og alt líður það undir lok. Á þessum eydda og gleymda stað hefði siðfræðingurinn getað séð dæmi upp á forlög alheimsins, því þessi náttúrulög, sem vér lifum undir, láta aldrei neitt standa í stað, ekkert getur sezt um kyrt á leiðinni og stemt stigu fyrir framrás hlutanna upp á við til lífsins, né undanhaldi þeirra niður á við til dauðans. Hið harða lögreglulið, forlögin, leiðir oss með sér, áfram, áfram, upp á móti, ofan á móti eða eftir jafnsléttu; hvergi er hvíld að fá fyrir hina þreyttu fætur, þangað til móða dauðans svelgir oss, og oss er þannig hrundið burt af strönd tímans út á haf eilífðarinnar.

Í Charra komumst við í illindi við forsprakka

burðarmannanna, sem við höfðum fengið okkur þangað; hann krafðist nú mikillar aukaborgunar frá okkur. Í tilefni af þessu hótaði hann að egna Masaiana — sem bráðum koma meira við söguna — upp á móti okkur. Þá um nóttina strauk hann með öllum leigðu burðarmönnunum, og stálu þeir með sér hér um bil öllum flutningnum, sem þeim hafði verið trúað fyrir að bera. Til allrar lukku höfðu þeir skilið eftir riflana okkar, skotfærin og fötin; ekki af neinni samvizkusemi heldur af því, að það vildi svo til að þessir munir voru í umsjá Wakwafanna fimm. Þar á eftir var það sjáanlegt, að það var ekki til neins fyrir okkur að vera að vera að leigja okkur fylgdarlið eða burðarmenn. Sannleikurinn var, að við höfðum ekki mikið eftir að flytja, en hvað um það, hvernig áttum við að komast áfram?

Það var Good, sem svaraði þeirri spurningu. „Hér er vatn," sagði hann og benti á ána Tana; „og í gær sá eg flokk af svertingjum í barkarbátum vera að veiða nikra. Mér skilst, að heimili Mr. Mackenzies sé við ána Tana. Því ekki að fá sér barkarbáta og róa upp þangað?"

Það þarf ekki að taka það fram, að þessi snjalla tillaga var samþykt í einu hljóði. Eg lagði tafarlaust á stað til að kaupa hentuga báta af nágrönnunum þar í kring. Eftir þrjá daga var eg búinn að fá tvo stóra, sem hvor fyrir sig var eintrjáningur úr léttum við, og gat borið sex menn og flutning þeirra. Fyrir þessa tvo báta máttum við borga nærri alt, sem við áttum eftir af fötum, og margt fleira.

Daginn eftir að við höfðum keypt bátana lögð-

um við á stað. Á öðrum bátnum voru Good, Sir Henry og þrír af Wakwafa fylgdarmönnum okkar; í hinum eg sjálfur, Umslopagaas og tveir Wakwafarnir. Með því að leið okkar lá á móti straumnum, máttum við róa fjórum árum á hverjum bát, sem þýddi það að við allir nema Good, urðum að róa eins og galeiðuþrælar; og það var ljóta stritið. Nema Good, segi eg, auðvitað vegna þess um leið og hann kom á flot, var hann kominn á sína réttu hyllu, og tók að sér formensku flokksins. Og náttúrlega lét hann okkur þræla. Á landi er Good kurteis og dagfarsgæfur maður, og hneigður fyrir glens, en eins og við máttum kenna á, þá var hann, þegar á bátinn kom, eins og vondur andi. Fyrst og fremst kunni hann alt að því, en við ekki neitt. Í öllu, sem að sjómensku leit, frá því að koma fyrir sprengikúlu á herskipi og niður að því, hvaða áralag ætti bezt við afríkanskan barkarbát, var Good regluleg náma af leðbeiningum, sem óhætt er að fullyrða að við vorum ekki. Hugmynd hans um hlýðni var hin strangasta, og í stuttu máli, hann varð konunglegur sjóliðsforingi, býsna áþreifanlegur, og borgaði okkur með rentum alla þá gletni, sem við vorum vanir að hafa í frammi við hann á landi. En þrátt fyrir það verð eg að játa, að hann stjórnaði bátunum snildarlega.

Eftir einn dag hepnaðist Good með einhverjum dúk og tveimur viðarrenglum, að búa út eitt segl á hvorn bát,og létti það af okkur erfiðinu meira en lítið. En straumurinn var mjög harður á móti, og þegar allra bezt gekk, gátum við þó ekki komist nema tuttugu mílur á dag. Regla okkar var að byrja í dögun

og róa þetta þangað til klukkan var hálf-ellefu, en þá var sólarhitinn orðinn of mikill til þess að mögulegt væri að róa lengur. Þá lögðum við bátunum upp að bakkanum, og borðuðum okkar fátæklegu máltíð; og þar á eftir sváfum við eða skemtum okkur á annan hátt, þangað til hér um bil klukkan þrjú; þá lögðum við af stað aftur, og rerum svo þangað til klukkutíma fyrir sólsetur, að við settumst að fyrir nóttina. Þegar er á land kom á kveldin, tók Good til starfa með hjálp hermannanna, að reisa ofurlítið hreysi, umgirt með þyrnirunnum, og að kveikja upp eld. Við Sir Henry og Umslopagaas fórum af stað til að skjóta eitthvað í soðið. Vanalega var það létt verk, því gnægð af öllum veiðidýrategundum var á bökkum Tanaárinnar. Eina nóttina skaut Sir Henry ungan gíraffa, og voru mergjarbeinin af honum einkar ljúffeng; aðra nótt skaut eg tvö dádýr, sitt á hvora hlið, og einu sinni hepnaðist Umslopagaas sér til mikillar ánægju (hann var, eins og flestir *Zúlúar*, klaufi með riffil), að skjóta feitan antílópa með byssu, sem eg lánaði honum. Stundum skutum við til réttarfjölda perluhænur, sem nóg var þar af, með haglabyssum, og stundum veiddum við ljómandi fallegan, gulan fisk, sem Tana-áin moraði af; sá fiskur er, að eg held, aðal fæða krókódílanna.

Eftir þriggja daga ferð kom fyrir markverður atburður. Við vorum rétt að renna upp að bakkanum til að hafa náttstað eins og vanalega, þegar okkur varð alt í einu litið á mann, sem stóð upp á ofurlítilli þúfu, ekki tuttugu faðma frá okkur, og veitti okkur nákvæma eftirtekt. Jafnskjótt sem eg sá hann, gekk

eg úr skugga um það, jafnvel þó eg væri þjóðflokknum ókunnur, að hann væri Masai Elinoran,eða ungur bardagamaður. Hefði eg verið í hinum minsta vafa, þá hefði hann fljótt horfið við hræðsluhljóðið „Masai!“, sem Wakwafarnir, fylgdarmenn okkar ráku upp, allir samstundis; þeir eru, eins og eg hefi sagt, Masaia-kynblendingar.

En sú sjón að sjá hann, þar sem hann stóð í sínum villimanns herklæðum. Þó að eg sé vanur villimönnum, þá held eg að eg hafi aldrei fyr séð neitt jafn-grimmilegt og ógurlegt. Fyrst var maðurinn afarhár, fullkomlega eins hár og Umslopagaas, sýndist mér, og vaxtarlagið hið fegursta, þó hann mætti heita fremur grannvaxinn; en andlit hans var djöfullegt. Í hægri hendinni hélt hann á spjóti, sem var hér um bil hálft sjötta fet á lengd, með hálfs þriðja fets löngu blaði, sem var nærri þrír þumlungar á breidd; járngaddur var þvert fyrir endann á blaðinu upp við skaftið, og var hann meira en fet á lengd. Á vinstri handleggnum hafði maðurinn stóran og vel gerðan, sporöskjulagaðan skjöld; voru dregnar á hann kynlegar myndir, sem sýndust vera merki ættarinnar. Á herðunum hafði hann mikinn kraga úr hauksfjöðrum, og um hálsinn „naibere“ eða léreftslengju, hér um bil seytján fet á lengd og hálft annað fet á breidd, með litaðri rönd eftir miðjunni. Sútaða geiarskinnskápan, sem var hans venjulegi búningur á friðartímum, var lauslega vafin um hann miðjan og hafði hann hana í beltisstað; gegn um hana var stungið, hægra megin, oddmjóu sverði, sem búið var til úr einu stálstykki og borið í viðarsliðrum, en vinstra

megin afar mikilli „kylfu.“ Það eftirtektaverðasta af öllum búningnum var, ef til vill, höfuðfatið, sem búið var til úr strútsfjöðrum. Það féll framan við hökuna og gekk svo framan við eyrun upp á ennið, og myndaði þannig sporöskjulagaða umgjörð í kring um hans djöfullega andlit. Um öklana hafði hann kögur úr svörtu hári, og um kálfana ofarlega voru festir langir sporar, sem héngu niður eftir leggjunum og liðuðust út frá þeim hrafnsvartir lokkar af apahári. Þannig var hinn skrautlegi búningur kynblendingsins, sem stóð þarna og starði á bátana, er færðust nær og nær honum. Þessi búningur verður þó aldrei metinn eins og vert er, nema af þeim sem sjálfir sjá hann; en gallinn er sá, að fáir af þeim, sem sjá hann, lifa til þess að segja hvernig hann er. Vitanlega gat eg ekki þarna í fyrsta sinni sem eg sá þenna búning tekið eins nákvæmlega eftir honum eins og þessi lýsing ber með sér, enda var eg, sannast að segja, meira að hugsa um aðal þýðingu þessa fundar; en eg hafði síðar næg tækifæri til að kynna mér hin ýmsu atriði, sem getið er í lýsingu þessari.

Meðan við vorum þarna að hugsa um, hvað taka skyldi til bragðs, teygði Masaiinn úr sér með hátíðlegum tilburðum, hristi framan í okkur spjótið sitt hið mikla, og vék sér svo burt og hvarf hinum megin við bakkann.

„Heyrið þið!“ kallaði Sir Henry frá hinum bátnum; „kunningi okkar, burðarmanna fyrirliðinn, hefir efnt orð sín, og sigað Masaiunum á okkur. Haldið þið, að okkur sé óhætt að fara í land?“

Mér datt ekki í hug að það væri óhætt; en á hinn

bóginn var okkur ómögulegt að sjóða neitt á bátunum, og við höfðum ekkert, sem við gátum borðað hrátt, svo það var úr vöndu að ráða. Á endanum greiddi Umslopagaas úr vandanum, með því að bjóðast til að fara og sjá,hvað um væri að vera; laumaðist hann svo burt og skreið eins og högogrmur inn í skóginn, en við biðum eftir honum úti á ánni.

Eftir hálfan klukkutíma kom hann aftur og sagði að hvergi þar í kring væri nokkur Masaii sjáanlegur, en að hann hefði fundið blett, þar sem þeir hefðu nýlega dvalið, og eftir ýmsum merkjum að dæma, þá hefðu þeir fært sig, fyrir svo sem einum klukkutíma síðan; maðurinn, sem við sáum, hafi sjálfsagt verið skilinn eftir til að njósna um ferðir okkar og gera þeim aðvart.

Að svo búnu fórum við á land, og eftir að hafa sett vörð, fórum við að sjóða og borða kveldmatinn. Að því afloknu, tókum við málið fyrir til rækilegrar athugunar. Það var auðvitað ekki óhugsandi, að koma Masaia-kappans þar á bakkann stæði í engu sambandi við okkur, en að hann heyrði að eins til einhverjum flokki ránsmanna og morðingja, sem væri í leiðangri gegn öðrum þjóðflokki. Vinur okkar konsúllinn hafði sagt okkur, að slíkir leiðangrar ættu sér stað um það leyti. En þegar við tókum til greina hótun burðarmanna foringjans, og hugsuðum svo til þess, hve ógurlega Masaiinn hristi spjótið sitt framan í okkur, þá fór þessi tilgáta ekki að verða líkleg. Þvert á móti sýndist alt benda til þess að flokkur þeirra sæti um okkur og biði nú eftir hentugu tækifæri til að gera okkur aðsúg. Þar sem þannig var

ástatt, höfðum við um tvent að velja; annað var að halda áfram, hitt var að snúa aftur. Síðari hugmyndinni var nú samt hrundið umsvifalaust, með því að augljóst var, að okkur var alveg sama hætta búin á undanhaldinu, eins og þó við héldum áfram; og þar á ofan höfðum við staðráðið að halda áfram ferðinni, hvað sem það kostaði. Ekki töldum við samt óhult að sofa á landi, svo við fórum í bátana og rérum út á miðja ána, sem ekki var mjög breið þar; gátum við lagt bátunum þar með stórum steinum í akkeris stað, og voru þeir bundnir með snúrum, sem gerðar voru úr taugum kókótrésins, og höfðum við nokkra faðma af þeim snúrum á hverjum bát.

Þarna vorum við nærri uppétnir af mýflugunum, og það, ásamt áhyggjum út af því, í hvert óefni komið var fyrir okkur, hélt fyrir mér vöku, þó að hinir gætu sofið, þrátt fyrir aðsúg mývargsins á Tana-ánni. Og svo lá eg vakandi, reykti og velti ýmsu fyrir mér, en af því eg er praktískur maður hélt eg mér aðallega við það, hvernig við gætum gefið Masaia föntunum ráðningu. Það var fögur tunglskynsnótt, og þrátt fyrir mývarginn, og þrátt fyrir það, hve hætt var við að við sýktumst af að sofa á þessum stað, og þrátt fyrir verkinn í veika fætinum á mér, fór eg að una mér prýðilega. Tunglskinsglamparnir léku á yfirborði straumsins, sem þaut fram hjá okkur tafarlaust fram til sjávarins, eins og líf mannanna fram til grafarinnar, þangað til hann glansaði eins og stór silfurábreiða, þar sem trén náðu ekki til að kasta á hann skuggum sínum. Út við bakkana var engu að síður var koldimmt út við

bakkana, og næturvindurinn andvarpaði raunalega í sefinu. Vinstra megin við okkur, í þeim bakkanum, sem fjær okkur var, var ofurlítil sendin vík, skóglaus, og þar gat eg grilt í fjölda af antilópum, sem voru á leið niður að ánni, þangað til alt í einu heyrðist ógurlegt öskur, og við það sneru þeir allir burt í skyndi. Svo kom eg rétt á eftir auga á þrýstið dýr; það var dýrakonungurinn, ljónið, sem þar var á ferð til að gæða sér á vatnsdropa á eftir ketkrás. Rétt á eftir fór það sína leið; svo heyrðist brak í skógargreinunum svo sem 25 faðma fyrir ofan okkur, og fáum mínútum seinna reis upp úr ánni stór svört flyksa, svo sem 10 faðma frá okkur, og frísaði. Það var höfuð á flóðhesti. Svo stakk hann sér niður hljóðlaust, en svo kom hann upp aftur, tvo til þrjá faðma þar frá, sem eg sat. Þetta var óneitanlega of nærri til þess að manni gæti liðið notalega, einkum af því að flóðhestinum lék auðsjáanlega afarmikil forvitni á að vita, hvers konar hlutir bátarnir okkar væru. Hann opnaði á sér stóra kjaftinn, eg held til að geispa, og gaf mér því ágætt tækifæri til að sjá tennurnar í sér; og eg gat ekki að mér gert, eg fór að hugsa um, hve auðvelt honum mundi verða að mola litla bátinn okkar með því að glepsa í hann einu sinni. Mér var sannast að segja ekki fjarri skapi, að senda honum kúlu úr átthleypunni minni, en þegar eg fór að hugsa mig betur um, réð eg af að láta hann vera, nema hann tæki strykið beinlínis að bátnum. Svo stakk hann sér aftur eins hljóðlaust og áður, og svo sá eg hann aldrei upp frá því. Rétt í því byli varð mér litið upp á bakkann hægra megin, og þóttist eg þá sjá

eitthvað dökt á ferð mili trjábolanna. Eg sé mjög vel, en ekki gat eg greint hvort þetta var fugl, ferfætt skepna eða maður, en það þóttist eg hér um bil viss um, að eitthvað sæi eg. En á því augnabliki brá dimmu skýi yfir tunglið, og sá eg þá ekkert frekara. Rétt í því heyrði eg líka eina tegund af hornuglum, sem eg þekki vel, fara að garga í sífellu, þó að annars væri gersamlega hljótt í skóginum. Þar á eftir var dauðaþögn, nema hvað vindurinn þaut í trjánum og sefinu.

En hvernig í ósköpunum sem á því stóð, þá var einhver veiklan komin á taugarnar í mér. Það var engin sérstök orsök til þess, að undanteknum þeim venjulegu hættum, sem umkringja þá er ferðast um Mið-Afríku, en þó var óneitanlega beigur í mér. Sé nokkuð til, sem eg lít á með meiri fyrirlitning og vantrausti en á alt annað, þá er það ástæðulaust hugboð manna, og þó greip mig nú alt í einu afdráttarlaust hugboð um eitthvað ilt, sem væri að færast nær mér. Eg vildi ekki gefa þessari veiklun lausan tauminn, og fann eg þó kaldan svita springa út úr enninu á mér. Eg vildi ekki vekja hina. Óttinn óx meira og meira, lífæðin sló óreglulega eins og á deyjandi manni, það fór um mig ískaldur hrollur við skelfingar-meðvitundina um voða, sem ómögulegt væri undan að komast; það kannast allir við þá tilfinningu, sem þjáðst hafa af martröð; en samt vann viljakraftur minn sigur yfir hræðslunni og eg lá kyrr (því að hálfu leyti sat eg, að hálfu leyti lá eg á bátsstefninu) og eg sneri að eins við andlitinu á mér, svo

að eg gat séð framan í Umslopagaas og Wakwafana tvo, sem sváfu við hliðina á mér.

Á lengdar heyrði eg flóðhest skvampa ofurlítið, og um leið rak uglan upp ónáttúrlegan skræk*) og frá skógnum bárust fyrir vindinum raunalegar stunur, sem gengu í gegn um mig. Fyrir ofan mig var útbreiddur faðmur svarta skýsins, fyrir neðan þaut hið myrka vatnsflóð, og mér fanst eins og dauðinn og eg vera þar á milli aleinir. Það var mjög einmanalegt.

Alt í einu var eins og blóðið frysi í æðum mínum og hjartað næmi staðar. Var það ímyndan eða vorum við komnir á stað? Eg sneri mér við til að sjá hinn bátinn, sem átti að vera við hliðina á okkar bát. Eg sá hann ekki, en í þess stað sá eg magra og krepta svarta hönd koma inn fyrir borðstokkinn á litla bátnum. Þetta var vafalaust martröð! Í sömu svipan reis dimt og djöfullegt andlit upp úr vatninu, og velta kom á bátinn, glampa af hnífsblaði brá fyrir, og skelfilegt hljóð kom frá Wakwafanum, sem svaf við hliðina á mér (sama manngarminum, sem mér hafði þótt svo vond lyktin af) og eitthvað heitt spýttist framan í mig. Í einu vetfangi sá eg hvers kyns var; það var engin martröð, heldur voru Masaiarnir að gera að okkur áhlaup á sundi. Eg þreif fyrsta vopnið, sem var fyrir hendi, og af tilviljun var það bardagaöxin hans Umslopagaas. Eg hjó af öllum kröftum í áttina þangað sem eg sá glampann af hnífnum

*) Óefað var þessi ugla vængjalaus fugl, því að eftir á komst eg að því, að ugluhljóðið er uppáhaldsmerki og bending meðal Masaianna.

bera fyrir. Höggið kom á mannshandlegg, og af því það hitti þar á, sem borðstokkurinn var undir, þó tók það handlegginn gersamlega í sundur rétt fyrir ofan úlfliðinn. Af eiganda þeirrar handar er það að segja, að hann lét ekkert til sín heyra. Þögull eins og andi kom hann, og eins fór hann á burt, skiljandi eftir blóðuga hönd, sem enn hélt utan um stóran hníf, eða þó heldur stutt sverð, sem var grafið inn í hjarta veslings hásetans okkar.

Í sama bili heyrði eg einhver læti og gauragang, og mér sýndist eg sjá allmarga svarta hausa á leið til bakkans hægra megin,þangað sem okkur var að reka með hraða, því kaðallinn, sem við höfðum verið stjórnaðir niður með, hafði verið skorinn sundur með hníf. Jafnskjótt sem eg sá þetta, sá eg líka að þeir höfðu skorið á stjórataugina í því skyni, að okkur skyldi reka upp að bakkanum hægra megin, enda hefði það orðið, hefði straumurinn fengið að ráða; þar hefir án efa flokkur þeirra beðið okkar til þess að stinga okkur með spjótum sínum. Eg þreif eina árina sjálfur, og sagði Umslopagaas að taka aðra (því hinn maðurinn var of hræddur til þess að koma að nokkru liði) og rerum við í ákefð út á miðja ána; og það mátti ekki seinna vera, að við tókum það ráð, því á næstu mínútu hefðum við verið komnir að landi, og þá hefði verið úti um okkur.

Þegar við vorum komnir nógu langt frá bakkanum, fórum við að róa upp eftir straumnum, þangað sem hinir lágu; og mjög svo erfitt og hættulegt verk var það í myrkrinu, því við höfðum ekkert eftir að fara nema gríðar-köll, sem Good skaut út úr sér við

og við eins og þokulúður. En á endanum náðum við til þeirra, og urðum við fegnir að heyra, að þeir höfðu verið látnir óáreittir. Það er enginn vafi á því, að eigandi handarinnar, sem skar í sundur stjórafærið okkar, hefði skorið á þeirra stjórafæri líka, hefði hann ekki horfið frá þeim ásetningi af ómótstæðilegri löngun til að drepa, þegar hann hafði tækifærið. Jafnframt því sem það kostaði okkur mann og hann hönd, þá hefir það áreiðanlega forðað okkur hinum frá að verða brytjaðir niður. . Hefði eg ekki séð þessa hryllilegu sjón á borðstokknum — sjón, sem eg gleymi aldrei til dauðans — þá hefði bátinn, svo sem af sjálfsögðu, hrakið upp að bakkanum, fyr en eg hefði veitt því eftirtekt, og þá hefði eg aldrei sagt þessa sögu.

---

## III. KAPITULI.

### *Heimili trúboðans.*

Við bundum bát okkar við hinn bátinn, með því sem eftir var af stjórafærinu okkar og biðum dögunar fagnandi út af því hve náðarsamlega við sluppum, sem í rauninni sýndist fremur vera að þakka vernd forsjónarinnar en okkar eigin varkárni eða hreysti. Loksins rann dagur, og eg hefi ekki oft fagnað dagsljósinu meira, þó að það væri ljót sjón, sem þá birtist okkur í bátnum mínum. Þarna lá vesings Askarinn í botninum á litla bátnum, með hnífinn eða sverðið í

brjóstinu, og mannlausa hendina krepta um skaftið. Eg þoldi ekki að horfa á það, og tókum við því steininn, sem notaður var fyrir atkeri á hinum bátnum, bundum hann við myrta manninn og létum hann svo falla útbyrðis, og niður til botns sökk hann, skiljandi ekkert eftir nema röð af vatnsbólum upp yfir sér. Og því er miður, þegar okkar tími kemur, þá skilja flestir okkar ekkert eftir nema bólur, sem sýna að við höfum verið til, og bólurnar springa fljótt. Hönd morðingjans fleygðum við út á ána, og sökk hún þar með hægð. Sverðið, sem var með fílabeins skafti, greipt með gulli (auðsjáanlega arabiskt smíði) tók eg, og hafði fyrir veiðihníf, og reyndist hann mér ágætlega.

Eftir að einn maður hafði verið tærður yfir í minn bát, byrjuðum við ferðina einu sinni enn,og vor um daufir í bragði og ekki sem vonbeztir um framtíðina, þó að við hugguðum okkur við þá von, að ná til „Hálanda“-áfangastaðarins um kveldið. Svo bættist það ofan á, að einum klukkutíma fyrir sólaruppkomu kom steypiregn, sem gerði okkur holdvota, og urðum við jafnvel að ausa bátana við og við; og af því að vindinn lægði, þegar regnið byrjaði, þá gátum við ekki notað seglin, en urðum að gera það sem við gátum með árunum einum.

Þegar klukkan var orðin ellefu, áðum við í skóglausu rjóðri á bakkanum vinstra megin, og af því að regninu slotaði lítið eitt, gátum við kveikt upp eld og veitt og steikt okkur fisk. Við þorðum ekki að bregða okkur neitt frá til þess að reyna að skjóta neitt. Klukkan tvö fórum við aftur af stað, og tókum með

okkur forða af steiktum fiski, og stuttu þar á eftir varð regnið meira en nokkru sinni áður. Nú fóru líka að verða mestu vandræði að rata eftir ánni, vegna kletta, grynninga-hryggja og straumsins, sem alt af fór vaxandi, svo það fór að verða býsna greinilegt að við mundum ekki komast undir gestrisnis-þak Mackenzies prests þá nótt — og var sú fullvissa okkur til lítillar hugarstyrkingar. Hvernig sem við hertum okkur, gátum við samt ekki komist nema eina mílu á klukkutímanum, og klukkan fimm síðara hluta dagsins (og þá vorum við orðnir algerlega uppgefnir) taldist okkur svo til að við værum fullar tíu mílur frá heimili prestsins. Með því að svo búið hlaut nú að standa, þá tókum við okkur til og fórum að búast um sem bezt fyrir nóttina. Eftir það, sem þá var nýafstaðið, þorðum við blátt áfram ekki að fara í land, og það því síður, sem bakkar Tana-árinnar voru þar þaktir miklum skógi, sem hefði getað leynt fimm þúsundum Masaia, og eg var farinn að halda að við mættum hafa náttstað í bátunum aðra nóttina til. En til allrar hamingju fundum við í miðri ánni ofurlitla klettótta eyju, sem var ekki meira en hér um bil átta faðmar á hvern veg. Þangað rerum við, festum bátana, gengum á land, og bjuggumst um eins vel og föng voru á, en það var í sannleika að segja vesalt mjög. Af veðrinu er það að segja, að það var argvítugt; regnið steyptist niður í flyksum og kuldinn gekk gegn um bein og merg, og eld var okkur ömögulegt að kveikja. Samt sem áður var regninu samfara eitt huggunar-atriði: hermennirnir okkar staðhæfðu, að enginn hlutur bæti komið Masaiunum til

að gera áhlaup í slíku veðri, með því að þeir væru gersamlega frábitnir því að vera á ferli í regni, ef til vill, eins og Good gat til, af því þeir voru frábitnir öllum fataþvotti..

Við borðuðum dálítið af daufum og köldum fiski, nema Umslopagaas, sem hefir andstygð á fiski, eins og annað *Z*úlúa-fólk, og fengum okkur sopa af konjaki, sem við áttum, til allrar hamingju, fáeinar flöskur eftir af, og svo byrjaði sú versta nótt, að eg held, sem eg hefi lifað, að undantekinni nóttinni, þegar við þrír sömu hvítu mennirnir vorum nærri dauðir úr kulda á Shebá-jöklinum á ferðinni til Kúkúanalands. Nóttin ætlaði aldrei að taka enda, að okkur fanst, og einu sinni hélt eg að tveir af hermönnunum væru að deyja úr vosbúð og kulda. Og sannleikurinn var sá, að hefðu þeir ekki fengið inntökur af konjaki við og við þá hefðu þeir dáið, því Afríkumenn þola illa vosbúð; hún dregur fyrst úr þeim allan kraft, og drepur þá svo. Eg gat aukheldur séð það á gamla, stálhrausta bardagamanninum, Umslopagaas, að þetta gekk nærri honum; en sá var munurinn á honum og Wakwöfunum, að þeir veinuðu og kvörtuðu jafnt og þétt út af kjörum sínum, en aldrei heyrðist til hans eitt einasta óþolinmæðisorð. Til þess að alt yrði sem verst, þá bættist það ofan á, að klukkan eitt um nóttina fórum við aftur að heyra hljóðið í uglunum, og máttum við þá búast við áhlaupi, tafarlaust; en það verð eg að segja, að hefði til þess komið, þá held eg að fyrirstaðan hefði orðið lítil hjá okkur. En annað hvort hefir það verið regluleg ugla, sem við heyrðum til í þetta sinn, ða Masaiarnir hafa verið of illa á sig

komnir til að láta sér koma til hugar að gera ilt af sér, enda gera þeir það sjaldan eða aldrei í þéttum skógi. En hvernig sem á því stóð, þá urðum við þeirra ekki varir.

Á endanum kom dagsljósið líðandi yfir fljótið, umvafið draugalegum þokuhringum, og með birtingunni hætti að rigna; og sólin rann upp í dýrð sinni, nam burt þokuna og vermdi kalda loftið. Gegnkaldir og öldungis aðfram komnir, drógum við okkur á fætur og stóðum í sólargeislunum, og þökkuðum guði fyrir þá. Eg skil vel, hvernig því er varið, að menn, sem stutt eru á veg komnir í þekkingu, verða sóldýrkendur, einkum ef þeir þurfa að reyna kulda og vosbúð.

Að hálfum tíma liðnum vorum við enn einu sinni komnir af stað og gekk okkur all-liðlega, því að við höfðum hagstæðan byr. Við höfðum fjörgast að nýju með sólskininu, og við vorum reiðubúnir að hlæja að erviðleikunum og hættunum, sem höfðu nærri því gert út af við okkur daginn áður.

Og þannig héldum við áfram í glöðu bragði þangað til klukkan ellefu. Rétt þegar við vorum að hugsa um að ægja eins og vanalega, til að hvíla okkur og skjóta eitthvað okkur til matar, þá kom snöggur krókur á ána, og komum við þá auga á rambyggilegt hús með Norðurálfulagi og svölum hringinn í kring. Það stóð uppi á hæð og var útsýni þaðan hið fegursta; hár grjótgarður var alt í kring um húsið og skurðir þar fyrir utan. Gegnt húsinu var stórkostlegt grenitré, og mændi hátt upp yfir það, og höfðum við séð stofn þess í sjónpípu tvo undan farna daga, þó að

okkur væri auðvitað ókunnugt um það, að það væri leiðbeining um, hvar heimili kristniboðans var. Eg varð fyrstur til að sjá húsið, og gat ekki stilt mig um að hrópa innilegt húrra, og tóku hinir, að Afríkumönnunum meðtöldum, undir með mér af einlægu hjarta. Nú var ekki lengur hugsað um að ægja.

Jafnvel þó húsið sýndist vera mjög nærri, þá var þó til allrar ógæfu langur vegur eftir ánni þangað enn, svo áfram máttum við pínast, þangað til loksins klukkan eitt, að við vorum komnir undir hæðina, sem húsið stóð á. Svo rerum við bátnum upp að bakkanum og stigum á land og vorum rétt að draga bátana upp á bakkann, þegar við sáum þrjár manneskjur, klæddar algengum enskum búningi, koma í skyndi niður trjágöngin til að taka á móti okkur.

„Karlmaður, kvenmaður og dálítil stúlka,“ kallaði Good, eftir að hafa virt þau fyrir sér gegnum gleraugað sitt; „og það gangandi eins og siðað fólk, eftir ruddri braut, til að taka á móti okkur á þessum stað. Svei mér ef þetta er ekki það skrýtnasta, sem við höfum séð enn þá!“

Það var satt sem Godd sagði: það sýndist auðvitað kynlegt — líkara draumsjón eða ítölskum leik en áþreifanlegum virkileik; og tilfinningin fyrir þessu fór ekki minkandi, þegar við heyrðum yrt á okkur á góðri skozku, sem eg get, samt sem áður, ekki haft eftir.

„Komið þið sælir, herrar mínir,“ sagði Mr. MacKensie, gráhærður maður, breiðvaxinn með góðlegt andlit og rjóðar kinnar; „eg vona að ykkur líði vel. Svertingjarnir mínir sögðu mér fyrir einum

klukkutíma síðan að þeir hefðu séð tvo eintrjánings-báta með hvítum mönnum á leiðinni upp ána; svo við komum rétt í þessu bili ofan eftir til að taka á móti ykkur.“

„Og mér er óhætt að segja að við verðum mjög fegin að sjá hvít andlit aftur,“ — skaut konan inn í — sem bæði var kurteis og mjög fríð sýnum.

Við tókum ofan hattana í virðingarskyni, og fórum að segja hverjir við værum.

„Og nú hljótið þið allir að vera hungraðir og þreyttir,“ sagði Mr. Mackenzie; „svo nú er bezt fyrir ykkur að koma og mikil ánægja er okkur að sjá ykkur. Seinasti hvíti maðurinn, sem okkur hefir heimsótt, er Alphonse — þið fáið bráðum að sjá hann — og það var fyrir ári síðan.“

Meðan á þessu stóð héldum við upp hæðina, sem að neðan verðu var girt með trjágarði, og sumstaðar með óhöggnu grjóti, og komum inn í jurtagarða, sem fullir voru af alls konar matjurtum. Í hornunum á þessum görðum voru snotrir kofar með gorkúlulagi og bjuggu þar svertingjar þeir, er Mr. Mackenzie hafði kristnað; komu nú konur þeirra og börn út í straumum til að mæta okkur. Í gegn um miðjan garðinn var aðal vegurinn, sem við nú gengum eftir. Hann var umgirtur á báðar hliðar með röð af orange-trjám, sem voru að eins tíu ára gömul, en voru þó orðin afar stór og með gullfögrum ávöxtum vegna þess hve ágætt er loftslagið kring um rætur Kenia-fjallsins, sem var 5000 fet fyrir ofan sjávarmál. Þegar við höfðum klifrað látlaust fjórða part úr mílu — því brekkan var brött—komum við að skínandi fall-

egri girðingu úr trjám, sem líka voru þakin aldinum, og sú girðing innilukti, sagði Mr. Mackenzie, fjórar ekrur af landi, og var þar hans eigin heimagarður, hús, kirkja, og útibyggingar; þetta náði yfir allan efsta hlutann af hæðinni. Og þvílíkur garður! Eg hefi ætíð verið mikill garða-vinur og eg hefði getað fórnað upp höndum fyrir fagnaðarsakir, þegar eg sá þennan. Fyrst var nú röð við röð af þeim allra helztu ávaxtatrjám Norðurálfunnar, öllum í blóma; því upp á hæðinni var loftslagið svo temprað,að nærri því allar enskar matjurtir, tré og blóm þrifust þar dásamlega og þar á ofan ýmsar eplatrjátegundir, sem bera sjaldan á vexti í heitu loftslagi. Svo voru þar jarðaber og tomatoes (slíkar tomatoes!), melónur og agúrkur og yfir höfuð mátti segja, að þar væru allar tegundir af garðaávöxtum og aldinum.

„Þér hafið myndarlegan garð hér,‘ sagði eg yfirkominn af aðdáun og ekki laus við öfund.

„Já,“ sagði kristniboðinn, „það er góður garður og hefir borgað mér vel fyrirhöfnina; en loftslaginu má eg samt þakka það. Ef stungið er niður steini úr peach? þá ber hann ávöxt eftir fjögur ár. Loftslagið hér er yndislegt.“

Rétt í þessu komum við að skurði, tíu feta breiðum og fullum af vatni; en á hina hliðina var steinveggur tíu feta hár með mörgum götum á, sem skjóta mátti út um, og margar fallbyssur múraðar í vegginn ofan verðan.

„Hér er mitt *magnum opus*“ sagði Mr. Mackenzie og benti á skurðinn og húsið; „að minsta kosti þetta og kirkjan, sem er hinum megin við húsið.

Það var tveggja ára verk fyrir mig og tuttugu svertingja að grafa skurðinn og hlaða vegginn, en eg þóttist aldrei óhultur fyr en því var lokið; og nú get eg boðið öllum villimönnum Afríku byrginn, því að lindin, sem leggur til vatnið í skurðinn, er innan við vegginn, og bunar þar jafnt vetur og sumar, og fjögra mánaða forða hefi eg æfinlega í húsinu."

Þegar við höfðum gengið yfir sýkið og inn um þröngt hlið gegn um vegginn, komum þangað, sem Mrs. Mackenzie kallaði kongsríkið sitt, þ. e. a. s. í blómgarðinn, sem var svo fagur, að mér er í sannleika að segja ofvaxið að lýsa honum.

Eg held ekki að eg hafi nokkurn tíma séð slíkar rósir, gardeníur eða kameliur, sem allar höfðu sprottið upp af fræi eða æxlingum, sem sent hafði verið frá Englandi; líka var þar blettur með samsafni af ýmsum laukarótum, flestum tíndum saman úti um landið umhverfis, af litlu Miss Flossie, dóttur Mackenzies, og voru sumar þeirra aðdáanlega fagrar. Í miðjum þessum garði og beint á móti svölunum, freyddi ljómandi fallegur gosbrunnur, og féll bunan úr honum í steinskál, sem þar var vandlega komið fyrir til þess að taka við vatninu; þaðan rann svo vatnið eftir ræsum út í varnarskurðinn fyrir utan virkisvegginn, og var meðal annars það gagn að skurðinum, að hann geymdi vatnið, og mátti jafnan fá þar nóg til að vökva garðana fyrir neðan. Húsið sjálft var sterklega bygt, með einu lofti, helluþaki og fallegum svölum að framan. Það var bygt í þremur örmum utan um ferhyrndan blett, og var eldhúsið á fjórðu hliðina, því það var laust frá húsinu — sem mjög er

hentugt í heitum löndum — í miðjum ferhyrningnum, sem þannig myndaðist, var það sem ef til vill var eftirtektaverðast af öllu á þessum aðdáanlega stað tré eittt, með köngulmynduðum ávöxtum, og er mikið af þeim trjám þar á hæðunum í þeim parti Afríku. Þetta gullfallega tré sagði Mr. Mackenzie okkur að væri leiðbeining fyrir menn á fimtíu mílna svæði í kring, enda höfðum við sjálfir séð það síðustu fjörutíu mílurnar af okkar ferð; það hlýtur að hafa verið nær þrjú hundruð fet áhæð,og var bolur þess sextán fet í þvermál þrjú fet frá jörðu. Hér um bil sjötíu fetin neðstu voru greinalaus og var sá parturinn líkastur fögrum dökkbrúnum stólpa, að sér dregnum að ofan, en þar fyrir ofan breiddust beint út stórkostlegar, dökkgrænar limar, sem teigðust út yfir húsið og blómgarðinn, og veittu þannig ágæta forsælu, án þess þó að vera lofti og birtutil fyrirstöðu.

„En hvað þetta tré er ljómandi fallegt,“ sagði Sir Henry.

„Já, satt er það; tréð er skínandi fallegt. Það er ekkert þvílíkt neinstaðar hér í kring, svo eg viti til,“ sagði Mr. Mackenzie. „Eg kalla það varðturninn minn. Eins og þér sjáið, þá hefi eg kaðalstiga festan við neðstu hrísluna; og hvað sem eg vil sjá innan fimtíu mílna svæðis, þá þarf eg ekki annað en fara þar upp með sjónpípu. En þið hljótið að vera svangir og miðdagsmaturinn er sjálfsagt soðinn. komið inn, vinir mínir; húsakynnin eru ekki skrautleg, en það má notast við þau á þessum villimannastöðvum; en eitt get eg sagt ykkur, eg hefi franskan

matreiðslumann.“ Og svo gekk hann á undan okkur upp að svölunum.

Um leið og eg gekk á eftir honum og var að brjóta heilann um það, við hvað hann ætti, kom alt í einu út í dyrnar, sem lágu út að svölunum, ofurlítill snarlegur maður í snotrum bláum fötum, og skóm úr sútuðu leðri; það var einstakt annríkisfas á honum og svo hafði hann afarmikið svart yfirskegg, sem stóð út og upp á við í mörgum snúningum, og líktist meira tveimur vísundarhornum en nokkrum sköpuðum hlut öðrum.

„Maddaman biður mig að segja yður að miðdagsmaturin nsé reiðubúinn. Komið þér sælir, Messieurs;“ en þá tók hann alt í einu eftir Umslopogaas, sem kom með hægð á eftir og lék sér að öxinni sinni, og um leið fórnaði hann upp höndunum í ofboði og sagði á frönsku: „Ah, mais quel homme! quel sauvage affreux! Sko öxina hans, hvað hún er gríðarstór, og svo djúpa holan í höfuðið á honum.“

„Hvað,“ sagði Mr. Mackenzie, „um hvað eruð þér að tala, Alfonse?“

„Um hvað!“ svaraði litli franski maðurinn og hafði ekki augun af Umslopogaas, sem virtist hafa einhver töfra áhrif á hann; „eg er að tala um hann“ — og hann benti hranalega fram undan sér — „um ce monsieur noir.“

Allir fóru að hlæja að þessu, og Umslopagaas, sem varð þess var, að hann var umtalsefnið, gretti sig illskulega og varð þrútinn af reiði, því hann kunni því ekki betur en neinn lávarður, að menn hentu gaman að honum.

„Parbleu„ sagði Alfonse, „hann er reiður — hann grettir sig. Mér líst ekki á hann. Eg fer.“ Og það gerði hann eins fljótt og hann gat.

Mr. Mackenzie hló hjartanlega eins og við. „Hann er skrýtinn maður — hann Alfonse,“ sagði hann. „Áður en langt líður skal eg segja ykkur sögu hans; fyrst skulum við reyna, hvernig hann býr til mat.“

„Mætti eg spyrja,“ sagði Sir Henry, eftir að við höfðum borðað ágætan miðdegisverð, hvernig þér hafið getað náð í franskan matreiðslumann í þessum óbygðum?“

„Hann kom hingað,“ svaraði Mr. Mackenzie, „af frjálsum vilja fyrir hér um bil ári síðan, og óskaði að vistast hjá mér. Hann lenti í einhverju klúðri á Frakklandi, og strauk til Zanzibar, en þegar þangað kom, varð hann þess var, að franska stjórnin hafði beðið um að hann yrði sendur heim aftur. Þá beið hann ekki boðanna, en stökk þaðan upp til óbygðanna, og þar var hann nærri dauður úr hungri; svo varð hann fyrir sendimönnum mínum, sem voru að færa mér hinn vanalega ársforða, og fluttist hann með þeim hingað. Þér ættuð að fá hann sjálfan til að segja þá sögu.“

Eftir máltíðina kveiktum við í pípum okkar, og Sir Henry tók að sér að segja húsbóndanum ferðasögu okkar þangað upp eftir, og varð húsbóndinn mjög alvarlegur við þá sögu.

„Eg sé í hendi minni, að þessir Masaifantar veita ykkur eftirför, og guði sé lof, að þið náðuð hingað heilir á húfi. Eg trúi því varla að þeir þori

að yður hér. En samt var það ólán að nærri allir mínir menn eru að heiman, í ferð niður til sjávar með vörur. Þeir eru tvö hundruð til samans í ferðinni, og afleiðingin er sú, að eg hefi ekki nema tuttugu menn, sem nokkurt gagn er í til varnar, ef Masaiarnir skyldu sækja að okkur. En hvað um það, eg ætla að segja dálítið fyrir;“ og svo kallaði hann á svartan mann, sem var að slæpast úti fyrir í garðinum, fór út að glugganum og talaði til hans á Swahilimálýsku. Maður hlustað, hneigði sig og fór á burt.

„Eg vona til guðs að yður standi ekki slík ógæfa af okkur,“ sagði eg órólega. „Heldur en að þér þurfið að eiga þessa blóð þyrstu fanta yfir höfði yðar, vil eg að við höldum áfram og látum hamingju okkar ráða.“

„Þér skuluð ekki gera neitt þvílíkt. Ef Masaiarnir koma, þá verður við það að sitja; og eg held, að við getum veitt þeim býsna snarpar viðtökur. Fyrir alla Masaia heimsins vildi eg ekki vísa manni á dyr.“

„Þetta minnir mig,“ sagði eg „á það sem konsúllinn í Lamu sagði mér, að hann hefði fengið bréf frá yður, þar sem þér sögðuð honum frá manni, sem komið hafi til yðar og sagst hafa rekið sig á hvítt fólk uppi í landinu. Haldið þér að nokkur hæfa sé í sögunni. Eg spyr að því, af því eg hefi einu sinni eða tvisvar á æfi minn heyrt ávæning eftir svertingjþar lengst norður frá, um að slíkt fólk væri til.“

Mr. Mackenzie svaraði á þann hátt að hann fór út úr stofunni, kom svo inn aftur og hafði með sér mjög fáséð sverð. Það var langt, og alt blaðið, sem

var mjög þykt og efnismikið, var, að undanteknum fjórðaparti úr þumlungi frá egginni, alt gegnum skorið í skrautlegar rósir, alveg eins og við höfðum séð á línum við sagað með hringskeru, en þó voru látnar halda sér heilar brýr eftir endilöngu, til þess að blaðið skyldi ekki veikjast. Þetta var nú í sjálfu sér býsna merkilegt, en enn þá nýstárlegra var þó það, að inn í allar raðirnar í kringum eyðurnar, sem skornar voru í blaðið, var mjög fagurlega smelt gulli, sem var fest við stálið á einhvern þann hátt sem eg get ekki gert grein fyrir.*

„Hafið þér nokkurntíma séð annað eins sverð?" sagði Mr. Mackenzie.

Við skoðuðum það allir og hristum höfuðin.

„Mér datt í hug að sýna ykkur það, vegna þess, að maðurinn, sem þóttist hafa séð hvíta fólkið, kom með það með sér, og af að það virðist kasta dálitlum sannleiksblæ á sögu hans; annars hefði eg að sjálfsögðu haldið, að hún væri lýgi. Bíðið þið við; eg skal nú segja ykkur alt, sem eg veit um þetta, það er ekki svo mikið. Einu sinni sat eg, rétt fyrir sólarlagið, úti á svölunum, og sá hvar mannaumingi, þjakaður og aðframkominn af hungri, kom haltrandi heim að húsinu og fleygði sér niður fram undan mér. Eg spurði hann, hvaðan hann kæmi og hvert

---

*) Síðan hefi eg séð hundrað af slíkum sverðum, en hefi aldrei getað komist að því, hvernig gullið er fest í raðirnar kringum rósaskurðina. Vopnasmiðirnir í *Zu*-vendis hafa með eyði skuldbundið sig til að þegja yfir því.

hann væri að fara, og svaraði hann með því að fara að segja mér óljósa sögu um það, að hann tilheyrði þjóðflokki einum langt norður frá,og um það hvernig sá flokkur hefði verið yfirunninn af öðrum flokki, og hvernig hann hefði ásamt fáum öðrum, sem komust undan, orðið að flýja enn þá lengra norður, norður fyrir vatn, sem kallað er Laga. Þá var að skilja sem hann hefði haldið áfram enn lengra, þangað sem annað vatn var uppi á fjöllunum, „botnlausa vatnið“? kallaði hann það, og þar dóu kona hans og bróðir úr næmum sjúkdómi—líklegast úr bólunni—og út úr því rak fólkið hann á burt út úr þorpum sínum og híbýlum út í eyðimörkina; þar ráfaði hann illa á sig kominn um fjöllin í tíu daga, og eftir það lenti hann í þéttum þyrniskógi; þar gengu *hvítir menn,* sem voru á veiðum, fram á hann einn daginn og tóku hann með sér til staðar þar sem alt fólkið var hvítt og bjó í steinhúsum. Þar var hann í viku, og var alt af lokaður inni í húsi einu, þangað til eitt kveld að til hanskom hvítskeggjaður maður, sem hann hélt að væri læknir, og skoðaði hann, og var hann eftir það fluttur burtu, gegnum þétta skóginn og inn í sjálfa eyðimörkina; þar var honum gefinn matur og þetta sverð, (að minsta kosti sagði hann svo), og svo var hann skilinn eftir.“

„Já, já,“ sagði Sir Henry; hann hafði staðið á öndinni meðan á þessari sögu stóð; „hvað gerði hann svo “

„Eftir því sem hann sagð frá, þá er sjá svo sem hann hafi ratað í fleiri þrautir og mannraunir en hægt er upp að telja, og að hann hafi vikum saman

lifað á rótum og berjum, og öllu því sem hann gat hönd á fest og drepið. Einhvern veginn hefir hann lifað að minsta kosti, og á endanum tókst honum að dragast suður hingað í stuttum áföngum. Ferðasögu hans heyrði ge aldrei ýtarlega, því eg bað hann að koma daginn eftir, og sagði einum umsjónarmanni mínum að sjá um hann yfir nóttina. Umsjónarmaðurinn fór með hann með sér, en mannauminginn var svo þjáður af kláða, að kona umsjónarmannsins þorði ekki að hafa hann í kofanum um nóttina, af ótta við það að aðrir mundu sýkjast, svo honum var fengin ábreiða og sagt að vera úti. En svo stóð á, að um þessar mundir var ljón á vaðbergi hér í kring, og að allrar ógæfu laumaðist það að honum, stökk á hann og beit af honum höfuðið svo að segja alveg, án þess að fólkið í kofanum yrði þess nokkuð vart, og þar með var enda bundið á líf hans og söguna hans um hvíta fólkið; hvert nokkur hæfa er í þeirri sögu, get eg ekki sagt. Hvað haldið þér, Mr. Quatermain?"

Eg hristi höfuðið og svaraði: „Eg veit ekki, Svo margir kynlegir hlutir leynast í hjart þessa mikla lands ,að mér dettur ekki í hug að halda því fram, að sagan sé ósönn. En hvort sem er, þá höfum við í hyggju að ganga úr skugga um, havð satt er í henni. Við ætlum að ferðast til Lekakisara, og þaðan ætlum við til Laga vatnsins, sem þér nefnduð áðan, ef okkur auðnast að komast svo langt, og ef nokkurt hvítt fólk er hinu megin við það vatn, þá gerum við það sem hægt er til að finna það."

„Þið eruð æði hugaðir menn,“ sagði Mr. Mackenzie glottandi, og svo féll talið niður.

---

## IVI. KAPITULI.

*Alfonse og Annetta hans.*

Eftir máltíðina skoðuðum við nákvæmlega öll útihúsin og landið umhverfis, sem eg ætla verið hafi hið hentugasta og fegursta, sem eg hefi séð í Afríku. Eftir það fórum við aftur upp á svalirnar, og þar fundum við Umslopagaas, sem hafði notað tækifærið til að hreinsa allar byssrnar. Það var það eina verk, sem hann gerði nokkurn tíma,eða var beðinn að vinna, því að eins og aðrir *Zúlúa*- höfðingjar taldi hann það ósamboðið virðingu sinni að vinna með höndunum; en þetta sem hann gerði, gerði hann ágætlega. Það var skrítin sjón, að sjá þennan mikla *Zúlúa*, sitjandi flötum beinum á gólfinu, með bardagaöxina reista upp við þilið fyrir aftan sig, vera í óða önn , nákvæmlega og með mestu varúð að hreinsa lásana á afturhlaðningunum með löngu höfðinglegu höndunum. Hann bjó til nafn handa hverri byssu. Fyrst var tvöfaldur fjórhlaðningur, sem Sir Henry átti; Umslopagaas kallaði hann „þrumarann“; annar var express-byssa, sem eg átti, og gaf frá sér einkennilegt, skarpt hljóð, þegar skotið var, og hét hún: „sú stutta, sem talar eins og svipa“; Winchester skammbyssurnar voru:

„kvenfólkið, sem er svo óðamála að ekki heyrast nein orðaskil“; sex Martinis byssurnar hétu „almúginn“; o. s. frv.; — allar höfðu þær einhver nöfn. Það var mjög hjákátlegt að heyra hann ávarpa hverja byssu um leið og hann verkaði hana, eins og hún væri mann-eskja, og það var sérstaklega skrítið, sem út úr honum kom. Eins fór hann að við öxina sína; það var eins og hún væri hans bezti vinur, og hann talaði stundum við hana í heilan klukkutíma í einu, og rakti þá upp öll sín gömlu æfintýri og voru sum af þeim nokkuð hroðaleg. Í heldur kuldalegu gamni hafði hann nefnt hana „Inkosi-kaas“, sem er *Zúlú* orðið yfir höfðingjakonu. Lengi vel vissi eg ekki hvers vegna hann kallaði hana þessu nafni, en loksins spurði eg hann að því, og sagði hann þá, að öxin væri vafalaust kvenkyns; það mætti sjá á þeirri kvennavenju hennar, að reka nefið inn í alla hluti; og að hún væri augsýnilega höfðingjakona, sást á því, að allir menn féllu til jarðar fyrir henni, orðlausir af fegurð hennar og valdi. Þannig ráðfærði hann sig líka við „Inkosi-kaas“, ef hann var sjálfur í vandræðum; og þegar eg spurði hann, því hann gerði það, sagði hann mér að hún hlyti að vera vel að sér, eftir að hafa gengið í gegn um heilann í svo mörgum mönnum.

Eg tók upp öxina og skoðaði nákvæmlega þetta voðalega vopn. Skaftið var úr afarstóru nashyrn-ingshorni, þrjú fet og þrír þumlungar á lengd, og hér um bil 1¼ þuml. á þykt, með hnúð á endanum á stærð við appelsínu, til þess að skaftið skyldi síður sleppa úr hendinni Þetta hornskaft mátti sveigja

eins og reyrstaf, þó það sterkt væri og í rauninni óbrjótandi; en til frekari fullvissu var skaftið nærri alt sívafið með koparvír — alls staðar þar sem halda þurfti um skaftið, var það þannig vafið. Rétt fyrir ofan hausinn voru í það skorur, og þýddi hver skora mann, sem fallið hafði fyrir öxinni. Axarhausinn sjálfur var úr hinu ágætasta stáli, og var svo að sjá, sem hann væri Norðurálfu smíði. En ekkert vissi Umslopagaas hvaðan öxin var komin, því að hann hafði tekið hana frá fyrirliða einum, sem hann hafði drepið í bardaga mörgum árum áður. Hún var ekki mjög þung, hausinn vóg hálft þriðja pund, eftir því sem eg komst næst. Eggin var lítið eitt bogin inn — ekki kúpt eins og vanalegt lag er á bardaga-öxum villimanna — og beitt eins og skegghnífur, og blaðið var 5¾ þumlungar um þvert, þar sem það var breiðast. Axarskallinn var digur, fjögra þumlunga langur og fremri tveir þumlungarnir holir innan, í laginu eins og gatjárn, með opi að ofan, og að þessu líktist hún mjög slátraraöxi. Seinna komumst við að því, að það var með þessum skalla, sem Umslopagaas hjó vanalega í bardögum, og bjó hann þannig til undur verklega holu í höfuðskel mótstöðumanns síns; breiðu egginni beitti hann ekki nema þegar margir sóttu að honum í einu. Mín skoðun er, að honum hafi fundist skallinn myndarlegra og skemtilegra verkfæri, og fyrir það hvað alþektur hann var að því að stinga þessum gaddi inn í óvini sína, var það, að hann var kallaður „Woodpecker“. Vafalaust var hann í höndum eigandans hræðilega atkvæðamikill.

Þannig var öxi Umslopagaas, Inkosi kaas, hið

merkilegasta og voðalegasta höggvopn, sem eg hefi nokkurn tíma séð, og hann elskaði hana eins mikið og mikið og sitt eigið líf. Hún slapp honum varla nokkurn tíma úr hendi, nema meðan hann borðaði, og þá lét hann hana vera hjá sér í sætinu.

Rétt um leið og eg skilaði öxinni aftur til Umslopagaas, kom Miss Flossie og tók mig með sér til að sýna mér blóma-safnið sitt, afríkanskar liljur og útsprungnar trjáplöntur, sem margar voru skínandi fallegar, og voru margar tegundir þar mér ókunnar, og grasafræðingunum líka, að eg held. Eg spurði hana hvort hún hefði séð eða heyrt getið um Goya-liljuna, sem ferðamenn um Mið-Afríku hafa sagt mér að þeir hafi stundum séð, og hefir þá furðað á hinni óviðjafnanlegu fegurð hennar. Þessi lilja, sem Afríkumenn hafa sagt mér að blómgist einu sinni á hverjum tíu árum, er sagt að spretti í hinum ófrjósamasta jarðvegi Í samanburði við blómstrið sjálft má blómknappurinn heita lítill, vanalega um fjögur pund. Af fegurð blómsins sjálfs er það að segja—það var svo ástatt fyrir mér er eg sá það síðar í fyrsta sinni, að líkindi eru til að útlit þess líði mér ekki strax úr minni—af fegurð blómsins er það að segja, að eg treysti mér ekki til að lýsa henni né hinum óútmálanlega ilm, sem af því lagði. Blómstrið—því það er að eins eitt — kemur upp úr miðjum knappnum, upp af þykkum og flötum legg, og þetta sýnishorn, sem eg skoðaði, var fjórtán þumlunga í þvermál, og dálítið svipað lúðri í laginu, eins og vanalegt „Longiflorum“, þegar það er reist upp. Fyrst eru grænu skeiðarnar, sem framan af eru ekki ólík-

ar skeiðunum á vatnsliljunni, en þegar blómið opnast, þá skiftist það í fjögur blöð, sem vindast fagurlega aftur á bak og niður að leggnum. Svo kemur blómið sjálft, einn skjallahvítur bogi, og innan í honum silkimjúk og fagurrauð skál, og í henni miðri er fræknappurinn fagurgyltur að lit. Eg hefi aldrei séð neitt, sem jafnast geti við þetta blóm að fegurð og ilm, og af því eg held að það sé ekki alþekt, þá leyfi eg mér að vera svo langorður um það. Þegar eg í fyrsta sinni sá þetta blóm, man eg, hvernig eg sannfærðist um það, að jafnvel í einu blómi getur maður lesið um hátign þess sem hefir skapað það. Mér til mestu ánægju sagði Miss Flossie mér, að hún þekti þetta blóm vel og að hún hefði reynt að rækt það í garðinum sínum, en ekki tekist það; þó bætti hún því við, að af því það stæði í mestum blóma á þessum tíma árs, þá vonaði hún að geta fært mér sýnishorn.

Þar á eftir fór eg að spyrja hana, hvort henni leiddist ekki þar efra innan um alla þessa villimenn og án þess að hafa nokkra jafnaldra að skemta sér við.

„Mér að leiðast!“ sagði hún. „Nei, það er öðru nær! Eg er eins ánægð eins og dagurinn er langur, og svo hefi eg líka mínar stallsystur. Já, mér væri það gremjuefni, ef eg væri grafin inn í urmul hvítra stúlkna, sem allar væru alveg eins, svo að enginn gæti séð mun á þeim og mér! Hér,“ sagði hún, og setti ofurlítinn hnykk á höfuðið, „fæ eg að njóta mín; og alt fólkið á stóru svæði hér í kring þekkir „Vatnsliljuna“ — það er nafnið sem það hefir gefið mér — og

er reiðubúið að þóknast mér í öllu, en eftir því sem eg hefi séð í bókum um litlar stúlkur á Englandi, þá er þar alt öðru máli að gegna. Öllum finst, að þær séu sér til ama, og þær verða að gera alt eins og kenslukonur þeirra segja þeim. Ó, það væri óbærilegt fyrir mig að vera þannig lokuð inni og vera ekki frjáls — frjáls eins og loftið.“

„Munduð þér ekki vilja mentast?“ spurði eg.

„Eg er að mentast. Faðir minn kennir mér latínu, grísku og stærðfræði.“

„Eruð þér aldrei hrædd innan um alla þessa villimenn “

„Hrædd? Nei. Þeir gera mér aldrei mein. Eg held þeir haldi eg sé „Nagai“ (guðdómleg), af því eg er hvít og hefi ljóst hár. Og skoðið þér,“ og hún stakk litlu hendinni niður í kjólvasa sinn, og dró upp tvíhleypu, silfurbúna skammbyssu, „þessa skammbyssu ber eg æfinlega á mér hlaðna, og ef nokkur reyndi að snerta mig, þá skyldi eg skjóta hann. Einu sinni skaut eg leóparda sem stökk á asnann minn, sem eg sat á. Eg varð dauðhrædd, en eg skaut hann í eyrað, og hann datt niður dauður, og skinnið af honum hefi eg ofan á rúminu mínu. Heyrið þér!‘ ‘hélt hún áfram, með breyttum rómi, og lagði höndina á handlegginn á mér og benti á eitthvað langt í burtu; „eg sagði rétt áðan, að eg hefði stallsystur þarna er ein þeirra.“

Eg leit upp, og sá þá í fyrsta sinni dýrð fjallsins Kenia. Þangað til hafði það verið hulið af móðu, en nú kom þess skínandi fegurð á mörgum þúsundum feta í ljós,þó að rætur fjallsins væri um vafðar gufu

svo að hinn gnæfandi hnjúkur eða drangi, sem reis yfir sjávarmál nærri tuttugu þúsund fet, sýndist hanga þar milli himins og jarðar eins og yfirnáttúrleg vera og hvíla á þokuskýjunum. Mínum vesala penna er um megn að lýsa hinni alvarlegu hátign og fegurð, sem skein á þessum hvíta fjallstindi. Þarna stóð hann staurbeinn og aleinn, í glansandi mjallhvítri dýrð, og sýndist efsta brúnin samvaxin sjálfri himinhvelfingunni. Meðan eg einblíndi á þessa sjón, með litlu stúlkuna hjá mér, fanst mér hjarta mitt lyftast upp og fyllast óútmálanlegum tilfinningum, og í svipinn stöfuðu stórar og kynlegar hugsanir á hjarta mitt, líkt og sólseturgeislarnir stöfuðu á Kenia-jökulinn. Villimennirnir, sem Mr. Mackenzie hafði kristnað, kalla fjallið „Guðs Fingur“, og mér sjálfum sýndist það boða ódauðlegan frið og hina hreinu, heilögu ró, sem óefað ríkir fyrir ofan þennan stynjandi mannheim. Einhvers staðar hafði eg heyrt þetta vísuorð:

„Fegurð hrein og heil er eilíf gleði“,

og nú datt mér það í hug, og skildi eg þá í fyrsta sinn til fulls hvað skáldið hafði átt við. Á lágu stigi hlyti í sannleika sá maður að vera, sem horft gæti á þá miklu snjóþöktu dyngju — þenna hvíta minnisvarða liðinna ára, án þess að finna til þess hve undur lítilfjörlegur hann er sjálfur, og vegsama guð í hjarta sínu. Það er eins og slíkar sjónir heyri andanum einum til; þeir ljúka upp gluggunum á hinum þröngu herbergjum sjálfsdýrkunarinnar og hleypa inn gusti af anda þeim, sem sveimar umhverfis þennan hnött, sem alt af er að snúast, og um stund lýsa þær vor dimmu hugskot með fjarlægum bjarma af hvítu

ljósi, sem veldur um veldisstól hins almáttuga guðs.

Já, það er víst um það, að slík fegurð er eilíf gleði,og eg skil það vel, hvað Flossie litla átti við, þegar hún talaði um Kenia sem eina af stallsystrum sínum. Það var satt, sem Umslopagaas sagði, þó að hann væri gamall zúlúskur villimaður; eg benti honum á tindinn, sem sýndist hanga í glampandi loftinu, og þá varð honum þetta að orði: „Menn gætu horft á þetta um þúsundir ára, og þó fundið til hungurs eftir að sjá það enn.“ En það kom brátt nokkuð annar litur á þessa skáldlegu hugsjón hans, því að hann kom að því draugalega ímyndunarafli, sem einkendi hann svo mjög, og bætti því við hálf-tónandi, að hann óskaði sér, að andi sinn fengi, þegar hann væri dauður, að sitja á þessum snjóþakta tindi til eilífðar, og þjóta svo ofan bröttu hvítu hlíðarnar í hvirfilvindinum, eða í öldungarglömpunum, og „drepa, og drepa og drepa.“

„Drepa hvað, gamli blóðhundurinn þinn?“ spurði eg.

Hann varð í hálfgerðum vandræðum með að svara þessari spurningu, en loksins sagði hann:

„Hina skuggana.“

„Svo þú vilt halda áfram að myrða, jafnvel eftir dauðann?‘ ‘sagði eg.

„Eg myrði ekki,“ svaraði hann með ákefð, „eg drep í bardaga, þar sem báðir standa jafnt að vígi. Karlmenn fæðast til að drepa. Sá sem ekki drepur, þegar hiti er í blóði hans, hann er kona en ekki karlmaður; þeir menn, sem drepa ekki, eru þrælar. Eg segi að eg drepi í bardaga, þar sem báðir standa jafnt

að vígi; og þegar eg er dauður, vona eg að halda áfram að drepa á þann hátt. Bölvaður sé skuggi minn og hrollur fari um hann inn að beininu að eilífu, ef hann skyldi taka upp á því að fara að myrða eins og kjarrmennirnir með eitruðum örvum!“ Og svo spíksporaði hann af stað mjög hátíðlega, en eg varð eftir hlæjandi.

Rétt í því bili komu aftur njósnarmennirnir, sem Mr. Mackenzie hafði sent út um morguninn til þess að komast að því, hvort nokkurs staðar yrði vart við Masaiana, kunningja okkar. Þeir sögðu, að fimtán mílna svæði þar umhverfis hefði verið rannsakað, án þess nokkur Masai hefði fundist, og hugðu njósnarmennirnir, að þeir mundu hafa hætt við að veita okkur eftirför og horfið aftur heim til sín. Mr. Mackenzie létti fyrir brjóstinu, þegar hann heyrði þetta, og sama er um okkur að segja, því að okkur fanst við hafa komist í nægan kunningsskap við þá pilta. Við vorum allir sannfærðir um, að Masaiarnir mundu ekki hafa séð sér til neins að veita okkur eftirför, þar sem hefðum náð trúarboðsstöðinni óhultir, og þar sem þeim var kunnugt um, hve gott vígi var þar. Síðar munu menn sjá, hve mjög okkur skjátlaðist þar.

Þegar njósnarmennirnir voru farnir, og Mrs. Mackenzie og Flossie voru háttaðar, kom Alfonse, litli Franzmaðurinn, út, og Sir Henry, sem er ágætur í frönsku, fékk hann til að segja okkur, hvernig það atvikaðist, að hann kom til Mið-Afríku, og það gerði hann á mjög svo einkennilegu máli, sem eg reyni ekki að sýna nema að litlu leyti.

Hann byrjaði á þessa leið: „Afi minn var liðsmaður í lífverði Napóleons. Hann var með liðinu, sem hörfaði aftur frá Moskva, og í tíu daga hafði hann ekkert að lifa á nema buxurnar sínar, og svo buxurnar, sem hann stal frá einum félaga sínum. Honum hætti við að drekka sig drukkinn — hann var fullur, þegar hann dó, og eg man að eg barði bumbu á líkkistunni hans. Faðir minn—"

Nú stungum við upp á því, að hann hlypi yfir sögu forfeðra sinna og héldi sig að efninu.

„Bien, messieurs!" svaraði skrítni, litli maðurinn og hneigði sig kurteislega. „Mig langaði að eins til að sýna ykkur, að hernaðar-hæfileikarnir ganga ekki að erfðum. Afi minn var tígulegur maður, sex fet og tveir þumlungar á hæð og eftir því gildur, og lét sér ekki alt fyrir brjósti brenna. Hann hafði líka merkilega mikið yfirskegg. Yfirskeggið hefir gengið að erfðum til mín — og ekkert annað.

„Eg er matreiðslumaður, messieurs, og eg er fæddur í Marseille. Þar liðu æskuár mín ánægjusamlega. Árum saman þvoði eg ílát í Meginlandshótellinu. Ó, það voru góðir dagar!" og hann andvarpaði. „Eg er Franzmaður. Þarf eg að taka það fram, messieurs, að eg dáist að fegurðinni? Nei, eg tilbið fegurðina, messieurs, við dáumst að öllum rósunum í garðinum, en við plokkum að eins eina. Eg plokkaði eina, og því var miður, messieurs, að hún stakk mig í fingurna. Hún var herbergisþerna, hét Annetta, vöxturinn var töfrandi, andlitið eins og á engli, og hjarta hennar — því er miður, messieur, að eg skuli verða að kannast við það! — var svart og af-

slept eins og leðurstígvél. Eg elskaði hana og tilbað hana, svo að mér lá við örvænting. Hún töfraði mig að öllu leyti; hún fylti mig með nýjum gáfum. Aldrei hefi eg búið til annan eins mat (því að eg var hættur við ílátaþvottinn, og var kominn upp í matreiðslumanns-stöðu þar í hótellinu), þegar Annetta, mín elskaða Annetta, brosti framan í mig. Aldrei" — og nú kom grátstafur í karlmannlegu röddina hans — „aldrei mun eg búa til slíkan mat framar", og svo streymdu tárin niður eftir kinnunum á honum.

„Heyrið þér, hressið þér yður upp", sagði Sir Henry á frönsku, og sló nokkuð fast á bakið á honum. „Enginn veit, hvað fyrir kann að koma. Ef nokkuð má ráða af miðdagsmatnum yðar í dag, liggur mér við að segja, að þér munið vera á góðum vegi með að ná yður aftur."

Alfonse hætti að gráta og fór að nudda á sér bakið.

„Monsieur," sagði hann, „hefir vafalaust þann tilgang að hugga mig, en hann er nokkuð þunghentur. Svo eg haldi áfram, þá unnumst við, og ást okkar gerði okkur bæði sæl. Fuglarnir í litlu hreiðrunum sínum gátu ekki verið ánægðari, en Alfonse og Annetta hans. Svo dundi ólánið á — já, slíkt og þvílíkt. Messieurs fyrirgefa mér, þó eg verði nú að þurka af mér tárin. Eg fékk eitt óheilla númerið; við hlutkestið kom á mig að fara í stríð. Forlögin voru að hefna sín á mér fyrir það, að eg skyldi hafa náð ást Annettu.

„Óheilla-stundin kom; eg varð að fara. Eg reyndi að strjúka, en hrottalegir hermenn náðu í mig,

og þeir börðu mig með sljóu endunum á byssustingjunum, þangað til yfirskeggið á mér hrökk saman af kvölum. Eg átti frænda, léreftssala, efnaðan, en mjög ljótan. Hann hafði verið heppinn í hlutkestinu, og hann kendi í brjósti um mig þegar þeir börðu mig. „Frændi minn, sagði eg", sagði eg, „frændi minn, í þínum æðum rennur blóð hetjunnar hans afa okkar, og þér fel eg Annettu á hendur. Vaktu yfir henni meðan eg leita mér frægðar á blóðugum vígvellinum."

„Vertu hughraustur," sagð hann; eg skal gera. Hann gerði það líka, eins þið munuð seinna fá að heyra."

„Eg fór. Eg lifði í hermannaskálum á svartri súpu. Eg er fíngerður maður og skáld að eðlisfari, og það voru sannar kvalir fyrir mig að þola allan ruddaskapinn kringum mig. Þar var sveitarforingi og hann hafði spansreyrstaf. Ó, sá spansreyrstafur, hvernig hann gat hlykkjast! Því er miður, því get eg aldrei gleymt.

„Einn morgun komu fréttirnar; minni herdeild var boðið að halda til Tonkin. Sveitarforinginn og aðrir hrottarnir þar voru í sjöunda himni. Eg—eg spurði mig fyrir um Tonkin. Það var ekki glæsilegt, sem eg frétti. Í Tonkin eru viltir Kínverjar, sem skera mann á kviðinn. Listamanns tilfinning mína—því að eg er listamaður—hrylti við að vera skorinn á kviðinn. Stórmennin eru ekki lengi að ráða við sig, hvað gera skuli. Eg réð af, hvað eg skyldi gera. Eg réð af að láta ekki skera á kviðinn á mér. Eg strauk.

„Eg bjóst dularklæðum og komst til Marseille í

gerfi gamals manns. Eg fór heim til frænda míns— þess sem hafði hetjublóð afa míns í æðum sínum— og þar sat Annetta. Þetta var í krisiberjatíðinni. Þau tóku tvöfaldan legg. Á báðum endum var krisiber. Frændi minn lét annað berið upp í sig, Annetta lét annað berið upp í sig. Svo drógu þau alt af meira og meira af leggnum upp í sig, þangað til varir þeirra mættust—og, því er miður að eg skúli þurfa að segja frá því—þau kysstust. Leikurinn var fallegur, en eg varð hamstola út af honum. Hetjublóð afa míns sauð í mér. Eg þaut inn í eldhúsið. Eg barði frænda minn með hækju gamla mannsins. Hann datt, eg hafði drepið hann. Því er miður, eg held eg hafi drepið hann. Annetta rak upp hljóð. Lögregluþjónarnir komu. Eg flýði. Eg komst til hafnarinnar. Eg faldi mig úti á skipi. Skipið lét í haf. Skipstjórinn fann mig og barði mig. Hann notaði sér tækifærið. Hann sendi bréf til almennings frá höfn einni erlendis. Hann setti mig ekki á land, af því að eg bjó til svo góðan mat. Eg var matreiðslumaður hans alla leiðina til Zanzibar. Þegar eg mæltist til að fá kaup, barði hann mig. Hetjublóð afa míns sauð í mér, og eg skók hnefann framan í hann, og hést við hann. Hann barði mig aftur. Í Zanzibar lá fyrir okkur hraðskeyti. Eg bölvaði þeim manni, sem fann upp telegrafinn. Nú bölva eg honum aftur. Eg átti að takast fastur fyrir strok úr herliðinu, fyrir morð, og hver veit hvað. Eg slapp úr dýflissunni, eg flýði, eg leið hungurskvalir. Eg hitti menn prestsins. Þeir fluttu mig hingað. Eg er hér með hjartað fult af sorg. En til

Frakklands fer eg ekki aftur. Betra er að leggja líf sitt í hættu á þssum voðalegu stöðvum, en að fara á galeiðurnar.“

Hann þagnaði, og við ætluðum nærri því að kafna af hlátri og urðum að lýta undan.

„Ó, þið eruð að gráta, messieurs,“ sagði hann. „Það er engin furða—þetta er sorgarsaga.“

„Það er ekki ómögulegt,“ sagði Sir Henry, „að hetjublóð afa yðar vinni sigur að lokum; hver veit nema þér verðið enn að miklum manni. Við skulum að minsta kosti lifa við vonina. Og nú legg eg það til, að við förum í rúmið. Eg er dauðþreyttur, og við fengum ekki mikinn svefn á bölvuðum klettinum í nótt.“

„Og það gerðum við, og mjög kynleg virtust okkur hreinu herbergin og hvítu rekkjuvoðirnar, eftir það sem við höfðum nýlega átt við að búa.

---

## V. KAPITULI.

### *Loforð Umslopogaass.*

Þegar við vorum að borða morguninn eftir saknaði eg Flossie og spurði, hvar hún væri.

„Eg skal segja ykkur,“ sagði móðir hennar, „þegar eg kom á fætur í morgun, fann eg úti fyrir dyrunum miða þar sem—ja, hérna er hann, þið getið lesið það sjálfir,“ og hún fékk mér miðann og var skrifað á hann það sem hér fylgir:

„Elsku M—,— það er rétt að byrja að birta og eg er að fara á stað til hæðanna til að sækja blóm, sem Mr. Q— langar til að fá; vonastu því ekki eftir mér fyr en þú sér mig. Eg tók hvíta asnann; og fóstra mín og tveir drengir fara með mér—líka ögn af mat, því skeð getur, að eg verði í burtu allan daginn, því eg hefi tekið í mig að ná þessu blómi, þó eg þurfi að fara eftir því tuttugu mílur. —Flossie."

„Eg vona að henni sé óhætt," tagði eg dálítið órólegur; „mér datt ekki í hug að hún færi að hafa fyrir að ná blóminu."

„Ó, Flossie er óhætt," sagði móðir hennar; „hún fer oft svona ein á burt, enda er hún sannarlegt barn óbygðanna." En Mr. Mackenzie, sem þá kom inn og sá miðann þá fyrst, sýndist nokkuð alvörugefinn, þó hann segði ekki neitt.

Þegar búið var að borða, kallaði eg á hann ofsíðis og spurði hann, hvort ekki væri hugsandi að veita Flossie eftirför og snúa henni til baka; mér datt sérstaklega í hug, að ske kynni að eitthvað af Masaiunum væri að slæðast þar í kring enn, og gæti henni orðið hætta búin af þeim.

„Það væri ekki til neins," svaraði hann. „Hún getur verið fimtán mílur í burtu nú, og svo er ómögulegt að vita, í hvaða átt hún hefir farið. Þarna eru hæðirnar," og hann benti á langa röð af hæðum, sem lágu hér um bil samhliða ánni Tana, en fóru smátt og smátt lækkandi niður að láglendinu, sem var þakið þéttum skógi eitthvað um fimm mílna fjarlægð frá húsinu.

Þá lagði eg til að við færum upp í stóra tréð yfir húsinu, og könnuðum landið í kring með sjónpípu, og það gerðum við, eftir að Mr. Mackenzie hafði lagt fyrir einhverja af mönnum sínum að reyna að rekja spor Flossie frá húsinu.

Það gekk nokkuð skrykkjótt ferðin upp tréð, jafnvel þó þar væri traustur kaðalstigi festur að ofan og neðan til að klifra eftir; það er að segja fyrir þá sem ekki voru sjómenn; en Good flaug upp eins hiklaust eins og það væri atvinna hans að kveikja á strætalömpum.

Þegar vð vorum komnir þangað upp sem geirnarnar skiftu sér, tók við pallur, búinn til úr borðum, og gengum við út á hann hiklaust. Þessi pallur var festur á milli greinanna og tók tíu til tólf manns. Um útsýnið það er það eitt að segja, að það var blátt áfram dýrðlegt. Í allar áttir var að sjá hið mikla skógahaf í sífeldum, stórkostlegum öldum á margra mílna svæði, eins langt og augað eygði í gegnum sjónpípum, og var að að eins aðskilið hér og þar með enn þá fagurgrænni raktuðum blettum, eða með yfirborði nokkra glitrandi vatna. Í norðvesturátt teygði Kenia upp sitt mikla höfuð og Tana áin sást liða sig eins og silfurslanga nærri því alla leið frá rótum fjallsins, og afarlangan á leið til sjóar. Landið er skínandi fagurt, hendur mentaðra manna er það eina, sem þarf til þess að það verði einnig hið arðsamasta.

En hvernig sem við horfðum, þá gátum við ekkert séð til ferða Flossie eða asnans hennar, svo við máttum fara ofan við svo búið. Þegar við komum

aftur heim á svalirnar, sat Umslopogaas þar og var í hægðum sínum að brýna öxina sína með ofurlitlu brýni, sem hann hafði æfinlega hjá sér.

„Hvað ert þú að gera, Umslopogaas?“ sagði eg.

„Eg finn lykt af blóði,“ svaraði hann; og meira hafði eg ekki út úr honum.

Eftir miðdagsverð fórum við aftur upp í tréð og rannsökuðum landið í kring með sjónpípu; en það varð árangurslaust. Þegar við komum ofan, var Umslopogaas enn að brýna Inkosikaas, jafnvel þó hún biti þegar eins vel og skegghnífur. Fyrir framan hann stóð Alfonse og virti hann fyrir sér bæði hræddur og eins og agndofa. Og hann var í sannleika nægilegt tilefni til að gera mann skelkaðan — sitjandi þar eins og aðrir *Zúlúar*, flötum beinum, með grimdarsvipinn á sínu vilta en um leið gáfulega andliti, brýnandi, brýnandi, brýnandi í sífellu þetta voðalega vopn.

„Þvílík ófreskja, þvílíkur viðbjóður af manni!“ sagði litli franzmaðurinn, og fórnaði upp höndunum í fáti. „Sjáið þið bara holuna í höfuðið á honum; skinnið dúar þar upp og niður eins og á barni. Hver ætli vildi verða til að leggja slíkt barn á brjóst?“ og hann rak upp hlátur að þessari hugmynd sinni.

Eitt augnablik leit Umslopogaas upp frá brýnslunni, og eins konar voðalegur glampi lék í augum hans.

„Hvað er litla „buffalo-kvígan“ að segja?“ (Það nafn gaf Umslopogaas Alfonse í tilefni af yfirskegg-

inu). „Hann má hafa sig hægan, annars hornskelli eg hann. Varaðu þig apinn þinn, varaðu þig!“

Til allrar ógæfu hélt Alfonse, sem þá var farinn að ná sér eftir hræðsluna, áfram að hlæja. Eg ætlaði rétt að fara að segja honum að hætta, þegar risavaxni *Zúlúinn* kom alt í einu þjótandi ofan af svölunum og fram á balann, þar sem Alfonse stóð; svipur hans brann af eins konar mannvonzkulegum ákafa, og hann fór að sveifla í hringsnúningum yfir höfðinu á Franzmanninum.

„Standið þér kyr,‘ hrópaði eg; „ef þér hrærið yður það minsta, þá kostar það líf yðar — hann meiðir yður ekki“; en eg efast um að Alfonse hafi heyrt orð mín, því, til allrar hamingju fyrir hann sjálfan, þá var hann nærri því orðinn að steini af hræðslu.

Svo hélt áfram sá einkennilegasti vopnaburður, sem eg hefi nokkurn tíma séð á æfi minni. Fyrst flaug öxin í hringum rétt fyrir ofan höfuðið á Alfonse með þeim feikna hraða, að hún sýndist eins og samanhangandi stálhringur, sem alt af færðist nær og nær höfuðkúpu hins dæmda manns, þangað til loksins hún snerti hana á fluginu. Þú urðu snögg umskifti á hreyfingunni, og öxin sýndist bókstaflega renn upp og ofan bak hans og limi, aldrei meira en áttunda part af þumlungi frá manninum, án þess þó nokkurn tíma að snerta hann. Það var undravert að sjá litla manninn standa þarna eins og staur. Hann virtist hafa séð það, að hreyfði hann sig, þá væri honum bráður bani vís, svo lengi sem hinn svarti kvalari hans gnæfði þannig yfir hann og sveiflaði öxinni utan um hann. Þannig hélt þessu áfram eina mínútu eða lengur,

þangað til eg alt í einu sá axarblaðið skjótast niður með vanganum á Alfonse og svo út á við og svo nam það staðar. Meðan á þessu síðasta atviki stóð, sá eg topp af einhverju detta niður; það var annar endinn af hrokkna yfirskegginu á litla Franzmanninum.

Umslopagaas studdist fram á axarskaftið sitt og rak upp langan, djúpan hlátur; Alfonse hneig niður á völlinn yfirkominn af hræðslu, en við stóðum undrandi yfir þessari, næstum því yfirnáttúrlegu íþrótt, þessum ágæta vopnaburði. „Inkosi kaas er beitt núna," hrópaði hann; „höggið, sem stífði hornið af „Buffalo-kvígunni" hefði getað klofið hvaða höfuð sem er niður í höku. Fáir hefðu getað höggvið eins og eg gerði; enginn hefði getað það án þess að taka öxlina með. Heyrðu, kvígan þín! Hvernig þykir þér það borga sig, að hlæja að mér? Um nokkra stund hefir ekki verið hársbreidd milli þín og dauðans. Farðu ekki að hlæja aftur, annars kynni þetta millibil að verða enn minna. Eg hefi lokið máli mínu."

„Hvað vakir fyrir þér með þessum skammarstrykum ", spurði eg Umslopogaas gremjulgea. „Þú hlýtur að vera tryltur. Tuttugu sinnum varstu nærri búinn að höggva manninn í sundur."

„En samt, Macumazahn, hjó eg hann ekki. Þrisvar sinnum braust í mér að súta honum og láta öxina klúfa á honum haustkúpuna; en eg gerði það ekki. Nei, það var að eins í gamni; en segðu samt „kvígunni" að það sé betra að vera ekki að spotta menn eins og mig. Nú fer eg að búa til skjöld, því eg finn lykt af blóði, Macumazahn — sannarlega finn eg blóðlykt. Hefir þú ekki tekið eftir því, að á

undan stríðum fjölga hræfuglarnir skyndilega í loftinu yfir þeim stöðvum? Þeir finna blóðlykt, Macumazahn, og mín lyktnæmi er skarpari en þeirra. Þarna niður frá er hörð uxahúð; eg fer og bý til skjöld."

„Hann er nokkuð óviðfeldinn þessi þjónn yðar," sagði Mr. Mackenzie, sem hafði horft á allan leikinn. „Hann er búinn að hræða alt vit úr Alfonse; sko!" og hann benti á franzmanninn, sem var að dragast inn í húsið náfölur af hræðslu og með skjálfandi limi. „Eg held naumast að hann hlægi oftar að „le monsieur noir".

„Já," svaraði eg, „hann er ekki maður til að glettast við. Þegar hann er ertur upp, þá er hann reglulegt fól, en hjartagóður er hann upp á sinn hrikalega máta. Eg man eftir því, að fyrir mörgum árum síðan annaðist hann veikt barn í viku. Hann er einkennilegur maður tryggur, eins og stál og mesti máttarstólpi að byggja á, þegar hætta er á ferðum."

„Hann segist finna lykt af blóði," sagði Mr. Mackenzie. „Eg vona að því sé ekki svo varið. Eg er orðinn mjög smeikur um telpuna mína. Hún hlýtur að hafa farið langt, annars væri hún komin nú. Klukkan er hálf fjögur."

Eg benti honum á að hún hefði tekið nesti með sér, og mundi að öllum líkindum ekki koma fyr en með kveldinu; en sjálfur var eg mjög órólegur, og eg er hræddur um að eg hafi ekki getað leynt því.

Litlu síðar, komu aftur mennirnir, sem Mr. Mackenzie hafði sent til að veita Flossie eftirför, og

sögðust hafa rakið spor asnans tvær mílur, en þá höfðu þeir mist af þeim á melum nokkrum, og ekki getað fundið þau aftur. Engu að síður höfðu þeir kannað stórt svæði þar í kring, en alt varð það árangurslaust.

Eftir þetta leið seinni partur dagsins mjög þegjandalega, og þegar fór að kvelda og ekkert sást til ferða Flossie , fórum við að verða mjög hræddir. Vesalings móðirin var öldungis yfirkomin af hræðslu, sem ekki var furða, en faðirinn hélt sér furðanlega vel. Ekkert var látið óreynt sem hægt var að gera: fólk var sent út í allar áttir, það var farið að skjóta, og stöðugt var haldinn vörður uppi í trénu, en alt kom fyrir eitt.

Og að síðustu varð dimmt, og enn engin frétt um litlu, ljóshærðu Flossie.

Klukkan átta borðuðum við kveldverð. Það var regluleg sorgarmáltíð, og Mrs. Mackenzie lét ekki sjá sig þar. Við þessir þrír vorum líka mjög hljóðsjá, því ofán á það sem við vorum eðlilega hræddir um barnið, þá vorum við líka niðurbeygðir af meðvitundinni um það, að okkar góða velgerðamanni stæði þessi ógæfa af okkur. Þegar máltíðin var nær því á enda, fór eg frá borðinu og gaf fyrir því einhverja afsökun. Mig langaði til að komast út og hugsa um þetta alt í næði. Eg fór út á svalirnar og eftir að hafa kveikt í pípunni minni settist eg niður svo sem tólf fet frá húsendanum hægra megin, sem var eins og lesarann mun reka minni til, beint andspænis einum mjóu dyrunum á varnargarðinum, sem lukti um húsið og blómagarðinn. Eg

hafði setið þar svo sem sex eða sjö mínútur, þegar mér fanst sem eg heyra hurðina færast til. Eg horfði í áttina þangað og hlustaði, en af því eg varð einskis var, þá hugði eg að þetta hefði verið misheyrn. Nóttin var koldimm, tunglið var ókomið upp.

Önnur mínúta leið, og alt í einu hentist eitthvað hnöttótt ofan á steinstéttina og valt fram hjá mér, þar sem eg sat. Eitt augnablik sat eg kyr og hugsaði um, hvað þetta gæti verið. Loksins komst eg að þeirri niðurstöðu, að það hlyti að vera eitthvert kvikindi. En samt flaug mér nú alt í einu annað í hug, og þá var eg ekki lengi að stökkva á fætur. Þetta lá grafkyrt fá fet frá mér. Eg teygði niður höndina í áttina til þess og það rótaðist ekki. Skepna var það ekki, svo mikið var víst. Eg snerti það. Það var mjúkt, volgt og þungt. Í snatri greip eg það upp og hélt því upp að skýmunni af stjörnunum.

*Það var ný afhöggvið mannshöfuð!*

Eg er gamall í hettunni og ekki fljótur til að æðrast, en eg verð að kannast við það að mér varð ilt við þessa viðbjóðslegu sjón. Hvernig hafði það komið þangað? Og af hverjum var það? Eg lagði það niður aftur og hljóp út að litlu dyrunum. Eg gat ekkert séð, ekkert heyrt. Eg var nærri þotinn á stað út í myrkrið, en þegar eg mundi eftir því, að það var að stofna sér sjálfum í hættu við að verða rekinn í gegn, vék eg mér til baka, lokaði hliðinu og setti slagbranda fyrir hurðina. Svo fór eg aftur upp á svalirnar, og kallaði á Curtis með eins stilli-

legum rómi og eg átti til. En samt er eg hræddur um að röddin hafi komið upp um mig, því ekki einungis Sir Curtis, heldur líka Good og Mr. Mackenzie komu hlaupandi út frá borðinu.

„Hvað er um að vera?“ sagði presturinn með ákafa.

Eg varð að segja þeim það.

Mr. Mackenzie varð fölur sem nár. Við stóðum beint á móti forstofudyrunum, og þar var ljós inni, svo eg gat séð þetta. Hann þreif höfuðið upp á hárinu, og hélt því upp að birtunni.

„Þetta er höfuðið af einum manninum, sem fór með Flossie,“ sagði hann. „Guði sé lof að það er ekki höfuðið af henni!“

Þarna stóðum við allir og störðum hver á annan. Hvað gátum við gert

Í sama bili var barið á dyrnar, sem eg hafði lokað, og rödd kallaði: „Ljúktu upp, faðir minn, ljúktu upp.“

Dyrunum var lokið upp og inn hljóp maður óður af hræðslu. Hann var einn af njósnarmönnunum, sem sendir voru út um daginn.

„Faðir minn,“ hljóðaði hann, „Masaiarnir umkringja okkur! Stór flokkur þeirra fór kringum hæðina og stefndi á gamla steinþorpið niður við litlu ána. Faðir minn, vertu hughraustur! Í miðjum hópnum sá eg hvíta asnann, og á honum sat Vatnsliljan (Flossie). Elmoran einn,(ungur bardagamaður) teymdi asnann, og við hlið hans gekk fóstran grátandi. Mennina, sem fóru með henni í morgun, sá eg ekki.“

„Var barnið lifandi?“ spurði Mr. Mackenzie, með hásum rómi.

„Það gekk ekkert að henni, faðir minn, en hvít var hún eins og snjór. Þeir fóru rétt hjá mér, þar sem eg faldi mig, og þegar eg leit upp þaðan, sá eg andlit hennar bera við loft.“

„Guð hjálpi henni og okkur!“ andvarpaði presturinn.

„Hvað eru þeir margir?“ spurði eg.

„Meira en tvö hundruð — tvö hundruð og hálft hundrað.“

Einu sinni enn horfðum við hver á annan. Hvað átti til bragðs að taka? Og um leið heyrðist hátt, ákefðarhljóð fyrir utan virkisvegginn.

„Opnið þið dyrnar, hvítu menn. Opnið þið dyrnar! Kallari—kallari til að tala við ykkur.“ Þetta var kallað fyrir utan.

Umslopogaas hljóp út að veggnum; hann náði upp á brúnina með löngu handleggjunum og lyfti sér upp og gægðist yfir garðinn.

„Eg sé að eins einn mann,“ sagði hann. „Hann er vopnaður og ber körfu á handleggnum.“

„Við skulum ljúka upp,“ sagði eg, „Umslopogaas, taktu öxina þína og vertu hjá dyrnum. Lofaðu einum manni inn. Ef annar kemur á eftir, þá skaltu nota öxina.“

Lokan var dregin frá. Í skugganum af veggnum stóð Umslopogaas, með öxina reidda til höggs. Í sama bili rann tunglið upp.

Svo varð augnabliks þögn, og inn stikaði Masaiani í fullum hertýgjum eins og eg hefi lýst, og með

stóra körfu á handleggnum. Tunglið sló björtum glampa á spjótið hans, þegar hann gekk inn. Hann var ljómandi vel vaxinn maður, og sýndist vera 35 ára gamall. Sannleikurinn er sá, að enginn Masai anna, sem eg hefi séð, var minna en sex feta hár, þó þeir væru flestir kornungir. Þegar hann var kominn beint á móti okkur, nam hann staðar, setti niður körfuna, og stakk spjótsoddinum niður í jörðina, svo það stóð þar fast.

„Látum okkur talast við,“ sagði hann. „Sá sem við sendum til yðar fyrst gat ekki talað“; og hann benti á höfuðið, sem lá þar á stéttinni — draugaleg sjón í tunglsljósinu; „en eg hefi orð við ykkru að tala, ef þið hafið eyru til að heyra. Líka hefi eg hér gjafir,“ og um leið benti hann ákörfuna og hló, með svo hrokalegri ósvífni að slíku verður ekki lýst, en maður gat ekki annað en dáðst að því, þegar þess er gætt, að hann var umkringdur af óvinum sínum.

„Talaðu,“ sagði Mr. Mackenzie.

„Eg er foringi fyrir mikill hermannasveit af Masaiunum. Eg veitti með mönnum mínum eftirför þessum þremur hvítu mönnum,“ og hann benti á Sir Henry, Good og mig, „en við sáum ekki við þeim, svo þeir sluppu undan okkur hingað. Okkur er illa við þá og við ætlum að drepa þá.“

„Er það, það sem þið ætlið ykkur, kunningi?“ sagði eg svona við sjálfan mig.

„Í morgun náðum við tveimur svörtum mönnum, þegar við vorum að elta þessa menn, einni svartri konu, hvítum asna og hvítri stúlku. Annan

svertingjann drápum við — þarna er höfuðið af honum á steinstéttinni; hinn flúði. Svörtu konuna, hvítu stúlkuna og hvíta asnann tókum við með okk- hún hafði með sér. Er þetta ekki karfa dóttur þinnar?“

Mr. Mackenzie hneigði höfuðið til samþykkis, og hermaðurinn hélt áfram.

„Gott og vel! Við þig og dóttur þína eigum við engar sakir, og æskjum ekki eftir að gera ykkur neitt mein, nema hvað nautgripina þína snertir, þeim erum við þegar búnir að safna saman, tvö hundruð og fjörutíu að tölu — einn gripur fyrir föður hvers eins af okkur.“*

Mr. Mackenzie stundi við, þegar hann heyrði þetta, því honum þótti sérlega vænt um nautgripahjörð sína, sem hann hafði sjálfur alið upp með mikilli um hyggju ogfyrirhöfn.

„Þess vegna látum við þig sleppa alveg óáreittan, nema hvað við tökum þessa nautgripi; og það því fremur,“ bætti hann við ofur einlæglega og leit á varnargarðinn, „sem þessi staður mundi reynast torsóttur. En hvað þessa menn snertir, er öðru máli að gegna. Við höfum veitt þeim eftirför í átta daga og verðum að drepa þá. Ættum við að snúa aftur til heimila okkar án þess að hafa gert það, þá mundu allar stúlkurnar hafa okkur í logandi háði. Þess vegna verða þeir að deyja, hvað mikið sem við kunnum að þurfa að hafa fyrir því.

---

*) Masai hermennirnir mega sjálfir ekkert eiga, svo að alt þeirra herfang tilheyrir feðrum þeirra.

„Nú hefi eg tilboð að gera þér. Við viljum ekki gera litlu stúlkunni mein; hún er svo falleg, og er þar að auki huguð. Framseldu einn af þessum þremur — þá skulum við skila þér henni, og kasta ofan á svörtu konunni, sem með henni er. Þetta er sanngjarnt tilboð, hvíti maður. Við biðjum að eins um einn ekki um þrjá; við verðum að sæta öðru lagi til að drepa hina tvo. Eg skal ekki einu sinni velja manninn, þó eg vildi helst þann stóra,“ og hann benti á Sir Henry; „hann lýtur hraustlega út, og yrði lengur að deyja.“

„En ef eg segi að eg gefi ekki upp manninn?“ sagði Mr. Mackenzie.

„Nei, segðu það ekki hvíti maður,“ sagði Masaiinn, „því þá deyr dóttir þín með birtu í fyrra málið, og konan, sem með henni er, segir að hún sé einkabarn þitt; ef hún vær eldri þá tæki eg hana í mína þjónustu; en af því hún er svo ung, þá drep eg hana sjálfur með minni eigin hendi — já einmitt með þessu spjóti. Þú getur komið og horft á það, og það muntu líka gera. Eg skal annast þig þangað óhultan;“ og manndjöfullinn hló hátt að sínu viðbjóðslega glensi.

Meðan á þessu stóð hafði eg hugsað af kappi, eins og maður gerir þegar í nauðirnar rekur,, og eg hafði komist að þeirri niðurstöðu, að eg skyldi skifta mínu eigin lífi fyrir Flossie. Mér fellur illa að geta um það, því eg óttast að það verði misskilið. Eg óska að enginn láti sér verða það, að skoða þetta sem hugrekki, eða halda um það neina slíka vitleysu. Það var ekkert annað en skynsemi mín og sanngirni,

sem því réði. Líf mitt var gamalt og einskis virði, hennar var ungt og mikilsvirði. Hennar dauði hefði að líkindum kostað líf föður og móður, þar sem allir hefðu staðið jafnréttir, þó eg hefði fallið frá; meira að segja, margar guðspakka stofnanir hefðu haft ástæðu til að gleðjast af því. Það var óbeinlínis mér að kenna að blessuð litla telpan var í þessari hættu stödd. Og svo að síðustu var karlmaður betur bygður til að þola þvílíkan skelfingar dauða heldur en viðkvæm og veikbygð unglings stúlka. Ekki svo að skilja, að eg ætli að láta þessa herra kvelja úr mér lífið, eg er alt of mikil bleyða til þess, því í rauninni er eg huglítill maður; mitt áform var að láta þá afhenda hana í skiftum fyrir mig,og svo að skjóta mig, treystandi því að guð almáttugur mundi taka hin sérstöku atvik, sem að því verki lutu, til greina og fyrirgefa mér tiltækið. Alt þetta og margt annað þaut í gegn um huga minn á mjög fáum sekúndum.

„Gott og vel, Mackenzie,“ sagði eg. „Segið þér honum að eg skuli skifta mér fyrir Flossie, að eins áskil eg mér það, að hún verði komin heil á hófi inn í þetta hús áður en þeir drepa mig.“

„Hvað?“ sögðu þeir Sir Henry og Good báðir í einu. „Það verður ekki af því.“

„Nei, nei,“ sagði Mr. Mackenzie. „Eg vil ekki rjóða hendur mínar i blóði nokkurs manns. Ef guði þóknast að láta dóttur mína deyja þessum hörmulega dauða, þá verði hans vilji. Þér eruð hugdjarfur maður“ (því fer fjarri að eg sé það) „og göfuglyndur, Mr. Quatermain, en yðar boð tek eg ekki.“

„Ef ekki koma upp nein ný ráð, þá fer eg,“ sagði eg alvarlega.

„Þetta er mikilsvert mál,“ sagði Mr. Mackenzie, og sneri sér að sendimanninum, „og við verðum að hugsa okkur um. Við skulum gefa svar með birtu í fyrra málið.“

„Gott og vel, hvíti maður,“ svaraði villimaðurinn kæruleysislega; „en mundu það, að komi svarið of seint, þá springur hvíti blómknappurinn þinn aldrei út, því skal eg lofa þér; því með þessu spjóti skal eg sjálfur skera hann í sundur. Eg hefði óttast að þú svikir mig og gerðir áhlaup á okkur í nótt, en konan sem var með dóttur þinni, sagði mér að menn þínir væru í ferð niður á strönd, og að þú hefðir ekki nema um tuttugu hér heima. Það er óvarlegt, hvíti maður,“ bætti hann við hlæjandi, „að hafa heimilið svo illa liðað. Jæja, góða nótt, og góða nótt líka, þið hvítu menn; eg skal bráðum loka augum ykkar fyrir fult og alt. Í birtingunni fæ eg orð frá þér. Ef það verður ekki, þá mundu, að það verður efnt, sem eg hefi heitið.“ Og hann sneri sér að Umslopagaas, sem alt af hafði staðið fyrir aftan hann og horft á hann vandlega, „ljúktu upp dyrunum fyrir mig, þú þarna, fljótt nú.“

Þetta var of mikið fyrir þolgæði gamla herforingjans. Seinustu tíu mínúturnar hafði honum verið nóg boðið, og þetta fór alveg með hann. Hann þreif óþyrmilega í öxl Masaians og gerði á hann snöggan snúning, svo þeir horfðust í augu. Svo óð hann fram að honum, svo að á milli andlitanna á

þeim voru að eins fáir þumlungar, og sagði í lágum og grimmilegum rómi:

„Sér þú mig “

„Já, eg sé þig, kunningi.“

„Og sér þú þessa?“ og hann hélt Inkosi-kaas upp að augum hans.

„Já, kunningi, eg sé leikfangið; hvers vegna spyr þú að því?“

„Þú, Masaiahundur, þú gortandi vindbelgur, þú sem ræðst á og hertekur smámeyjar, með þessu leikfangi skal eg lima þig í sundur. Þér vill það til lífs, að þú ert sendimaður, því annars skyldi eg nú þegar dreifa limum þínum sínum í hverja áttina.“

Masai-inn hristi stóra spjótið sitt og hló langan og háan hlátur og svaraði. „Eg vildi við mættum hver öðrum á vígvellinum, og þá skyldum við sjá,“ og aftur sneri hann sér við og bjóst til að fara, hlæjandi sem áður.

„Vertu viss, að við skulum eigast við,‘ sagði Umslopagaas, með sömu grimdarröddinni. „Þú skalt fá að mæta Umslopagaas af Chaka ættinni, Amazulu þjóðinni, foringja fyrir Nkomabakosi herdeildinni, eins og margir hafa áður gert. Já, þú mátt hlæja! annað kveld skulu úlfarnir hlæjandi bryðja rifin úr skrokknum á þér.“

Þegar sendimaðurinn var farinn, flaug einhverjum okkar í hug að opna körfuna, sem hann hafði komið með til sannindamerkis um það, að Flossie væri hjá þeim í varðhaldi. Þegar lokið var tekið af henni, sáum við að karfan hafði að geyma hið fegursta úrval bæði af rótum og blómi Goya-lilj-

unnar, sem eg hefi þegar lýst í sínu fegursta skrauti og óskemt með öllu, og það sem meira var, bréfmiða með hennar barnslegu hendi. Hann var skrifaður með ritblýi á velktan lappa, sem hún hafði haft utan umnesti sitt þegar hún fór:

„Elsku pabbi og mamma,“ þannig hljóðaði bréfið, — „Masaiarnir náðu okkur, þegar við vorum á heimleiðinni með liljuna. Eg reyndi að komast undan, en gat það ekki. Þeir drápu Tom; hinn maðurinn flúði. Þeir hafa ekki gert mér né fóstru minni neitt mein, en þeir segjast ætla að skifta okkur fyrir einn Mr. Quatermains manna. Eg aftek það með öllu. Láttu engan leggja líf sitt út fyrir mig. Reynið að gera áhlaup á þá í nótt; þeir ætla að halda sér veizlu af þremur nautum, sem þeir hafa stolið og drepið. Eg hefi skammbyssuna mína, og ef engin hjálp verður komin þegar fer að birta í fyrra málið, þá ætla eg að skjóta mig sjálf. Ekki skulu þeir drepa mig. Ef svo fer, þá gleymið mér aldrei, elsku pabbi og mamma. Eg er fjarska hrædd en eg treysti guði. Eg þori ekki að skrifa meira, því þeir eru byrjaðir að veita því eftirtekt. Verið þið sæl. — Flossie.“

Út á röðinni var þetta hripað: „Heilsið Mr. Quatermain. Þeir ætla að taka körfuna mína með sér, svo hann fær liljuna sína..“

Þegar eg las þetta, sem skrifað hafði þessi hugrakka stúlka, stödd í þvílíkri voðahættu, að í hennar sporum hefði margur hraustur karlmaður tapað sér, þá verð eg að játa að eg grét, og einu sinni enn sór

eg í hjarta mínu, að hún skyldi ekki deyja, svo framarlega sem mitt líf gengi til að bjarga henni.

Strax þarna á eftir fórum við fyrir alvöru, og nærri því í ofboði að ræða um öll þessi vandræði. Aftur sagðist eg vilja fara og aftur neitaði Mackenzie því, og Curtis og Good, eins og við var að búast af þeim, sóru það, að ef eg færi, þá færu þeir líka og stæðu og féllu með mér.

Á endanum sagði eg, að alveg nauðsynlegt væri að einhver tilraun væri gerð fyrir morguninn.

„Við skulum þá fara og ráðast á þá með þeim litla krafti, sem við höfum yfir að ráða,“ sagði Sir Henry.

„Já, auðvitað,“ tautaði Umslopagaas á *Zúlúa*máli; „þetta er mannlega mælt, Incubu. Við hvað ætti maður að vera hræddur? Tvö hundruð og fimtíu Masaianar, auðvitað! En hvað erum við margir? Foringinn hérna — Mr. Mackenzie — hefir tuttugu, og þú, Macumazahn, hefir fimm, og svo eru þar að auki fimm menn hvítir — það gerir þrjátíu menn í alt — það er nóg, það er nóg. Heyrðu nú, Macumazahn, þú, sem ert séður og vanur orustum. Hvað segir mærin? Þessir menn éta og skemta sér; við skulum láta það verða þeirra útfararminni. Hvað sagði hundurinn, sem eg vonast eftir að höggva niður með morgni? Að hann hræddist ekki áhlaup af okkur, af því að við værum svo fáir. Þekkir þú gamla bústaðinn þar sem þeir hafa sezt að? Eg sá hann í morgun; hann er svona“, og hann markaði sporöskjulagaðan hring á gólfið; „hér er aðal inngangurinn, byrgður með þyrnihríslum og út úr

dyrunum er að fara upp á háa tröppu. Nú, nú, In-cubu, þú og eg með axir getum varið hundrað mönnum útgöngu þar! Sjáið þið nú til; svona skal slagurinn ganga. Rétt þegar dagskíman fer að glampa á hornum nautgripanna, — ekki fyr, því þá er of dimt, og ekki seinna, því ella mundu þeir verða vakn-aðir og verða okkar varir — skal Bougwan læðast með tíu menn að efri endanum á byggingunni, þar sem mjói inngangurinn er. Varðmanninn þar skulu þeir drepa svo hljóðlega, að enginn heyri til og bíða svo reiðubúnir. Þú, Incubu, eg og einn hermaður (Askari) — sá með breiðu bringuna— hann er hug-aður maður — skulum læðast að breiða inngangin-um, sem fyltur er þyrninum, og drepa vörðinn þar líka, og með axir okkar búast um einn á hvora hlið við dyrnar, og einn lítinn spöl frá til að sinna þeim, sem ganga úr greipum tvímenninganna við dyrnar. Þar er það sem mest verður aðsóknin. Þá eru eftir sextán menn. Skiftum þeim í tvo flokka og skalt þú verða með öðrum þeirra, Macumazahn, og „bæna-maðurinn“ (Mr. Mackenzie) „með hin-um, og allir hafa byssur og fara sinn hópurinn á hvora hlið hússins; og svo þegar þú, Macumazahn, drynur eins og naut, skulu allir hleypa af byssunum á mennina sofandi, en gæta þó allrar varúðar með að hitta ekki litlu stúlkuna. Og þá skal Bougwan við hinn endann hefja sitt heróp, stökkva yfir vegg-inn og sækja að Masaiunum með sverðum. Og sú raun skal á verða, að hermennirnir, þunglamalegir af ofáti og svefni, og ringlaðir og óðir af byssuskotun-um, mannfallinu og Bougwans spjótum, þjóta og

ryðjast eins og villidýr að þyrnifylta útganginum, og þar skulu kúlurnar frá báðum hliðum smjúga í gegn um þá, og þar fyrir utan skal Incubu, Askarinn og eg sjálfur vera til taks fyrir þá, sem brjótast út. Þetta er mitt ráð, Macumazahn; hafir þú betra, þá láttu okkur heyra.“

Þegar hann var búinn, útlistaði eg fyrir hinum það, sem þeir ekki höfðu skilið, og fylgdust þeir allir með mér í því, að láta í ljósi hina mestu aðdáun yfir því sniðuga og haganlega prógrammi, sem gamli *Z*úlúinn hafði búið til, sem í sannleika var,upp á sinn vilta máta, sá bezti herforingi, sem eg hefi nokkurn tíma þekt. Eftir að þetta hafði verið rætt um hríð, staðréðum við að fallast á þetta ráð, eins og það var gefið, sem verandi það eina mögulega undir kringumstæðunum, og gefandi þá einu von um góðan enda á vandræðunum, sem var, alt fyrir það, þegar litið var á liðsmuninn og hverjir fjandmenn okkar voru, í veikasta lagi.

„Og þú, gamla ljón,“ sagði eg við Umslopagaas, „þú veizt hvernig þú átt að bíða eftir tækifærinu, og að nota það þegar það kemur, þú veizt hvar á að ná takinu og hvernig á að halda því.“

„Svo er það, Macumazahn,“ svaraði hann. „Í þrjátíu ár hefi eg í bardögum verið, og hefi margt séð. Þetta verður fallegur slagur. Eg finn blóðlykt, skal eg segja þér, eg finn blóðlykt.“

---

## VI. KAPITULI.

*Nóttin líður.*

Eins og við mátti búast, þá hafði þessi eini Masaii, sem kom, þau áhrif á alt fólkið á trúboðaheimilinu, að það leitaði hælis fyrir innan hinn mikla varnargarð, og mátti nú sjá menn, konur og óteljandi urmul af börnum — sem hafði hypjað sig saman í smáhópa, og talaði alt í einu með skjálfandi rödd um Masaianna voðalegu hætti og grimd, og um það, hvers þeir mættu vænta frá þessum blóðþyrstu vörgum, ef þeim tækist að komast inn yfir steinvegginn.

Jafnskjótt sem við höfðum komið okkur saman um, hvernig við skyldum framfylgja ráði Umslopagaas, kallaði Mr. Mackenzie fyrir sig fjóra skynuga drengi frá 12 til 15 ára gamla og sendi þá á ýmsa staði þar sem þeir gátu séð til Masaianna, og áttu svo að láta hann vita við og við, hvernig þeir höguðu sér. Öðrum drengjum, og jafnvel stúlkum, var raðað eftir steinveggnum til þess að þeir gætu ekki komið að okkur óvörum.

Þar næst kallaði Mr. Mackenzie þessa sína tuttugu vopnfæru menn saman á ferhyrntu flötina, sem

myndaðist af húsinu, sjálfur stóð hann hjá stóra trénu og ávarpaði þá svo og Askarana fjóra, sem með okkur voru, mjög alvarlega. Það var sannarlega áhrifamikil sjón — sjón, sem ekki er líkleg að gleymast neinum, sem viðstaddur var. Fast hjá trénu stóð Mr. Mackenzie, berhöfðaður, með útrétta aðra hendina, um leið og hann talaði, hinni studdi hann við tréð, og mátti lesa út úr hans góðmannlega andliti hvað heitt honum var innanbrjósts. Næst honum sat veslngs konan hans í stól, og hélt höndunum fyrir andliti sér. Við hina hliðina á henni stóð Alfonse, og var svo að sjá sem honum liði mjög illa, og á bak við hann stóðum við þrír með Umslopagaas geigvænlegu og risavöxnu mynd þar aftur af, styðjand sig eins og vant var fram á öxina sína. Framundan stóð og sat þessi hópur af vopnuðum mönnum —sumir með byssur , höndunum, aðrir með sverð og skildi — og veittu nákvæma athygli hverju orði, sem kom frá vörum ræðumannsins. Hvíta tunglsljósið, sem gægðist inn fyrir neðan útbreidda limið á stóra trénu kastaði kynlegum og óviðfeldnum töfra-glampa á sjónarsviðið, og ömurlegi niðurinn í næturgolunni sló á leið sinni fram á milli miljóna af fururenglum fyrir ofan höfuðið á okkur sinni eigin raunasögu inn í þetta, sem þegar var fullkomin sorgarathöfn.

„Menn,“ sagði Mr. Mackenzie, þegar hann var búinn að útskýra alla málavexti fyrir þeim, og þau úrræði, sem okkar veika von væri bygð á — „menn, svo árum skiftir hefi eg verið góður vinur ykkar, varið ykkur, kent ykkur, gætt ykkar við öllum slysum, og ykkur hefir vegnað vel hjá mér. Þið hafið séð

barnið mitt, Vatns-liljuna, sem þið kallið — vaxa ár frá ári, frá því hún var ungbarn, og alt til þessa tíma. Hún hefir leikið sér með börnum ykkar og í veikindum ykkar hefir hún hjálpað til að hjúkra að ykkur, og þið hafið elskað hana.“

„Það höfum við gert,“ sagði þung rödd, „og við skulum leggja lífið í sölurnar fyrir hana.“

„Eg er yður af hjarta þakklátur. Eg er þess fullviss að nú, á þessum hörmunganna tíma, nú þegar viðbúið er að hennar unga lífi verði tortýnt af tilfinningalausum og viltum mönnum — sem í sannleika vita ekki hvað þeir gera — þá munið þér gera ykkar ýtrasta til að bjarga henni, og forða mér og móður hennar frá því að deyja af sorg og hugarangri. Hugsið líka um ykkar eigin konur og börn. Verði hún drepin, þá fylgir það með að áhlaup verður gert á okkur hér, og þó við kynnum að geta varið okkar eigið, þá yrðu þó hús ykkar og garðar eyðilögð og fénaður ykkar og munir teknir af ykkur. Eg er eins og þið allir vitið, maður friðsamur. Aldrei hefi eg öll þessi ár rétt hönd mína út til að úthella blóði nokkurs manns; en nú segi eg: berjumst, berjumst í nafni guðs, sem boðið hefir okkur að verja líf okkar og heimili. Vinnið eið,“ hélt hann áfram með enn meiri ákafa, „vinnið þess eið, á meðan nokkur ykkar stendur uppi lifandi, þá skulið þið gera ykkar ýtrasta með mér og þessum hugdjörfu, hvítu mönnum að forða barninu mínu frá hryllilegum skelfingar dauða.“

„Segðu ekkert meira, faðir minn,“ sagði sama djúpa röddin, sem tilheyrði hraustlegum öldungi, er

hafði látið kristnast; „við sverjum það. Deyjum við þá allir eins og hundar, og verði beinum okkar kastað fyrir úlfa og erni, ef við rjúfum þann eið! Það er óaðgengilegt, faðir minn, fyrir svo fáa, að sækja að jafn mörgum, en það skulum við gera, þó að það kosti okkur lífið. Við sverjum það.“

„Já, það sama segjum við allir,‘ kváðu við hinir.

„Og það sama segjum við,“ sagði eg.

„Gott er það,“ sagði Mr. Mackenzie. „Þið eruð menn trúir og áreiðanlegir. Og vinir mínir — hvítir og svartir til samans — látum okkur falla fram í auðmjúkri bæn fyrir hástól drottins, og biðja hann, sem hefir líf okkar í hendi sér, hann, sem ræður yfir lífi og dauða, að gera okkar hendur sterkar, svo við megum koma fram því, sem fyrir okkur liggur, þegar næsti dagur rennur.“

Og hann kraup niður, og fylgdum við allir því dæmi, nema Umslopagaas, sem enn stóð þar á bak við og studdist upp við Inkosi-kaas. Gamli vilti *Zúlúinn* hafði enga guði, og trúði ekki á neitt, nema ef vera skyldi á bardaga-öxina sína.

„Ó, guðanna guð!“ byrjaði presturinn, með djúpri röddu, sem bergmálaði í þögninni jafnvel upp í sjálfa laufskála hvelfinguna; „verndari þeirra kúguðu, hæli þeirra sem í háskanum eru, vörn þeirra hjálparlausu, heyr þú vorar bænir! Almáttugi faðir til þín leitum vér í neyðinni. Heyr þú vorar bænir! Sjá, eitt barn hefir þú gefið okkur — saklaust barn, uppalið í þínum ótta — sem nú bíður voðalegs dauðdaga, undir uppreiddu sverði grimdarfullra

manna. Vertu með henni nú, ó, guð, og huggaðu hana! Frelsaðu hana, himneski faðir! Ó, bardaganna guð, sem kent hefir oss að stríða og gefið höndum vorum kraft til bardaga, þú sem hefir í hendi þinni forlög mannanna, vertu með oss í stríðinu. Þegar vér göngum fram á móti dauðanum, styrktu oss þá til sigurs. Andaðu á óvinina, svo þeir sundrist; gerðu afl þeirra sem vatn og láttu þeirra uppæsta kroka að engu verða; leiddu oss þér við hönd; haltu yfir oss skildi þíns almættis; gleymdu oss ekki nú á tímum hörmunganna; hjálpaðu oss gegn illræðismönnunum, sem mundu slá börnum vorum upp við steina! Heyr vora bæn! Og vér biðjum fyrir þeim af oss, sem nú falla fram fyrir þig í fullu fjör, en eiga á næsta morgni að koma fram fyrir þitt hásæti; heyr vora bæn! Hreinsaðu þá, ó, guð, þvoðu burt í lambsins blóði þeirra misgerðir; og þegar þeirra sálir fara út af líkamanum, ó, meðtaktu þær þá, inn á friðarins höfn. Fylg þú oss, ó faðir, fylg þú oss út í orustuna, eins og Ísraelsþjóðinni forðum. Ó, almáttugi guð, heyr þú vora bæn.“

Hann þagnaði, og eftir augnabliks þögn fórum við að búa okkur út fyrir alvöru. Eins og Umslopagaas sagði, þá var orðið mál að hætta „þvaðrinu“ og fara að taka til starfa. Mennirnir, sem áttu að vera í hvorum flokki, voru vandlega valdir, og með enn meiri nákvæmni var þeim sagt fyrir um það, hvað þeir ættu að gera. Eftir vandlega íhugun kom mönnum saman um það, að þeir tíu, sem Good átti að stýra, og áttu að gera fyrsta áhlaupið á herbúðirnar, skyldi ekki hafa byssur; það er að segja, að

undanteknum Good sjálfum, sem bæði hafði skammbissu og stutt sverð — Masaia sverðið, sem eg hafði tekið út úr vesalings þjóninum mínum, sem myrtur var í bátnum. Við óttuðumst, að ef þeir hefðu byssur og þannig yrði skotið úr þremur áttum, að eitthvað af okkar fólki yrði fyrir skotum; þar að auki sýndist okkur öllum að við það verk, sem þeir áttu að vinna, væri kalt stálið hentungra vopn en bissur, einkum fyrir Umslopogaas, sem æfinlega hélt mikið fram með köldu stálinu. Við höfðum með okkur fjóra Winchester-marghlaðninga og sex Marinibissur. Eg tók mér sjálfur einn Winchester — minn eigin; ágætis vopn við þess konar verk, þar sem áríðandi er að skjóta mörgum skotum í sífellu. Mr. Mackenzie tók annan, og þeir tveir, sem eftir voru, voru fengnir tveimur af hans mönnum, því að þeir kunnu lagið á þeim og voru afbragðs skyttur. Martinisbissunum og rifflum, sem Mr. Mackenzie átti, og nægilegum skotfærum var skift milli hinna af mönnum hans, þeirra sem áttu að gera skothríðina á Masaiana sofandi, sinn hópurinn frá hvorri hlið á byggingunni, og voru þeir til allrar hamingju allir meira og minna vanir bissum.

Að því er Umslopagaas snerti, þá munum við hvaða vopn hann bar — það var öxi. Eins og menn rekur minni til, þá átti hann, Sir Henry og hraustasti Askarinn að verja þyrnibyrgða innganginn að þorpinu fyrir mönnum, sem búist var við að mundu reyna að þyrpast þar út og forða sér á þann hátt. Byssur voru auðvitað ónýtar til þess að nota þær Sir Henry og Askarinn bjuggu sig þess vegna á

sama hátt. Svo vildi til, að Mr. Mackenzie átti í geymsluhúsi sínu nokkur ensk axarhöfuð úr stáli og með skalla. Sir Henry valdi sér eitt af þeim, og var það um hálft þriðja pund á þyngd og mjög breitt fyrir eggina, og Askarinn tók annað, lítið eitt minna. Eftir að Umslopogaas hafði brýnt á þau sérstaklega góða egg, settum við þau upp á sköft, sem voru hálft fjórða fet, úr léttum, ákaflega sterkum þarlendum viði, sem líktist mest enskum ask, en var enn þá meira þanþolinn. Þegar búið var að skefta axirnar og setja hnúða á endana á sköftunum, svo þau slyppu ekki úr hendinni, var þeim dýft í vatn og þau látin vera þar í hálfan klukkutíma. Það var gert til þess að viðurinn þrútnaði í axarauganu, svo að eldurinn væri það eina sem megnaði að losa skeftið. Þegar Umslopagaas hafði vel og vandlega gengið frá þessu þýðingarmikla verki, fór eg inn í herbergi mitt, og opnaði kassa, sem eg átti, fóðraðan með blikki, og hafði honum ekki verið lokið upp frá því við fórum frá Englandi. Í honum var — hvað haldið þið? — ekkert meira né minna en fjóarar stálbrynjur.

Það hafði hent okkur þrjá fyrr, á ferð annarsstaðar í Afríku, að við áttum lífið að þakka þar til búnum járnskyrtum, og af því eg mundi þetta, hafði eg stungið upp á því, áður en við lögðum upp í þennan hættulega leiðangur, að við létum búa okkur til fáeinar við okkar hæfi. Þetta var nokkrum erfiðleikum bundið, með því að herklæðasmíði er nú liðið undir lok að heita má, en að stálsmíði geta menn flest gert í Birmingham, ef þeir eru reknir til þess,

og þeim borgað nógu vel fyrir, svo endirinn varð sá, að frá þeim komu þær mestu afbragðs stálskyrtur, sem hugsast geta. Smíðið á þeim var dásamlega fallegt, vefur af þúsundum smárra hringa, úr nokkuð gildum stálvír af beztu tegund. Þessar skyrtur voru fóðraðar með eltiskinni, með götum á fyrir loftið. Þær gljáðu ekki, heldur voru þær á lit og áferð svo sem eins og byssuhlaup. Mín var rétt sjö pund á þyngd og fór svo vel, að eg fann að eg hefði getað verið í henni dögum saman, án þess að særast undan henni. Sir Henry átti tvær, aðra með vanalegu lagi, það er að segja treyju, með dálitlum löfum til hlífðar lærunum ofanverðum, en hin var eftir hans eigin fyrirsögn, sniðin eins og fatnaður, sem í auglýsingum er kallaður „combination", og var tólf pund á þyngd. Þessi „combination"-skyrta, sem annars var treyja og buxur til samans, var með eltiskinns-setu og huldi manninn allan niður fyrir hné, en var aftur óþægilegri að því, að hún ovar reimuð saman á bakinu, og nokkuð þung eins og eðlilegt var. Skyrtum þessum fylgdi nokkuð, sem líktist fjórum mórauðum klæðis ferðahúfum, með eyrnablöðkum. Samt voru allar þessar húfur með millifóðri úr stálhringum, til hlífðar fyrir höfuðið.

Það sýnist nærri hlæilegt að tala um stálskyrtur nú á dögum kúlunnar, sem gerir þær gagnslausar með öllu; en þar sem maður þarf að eiga við villimenn, vopnaða með sverðum og bardagaöxum, þá koma þær að hinu mesta liði, því séu þær vel til búnar, þá vinna þessi vopn ekki hið minsta á þeim. Eg hefi oft um það hugsað, að ef ensku stjórninni hefði

hugkvæmst, að útbúa hermennina með stálskyrtum í stríðunum við villimenn, og sérstaklega í *Zúlúa* stríðinu, þá mundi vera lifandi þann dag í dag margur maðurinn, sem nú er dauður og kominn undir græna torfu.

Svo eg komi aftur að efninu, þá þökkuðum við nú okkur sæla fyrir, að við skyldum hafa verið svo forsjálir, að hafa þessar skyrtur með okkur, og jafnframt fyrir það, að burðarmanna-fantarnir skyldu ekki stela þeim, þegar þeir struku með farangur okkar. Curtis hafði tvær skyrtur eins og áður er sagt, og eftir talsverða umhugsun réð hann af að vera í „combination"-skyrtunni, því að jafn sterkan mann munaði ekkert um þrjú eða fjögur pund, en þessi skyrta hlífði lærunum vel, sem var mjög þýðingarmikið fyrir mann, er var alveg skjaldarlaus. Eg lagði það svo til, að hann léði Umslopagaas hina skyrtuna, enda átti hann að hafa jafna hlutdeild eins og Sir Henry í hættunni og heiðrinum. Hann var fús til þess, og kallaði á *Zúlúann*, og kom hann með öxi Sir Henrys, hafði þá brýnt hana svo vel, að hann var orðinn ánægður með hana. Þegar við sýndum honum stálskyrtuna og komum honum í skilning um, að við vildum láta hann vera í henni, skoraðist hann undan í fyrstu, kvaðst hafa barist í sinn eigin skinni í 30 ár, og ekki ætla að fara nú að taka upp á því að berjast í járnskinni. Þá tók eg þungt spjót, breiddi skyrtuna út á gólfið og rak spjótið niður á hana með öllu mínu afli. Vopnið svignaði, en ekkert merki sást eftir það á stálskyrtunni. Það lá við, að honum snerist hugur þegar hann sá

þetta. Svo benti eg honum á, hvað nauðsynlegt það væri, að hann léti ekki neinar kerlingabækur eða hleypidóma aftra sér frá að gæta allrar varúðar, sem kynni að geta verndað einu mannslífinu meira á þesssum tíma, er svo lítið var um karlmenn, og jafnframt benti eg honum á það, að ef hann væri í skyrtunni, þá gæti hann verið skjaldarlaus, og þannig haft báðar hendur lausar; þá lét hann þegar undan, og fór að klæða sinn risavaxna líkama í „járnskinnið.“ Og sannleikurinn var sá, að þó skyrtan væri búin til handa Sir Henry, þá féll hún að hörundinu á hinum mikla *Z*úlúa eins og skinn. Mennirnir voru hér um bil jafn háir; og þó að Curtis sýndist fyrirferðarmeiri, þá liggur mér við að halda, að hann hafi ekki verið það í raun og veru, því að þó hann væri sællegri og holdugri, þá mun hann ekki hafa verið gildari, nema um handleggina. Umslopagaas hafði tiltölulega mjóa handleggi, en þeir voru sterkir eins og stálþráður. Að minsta kosti er óhætt að segja það, að þar sem þeir stóðu báðir með axirnar í höndunum, klæddir í þessar móleitu brynjur, sem féllu fast að hörundinu, svo að hver einasta vöðvabunga sást og bugðan á hverjum einasta drætti, þá voru þeir svo vígamannlegir, að hverjir tíu menn aðrir mundu hafa haft ástæðu til að skirrast við að leggja til atlögu við þá.

Klukkan var nú orðin rétt að segja eitt um nóttina, og njósnarmennirnir færðu okkur þær fregnir, að eftir að Masaiarnir hefðu drukkið blóð uxanna, og etið afarmikla skamta af keti, hefðu þeir lagst til svefns kring um varðelda sína; en að verðir hefðu

verið settir hvervetna þar sem komist yrði inn í þorpið. Þeir bættu því við, að Flossie sæti ekki langt frá víggarðinum í miðjum vesturhluta þorpsins, og að hjá henni væri fóstra hennar og hvíti apinn, tjóðraður við staur. Fætur hennar sögðu þeir væru bundnir með streng og bardagamenn lægju alt í kring um hana.

Með því að ekkert meira var nú hægt að gera, þá fengum við okkur kvöldmat og fórum að leggja okkur fyrir um þá tvo klukkutíma, sem eftir voru. Eg gat ekki annað en dáðst að því, hvernig Umslopagaas gamli fleygði sér niður á gólfið, og féll óðara í fasta-sefn eins og hann vissi ekki hið minsta um hvað fyrir honum lá. Eg veit ekki hvernig hinum gekk, en þetta var meira en eg gat. Sannleikurinn var sá, eins og vant er, þegar viðlíka stendur á, að eg var nokkuð skelkaður, þó mér falli illa að segja frá því, og nú þegar geðshræring mín var að nokkru leyti horfin, og eg fór með gætni að íhuga það sem eg hafði tekið að mér að gera, þá verð eg að játa það, að mér þótti það ekki álitlegt. Við vorum samtals að eins þrjátíu, og voru vafalaust margir af þeim öldungis óvanir bardögum, og við ætluðum að fara á móti tvö hundruð og fimtíu af þeim svæsnustu, huguðustu og allra voðalegustu villimönnum, sem þar á ofan höfðu vígi innan steinveggja. Það var, auðvitað, hringlandi vitlaust áform, og það sem tók út yfir var, hvað lítil líkindi voru til þess að við gætum komist að þeim án þess að verðirnir yrðu þess varir, og yrðu þeir það — og það gátu þeir orðið, hvað lítið sem út af bar, svo sem ef skot færi úr

byssu af tilviljun—, þá var úti um okkur, því að þá máttum við eiga von á að allur flokkurinn sprytti upp í einu vetfangi, en öll okkar von var bygð á því, að komast að þeim óvörum.

Rúmið, sem eg lá í með þessum notalegu hugleiðingum, var nærri opnum glugga, sem vissi út á svalirnar, og heyrði eg gegn um hann, einkennilegar stunur og grát. Fyrst vissi eg ekkert, hvað þetta var, en loksins reis eg upp, stakk höfðinu út um gluggann og litaðist um. Eg sá þegar svarta mannsmynd krjúpandi þar á svölunum, berjandi sér á brjóst — og þekti eg þar Alfonse. Með því að eg skildi ekki frönskuna hans, þá kallaði eg á hann og spurði hvað hann væri að gera.

„Ó, Monsieur“, sagði hann stynjandi, „eg er að biðja fyrir sálum þeirra sem í nótt munu falla fyrir mér.“

„Svo er það,‘ sagði eg, „þá vildi eg óska, að þér gerðuð það lítið eitt lægra.“

Alfonse fór, og eg heyrði ekkert meira af veininu úr honum. Og þannig leið tíminn, þangað til á endanum, að Mr. Mackenzie kallaði til mín í hálfum hljóðum í gegn um gluggann, því náttúrlega þurfti nú alt að vera gert svo hljóðlega sem unt var. „Klukkan er þrjú,“ sagði hann; „eftir hálfan klukku tíma þurfum við að fara á stað.“

Eg sagði honum að koma inn, og það gerði hann tafarlaust, og eg verð að játa það, að hefði ekki svo staðið á, að hlátur var ekki til í mér nokkurs staðar, þá hefði eg alveg rifnað af að sjá, hvernig hann var ásýndum, útbúinn í bardaga. Fyrst og fremst var

hann í síðum lafafrakka, og með barðastóran flókahatt, og hafði hann tekið þá báða, að hann sagði, af því þeir voru svartir að lit. Í hendinni hafði hann Winchester riffilinn, sem við höfðum lánað honum; og í teygjubelti, líku því sem drengir á Englandi ganga með, hafði hann stungið fyrst stórum skurðarhníf, með hornskafti og skeiðum og þar næst Colts skammbyssu með löngu hlaupi.

„Ó, vinur minn,“ sagði hann, þegar hann tók eftir að eg starði á beltið, „þér eruð að horfa á hnífinn. Eg hélt hann gæti komið sér vel, ef við kæmumst í návígi; hann er úr afbragðs stáli; og mörgu svíninu hefi eg slátrað með honum.“

Um þetta leyti voru allir farnir að klæða sig. Eg fór í létta Norfolk-treyju utan yfir járnskyrtuna, til þess að hafa vasa fyrir skotfærin mín og skammbyssuna. Það sama gerði Good, en Sir Henry fór ekki í neitt utan yfir skyrtuna sína og var með stálfóðruðu húfuna og mjúka leðurskó á fótunum, og voru leggirnir berir upp að hnjám. Skammbyssuna sína hafði hann í bandi utan um sig miðjan.

Meðan á þessu stóð, var Umslopogaas að æfa menn sína á balanum í kringum stóra tréð og gæta þess, að allir væru hæfilega vopnaðir o. s. frv. Á síðustu mínútunni gerðum við eina breytingu. Við komumst að því, að tveir af mönnunum, sem nota áttu byssurnar, voru þeim óvanir, en kunnu að fara með sverð; við tókum því af þem rifflana, en fengum þeim skildi og löng spjót með Masaia lagi, og létum þá fara með Curtis, Umslopogaas og Askaranum til að verja stóra hliðið; við þóttumst hvort

sem var vera þess fullvissir, að þrír menn, þótt sterkir væru og djarfir væru of fáir til að inna það verk af hendi.

---

## VII. KAPITULI.

*Manndráp.*

Þar á eftir varð þögn, og við stóðum þarna í svölu og dimmu næturkirðinni og biðum augnabliksins, þegar halda skyldi á stað. Ef til vill var sá fjórði partur úr klukkutíma raunalegri en alt annað. Það var eins og mínúturnar dröttuðust áfram með blílóð neðan í fótunum, og þögnin, þessi dauðakyrð, sem lá yfir öllu, þrungin af hinum tilvonandi manndauða, var átakanleg í mesta máta. Ég man eftir því, að þegar eg varð einu sinni að drífa mig á fætur fyrir birtingu til að sjá mann hengdan, þá voru tilfinningar mínar svipaðar, nema hvað það bættist ofan á við þetta tækifæri, að það var eg sjálfur, sem átti von á dauðanum, eins og líka búast mátti við um manninn, sem átti að hengja, að tilfinningar hans hafi verið æstari en tilfinningar allra viðkvæmustu áhorfendanna. Það var auðséð á þessum alvarlegu andlitum mannanna, sem vissu fullvel að einn stuttur klukkutími, mundi þýða fyrir suma, ef til vill þá alla, hina síðustu, miklu ferð til hins ókunna staðar—það var auðheyrt á hljóðskrafinu—það var jafnvel auðséð á því, hvernig Sir Henry margskoð-

að viðar öxina sína mjög hugsandi og í hverju fáti Godd fægði gleraugað sitt—það var auðséð og auðheyrt á öllu þessu, að taugar mannanna voru í svo miklum spenningi, að lítið vantaði á að þær brystu. Umslopogaas einn, sem studdist upp við Inkosi-kaas, eins og hann var vanur og tók í nefið við og við, gátu allir séð að var að öllu leyti eins og hann átti að sér. Ekkert gat bugað járntaugar hans.

Tunglið gekk undir; lengi hafði það verið að mjakast nær og nær sjóndeildarhringnum, þangað til það hvarf loksins og skildi jörðina eftir í svarta myrkri; að eins dauf og fölleit slikja á austurloftinu boðaði að dagurin væri í nánd.

Mr. Mackenzie stóð með úrið í hendinni og hélt konan hans dauðahaldi um handlegginn á honum,, og var hann að reyna að stöðva í henni grátinn.

„Klukkan á eftir tuttugu mínútur í fjögur,“ sagði hann, „það ætti að vera orðið nógu bjart til að ráða að þeim klukkan hálf fimm. Good kafteinn ætti að fara á stað fáeinum mínútum á undan.“

Good fægði gleraugað sitt einu sinni enn, og kinkaði kolli til okkar kátbroslega—sem eg gat ekki annað en ímyndað mér, að hlyti að kosta hann nokkra áreynslu; hann tók ofan stálfóðruðu húfuna sína fyrir Mrs. Mackenzie með sömu kurteisi, sem hann ávalt sýndi, og hélt á stað þangað sem honum var markaður staður, við endann á Masaia þorpinu, og varð hann að þræða eftir skógargötu, sem svertingar, er með honum vòru, rötuðu.

Rétt í þessu kom einn af njósnarmönnum okkar

og sagði, að svo virtist sem alt lið Masaianna væri í fasta svefni, nema tveir verðir, sem voru á vakki sinn fram undan hvoru hliðinu á steingirðingunni. Svo fórum við hinir á stað. Fyrst var fylgdarmaður, þá Sir Henry, Umslopogaas, Askarinn og tveir heimamenn hjá Mr. Mackenzie með löngum spjótum og skjöldum. Næstur var eg með Alfonse og fimm svertingjum, sem allir höfðu byssur, og Mr. Mackenzie kom síðastur með sex svertingjana, sem eftir voru.

Griparéttin, sem Masaiarnir höfðu búist fyrir í, var rétt fyrir neðan hæðina, sem húsið stóð á, eða svona hér um bil átta hundruð fet frá húsi trúboðans. Fyrstu fimm hundruð fetin af þessari vegalengd komumst við bæði hljóðlega og greiðlega; en þar á eftir fórum við að skríða laumulega eins og leopard, sem læðist að bráð sinni, og liðum eins og andar frá einum runninum til annars og frá einum steininum til annars. Þegar eg hafði haldið áfram um stund, leit eg aftur af tilviljun og sá hetjuna Alfonse staulast áfram með náhvítt andlit og skjálfandi kné, og með byssuna sína, sem var uppspent, stefnandi beint í mjóhrygginn á mér. Eftir að við höfðum numið staðar og gengið svo frá byssunni hans, að hana var ekki að óttast, héldum við áfram á ný, og gekk alt bærilega, þangað til áttum ekki eftir nema eitt hundrað fet að virkinu, en þá fóru tennurnar í honum að glamrast saman í mesta ákafa.

„Ef þér hættið ekki þessu, þá drep eg yður,“ hvíslaði eg að honum grimdarlega; því að mér gat

ekki fundist sanngjarnt að legga líf okkar allra í sölurnar fyrir glamrið í tönnunum á þessum matreiðslumanni; eg fór að óttast að mundi svíkja okkur, og óskaði af hjarta að við hefðum skilið hann eftir heima.

„En, Monsieur, eg get ekki að því gert,“ svaraði hann; „það er kuldanum að kenna.“

Hér horfði til vandræða, en sem betur fór, þá datt mér ráð í hug. Í treyjuvasa mínum var dálítil, óhrein drusla, sem eg hafði áður notað til að þurka byssuna mína með. „Stingið þér þessu upp í yður,“ hvíslaði eg að honum og fékk honum drusluna; „og ef eg heyri til yðar aftur, þá eruð þér dauður maður.“ Eg vissi, að við það mundi hann hætta að skella saman tönnunum. Eg hlýt að hafa verið alvarlegur á svipinn, því hann hlýddi tafarlaust því sem eg lagði fyrir hann, og hélt áfram þegjandi.

Og svo héldum við áfram af nýju.

Loksins voru eftir að eins fimtíu fet til virkisins. Milli okkar og þess var hallandi grassléttta með einum mímósarunni og tveimur smárunnum. Enn þá vorum við huldir í býsna þykkum skógi. Það var farið að verða bjart. Stjörnurnar voru fölnaðar og dauf skýma lék um austurloftið, sem sló geislum sínum á jörðina. Við sáum nú hringinn í kring um þorpið, og sáum líka hálfkulnuðu glóðina eftir eld Masaianna frá kveldinu áður. Við námum staðar og lituðumst um, því við vissum að verðir mundu vera við hliðið. Alt í einu kom í ljós hár maður og fallegur á velli, og var á vakki til og frá frammi fyrir þyrnifylta hliðinu. Við höfðum gert okkur von

um að koma að honum sofandi, en okkur átti ekki að verða að því. Hann sýndist fremur öllu öðru vera glaðvakandi. Við sáum, að ef við gætum ekki drepið þennan mann, og gert það svo hljóðlega að hinir heyrðu ekki, þá væri úti um okkur. Þarna biðum við og virtum hann fyrir okkur. Umslopagaas, sem var fáein skref á undan mér, leit alt í einu við, gaf okkur bendingu og fleygði sér niður á kviðinn eins og höggormur, og hve nær sem vörðurinn sneri sér frá honum notaði hann tækifærið til að mjaka sér þegjandiy áfram í grasinu.

Vörðurinn, sem ekkert vissi hvað um var að vera, fór að raula lag, en Umslopagaas þokaði sér áfram með hægð. Hann komst í skjól við skógarrunnann án þess að hans yrði vart og beið þar. Og enn þá gekk vörðurinn til og frá úti fyrir hliðinu. Alt í einu sneri hann sér við og horfði yfir vegginn á félaga sína. Mannslangan, sem var að leika á hann, skauzt áfram um þrjátíu fet og komst við það í hlé við annan smárunnann, og náði þangað rétt um það leyti sem Masaiinn sneri sér við aftur. Þegar hann sneri við, varð, honum litið á runnann, og, það var eins og honum kæmi til hugar, að ekki mundi alt með feldu. Hann steig áfram í áttina þangað —Ó nam staðar, geispaði, laut niður, tók upp dálitinn tinnustein og kastaði í þústuna. Steinninn kom í höfuðið á Umslopagaas, en til allrar hamingju ekki í brynjuna. Ef svo hefði farið, þá hefði glamrið komið upp um okkur. Sem betur fór, var stálskyrtan gljáalaus en ekki úr glansandi stáli; það mundi að sjálfsögðu hafa vakið eftirtekt mannsins. Að því er sjá-

anlegt var, gerði hann sig ánægðan með þá rannsókn er hann hafði gert, því að hann hætti algerlega við hana, og lét sér nægja að styðjast upp við spjótið sitt og glápa beint á þústuna. Þrjár mínútur að minsta kosti stóð hann þannig, auðsjáanlega sokkinn niður í einhverja þægilega dag-drauma, og þarna lágum við með öndina í hálsinum, eigandi von á því á hverju augnabliki, að hann yrði okkar var, eða að eitthvert óviðráðanlegt slys vildi til. Eg gat heyrt tennurnar í Alfonse hamast utan um drusluna, sem eg stakk upp í hann, svo eg sneri mér við og gretti mig voðalega framan í hann. En það verð eg að játa. að mitt eigið hjarta mun hafa leikið hér um bil sama lagið, eins og tennurnar í Alfonse, og svitinn rann af mér í lækjum, svo að eltiskinnsfóðrið á skyrtunni minni límdist við mig ónotalega, og yfir höfuð var eg í aumkvunarverðu ástandi.

Loksins var þrautin á enda. Vörðurinn leit til austurloftsins og sýndist lesa þar með ánægju, að hans skylduverki væri nú næstum lokið — eins og líka var, fyrir fult og alt — því hann nuddaði saman lófunum, og fór að ganga hratt sér til hita.

Um leið og hann sneri við okkur bakinu skaust langi, dökki höggormurinn á stað aftur, og komst í hinn smárunnann, sem var ekki full tvö skref frá leið varðarins, þegar hann kæmi til baka.

Til baka kom vörðurinn og strunsaði fram hjá runnanum, öldungis grunlaus um það, sem falið var á bak við hann. Ef hann hefði litið niður fyrir sig, þá hefði varla getað hjá því farið að hann sæi það, en hann gerði það ekki.

Hann fór fram hjá, og leynilegi óvinurinn reisti sig upp og veitti honum eftirför með útréttar hendurnar.

Eitt augnablik leið enn, og rétt þegar Elmoraninn var að snúa sér við, tók hinn mikli *Z*úlúmaður undir sig stökk, og við vaxandi dagsbirtuna gátum við séð hans löngu og mögru hendur læsast utan um háls Masaians. Svo urðu ýmsir snúningar og margs konar hlykkir á tveimur svörtum skrokkum, og eftir eina sekúndu sá höfuð Masaians beygjast aftur á bak, og heyrði skarpan hvell, líkan þeim sem stundum er gerður með svipuól, og maðurinn datt niður á jörðina; hendur og fætur smákiptust til.

Umslopagaas hafði dregið úr bardagamanninum allan kraft og hálsbrotið hann.

Eitt augnablik grúfði hann sig yfir fórnardýrið og hélt enn sama takinu utan um hálsinn, þangað til hann var þess fullviss að ekkert var framar að óttast af honum, og svo rétti hann úr sér og benti okkur að koma, og gerðum við það, skríðandi á fjórum fótum, eins og hópur af öpum. Þegar við komum nær, sáum við að Masaiarnir höfðu búið enn betur um þetta hlið, sem var um tíu fet á breidd — auðvitað til varnar gegn aðsókn — með því að reisa upp við það fjögur eða fimm stór tré. Því betra fyrir okkur, datt mér í hug; því meira, sem var í hliðinu, því erfiðara hlaut þeim að ganga að komast út. Þarna skildum við; Mackenzie og hans menn laumuðust fram með veggnum til vinstri, en Sir Henry og Umslopagaas bjuggust um sinn hvoru megin við hliðið, og beint fram undan því lögðust niður tveir svert-

ingjar með spjótunum og Askarinn. Eg og mínir menn skriðum upp með veggnum hægra megin, sem var um fimtíu skref á lengd.

Þegar eg var kominn tvo þriðju hluta af þeim vegi, nam eg staðar, raðaði mönnum mínum niður með fjögra skrefa millibili, en hafði samt Alfonse fast hjá mér. Svo gægðist eg í fyrsta sinni yfir garðinn. Það var nú orðið nokkurn veginn bjart, og það fyrsta sem eg sá, var hvíti apinn; hann var beint á móti mér, og rétt hjá honum gat eg grilt í föla andlitið á Flossie litlu; hún sat alveg eins og pilturinn hafði skýrt frá, eitthvað tíu skref frá garðinum. Umhverfis hana lágu margir bardagamenn, sofandi. Hér og þar voru um alt þorpið leifar af eldum, og kring um hvern þeirra sváfu eitthvað tuttugu og fimm Masaiar, flestir yfirkomnir af ofáti. Við og við reis maður upp, geispaði og let til austurloftsins, sem nú var orðið rauðleitt; en enginn fór á fætur. Eg réði af að bíða fimm mínútum lengur, bæði til þess að betur skyldi birta, og við þannig eiga hægra með að hitta, og til þess að gefa Good og hans mönnum — sem eg hvorki heyrði né sá neitt til — sem bezt tækifæri til þess að búa sig undir starf sitt.

Kyrláta afture̲ldingin fór að breiða sína sívaxandi skykkju út yfir sléttur, skóga og ár — mikla Keniafjallið mændi út yfir jörðina, sveipað í þögn hinna ævarandi snjóa — og alt í einu brá sólin, sem enn var ekki komin upp,geislum sínum á himingnæfandi fjallstindinn, svo hann varð rauður eins og purpuri; himininn fyrir ofan varð blár og mildur eins og móðurbros; fugl byrjaði að kvaka morgun-

söng, og ofurlítill andvari, sem leið í gegn um skóginn, hristi niður miljónir af daggardropum til hressingar hinum vaknandi mannheimi. Als staðar ríkti friður og ánægja endurlifnaðra krafta, alls staðar nema í hjarta hins grimma manns.

Í sömu svipan, rétt þegar eg var að herða upp hugann til að gefa merkið til að skjóta, og hafði hugsað mér mann til að skjóta fyrst á —heljarmenni, sem lá og teygði frá sér hendur og fætur hér um bil þrjú fet frá Flossie litlu — byrjuðu tannirnar í Alfonse að glamra af nýju, eins og hófar á gíraffa á harða stökki, og varð af því allmikill hávaði í morgunþögninni. Druslan hafði dottið út úr honum í ofboðinu. Í sama bili vaknaði Masaii einn þrjú skref frá okkur, settist upp og litaðist um til þess að komast að því hvaðan hljóðið kæmi. Eg varð afar reiður, og lagði í kvið Franzmannsins með afturendanum á rifflinum mínum. Hann hætti tannaglamrinu og engdist saman, en um leið tókst honum að hleypa af byssunni sinni svo heppilega, að kúlan fór einum þumlungi frá höfðinu á mér.

Það var öldungis óþarfi að gefa merki nú. Frá báðum hliðveggjunum streymdu rastir af skotum, og tók eg sjálfur þátt í því, og hepnaðist mér að hitta Masaiann hjá Flosshie rétt þegar hann var að rísa á fætur. Frá efra enda þorpsins heyrðist ógurlegt öskur, og þótti mér vænt um að heyra Goods hvellu rödd rífa sig upp úr öllu hinu, og á næstu sekúndu sá eg þvílíka sjón, að eg hefi aldrei séð aðra eins, og mun aldrei framar sjá slíkt. Allur þessi dökki villimannagrúi óð á fætur með skelfingar-orgi, margur

hver að eins til að slengjast aftur flatur, áður en hann hafði stigið næsta sporið, fyrir blýhaglinu, sem við létum á þá dynja. Eitt augnablik stóðu þeir eins og ráðalausir, en þá heyrðu þeir orgið og ragnið jafnt og þétt frá efri endanum á þorpinu og urðu jafnframt sjálfir æðisgengnir af kúlu-drífunni, svo að þeir þutu allir í einu af stað að þyrni-byrgða hliðinu. Meðan þeir voru á leiðinni, héldum við áfram að ausa yfir þá skothríðinni, þar sem þeir voru þéttastir, og varð árangurinn voðalegur. Eg var búinn að skjóta öllum tíu skotunum afturhlaðningnum mínum, og var að byrja að fylla hana aftur, þegar mér datt Flossie í hug. Eg leit upp, og sá hvíta asnann, sem annað hvort hafði orðið fyrir kúlu frá okkur eða höggi frá Masaiunum; hann lá flatur og lamdi frá sér afturfótunum. Enginn lifandi Masaii var þar nærri, en svarta fóstran stóð uppi yfir Flossie og var að skera böndin af fótunum á henni með sverði. Að því búnu hljóp hún út að veggnum og fór að klifra yfir hann, og litla stúlkan á eftir. En Flossie var auðsjáanlega stirð og þjökuð og varð að fara hægt, og meðan hún var á leiðinni, komu tveir Masaiar hlaupandi frá efri endanum, komu auga á hana, og hentust þangað í því skyni að drepa hana. Fyrri Masaiinn bar að rétt í því bili sem aumingja barnið datt niður, eftir að hafa gert sitt sárasta til að klifra upp vegginn. Upp reiddi hann sitt mikla sverð, en um leið settist kúla úr rifflinum mínum að í síðunni á honum, og hann veltist um eins og skotinn héri. En að baki hans var hinn maðurinn, og sjá, þetta var eina skotið, sem eg hafði í byssunni! Flossie var

staðin upp, og sneri sér að manninum, sem kom með uppreitt sverðið. Eg leit undan og mér fanst eg mér fanst eg ætla að deyja. Eg þoldi ekki að sjá hann myrða hana. Þegar eg leit upp aftur, furðaði mig á að sjá sverð Masaians liggja þar hjá og sjálfan hann skjögrandi með hendurnar utan um höfuðið. Alt í einu sá eg reykjarmökk, sem virtist koma frá Flossie, og maðurinn slengdist kylliflatur. Þá mundi eg eftir Derringer skammbyssunni, sem hún hafði, og sá að hún hafði skotið á manninn úr báðum hlaupunum, og þannig frelsa sjálfa sig. Fljótlega þar á eftir hepnaðist henni, með hjálp fóstru sinnar að komast út fyrir vegginn, og eg vissi að nú var henni tiltölulega óhætt.

Þetta gerðist alt á skemmri tíma en eg hefi þurft til að skýra frá því; því mun öllu hafa verið lokið eftir fimtán sekúndur. Eg var ekki lengi að hlaða að nýju afturhlaðninginn, og fór að skjóta einu sinni enn, ekki á svörtu þyrpinguna, sem safnaðist að endanum, þar sem hliðið var, heldur á þá, sem voru að reyna að forða sér með því að klifra yfir vegginn. Eg hitti nokkra þeirra, og jafnframt færðist eg nær endanum á þorpinu, og komað endanum eða bugðunni við endann í tækan tíma til að sjá hörðu hríðina, sem þar fór fram, og taka þátt í henni með byssunni minni.

Um þetta leyti voru hér um bil tvö hundruð Masaiar — eg geri ráð fyrir að við höfum þá verið búnir að sjá fyrir fimtíu — safnaðir saman inni fyrir þyrni fylta hliðinu, og höfðu þeir flúið þangað undan sverðum þeirra Goods og hans manna, sem þeir vafalaust

höfðu haldið vera heila herfylking í staðinn fyrir tíu menn. Hvernig sem því var varið, þá hafði þeim ekki hugkvæmst að klifra út yfir vegginn, sem þeir hefðu þó getað með sæmilega hægu móti; allir leituðu þeir að grindunum, sem voru fyrir hliðinu, þrátt fyrir það að þær voru marg-treystar með öðrum útbúnaði. Einn af þeim lyfti sér upp og hentist út yfir grindurnar, en ekki var hann kominn niður hinu megin þegar Sir Henry sveiflaði stóru öxinni sinni með voðalegum krafti og lenti hún á fjaðrahúfunni hans, en sjálfur féll hann niður á miðjan þyrniköstinn. Og með óhljóðum og gauragangi fóru þeir að brjótast út og jafnharðan var stóru öxinni sveiflað, og fagurlega glampaði á Inkosi-kaas, og hver eftir annan féllu þeir dauðir, og hlóðu sjálfum sér upp í hliðið, til nýrra erfiðismuna fyrir félaga sína, sem komu á eftir. Þeir sem komust undan öxum þessara tveggja féllu fyrir Askaranum og tveimur Köffunum frá trúboðsstöðinni, sem með honum voru. En þeim sem komust fram hjá þeim óskaddir, gerðum við Mr. Mackenzie skil.

Ákafari og ofsafengnari varð bardaginn. Oft mátti sjá Masaia standa uppi á dauðum félaga sínum og sækja þaðan að axarmönnunum okkar með sínum löngu sverðum; en árangurinn varð ætíð hinn sami, og má óhætt þakka það stálskyrtunum. Öxinni var sveiflað karlmannlega, og dauður lá einn Masaiinn enn. Það er að segja, ef það var Sir Henry og hann, sem áttust við. En væri það Umslopagaas, þá var aðferðin alt önnur, þó niðurstaðan yrði sú sama. Það var mjög sjaldan, sem *Zúlúinn* gerði þessa

miklu tveggja handa sveiflu; þvert á móti, hann gerði lítið annað en hjakka með axarskallanum jafnt og þétt í höfuðið á mótstöðumanni sínum eins og fuglinn „Woodbeccker“*) heggur í fúinn við. Innan skamms kom höggið þangað sem því var ætlað, og óvinur inn lá dauður með dálítið kringlótt gat á hauskúpunni, alveg enis og göt, sem ormar gera í ost. Hann beitti aldrei blaðinu, nema þegar hann var í mikilli þröng, eða þegar hann átti við mann, sem varðist með skildi. Hann sagði mér síðar, að sér þætti það ekki eins myndarlegt.

Good og hans menn voru komnir mjög nærri nú, og okkar menn urðu að hætta að skjóta, af ótta fyrir því, að skotin kynnu að koma í þá (enda hafði einn þeirra þegar fallið á þann hátt). Vitstola og hamslausir af hræðslu ruddust Masaiarnir í gegn um hliðið, yfir þyrniköstinn og bunka af dauðum mönnum og sópuðu frá sér Curtis og Umslopagaas og hinum þremur, og losnuðu þannig úr kvíunum. Og þá fóru okkar menn að falla drjúgum. Veslings Askarinn okkar, sem barðist með öxinni, féll dauður, og stóð mikið spjót í gegn um hann og eitt fet aftur úr bakinu; og litlu síðar lágu dauðir mennirnir tveir, sem með honum voru, og hömuðust þeir fram í andlátið

---

*) Eftir því sem mig minnir, hefi eg þegar getið um það að „Woodpecker“ var eitt af nöfnum Umslopagaas meðal *Zúlúmanna*. Eg skildi aldrei í á hverju þeir bygðu það, fyr en eg sá hann beita Inkosi-kaas; en þá datt mér þegar í hug, hvernig á því stóð. A. Q.

eins og tigrisdýr; og fleiri úr okkar liði fóru sömu leiðina. Eitt augnablik hélt eg, að við værum að verða undir — og það mátti sannarlega engu muna. Eg hrópaði til minna manna að fleygja byssunum og taka til sverðanna. Þeir gerðu það tafarlaust, því þá var þeim líka farið að renna í skap, og það sama gerðu menn Mr. Mackenzies.

Þessi umskift gáfust vel, þó að enn væri ó-mögulegt að sjá hver endir þar á yrði.

Okkar menn börðust af mikilli hreysti, þrengdu sér inn í svarta hópana af Elmorunum, höggvandi og stingandi, og sjálfum voru þeim gerð sömu skil, sem þeir gerðu fjandmönnunum. Upp úr öllum hávaðanum mátti alt af heyra Goods voðalega heróp, þar sem hann óð fram með gleraugað sitt og annan útbúnað sinn, og jafnan var hann þar sem hættan var mest; og stöðugt sáust tvær axirnar rísa og falla eins og þeim væri stýrt og beitt af vélakrafti, og fylgdi hverju höggi dauði og eyðilegging. En auðséð var að áreynslan var farin að ganga nærri Sir Henry, enda hafði hann fengið allmörg sár. Hann gapti af mæði og æðarnar á enni hans voru eins og gildir, bláir strengir með hnútum á. Jafnvel Umslopagaas var farinn að verða aðþrengdur, þó hann stálhraustur væri. Eg tók eftir því, að hann var hættur að nota skallann á öxinni sinni, en beitti nú breiða blaðinu á Inkosi-kaas, og litaði óvini sína rauða, í staðinn fyrir að grafa djúpar holur, eftir reglum listar sinnar, inn í höfuðið á þeim. Eg sjálfur leitaði ekkert inn í mannþröngina, en eg var á þönum samt, eins og mest má verða í fótaknattleik, og sendi kúlu

í gegn um Masaiana hve nær sem færi gafst. Eg gerði meira gagn þannig. Eg skaut fjörutíu og níu skotum þá um morguninn ,og það var sjaldan ,sem eg hitti ekki.

En þrátt fyrir alt sem eftir okkur lá, þá var eins og nú stóð augljóst, að við ætluðum að bíða lægra hlut. Fimtán eða sextán menn vopnaðir voru nú eftir okkar megin, en Masaiarnir áttu eftir að minsta kosti fimtíu. Ef þeir hefðu að eins áttað sig betur og raðað sér vel, þá hefðu þeir getað bundið fljótan enda á þetta, en einmitt þetta gerðu þeir ekki, af því þeir höfðu aldrei náð sér síðan þeir vöknuðu við þennan vonda draum, og sumir þeirra höfðu ætt á stað vopnlausir. Nú voru þó margir þeirra farnir að berjast með fullu þori og gætni. Það út af fyrir sig var nægilegt til að yfirvinna okkur. Til að gera ástandið enn verra, þá vildi svo til, einmitt þegar ekkert skot var í byssu Mr. Mackenzies, að risavaxinn Masaii með uppreitt sverð gerði áhlaup á hann. Presturinn fleygði byssunni og dró upp skurðarhnífinn sinn — því skammbyssuna hafði hann mist í ofboðinu — og réðust þeir þannig hvor að öðrum af miklu kappi. Áður en langt leið féllu þeir báðir trúboðinn og villimaðurinn í föstum faðmlögum hinum megin við veginn, svo að eg, sem hafði nóg að gera, vissi um tíma ekki hver endir þar á yrði.

Leikurinn barst til og frá, og allir voru að þokast hægt og hægt í einlægum krókum hverjir innan um aðra í einni hringiðu, og horfurnar fóru að verða mjög skuggalegar fyrir okkur. En alt í einu kom fyrir atvik, sem okkur varð til láns. Annað hvort af

tilviljun eða ásettu ráði brauzt Umslopagaas út úr mannþrönginni og sótti að bardagamanni einum nokkur skref frá hópnum. Meðan á því stóð hljóp annar þar að og lagði í hann af öllum kröftum á milli herðablaðanna með sverðinu; það kom í stálskyrtuna og vann ekki á henni hið minsta, en hrökk til baka eins og það hefði komið á stein. Eitt augnablik glápti maðurinn óttasleginn — því herklæði voru óþekt meðal þeirra — og hrópaði síðan eins hátt og hann gat:

„Þeir eru djöflar — galdramenn, galdramenn!“ Og æðisgenginn af hræðslu fleygði hann frá sér sverðinu og lagði á flótta. Eg endaði æfisögu hans með kúlu og Umslopagaas gerði sínum manni sömu skil með Inkosi-kaas, en hræðslan gagn tók alla hina.

„Galdramenn, galdramenn!“ hrópuðu þeir í sífellu og reyndu að flýja í allar áttir, öldungis ráðalausir og huglausir; flestir fleygðu jafnframt frá sér sverðum sínum og skjöldum.

Um endalokin á þessum voðalega bardaga er óþarfi fyrir mig að orðlengja. Manndrápin voru mikil og hræðileg, enginn bað sér vægðar og engum voru gefin grið. En þó er vert að geta eins atburðar. Rétt þegar eg var farinn að vona að öllu væri lokið, stökk alt í einu ósærður bardagamaður út úr hrúgu af drepnum mönnum, er hann hafði leitað fylgsnis í, stökk yfir pælurnar af dauðum og deyjandi mönnum líkt og antilópi, sem þaut líkt og hvirfilvindur þangað sem eg stóð á því augnabliki. En hann var ekki einn því að Umslopagaas færði sig hljóðlaust á eftir honum með þeirri einkennilegu svölu-hreyfing, er hann

var nafnkendur fyrir, og þegar þeir voru komnir nærri mér, þekti eg að það var Masaiinn, sem erindið hafði flutt til okkar nóttina áður. Þegar maðurinn varð þess var, að hvernig sem hann hljóp, dró saman með þeim Umslopagaas, þá nam hann staðar og sneri sér við til þess að taka á móti honum. Umslopagaas hægði líka á sér.

„Ó, ó,“ hrópaði hann í hæðnisróm, „það ert þú sem eg átti tal við í nótt — sendimaðurinn sem stelur litlum stúlkum — maðurinn, sem er reiðubúinn til að drepa stúlkubörn. Og þú vonaðist eftir að standa augliti til auglitis andspænis Induna af kynþætti Maqilisana, af Amazulu þjóðinni. Sjái bæn þín er veitt! og eg hefi svarið að höggva þig sundur lim fyrir lim, ósvífnis-hundurinn þinn. Sjá eg ætla ekki að draga þig á því.“

Masaiinn nísti tönnum af reiði og réðst að honum með sverðinu. Um leið og hann kom vék Umslopagaas sér skyndilega til hliðar, sveiflaði Inkosikaas hátt upp yfir höfuðið á sér beð báðum höndum, og hjó svo með breiða blaðinu aftan til á öxl Masaians, rétt þar sem hálsinn er skeyttur við búkinn, með svo miklum krafti, að axarblaðið sem beitt var eins og rakhnífur, sneiddi hold og bein, og höfuðið og annar handleggurinn losuðust hér um bil frá skrokknum.

„Nú, nú,“ sagði Umslopagaas og virti fyrir sér lík óvinar síns; „eg hefi haldið orð mín. Þetta var myndarlegt högg.“

---

## VIII. KAPITULI.

*Alfonse kemur með skýringu.*

Nú var þá bardaginn úti. Þegar eg var að fara á stað frá þessum raunalegu stöðvum, flaug það í huga minn alt í einu, að eg hefði ekki séð Alfonse síðan eg rak byssu-skeftið mitt í kviðinn á honum, og var nærri búinn að fá skot í höfuðið í staðinn. Síðan voru liðnar að eins um tuttugu mínútur, þó eg hafi þurft langan tíma til að segja frá því sem gerðist á þeim. Eg hélt að manngarmurinn hefði verið drepinn og fór að leita að líkinu meðal þeirra dauðu, en af því eg gat ekki fundið hann þar, komst eg aftur að þeirri niðurstöðu, að han nhefði komist af, og gekk niður með veggnum þar sem við byrjuðum og kallaði á hann með nafni. Hér um bil fimtán skref frá veggnum stóð gamalt tré. Svo gamalt var þetta tré, að það var orðið holt innan af feyskju og fúa, og ekkert eftir af því nema börkur eða skelin að utan.

„Alfonse," kallaði eg, um leið og eg gekk áfram, „Alfonse!"

„Ef þér eruð að kalla á mig, Monsieur," var svarað einhvers staðar, „þá er eg hér."

Eg horfði í kring um mig og sá engan. „Hvar?" kallaði eg.

„Hérna í trénu, Monsieur."

Eg horfði þangað og sá koma út um gat, sem

var á bolnum á trénu, eitthvað fimm fet frá jörðu, náfölt andlit og mikið yfirskegg, sem öðrum megin hafði verið klipt stutt en var honum megin í sorglegu ólagi eins og skott á nýbörðum hvolpi. Þá sá eg það, sem mig hafði lengi grunað, það sem sé, að Alfonse var mesta bleyða. Eg gekk að trénu og sagði: „Komið þér út þarna.“

„Er það búið, Monsieur?“ sagði hann, og var auðheyrt að hann gilti ekki einu, hvort var; „er það alt búið? Ó, þær hörmungar, sem eg hefi mátt líða, og þær bænir, sem eg hefi beðið!“

„Komið þér út þarna, mannfýla,“ sagði eg, því það kom ilt í mig; „það er alt búið.“

„Svo bænir mínar hafa þá hrifið? þá skal eg koma,“ og hann gerði það.

Þegar við vorum á leiðinni ofan eftir til hinna, sem höfðu dregið sig saman í hóp hjá víða hliðinu, sem nú var engu líkara en líkhúsi, þá spratt upp Masaii, sem hafði falið sig þar í runna, og sótti að okkur í ákafa. Alfonse hljóp á stað, hljóðandi af hræðslu og Masaiinn á eftir, staðráðinn í því að gera eitthvað ilt af sér áður en hann dæi. Hann var ekki lengi að ná litla Franzmanninum, og hann hefði gert út af við hann tafarlaust, ef mér hefði ekki tekist, rétt þegar Alfonse var að hringa sig niður í síðasta sinn í þeirri tálvon að geta komist hjá stálblaðinu, sem glampaði rétt fyrir aftan hann, ef mér hefði ekki tekist, segi eg, að koma kúlu inn í breiðu herðarnar á Elmoranum; það atvik leiddi málið viðunanlega til lykta, að því er Franzmanninn snerti. En rétt um leið rasaði hann og datt kylliflatur, og

skrokkur Masaians beint þar ofan á, sem brauzt um með dauðateygjunum. Og slíkt angistar-vein heyrðist, að eg taldi víst að Masaiinn gengi af Alfonse dauðum, áður en öndin liði upp af honum sjálfum. Eg hljóp þangað eins fljótt og eg gat, og dró Masaiann burt, og þar undir lá Alfonse allur blóðugur og spriklaði eins og brendur froskur. Veslings maðurinn! hugsaði eg með mér, nú er úti um hann, og eg fór að leita að sári á honum, þó það væri varla hægt fyrir því hvað mikið hann brauzt um.

„Ó, sárið á bakinu á mér!“ hljóðaði hann. „Hann hefir myrt mig. Eg er dauður. Ó, Annette!“

Eg leitaði enn, en fann ekkert sár. Og svo rann upp fyrir mér sannleikurinn — maðurinn var hræddur, en öldungis ómeiddur.

„Standið þér upp,“ sagði eg, „nú-nú, upp með yður strax. Skammist þér yðar annars ekki? Þér eruð alveg ósnertur.“

Og hann stóð á fætur, öldungis jafn-góður.

„En, Monsieur, eg hélt að það væri,“ sagði hann svo sem sér til afsökunar, „eg vissi ekki að eg hefði haft betur.“ Síðan rak hann fótinn í Masaiann og sagði mjög digurmannlega, „þú svarti, vilti hundur, þú ert dauður; en sá sigur!“

Eg fékk algerða skömm á Alfonse og yfirgaf hann og lét hann annast sig sjálfan, og það gerði hann á þann hátt, að hann fylgdi mér eins og skugginn minn á leið til hinna, sem biðu hjá stóra hliðinu. Það fyrsta, sem eg sá, var Mackenzie, og sat hann á steini og hafði vafið vasaklút um lærið, og blæddi út

því stöðugt, því spjótið hafði verið stungið alveg í gegn um það, en á uppáhalds-skurðarhnífnum sínum hélt hann enn, og var hann nú orðinn kengboginn, og þóttist eg sjá á öllu þessu, að honum hefði veitt betur í viðureigninni við Masaiann.

„Jæja,“ Mr. Quatermain!“ kyrjaði hann upp með titrandi geðshræringar-rödd, „þá höfum við þó sigrað; en sorglegt er að horfa á alt þetta“; og hann virti fyrir sér hnífinn, sem hann hélt á, og bætti við um leið: „Mér sárnar að hafa beygt bezta skurðarhnífinn, sem eg átti í eigu minni, í bringubeininu á einum villimanni,“ og hann hló með grátstafinn í hálsinum. Veslings maðurinn, það sem hann tók út bæði af sárinu og geðshræringunni við manndrápið, var víst ekkert smáræði, sem ekki var heldur furða; það er þungbært fyrir friðsaman og góðhjartaðan mann, að verða að taka þátt í þvílíku voða-starfi. En svona er lífið; forlögin tylla manni stundum í býsna óþægilegan sess.

Við hliðið var ljótt um að litast. Manndrápunum var nú hætt, og endir hafði verið bundinn á þjáningar særðu mannanna, því um grið var ekki að tala. Því sem upp í hliðinu var, hafði verið rutt niður, en í stað þess var kominn bunki af mannabúkum. Dauðir menn — hvervetna voru dauðir menn, þeir lágu hér og þar, fleiri og færri til samans, í öllum hugsanlegum stellingum, líkast fólki því, sem sjá má úti á grasinu í skemtigörðunum í Lundúnaborg á afarheitum sunnudögum í Ágústmánuði. Úti fyrir hliðinu sátu þeir sem eftir lifðu á auðum bletti nokkrum; hafði dauðum mönnum og vopnum þeirra verið rýmt

burt þaðan; og fjórir særðir menn lágu þar við fætur þeirra. Við vorum þrjátíu, sem farið höfðum í bardagann, og af þeim lifðu að eins fimtán, og voru fimm af þeim—þar á meðal Mackenzie—særðir, og tveir til ólífis. Af þeim, er vörðu hliðið, lifðu að eins eftir Curtis og *Zúlúinn*. Af Goods mönnum höfðu fimm verið drepnir og af mínum tveir, og af þeim sex, sem Mackenzie fylgdu, var að eins einn á lífi. Þessir, sem lifðu, voru rauðir frá hvirfli til ilja, nema eg, sem aldrei hafði lent í návígi. Herklæði Sir Henrys sýndust hafa verið lituð í rauðum lit og allir voru þeir kúguppgefnir, nema Umslopagaas; hann var öldungis eins og hann átti að sér, þar sem hann stóð og studdist upp við öxina sína; að eins var ákaflegur skjálfti á skinninu yfir gatinu, sem var á höfðinu á honum.

„Jæja, Macumazahn," sagði hann, um leið og eg haltraði upp að honum með veikum burðum, „eg sagði þér, að þetta yrði góður slagur, og sú varð líka raunin á. Enga hefi eg séð betri, né aðra rösklegri framgöngu. Og þessi járnskyrta, eg held eg trúi því að það sé galdraskyrta; ekkert beit á hana. Ef það væri ekki fyrir hana, þá væri eg *þarna*," og hann benti á hrúguna af dauðum mönnum þar rétt hjá.

„Eg gef þér skyrtuna; þú ert vaskur maður," sagði Sir Henry án frekari málalenginga.

„Koos!" svaraði *Zúlúinn*, innilega glaður bæði af gjöfinni og viðurkenningunni. „Þú gekst líka karlmannlega fram, Incubu, en eg þarf að kenna þér að beita betur öxi; þú vinnur þér það of erfitt."

Rétt í þessu fór Mackenzie að spyrja eftir Flossie, og okkur létti öllum við það,að einn maðurinn kvaðst hafa séð hana hlaupa heim að húsinu með fóstru sinni. Svo fórum við að bisa við að bera heim þá sem sárir voru, og annars mátti róta við, og þó við værum úttaugaðir af þreytu og sárum, sem mikið hafði blætt úr, þá vorum við samt hressir í anda, og fagnandi yfir þessum stórkostlega sigri. Við höfðum frelsað líf litlu stúlkunnar, og gefið Masaiunum á þeim slóðum ráðningu, sem þeir gleyma ekki næstu tíu árin — en allmikið var lagt í sölurnar.

Með þrautum drógum við okkur upp hæðina, og var nú orðin æði mikil breyting frá því sem verið hafði rúmum klukkutíma áður, þegar við gengum ofan eftir henni. Hjá virkishliðinu stóð Mrs. Mackenzie og beið okkar. Þegar hún sá okkur, greip hún höndunum fyrir andlitið og og hljóðaði: „Hræðilegt, hræðilegt!“ Og ekki batnaði henni hræðslan, þegar hún sá bónda sinn borinn á börum; en fljótt fékk hún að vita, að hann var ekki hættulega sár. Flossie, sem hafði komið heim heil á hófi, hafði þegar sagt henni það sem hún vissi um bardagann, og þegar eg var búinn að skýra henni frá úrslitunum með fáum orðum, þá gekk hún til mín og kysti mig mjög hátíðlega á ennið.

„Guð blessi ykkur alla, Mr. Quatermain; þið hafið frelsað líf barnsins míns,“ sagði hún blátt áfram.

Svo fórum við inn, fórum úr fötunum og bundum um sárin; eg skal með ánægju taka það fram, að eg var alls ósár, og sár þeirra Sir Henrys og Goods

voru tiltölulega lítilfjörleg, svo að þau mátti lækna með heftiplástri, og má þakka það hringabrynjunum ómetanlegu. Þar á móti var sár Mackenzies viðsjárvert, jafnvel þó engin stór æð væri skorin sundur, sem betur fór. Svo fórum við í vatnslaug, og slík og þvílík sæla sem það var! Og, þegar við vorum komnir í okkar hversdags föt, fórum við að fá okkur morgunmat rétt eins og við vorum vanir. Ósamkvæmnin milli morgunverkanna var skrítin, fyrst að vera í blóðugum bardaga með bókstaflegri miðaldaaðferð, og svo að setjast niður til að drekka te og borða steikt brauð eftir almennum nítjándu aldar reglum. Það var eins og Good sagði, líkara því að við hefðum haft vonda martröð rétt áður en við vorum vaktir, heldur en við hefðum nokkuð verið að gera sjálfir. Þegar við vorum búnir að borða, lukust upp dyrnar og Flossie litla kom inn, náföl og riðandi á beinunum af óstyrk, en öldungis ómeidd. Hún þakkaði okkur öllum fyrir hjálpina með kossi. Eg hrósaði henni fyrir það, hve úrræðagóð hún hefði verið, þegar hún frelsaði líf sitt með því að skjóta Masainnann með Derringer skammbyssunni sinni.

„Ó, minnist þér ekki á það!“ sagði hún, og lá henni við að gráta; „eg gleymi aldrei andlitinu á honum, þegar hann hringsnerist eftir skotið, aldrei— eg sé það núna.“

Eg réði henni til að leggja sig út af og sofna, og gerði hún það, og þegar hún vaknaði um kveldið, hafði hún náð sér aftur til fulls að því er líkams krafta snerti. Mér fanst það hálf kynlegt um unglings stúlku, sem annars hafði kjark til að skjóta

risavaxinn og grimman svertingja, sem óð að henni með uppreitt sverð, að umhugsunin um skotið skyldi svo þungt á hana eftir á; en samt sem áður komu þar fram tilfinningar,sem einkenna þann hluta mannkynsins, sem hún heyrði til. Vesalings Flossie! Eg er hræddur um að taugar hennar beri menjar næturinnar í Masaia liðinu lengi um komandi tíma. Hún sagði mér eftir á, að það hefði verið óvissan, sem tók út yfir, þar sem hún varð að sitja klukkutíma eftir klukkutíma, alla liðlanga nóttina, án þess að hafa hugmynd um hvort nokkur tilraun yrði gerð til að hjálpa henni eða ekki. Hún sagðist valla hafa búist við því, þegar hún hugsaði til þessa, hvað fáir við vorum og hvað margir Masaiarnir voru—Masaiarnir sem meðal annars voru jafnt og stöðugt að koma til hennar, hver eftir annan, til að glápa á hana og strjúka handleggina og hárið á henni með sínum óþverralegu krumlum, því margir af þeim höfðu aldrei séð hvíta manneskju fyr. Hún sagðist líka hafa verið staðráðin í því, að skjóta sjálfa sig með skammbyssunni ef hún sæi ekki um sólaruppkomu nein merki til þess að sér yrði bjargað, . því fóstra hennar hafði heyrt þá segja, að þegar fyrstu sólargeislarnir ljómuðu á herbúðum þeirra, þá skyldu þær verða kvaldar til dauða, nema ef einhver hvíti maðurinn yrði þá kominn til að bíða bana í þeirra stað. Það var voðalegt áform, en henni var bláföst alvara, og eg efast alls ekki um, að hún hefði framfylgd því. Jafnvel þó hún væri á þeim aldri,þegar stúlkur á Englandi ganga í skóla og borða ekki nema eftirmatinn með fullorðna fólkinu, þá hafði hún,

þetta óbygðanna barn, meira hugrekki, útsjón og hugsjónakraft, sem mörg fullorðin kona, sem alin er upp í iðjuleysi og við allsnægtir, og hefir með mikilli árvekni og áminningum verið leidd sem allra lengst burt frá öllum frumlegum og sjálfsábyrgðarar tilfinningum, sem náttúran hefir búið hana út með.

Þegar morgunverðurinn var úti, fórum við allir að sofa, og sváfum þangað til við vorum kallaðir til miðdegisverðar; en að þeirri máltíð lokinni, fórum við öll til samans, hvert einasta mannsbarn, karlar og konur, drengir og stúlkur út á vígvöllinn, í þeim erindum að jarða þá, sem fallið höfðu af okkar eigin mönnum, og draga Masaiana ofan í ána Tana, sem var innan hundrað og tuttugu feta þaðan. Þegar við komum þangað, sáum við þúsundir af gömmum og móleitum skógar-örnum, sem safnast höfðu saman af margra mílna svæði utan um þessa krás. Oft hefi eg veitt þessum stóru og viðbjóðslegu hræfuglum eftirtekt, og furðaði mig á því, hve framúrskarandi fljótir þeir eru að safnast saman þangað sem eitthvað hefir verið drepið. Ekki þarf annað en að maður skjóti einn hafur, og óðar sést upp í loftinu svartur depinn, sem vex smátt og smátt þangað til þetta er orðið að gammi, og svo sést hver eftir annan. Eg hefi heyrt ýmsar getgátur um, hvernig væri háttað þessum makalausu hæfileikum, sem náttúran hefir búið þessa fugla út með. Mín eigin hugmynd, sem bygð er á töluverðri eftirtekt, er sú, að þessir fuglar, sem annars sjá svo framúrskarandi vel, að maður sér ekki betur með beztu sjónaukum, skifti á milli sín geimnum, og hver fyrir sig bíði á sínum á-

kveðna stað, ef til vill tvær til þrjár mílur fyrir ofan jörðina — og hafi vakandi auga á allmiklum fláka. Svo þegar einn fugl sér tilfallast bráð, fer hann tafarlaust að síga niður á þann blett. Sá fuglinn, sem næstur er að sveima um geiminn, og sér nágranna sinn halda á stað, veit undir eins, að eitthvað hefir borið til veiði, og leggur á stað í sömu áttina og svo koll af kolli. Þannig geta gammarnir á tuttugu mílna svæði fengið tilkynning um æti í einu vetfangi.

Við jörðuðum þá dauðu með hátíðlegri þögn og af því Mr. Mackenzie lá veikur heima, þá var Good valinn til að lesa útfararformálann; því bæði var hann mestur raddmaður og tilkomumestur í framkomu sinni. Það var mjög sorglegt, verra gat það þó verið, eins og Good sagði, því það gat skeð að við hefðum þurft „að jarða okkur sjálfa.“ Eg sýndi honum fram á, að það hefði orðið óþægilegt verk, en eg vissi vel við hvað hann átti.

Að þessu búnu fórum við að hlaða uxa-vagnana, sem komð var með heimanað frá Mr. Mackenzie, með líkum Masaianna, en tókum þó fyrst af þeim öll vopn og herklæði. Við hlóðum fimm vagna, her um bil fimtíu búkar fóru á hvern þeirra, og söktum öllu niður í ána Tana. Á þessu var auðséð, að fáir af þeim höfðu komist undan. Krókódílarnir hafa fengið fylli sína þá nótt. Einn af þeim síðustu sem við tókum upp, var vökumaðurinn við efrahliðið. Eg spurði Good hvernig hann hefði farið að vinna á honum, og hann kvaðst hafa laumast að honum, hér um bil alveg eins og Umslopogaas gerði, og rekið hann í gegn með sverði sínu. Hann stundi

töluvert, en til allra hamingju hafði enginn heyrt til hans, Eins og Good sagði, þá var hroðalegt að þurfa að vinna slíkt verk, sem frámunalega óþægilega líktist morði, er unnið er af ásettu ráði.

Og þannig endaði viðureign okkar við Masaianan með síðasta líkinu, sem flaut ofan ána Tana. Við fórum með spjótin og skildina og önnur vopn til trúboðsstöðvanna, og fyltu þau þar útihús eitt. En ekki má eg gleyma að geta eins atburðar. Þegar við höfðum komið af okkur líkum Masaianna, kuuningja okkar, og vorum á leiðinni heim aftur, þá lá leið okkar fram hjá hola trénu, sem Alfonse hafði falist í um morguninn. Það vildi svo til, að litli maðurinn var með okkur til þess að veita aðstoð sína við það óviðfeldna verk, sem við höfðum nú haft með höndum, og var honum það miklu ljúfara en að eiga við Masaiana lifandi. Í hvert skifti, sem hann tók á líki, varð honum að orði eitthvert hnyttilegt háðsyrði. Það var mikill munur á Alfonse, þegar hann var að fleygja dauðum Masaiunum út í Tana, og þegar hann var að flýja undan spjóti lifandi Masaia, til þess að forða lífi sínu. Nú var hann glaður og kátur og fjörugur, eins og Frökkum er eiginlegt; hann klappaði saman höndunum og söng parta úr frönskum kvæðum, þegar skuggalegu,dauðu bardagamennirnar féllu með skvampi niður í hið rennandi vatn, og lögðu af stað til að flytja frændum sínum einum hundrað mílum neðar fregnina um dauðann og ósigurinn. Eg hélt í stuttu máli, að það væri gott að lægja í honum rostann, og lagði það

til að háldinn væri yfir honum herréttur fyrir framferði hans um morguninn.

Við fluttum hann því að trénu, sem hann hafði falið sig í um morguninn, og bjuggumst til að halda rétt yfir honum. Sir Henry skírði fyrir honum á ágætri frönsku, hvílíkur óheyrilegur heigulskapur og hæfa væri innifalin í framferði hans um morguninn, sérstaklega þar sem hann hafði látið óhreinu tuskuna út úr sér, og með því vakið allar herbúðir Masaianna með tannaskröltinu og rétt að segja orðið orsök í því að krefjast þess að Alfonse gæfi einhverja skýringu .

Ef við hefðum búist við því að sjá Alfonse ráðalausan og fyrirverða sig, þá hefðum við orðið illa sviknir. Hann skók sig og hneigði glottandi og játað, að í fyrsta áliti gæti framferði sitt virst kynlegt en í rauninn hefði það alls ekki verið, því þó hann hafi skelt saman tönnuum, þá hafi það ekki verið af hræðslu—mikil lifandi ósköp! auðvitað ekki! hann skyldi í því, hvernig messieurs gátu látið sér detta slík í hug — það var auðvitað af morgunkælunni. Af druslunni er það að segja, að hún var gegnsósuð af steinolíu, brækju og púðri, og monsieur mundi sjálfur fljótt hafa hrækt henni út úr sér, ef hann hefði fundið að henni bragðið. Þó lét hann sér það ekki koma til hugar; hann var staðráðinn í að halda henni upp í sér, þangað til það óhapp vildi til, að maginn í honum snerist um og druslan kastaðist út með óstöðvandi uppsölukasti.

„En hverja skýringu getið þér gefið á því til-

tæki yðar að fara inn í tréð?“ spurði Sir Henry, og átti bágt með að verjast hlátri.

„Það er rétt að gera grein fyrir því, monsieur; enginn hlutur er hægari. Á því stóð svo sem nú skal greina: eg stóð þarna hjá veggnum, og litli grá-klæddi herrann sló mig í kviðinn svo að skotið hljóp úr byssunni minni, og bardaginn byrjaði. Meðan eg var að ná mér eftr heljarhöggið, sem monsieur gaf mér, virti eg fyrir mér allan aðganginn; og þá, messieurs, fann eg hetjublóð langafa míns ólga í æðum mínum; eg hrópaði „áfram“! og mig langaði til að vega menn. Fyrir augum mínum rann upp svipur hetjunnar, langafa míns! Í stuttu máli, eg varð óður! Eg var orðinn blátt áfram að bardagamanni! En þá heyrði eg í hjarta mínu lága rödd, svo mælandi: „Alfonse,“ sagði röddin, „stiltu sjálfan þig. Alfonse! Gefðu ekki þínum grimdar-tilfinningum lausan tauminn. Þó þessir menn séu svartir, þá eru þeir bræður þínir engu að síður. Og þó ætlar þú að drepa þessa menn, ófyrirleitni maður!“ Röddin hafði rétt fyrir sér. Eg vissi það sjálfur; það var rétt að mér komið að fremja hin voðalegustu hryðju-verk; að særa! að brytja niður! að slíta menn sundur lim fyrir lim! Og hvernig átti eg að stilla mig? Eg litaðst um; eg sá tréð og tók eftir holunni. „Grafðu sjálfan þig lifandi,“ sagði röddin„ og haltu þér kyrr-um af alefli! Þannig getur þú yfirunnið freistingar þínar með valdi!“ Það var hart, rétt þegar hetju-blóð langafa míns sauð í æðum mínum sem allra á-kafast; en eg hlýddi! Eg dró fætur mína nauðuga áfram; eg jarðaði mig sjálfan! Út úr holunni sá eg

bardagann. Eg helti óbænum og hótunum yfir óvinina! Eg sá þá falla með ánægju! Því ekki það? Ekki var það eg, sem rændi þá lífinu. Saklaus var eg af þeirra blóði. Hetjublóð langafa—"

„Og snáfið þér heim, hundspottið!" tók Sir Henry fram í, skellihlæjandi og rak fótinn í Alfonse, sem setti upp iðrunarsvip og hljóp á stað èins og fætur toguðu.

Um kveldið átti eg tal við Mr. Mackenzie, og var hann allmikið þjáður af sárinu, sem Good var að lækna, því hann var töluvert nærfarinn, þó hann væri ekki reglulegur læknir. Hann sagðist láta sér þetta að kenningu verða, og ef hann kæmist aftur til heilsu, þá fengi hann trúboðið í hendur yngra manni, sem nú væri á leiðinni þangað til að fara að starfa að kristniboðinu með sér, en sjálfur færi hann heim aftur til Englands.

„Sjáið þér til, Quatermain," sagði hann, „eg ásetti mér þetta í morgun, þegar við vorum að læðast í náttmyrkrinu að þessum veslings villimönnum. Eg sagði við sjálfan mig: Ef við lifum þetta af og náum Flossie lifandi, þá fer eg heim til Englands; eg er búinn að fá nóg af villimönnum. Auðvitað hélt eg þá ekki, að við mundum komast þaðan lifandi; en guði sé þakkir, og ykkur fjórum; við höfum haldið lífi, og eg stend við heitstrenging mína, ef ekkrt nýtt kemur fyrir, sem aftrar því. Kæmi annað líkt þesssu aftur fyrir mundi það gera út af við aumingja konuna mína. Og þar að auki, hérna okkar um að tala, Mr. Quatermain, þá er eg vel efnaður. Eignir mínar eru um þrjátíu þúsund pund strling; eg hefi aflað mér

þess alls með ráðvöndu móti, og hefi það geymt í banka í *Zanzibar*, því það hefir varla kostað mig neitt að komast af hér. Jafnvel þótt það sé erfitt að yfirgefa þenna stað, sem eg hefi nú gert svo, að hann blómgast eins og rós í óbygðunum, og þaðan af örðugra að skilja við fólkið, sem eg hefi kent, þá skal eg samt fara.“

„Eg óska yður til hamingju með áform yðar, af tveimur ástæðum,“ sagði eg. „Fyrst af því, að þér hafið skyldur að rækja við konu yðar og dóttur, einkum við þá síðari, sem ætti að mentast og umgangast stúlkur af sínu eigin þjóðerni; að öðrum kosti líkist hún með tímanum villifólkinu, sem hún elst upp með. Í öðru lagi þá er eg eins viss um það, eins og eg veit að eg stend hérna, að fyr eða síðar reyna Masiarnir að koma fram hefndum fyrir manndrápin í dag. Tveir eða þrír menn hafa sloppið í dag, og þeir segja sínum mönnum fréttirnar af bardaganum, og afleiðingin verður sú, að þeir gera út mikinn leiðangur til þess að fara að yður einhvern daginn. Það getur ef til vill dregist um eitt ár, en fyrr eða seinna verður það. Og vegna þess færi eg héðan, þó að ekki væri neitt annað. Þegar þeir frétta, að þér séuð héðan farinn, þá getur verið að þeir láti staðinn óáreittan.*

„Þér segið öldungis satt,“ svaraði presturinn.

---

*) Síðan Mr. Quatermain skrifaði þetta hafa Masaiarnir, í Apríl, 1886, drepið trúboða og konu hans,— Mr. og Mrs. Houghton,— einmitt þarna við ána Tana. Þau voru, að eg held, fyrsta hvíta fólkið, sem fallið hefir fyrir þessum grimma flokki.

„Innan mánaðar yfirgef eg þessar stöðvar. En það verður mér þungbært."

---

## IX. KAPITULI.

### *Ókunnar leiðir.*

Vika var liðin, og við sátum öll saman í borðstofunni á trúboða heimilinu, mjög döpur í bragði út af því, að morguninn eftir með birtu ætluðum við að kveðja vini okkar þar og halda áfram okkar ferð. Ekkert hafði heyrst né sést til Masaianna, og ef það hefði ekki verið fyrir eitt eða tvö sverð, sem höfðu orðið eftir og voru nú farin að ryðga í grasinu og hulstur utan af skotum, þá hefði ekki verið auðvelt að sjá, að í gögmlu gripa-réttinni fyrir neðan brekkuna, hefði verið annar eins bardagi. Mackenzie var á góðum batavegi, og gat nú gengið við hækju; af hinum mönnunum, sem særðir voru, hafði einn dáið, en hinir voru nærri jafn-góðir. Sendimenn Mr. Mackenzies voru komnir til baka, svo að nægilegt varnarlið var á staðnum.

Jafnvel þó lagt væri að okkur með vinsamlegum tilboðum um að dvelja þar lengur, héldum við, að eftir því sem ástatt var væri bezt fyrir okkur að halda áfram ferðinni, fyrst til Kenia-fjallsins, og svo lengra inn í ókunna landið til að leita að þessu hvíta fólki, sem við höfðum fengið svo sterka löngun til að finna. Við vorum betur staddir en áður að því leyti, að við

höfðum fengið okkur eina tólf asna til þess að bera flutninginn og ef til vill okkur sjálfa. Við höfðum nú ekki eftir nema tvo Wakwafana okkur til fylgdar og þjónustu, og gátum enga þarlenda menn fengið með okkur í þessa rannsóknarferð, og var þeim það ekki láandi. Þegar alls var gætt, þá var það kynlegt, eins og Mr. Mackenzie sagði, að þrír menn, sem allir nutu ýmsra þeirra gæða er þykja gera lífið nokkurs virði — heilsu, nógra efna, mannvirðingar og s. frv. — skyldu rétt sér til gamans, leggja út í slíka ferð, sem allmikil líkindu voru til, að þeir kæmu aldrei aftur úr. En svona eru Englendingar — æfintýramenn frá hvirfli til ilja; og allar okkar ágætu nýlendur, sem hver um sig getur af sér með tímanum mikla þjóð, vitna um, hve mikils virði þessi æfintýralöngun er, sem í fyrsta áliti líkist hægu kasti af brjálsemi. „Æfintýramaður“ er sá, sem leggur út í óvissu upp á það að taka hverju sem að höndum ber. En þetta er það sem allir gera að nokkru leyti, og hvað mig sjálfan snertir, þá uni eg nafninu heldur vel; það bendir á djarft hjarta og traust á forsjóninni. Enn fremur er þess gætandi, að þegar tímarnir líða, og margur auðkýfingur, sem fólkið hefir fallið fram fyrir og tilbeðið, og margir þrællyndir og sérplægnir stjórnmálagarpar eru gleymdir, þá verða geymd í hugum þjóðarinnar nöfn þessara hugdjörfu ferðamanna, sem hafa gert meira en nokkrir aðrir til að gera England að slíku stórveldi sem það nú er, og þá verður börnunum, sem enn þá eiga anda sinn geymdan í skauti komandi alda, kent að virða og elska þessi nöfn. Ekki svo að skilja, að við þrír get-

um talist með þessum mönnum, en samt liggur nokkuð eftir okkur, ef til vill nóg til að hjúpa nekt okkar eigin heimsku.

Sama kveldið sátum við úti á svölunum og vorum að reyja; hver mundi þá koma þar til okkar nema Alfonse; hann hneigði sig djúpt, og óskaði að fá að tala við okkur. Eftir að við höfðum sagt honum að láta það fjúka, sem honum lægi á hjarta, fór hann að tjá okkur með allmiklum málalengingum, hve hugleikið honum væri að slást í förina með okkur — og furðaði mig ekki all-lítið á því, af því að eg vissi hver bleyða maðurinn var. En ástæðan kom fljótt í ljós. Mr. Mackenzie ætlaði fljótlega niður til sjávar og svo þaðan til Englands. Alfonse var nú sannfærður um, að ef hann færi til bygða, þá yrði hann tekinn fastur, sendur til Frakklands og hengdur. Þessi hugmynd ofsótti hann, líkt og höfuðið á Karli konungi ofsótti Mr. Dick,*) og hann velti þessu fyrir sér þangað til hættan var í ímyndan hans orðin tíu sinnum meiri en hún í raun og veru var. Að öllum líkindum hefir glæpur hans verið fyrir löngu gleymdum, og hann hefði verið látinn í friði hvervetna nema á Frakklandi; en það var ómögulegt að fá hann til að trúa þessu. Eins meinhuglaus eins og Alfonse litli var, og eins sárt og hann langaði til ættjarðar sinnar, þá kaus hann sér langtum heldur að taka upp á sig erfiðismunina og hættunum, sem samfara eru ferðalagi slíku og okkar, en eiga undir að verða vandlega skoð-

---

*) Í skáldsögunni „David Copperfield“ eftir Charles Dickens. Aths. þýð.

aður af lögregluþjóni—og er það í raun og veru ekkert annað en dæmi upp á það, sem á sér stað með flesta menn, það sem sé, að þeir óttast meira þá hættu sem að eins mótar fyrir langt í burtu, heldur en þá sem þeir ætla að fara að ganga út í svo að segja á sömu stundinni. Þegar við höfðum hlustað á mál hans, kom okkur saman um, með samráði við Mr. Mackenzie, að taka tilboði hans. Fyrst höfðum við nú fáa menn, og Alfonse var fljótur og vikaliðugur og gat gert hvað sem fyrir kom, og matreitt — já, það kunni hann sannarlega! Eg efast ekkert um, að hann hefði getað búið til ljúffengasta rétt úr stígvélabolunum af hetjunni langafa sínum, sem hann var svo gjarn á að tala um. Þar að auki var Alfonse góðlyndur og kátur eins og api, og alt hans grobb og hégómlega tal var okkur til endalausrar skemtunar; og það sem meira var, hann var aldrei ósvífinn í orðum. Auðvitað var það mikill galli, hver raggeit hann var, en úr því okkur var nú það kunnugt, þá gátum við framvegis séð um, að það yrði ekki að slysi. Og þess vegna sögðum við honum, eftir að við höfðum varað hann við öllum þeim hættum, sem hann gengi út í, að, við tækjum boði hans, með því móti að hann lofaði að sýna okkur ótakmarkaða hlýðni. Líka lofuðum við að gjalda honum tíu pund sterling fyrir mánuðinn, ef við kæmumst nokkurn tíma aftur til siðaðra manna, svo hann gæti tekið við því. Að öllu þessu gekk Alfonse með mestu ánægju, og fór af afvikinn stað til að skrifa Annettu sinni bréf, sem Mr. Mackenzie lofaði að koma á póstinn, þegar hann kæmi niður á ströndina. Hann las okk-

ur það seinna, og Sir Henry útlagði; slíkur og þvílíkur stílsmáti; Eg er viss um að tilbeiðslu-einlægni hans, og útmálun hans á því, hvað hann liði fyrir hana, hefði átt að fá á hina harðhjörtuðustu vinnukonu.

Jæja, morguninn kom, og klukkan sjö voru allir asnar klyfjaðir, og skilnaðarstundin var komin. Það var sorglegt verk, einkum að kveðja Flossie. Við vorum miklir vinir, og ræddum oft saman, en taugar hennar höfðu aldrei náð aftur sínum fyrra krafti síðan nóttina, sem var hún var á valdi hinna blóðþyrstu Másaia. „Ó! Mr. Quatermain," sagði hún, og tók höndunum utan um hálsinn á mér og fór að gráta, „eg þoli ekki að kveðja yður. Hve nær skyldum við aftur sjást?"

„Eg veit ekki, barnið mitt," sagði eg. „Við erum hvort á sínum enda æfinnar. Fyrir framan mig er í mesta lagi að eins stuttur tími; það mesta er nú að baki mínu, en eg vona að fyrir yður liggi mörg gæfusöm ár. Áður en langt líður verðið þér falleg og fullvaxin kona, Flossie, og þetta villilíf verður eins og fjarlægur draumur; en eg vona, jafnvel þó við sjáumst aldrei framar, að þér hugsið til gamla vinar yðar, og munið, hvað eg segi við yður nú. Reynið ávalt að vera góð, og gera það sem rétt er, þó það sé ekki það geðfeldasta, því þegar öllu er á botninn hvolft, þá er það sem rétt er og það sem gerir menn ánægða ætíð hið sama, hvað sem hver segir. Verið óeigingjörn, og réttið öðrum hjálparhönd, þegar þér getið, því heimurinn er fullur af þjáningum og böli. Ef þér gerið þetta, þá verðið þér góð og guðhrædd

kona, og gerið lífsleiðir margra ofurlítið bjartari, og þá verður ekki tilgangslaust yðar líf eins og svo fjöldamargra kvenna. Eg hefi nú gefið yður töluvert af úreltum áminningum, svo eg ætla nú að gefa yður dálítið til að taka úr þeim beiskjuna. Hérna er ofurlítill pappírsmíði. Það er það sem við köllum ávísan. Þegar við erum farnir, þá fáið föður yðar miðann og þetta bréf, en ekki fyr en við erum farnir, gætið þess. Þér giftist einhvern tíma, elsku Flossie litla, og þetta er til þess að kaupa fyrir brúðargjöf, sem þér eigið sjálf að nota, og svo dóttir yðar, ef þér eignist hana nokkra, til minningar um Quatermain veiðimann."

Veslings litla Flossie grét ákaflega, og gaf mér í staðinn lokk úr bjarta hárinu sínu, og á eg hann enn. Ávísanin, sem eg gaf henni, var upp á þúsund pund, því eg er nú flugríkur, og ekkert kallaði að mér nema ölmusugjafir, svo eg gat vel staðið við það, og í bréfinu mælti eg svo fyrir við föður hennar, að hún legði þetta á stjórnarbanka, og þegar hún giftsit eða yrði fulltíða, þá skyldi hann kaupa handa henni fallegt hálsband úr demöntum, sem hann gæti fengið fyrir peningana og renturnar af þeim. Eg valdi demanta, vegna þess eg býst við að námar Salómons konungs séu nú tapaðar heimnum og demantar yrðu því ætíð í sínu verði, ef hún skyldi einhvern tíma lenda í fátækt, og þá gæti hún komið þeim í peninga.

Loksins lögðum við af stað eftir margar kveðjur með höndum og höttum, og skot í virðingarskyni við okkur frá Afríkumönnunum. Alfonse grét eins og barn, (því hann hefir viðkvæmt hjarta) af að skilja

við húsbændur sína; og mér þótti vænt um að komast af stað, því eg hefi skömm á þessum kveðjum. Það sem var, ef til vill, átakanlegast, var að sjá hvað Umslopagaas tók sér nærri að skilja við Flossie litlu, því þessi grimmi bardagamaður hafði fengið mestu mætur á henni. Hann var vanur að segja, að það væri viðlíka hressandi að sjá hana, eins og stjörnu á níðdimmum næturhimni, og hann lét aldrei af að prísa sjálfan sig sælan fyrir að hafa drepið Masaiann, sem hótaði að myrða hana. Og með þessu var lokið því sem við sáum af hinu góðfræga trúboða-heimili — sem var sannur aldingarður í eyðimörk. En oft hugsa eg um Mackenzie-fólkið, og brýt heilann um það, hvernig því muni hafa gengið ofan að sjónum, og hvort það sé nú alt með heilu og höldnu á Englandi, og hvort þau lesi nokkurn tíma þessi orð. Elsku litla Flossie! Eg veit ekki hvort hún kemst af, þar sem hún hefir enga svertingja til að gegna skipunum sínum, og engan himingnæfandi og snjóþakinn Keniatind til að horfa á, þegar hún kemur á fætur á morgnana. Og svo kveð eg Flossie.

Eftir að við héldum á stað, komumst við ferða okkar að mestu leyti óhindraðir þangað til við vorum komnir fram hjá rótum Keniafjallsins, sem Masaiarnir kalla „Donyo Egere“, eða „Blettótta fjallið“, fyrir parta í klettum upp undir brúninni, sem eru svo brattir, að snjór tollir ekki á þeim, og fram hjá hinu afskekta vatni Baringo. Þar dó annar af þessum Askaræum, sem eftir voru, af höggormsbiti, þrátt fyrir allar okkar tilraunir til að bjarga honum. Þaðan héldum við áfram hér um bil hundrað og fimtíu

mílur, og komum þar og komum þar að fjalli afarháu og snjóþöktu að ofan verðu, sem kallað er Lekakis era, og hefir, mér vitanlega, aldrei nokkur Evrópumaður komið þangað, en eg má ekki tefja mig á að lýsa því. Þar dvöldum við í tvær vikur, og lögðum svo aftur á stað út í veglausan og óbygðan skóg, sem þekur þar afarstórt svæði, sem kallað er Elgumi. Í þessum eina skógi voru fleiri fílar heldur en eg hafði nokkurn tíma fyrr séð eða heyrt getið um. Mergð af þessum risavöxnu skepnum gekk þar algerlega í friði fyrir mönnunum. Einu böndin, sem á þeim lágu, voru lög náttúrunnar, sem bannar öllum skepnum að fjölga meira en sem því svarar, er svæði það sem þær lifa á geta gefið af sér þeim til viðurværis. Það er óþarfi að taka það fram, að við skutum að eins fáa af þeim, fyrst af því að við máttum ekki missa skotfæri, því byrgðir okkar af þeim voru orðnar háskalega litlar; asni sem klyfjaður var skotfærum fór í á eina, er við áttum leið yfir, með öllu saman; og í öðru lagi fyrir það, að við gátum ekki flutt með okkur tannirnar, en okkur til skemtunar drápum við þá ekki. Svo við létum þessa stóru ribbalda vera kyrra, skutum að eins einn eða tvo, sem sóttu að okkur. Á þessum slóðum voru fílarnir óvanir veiðimanninum, og lofuðu þeir okkur því að ganga á tíu faðma svæði frá sér á bersvæði, en reistu sig og spertu eyrun og störðu forviða á þetta makalausa furðuverk—manninn. Einstöku sinnum þegar þessi nákvæma eftirtekt nægði ekki til að gera þá ánægða, þá sendum við þeim skot fyrir alt gláp-ið, en oft kom að ekki fyrir. Þá sjaldan það kom

fyrir, urðum við að nota rofflana okkar. Ekki voru fílarnir heldur einu villudýrin í hinum mikla Elgumiskógi. Þar var yfirfljótanlegt af alls konar stórum veiðidýru, þar á meðal ljónum—og fari þau grenjandi! Eg hefi alla mína æfi hatað ljónin, síðan eitt þeirra beit mig í fótinn og gerði mig haltann alla mína æfi. Af þessari veiðidýra mergð leiddi það, að þar var nóg af annarri skepnutegund, tsetse-flugunni, sem mönnum stendur svo mikill ótti af; bit hennar er alidýrum banvænt. Hingað til hefir verið talið svo, sem asnarnir mundu vera einu skepnurnar, að mönnunum undanteknum, sem óhætt er fyrir árásum þessara flugna, þó að kynlegt megi virðast, en við það hefi eg þá athugasemd að gera, oð okkar asnar stóðust ekki fluguna; eg veit ekki, hvort það var af því, að þeir voru illa á sig komnir, eða af því að flugan sé eitraðri á þessum parti jarðarinnar en annars staðar. En til allrar hamingju drápust þeir ekki fyr en tveim mánuðum eftir að þeir höfðu orðið fyrir bitinu; þá drápust þeir skyndilega eftir tveggja daga kalsa regn, og þegar eg fláði nokkra þeirra, sá eg á ketinu löngu, gulu rákina, sem er einkenni banvæna tsetse-bitsins, og koma einmitt þar sem flugan hefir stungið eitrinu inn í holdið. Þegar við vorum komnir út úr mikla Elgumi-skóginum, héldum við enn í norður og komumst við eftir hæfilega langan tími, samkvæmt upplýsingum þeim er Mr. Mackenzie hafði fengið hjá vesalings ferðamanninum, sem náð hafði heimili hans að eins til að láta þar lífið svo hörmulega, að endanum á stóra vatninu, sem Afríkumenn kalla Laga; það vatn er hér um bil

50 mílna langt og 20 mílna breitt, og hafði maðurinn minst á það, eins og lesarinn kann að muna. Það-an héldum við áfram hér um bil mánaðar tíma, yfir mikið öldumyndað hálendi, nokkuð líkt því sem er í Transval, en hér og þar var á því kjarrskógur.

Á allri þessari leið fór landið hækkandi, hér um bil um hundrað fet á hverjum 10 mílum. Alt þetta land var í raun og veru aðdragandi upp að fjöllum miklum, sem voru snæfi hulin að ofan. Til þessara fjalla stefndum við, og höfðum við heyrt, að þar væri hitt vatnið, sem ferðamaðurinn hafði talað um sem botnlausa vatnið. Loksins komumst við þang-að, og með því við þóttumst vissir um, að þar væri sannarlega stórt vatn efst í fjöllunum, héldum við upp á við 3,000 fet, þangað til við komum fram á snarbrattan hamar eða brún, og sáum þá, 1500 fet fyrir neðan okkur, mikið vatn, hér um bil 20 fer-hyrnings mílur á stærð; höfðu þar sem vatnið var nú augsýnilega áður verið einn eða fleiri stórkostlegir eldgígar, sm nú voru útbrunnir. Við sáum þorp fram með vatninu, og héldum því ofan eftir til þess, en mjög örðugt gekk ferðin, því að furuskógar voru á leið okkar. Þar neðra fengum við góðar viðtök-ur hjá fólki, sem var blátt áfram og friðsamt; það hafði aldrei fyr séð hvíta menn né heyrt um þá get-getið, og það sýndi okkur mikla lotningu og góð-vild, og gaf okkur eins mikið af mat og drykk og við gátum í okkur komið. Þetta dásamlega og gullfallega vatn var, eftir okkar mælingu, full 11,-450 fet yfir sjávarmál, og loftslagið þar var kalt, alls ekki ólíkt loftslaginu á Englandi. Sannast að

segja sáum við fyrstu þrá dagana, sem við dvöldum þar, lítið eða ekkert af útsýninu þar, vegna skozku regnmóðunnar, sem yfir öllu lá. Það var þetta regn, sem kom tsetse-eitrinu til að verka í ösnunum, sem við áttum eftir, svo að þeir drápust allir.

Þetta óhapp kom okkur í mjög ill vandræði, af því að nú höfðum við engin ráð með að koma neinum farangri með okkur, þó að við hefðum að hinu leytinu lítið að flytja. Af skotfærum höfðum við lítið, ekki nema 150 riffilskot og eitthvað 50 skot í haglabyssur. Við vissum ekki hvernig við ættum að komast af; sannast að segja virtist okkur svo, sem við værum komnir þarna í sjálfheldu. Jafnvel þó okkur hefði verið hugleikið að hætta rannsóknum okkar, sem átti sér alls ekki stað, þó að þær væru nokkuð út í bláinn, þá náði það engri átt, að við mundum geta brotist aftur niður til strandarinnar, eitthvað sjö hundruð mílur, eins og nú var ástatt fyrir okkur; við komumst því að þeirri niðurstöðu, að hið eina, sem við gætum gert, væri að halda þarna kyrru fyrir—úr því fólkið var okkur vinsamlegt og matvæli nóg—um stundarsakir, bíða þess er að höndum bæri, og reyna að fá einhverjar fregnir um löndin hinu megin vð fjöllin.

Þegar við því höfðum keypt af höfuðsmanni þorps þessa, sem við höfðumst við í, eintrjánngsbát mikinn, svo stóran að hann tók okkur all og faranguriinn okkar, og borguðum honum með þremur tómum púðurstiklum úr messing, sem manninum þótti fram úr skarandi vænt um, þá lögðum við af stað út á vatnið, til þess að leyta að stað, sem hent-

ugri væri til að tjalda á. Við vissum ekki, hvort við mundum koma aftur til þorpsins, og því bárum við allan okkar flutning út á bátinn, og sömuleiðs fjórða part af soðnum vatnshafri; þær skepnur eru ágætis matur, þegar þær eru ungar. Og svo lögðum við af stað, en á undan okkur höfðu svertingjar farið í léttum eintrjáningsbátum, til þess að gera íbúum annara þorpa aðvart, að okkar væri von.

Við mjökuðumst áfram í hægðum okkar, og Good fór að minnast á, hve óvenjulega fagurblátt vatnið væri, og kvaðst hafa skilið svo svertingjana, sem voru fiskimenn miklir—enda var fiskur aðal fæða þeirra,—sem þeir hygðu vatnið vera afar djúpt, og að gat mundi vera einhvers staðar á botninum á því, og rynni vatnið þar út um og slökti einhvern mikinn eld, sem brynni niðri í jörðunni.

Eg benti honum á, að það sem hann hefði heyrt væri að öllum líkindum þjóðsaga, sem ætti uppruna sinn að rekja til þess, er eldsumbrot hefðu verið í einhverjum útbrunna keilumyndaða hnjúknum þar. Við sáum all marga af þeim umhverfis vatnið, og hafði augsýnilega verið eldur uppi í þeim löngu eftir að sloknað hefði eldurinn í aðalgígnum, sem var nú skál vatnsins sjálfs. Þegar eldurinn sloknaði að lokum algerlega, hefir fólkið ímyndað seér, að straumur úr stöðuvatninu hafi slökt eldinn niðri í jörðinni, sérstaklega vegna þess að ekki sást neitt afrennsli frá vatninu, þó að það rynni stöðugt ofan frá snjóþöktu fjallatindunum.

Þegar við komum að ströndinni hinu megin, sáum við, að hún var einn stór þverhnýptur hamar,

en hvergi nein sígandi brekka.ofan að vatninu, eins og annars staðar. Við rérum því fram með hamrinum, í hér um bil hundrað skrefa fjarlægð frá honum, og stefndum til vatnsendans. Þar vissum við að var stórt þorp.

Á þessari leið okkar fórum við að taka eftir all miklu rusli, sem flaut á vatninu, tágum, trjágreinum og fleiru. Good hélt að einhver straumur flytti það þangað, og skildum við ekert í því, hvernig því mundi vera varið. Meðan við vorum að brjóta heilann um þetta, benti Sir Henry mér á flokk af stórum, hvítum svönum, sem voru að éta ruslið dálítið fyrir framan okkur. Eg hafði áður tekið eftir svönum á flugi þar við vatnið, og með því hafði aldrei fyr séð neinar álftir í Afríku, Langaði mig sérlega mikið til að ná mér í eitt sýnshorn. Eg hafði spurt svertingjana um svanina, og fengið að vita, að þeir komu handan yfir fjöllin, ávalt á sama tíma árs snemma um morgun, og var þá mjög auðvelt að þeim, af því að þeir voru svo þreyttir. Eg spurði þá líka, frá hvaða landi þeir kæmu og yptu þeir þá öxlum og sögðu, að uppi á stóru grýttu hömrunum væri grýtt og óbygt land, og lengra burtu væru snævi þakin fjöll, full af villidýrum, og hefðust þar engir menn við, og fyrir handan fjöllin væru hundruð mílna af þéttum þyrniskógi,svo þéttum,að jafnvel fílarnir kæmust ekki gegnum hann, hvað þá menn. Svo spurði eg þá, hvort þeir hefðu nokkurn tíma heyrt getið um hvítt fólk, líkt okkur, sem ætti heima hinu megin við fjöllin og þyrniskóginn, og þá ráku þeir upp hlátur; en síðar kom mjög gömul kona og

sagði mér, að á æsku árum sínum hefði hann afi sinn sagt sér, að í ungdæmi hans hefði *hans* afi farið yfir eyðimörkina og fjöllin og komist gegn um þyrniskóginn, og séð hvítt fólk, sem lifði í steinhýsum þar hinu megin. Auðvitað var þessi fregn mjög óáreiðanleg, þar sem viðburður þessi átti að hafa átt sér stað fyrir eitthvað tvö hundruð og fimtíu árum; en þarna kom þó sama sagan aftur, og þegar eg hugleiddi hana, sannfærðist eg um að eitthvað mundi vera satt í öllum þessum sögum, og að sama skapi syrktist eg í þeirri fyriræltun, að komast að þessum leyndardómi. Litla hugmynd hafði eg þá um það, á hvern, svo að segja yfirnáttúrlegan hátt löngun minni átti að verða fullnægt.

Jæja, við héldum áfram að laumast að álftunum; þær færðust nær og nær hömrunum jafnframt því sem þær átu, og loksins fengum við ýtt eintrjáningsbátnum okkar þannig, að haugur af rekaruslinu faldi okkur fyrir fuglunum, og vorum við þá tæpa tuttugu faðma frá þeim. Sir Henry hafði hlaðna byssu, beið færis, þangað til tvær voru í beinni línu frá honum, miðaði á hálsana og drap þær báðar. Allar hinar, 30 eða fleiri, tóku viðbragð og varð þá skvamp mikið. En um leið og þær gerðu það, sendi hann aðra kúlu í hópinn. Og einn fuglinn datt niður með brotinn vænginn, og eg sé fótinn á öðrum hanga niður og fáeinar fjaðrir fjúka út úr bakinu á honum; en hann hélt áfram eins og ekkert hefði í skorist. Upp héldu svanirnir, alt af hærra og hærra, þangað til þeir voru komnir á móts við brúnirnar á hömrunum ægilegu; þá sá eg þá

skifta sér í þríhyrning og leggja af stað til norðausturs, út í lönd þau sem enginn þekti. Meðan á þessu stóð höfðum við tekið upp okkar dauðu fugla, og skínandi fallegir voru þeir; hvor um sig var um 30 pund. Og svo fórum við að elta vængbrotna fuglinn, sem hafði klöngrast yfir allmikið af rekatágum og komist út á rekalausa svæðið hinu megin við þær. Mér þótti örðugt að koma bátnum gegn um ruslið, og sagði því eina Wakwafa-þjóninum okkar, sem eftir var, ágætum sundmanni, að stökkva útbyrðis, kafa undir ruslinu og ná fuglinum, því að eg vissi, að engir krókódílar varu í því vatni, og manninum gat því ekki verið nein hætta búin. Manninum þótti gaman að og gerði eins og fyrir hann var lagt; fyrst synti hann prýðisfallega á eftir vængbrotna svaninum, og færði sig smátt og smátt nær hamrabeltinu, sem vatnið skolaði.

Alt í einu hætti hann að synda á eftir svaninum, og fór að hljóða um það að straumurinn flytti sig burt; og við sáum, að þó hann synti af öllum lífskröftum í áttina til okkar, þá drógst hann hægt og hægt að hömrunum. Við tókum í árina af öllum mætti og fengum ýtt bátnum gegn um hrygg af rusli, en þó að við færum hart, þá drógst þó maðurinn nú með meiri hraða að klettunum. Alt í einu sá eg, að fyrir framan okkur var, svo sem 18 þumlunga upp af yfirborði vatnsins, eitthvað sem líktist boga upp yfir helli niðri í vatninu eða járnbrautargöngum. Það var auðséð á vatnsmarkinu nokkur fet fyrir ofan vatnsflötinn, að venjulega flóði alveg yfir þennan boga. En þurkar höfðu gengið áður, og kuldinn

hafði hamlað snjónum frá að bráðna eins mikið og vant var; vatnið var því lágt og boginn stóð upp úr. Að þessum boga sogaðist aumingja þjónninn okkar með óttalegum hraða. Hann var ekki nema 10 faðma frá boganum og við ekki nema 15, þegar eg kom auga á hann og báturinn þaut áfarm á eftir honum án þess að við þyrftum mikið fyrir að hafa. Hann barðist um karlmannlega, og eg hélt, að okkur mundi ætla að takast að bjarga honum; en svo sá eg alt í einu örvæntingarsrvip koma á andlitið á honum, og þarna sogaðist hann frammi fyrir augum okkar niður í helbláa hringiðuna. Á sama augnabliki var eins og tekið væri af miklu afli í bátinn okkar og knúðist hann af ómótstæðilegu afli að hömrunum.

Við gerðum okkur nú ljóst í hverri hættu við vorum staddir, og rerum alt hvað af tók til þess að reyna að komast út úr straumnum. En það varð árangurslaust; eftir eina sekúndu eða svo vorum við farnir að berast að boganum eins og ör væri skotið, og eg hélt að nú væri úti um okkur. Til allrar hamingju hafði eg svo mikið snarræði, að eg gat hrópað: „Fleygið ykkur niður á grúfu — niður!“ Og á sama augnabliki fleygði eg mér sjálfur niður í botninn á bátnum, og hinir voru svo skynsamir að taka þessari bendingu. Á næsta augnabliki heyrði eg líkt og mölunar-hljóð, og báturinn ýttist niður á við, þangað til vatnið fór að renna niður í hann, og þá hélt eg að við værum dauðans matur. En ekki var því svo varið; alt í einu hætti mölunar-hljóðið, og við fundum aftur að báturinn flaug áfram. Eg sneri ofurlítið við höfðinu á mér — eg þorði ekki að

lyfta því upp—og leit upp. Ljósið, sem nú náði til bátsins, var mjög dauft, en þó gat eg grilt í hamraboga, sem var rétt uppi yfir höfðum okkar, og annað sá eg ekki. Eftir svo sem eina mínútu gat eg ekki einu sinni séð svo mikið, því ljósglætan var orðn að skuggum, og skuggarnir að algerðu kolníðamyrkri.

Þarna lágum við hér um bil klukkutíma, þorðum ekki að lyfta upp höfðunum, af því að við vorum hræddddir um, að það mundi molast, og gátum jafnvel ekkert talað saman, því að við heyrðum ekki hver til annars fyrir vatnsniðnum.

Við höfðum sannast að segja ekki heldur mikla tilhneigingu til að tala, því að við vorum gagnteknir af okkar voðalega ástandi og óttanum við bráðan bana; við gátum búist við annað hvort að rekast á hliðarnar á hellinum, eða á klett, eða að við mundum sogast niður í straumiðuna, eða ef til vill kafna af loftleysi. Allir þessir dauðdagar og margir aðrir vöktu fyrir ímyndan okkar, þar sem við lágum í botninum á bátnum og hlustuðum á nið vatnsins, sem við vissum ekkert hvert stefndi. Það var að eins eitt hljóð annað, sem eg gat heyrt; og það var skelfingar-orgið, sem Alfonse rak upp við og við, þar sem hann lá í miðjum bátnum, og jafnvel það hljóð virtist veikt og óverulegt. Sannast að segja bugaðist heilinn í mér svo af öllu þessu, að eg fór að halda að eg lægi í einhverjum draugalegum martaraðardraumi.

# X. KAPITULI.

## *Eldrósin.*

Áfram flugum við, knúðir af hinum sterka straumi, þangað til eg tók eftir því, að vatnsniðurinn var ekki nærri því eins þungur eins og hann hafði verið, og gerði eg mér grein fyrir því á þann hátt, að göngin mundu ekki vera eins þröng nú orðin, og þess vegna meira rúm fyrir hljóminn að breiðast um. Nú heyrði eg greinilegar orgið í Alfonse; í því orgi var hin kynlegasta samblöndun, sem hægt er að hugsa sér, af bænum til hinnar æðstu veru og nafni elskunnar hans, Annettu; og í stuttu máli er það um þær bænir að segja, að þó að þær væru ekki guðlast, af því að alvaran var svo augsýnileg, þá voru þær einkar einkennilegar.*) Eg tók mér ár í hönd og

---

*) Sir Henry skrifaði síðar upp eina af þessum bænum Alfonses, eins og hann hafði heyrt hana. Hún var á þessa leið: „Ó, frelsaðu mig! Taktu mig út úr þessari holu! Eg skal lofa því, að fara aldrei oftar að kanna land! Ó, Annetta, hvers vegna yfirgaf eg þig? Ó, svikráði frændi minn! Ó, frelsaðu mig frá þessum hræðilega skurði! Kærðu þig ekkert um hina; þeir eru vanari við slíkt en eg, og þeir kunna ekki að búa til mat. Ó, Annetta! Annetta (hærra). Annetta!“ (hrópað af öllum mætti.)

rak hana í rifin á honum; hann hélt að þá væri úti um sig og gólaði enn hærra en áður. Svo reis eg upp á hnén hægt og gætilega og rétti upp hendina, en gat ekki náð upp í neitt þak. Næst tók eg árina, og lyfti henni svo hátt upp sem eg gat, en það fór á sömu leið. Eg rétti hana líka út frá mér til beggja hliða, en varð einskis var nema vatnsins. Þá datt mér það í hug, að í bátnum væri auk annars flutnings sem við áttum eftir, ofur lítið ljósker og olíkanna. Eg þreifaði kring um mig og fann þetta, og með því að eg hafði eldspýtu á mér, kveikti eg með varkárni á ljóskerinu. Jafnskjótt sem kviknað hafði á kveiknum, lét eg lampann falla niður í bátinn. Það vildi svo til að það fyrsta, sem ljósið féll á, var hvíta og angistarfulla andlitið á Alfonse; hann hélt að nú væri dauðinn kominn, og að það væri einhver himnesk byrjunar-sýn, sem nú bæri fyrir augu hans, og rak því upp óttalegt gaul. Eg rak í hann árina, þó eg ætti örðugt með það, og sannfærði hann á þann hátt um það að hann væri enn á jarðríki. Af hinum þremur er það að segja, að Good lá á bakinu niðri í bátnum, með gleraugað enn fast við augað, og starði vandræðalega út í myrkrið fyrir ofan sig. Sir Henry hvíldi höfuðið á bátsþóftunni, og var að reyna að mæla hraðann á vatninu með hendinni. En þegar ljósgeislinn féll á Umslopagaas gamla, þá lá mér í sannleika við að reka upp hlátur. Eg held eg hafi sagt frá því, að við tókum með okkur fjórðapart af steiktum vatnshafri í bátinn. Jæja, það vildi svo til, þegar við fleygðum okkur allir endilangir til þess að komast hjá því að kastast út úr bátnum og niður

í vatnið, þegar okkur bæri að hellisþakinu, að höfuðið á Umslopagaas hafði komið niður mjög nærri þessum steikarbita, og jafnskjótt eftir að hann hafði náð sér dálítið, eftir að þennan voða bar fyrst að höndum, fann hann til þess að hann var svangur. Svo skar hann rólega bita af steikinni með Inkosi-kaas, og var nú að gæða sér á honum einstaklega makráður. Hann sagði okkur síðar að hann hefði búist við, að vera nú að leggja út í „löngu ferðina“, og hann kvaðst hafa kunnað betur við að fara af stað staddur. Það minti mig á menn, sem á að fara að hengja, og fá sér „ágætan morgunmat“, eftir því sem ensku dagblöðin skýra venjulega frá.

Jafnskjótt sem hinir sáu, að mér hafði tekist að kveikja á ljóskerinu, drusluðum við Alfonse fram í framstafninn á bátnum og hótuðum honum því jafnframt, að ef hann héldi áfram að gera myrkrið voðalegt með orgum sínum, þá skyldum við stytta eymdarstundir hans með því að senda hann á eftir Wakwafanum, og gæti hann þá beðið eftir Annettu sinni á öðrum stað; við þetta stiltist hann dásamlega. Og svo fórum við að ræða mál okkar eftir því sem föng voru á. En fyrst bundum við eftir ráðleggingu Goods tvær árar sem mastur í framstafninn, til þess að þær gætu varað okkur við, ef hellirinn skyldi lækka skyndilega. Það var greinilegt, að við vorum að fara eftir á, sem rann niðri í jörðinni, eða eins og Alfonse sagði, eftir „aðal-afrennslinu“ þar sem það fluttist burt úr stöðuvatninu, er þar var ofaukið. Það er kunnugt, að slíkar ár eru víða um heiminn, en fáir ferðamenn hafa verið svo óhepnir að þurfa

að ferðast eftir þeim. Við sáum ljóslega, að áin var breið, því að glampinn af ljóstýrunni náði ekki yfir hana, þó að við einstaka sinnum gætum séð annan hamarvegginn að þessum göngum, þegar straumurinn sveiflaði okkur til annarar hvorrar hliðarinnar; hvelfingin á göngunum var hér um bil tuttugu og fimm fet fyrir ofan höfuðið á okkur eftir því sem við komumst næst. Af ánni sjálfri er það að segja, að Good gizkaði á að hún færi að minsta kosti með 8 hnúta hraða, og til allrar hamingju fyrir okkur var, eins og vant er, hraðastur í miðri ánni. Samt sem áður var það okkar fyrsta verk að ákveða, að einn af okkur skyldi alt af vera frammi í framstafninum með ljóskerið og staur, sem í bátnum var, til þess að varna því, ef mögulegt væri, að við rækjumst í hliðar hellisins, eða á bjarg, sem fram kynni að standa. Með því að Umslopagaas hafði þegar matast,þá varð þetta fyrst hans hlutskifti. Að einni ráðstöfun undantekinni, var þetta það eina, sem við gátum gert til að verjast hættunum. Hin ráðstöfunin var sú, að einn okkar settist í skutinn með ár, til þess ef mögulegt væri, að stýra bátnum ofur lítið, og halda honum frá hliðum hellisins. Þegar við höfðum lokið þessum ráðstöfunum, fórum við að fá okkur bita af kalda ketinu, en fórum að því heldur sparsamlega, því að við vissum ekki hvað lengi við kynnum að þurfa að láta það endast okkur. Það fór svo að liggja heldur betur á mér, og eg lét í ljósi þá skoðun, að þó að við værum nú óneitanlega komnir í hann krappan, þá væri þó ekki alveg vonlaust um, að við kynnum að komast úr þessum nauðum, nema ef ætlau

svertingjanna skyldi vera rétt, og áin steyptist beint niður í iður jarðarinnar. Ef því var ekki svo varið, þá var það augsýnilegt, að hún hlaut að koma einhvers staðar út úr jörðinni aftur, að öllum líkindum hinum megin við fjöllin, og með því móti höfðum við ekki um annað að hugsa, en að halda í okkur lífinu, þangað til við yrðum aftur ofanjarðar, hvar sem það nú yrði. En Good benti okkur á það, í sorgarróm, og sú bending var auðvitað rétt, að við gætum átt fyrir hendi hundrað ógnir, sem við rendum ekki grun í — eða áin gæti kvíslast inn í jörðina, þangað til hún þornaði upp með öllu, og ef svo skyldi vera, þá áttum við sannarlega voðaleg örlög fyrir höndum.

„Jæja, hvað sem því líður, þá skulum við vona hið bezta, en vera við því versta búnir,“ sagði Sir Henry, sem ávalt var kátur og jafnvel fjörugur — hann var sannarlegur styrkleikakastali, þegar vandræði bar að höndum. „Við höfum komist út úr svo mörgum kynlegum örðugleikum áður, að það liggur við að eg haldi, að við komumst einhvern veginn út úr þessu líka,“ bætti hann við.

Þetta var ágætt ráð, og bjuggumst til að fylgja því, hver á sinn hátt — það er að segja, að Alfonse undanskildum. Því að hann hafði fallið í nokkurs konar skelfingar-leiðslu. Good var við stýrið, og Umslopagaas í framstafninum, svo að við Sir Henry höfðum ekkert annað að gera en að liggja niðri í bátnum og hugsa. Það stóð sannarlega einkennilega á fyrir okkur, að þjóta þarna á fleygiferð í gegnum iður jarðarinnar yfir nokkurs konar Helj-ar-á, eins og þegar Caron er að ferja sálirnar. En

hvað myrkrið var svart! Þessi veika glæta af litla ljóskerinu varð að eins til að sýna okkur myrkrið. Í framstafninum sat Umslopogaas gamli með óbilandi eftirtekt, og staurinn í hendinni til taks, og aftast í skugganum gat eg að eins grilt í Good, sem horfði stöðugt á ljósglampann til þess að hjálpa sér með því að stýra með árinni, sem hann hélt á og rak við og við niður í vatnið.

„Gott og vel,“ sagði eg við sjálfan mig, „þú hefir lagt út í þessa ferð til að leita að æfintýrum, Allan litli, ag það hefir sannarlega ekki orðið erindisleysa. Maður á þínum aldri ætti að skammast sín; en hvernig sem á því stendur, þá gerir þú það ekki. Og þó að útlitið sé voðalegt, þá er ekki að vita nema þú komist af eftir alt saman: ef ekki, nú, þá er það ekki þér að kenna, eins og þú sér! Og þegar öllu er á botninn hvolft, þá er á niðri í jörðinni mjög vel valinn grafreitur.“

Þrátt fyrir alt verð eg að játa það, að fyrst framan af reyndi þetta á taugar mínar ákaflega. Það reynir mann, þó stiltur sé og vanur ýmsu, að vera svo klukkutímum saman, að renna ekki grun í hvort maður muni lifa næstu fimm mímúturnar. En ekkert er það í heimnium, sem ekki kemst upp í vana, og jafnvel þessu vorum við farnir að venjast, svo okkur fanst ekki eins mikið til um það, eins og fyrst. Og þó hræðsla okkar væri eðlileg, þá var hún heimskuleg, þegar þess er gætt, að maður getur aldrei vitað, hvað fyrir kemur á næstu mínútunni, og það þó maður sitji inn í vandaðasta húsi og hafi tvo lögregluþjóna spíksporandi úti fyrir glugganum,

og ekki veit maður heldur neitt um það, hvað lengi maður muni lifa. Þetta er alt fyrirfram ákvarðað, börnin mín, og til hvers er þá alt umstangið?

Það var nærri miðdegi, þegar við stungum okkur inn í myrkrið, og þegar klukkan var tvö, byrjuðum við reglulegar varðtíðir—(og voru þeir Good og Umslopogaas fyrst á verði) og komum okkur saman um að hafa þær fimm klukkustundir. Þar af leiðandi tókum við Sir Henry við, þegar klukkan var sjö, Sir Henry að framan, en eg að aftan, en hinir tveir lögðust til svefns. Í þrjá klukkutíma gekk alt vel, að eins þurfti Sir Henry einu sinni að stjaka okkur frá annari hliðinni; og eg þurfti mjög lítið að fást við að stýra, því straumhraðinn gerði alt, sem þörf var á, til að halda stefnunni beinni, að eins þurfti að gæta þess að báturinn snerist ekki og færi út á hliðina. Það sem eg skyldi síst í við þessa undarlegu á var það, hvernig andrúmsloftið færi að haldast þar þolanlegt alla þessa leið. Auðvitað var það rakt og þykt, en samt ekki svo að það væri sérstaklega óviðfeldið. Sú eina skýring, sem mér dettur í hug, er þessi, að loftið, sem fluttist með vatninu inn í göngin, og gufaði upp úr ánni jafnt og þétt um leið og hún rann áfram, hafi verið nægilegt til að viðhalda lifandi lofti í göngunum. Auðvitað segi eg þetta sem getgátu eina, en held því ekki fram að það sé rétt.

Þegar eg var búinn að sitja við stýrið í þrjá klukkutíma, fór eg að taka eftir því, að loftið fór að verða hlýrra. Fyrst um sinn gaf eg þessu engan gaum, en eftir að hálfur tími hafði enn liðið, og

hitinn fór alt af vaxandi, kallaði eg til Sir Henrys og spurði hann, hvort hann fyndi þetta sama, eða hvort það væri að eins ímyndan mín. „Hvort eg finn þetta?“ svaraði hann; „eg hefði nú sagt það. Eg er í nokkurs konar tyrknesku baði.“ Um sama leyti vöknuðu hinir, ætluðu varla að ná andanum, og urðu nauðbeygðir til að spretta frá sér öllum fötum. Þar stóð Umslopogaas bezt að vígi, því hann var næstum því nakinn.

Hitinn fór sívaxandi, þangað til loksins við gát-um varla náð andanum og svitinn rann ofan af okk-ur í lækjum. Þessi staður líktist því sem hann væri forstofan að kvalastað óguðlegra eftir dauðann. Eg rak hendina niður í vatnið, og kipti henni upp aft-ur hljóðandi; það var rétt við suðu. Við litum á hitamælir, sem við höfðum og var hitinn 123 gráður. Upp frá yfirborði vatnsins rauk þykkur gufumökk-ur. Alfonse veinaði upp yfir sig að við værum í hreinsunareldinum, sem við í sannleika voru,þó ekki væri það á sama hátt og hann átti við. Sir Henry gat þess til, að við værum í nánd við eldgíg, sem væri að sjóða og vella niðri í jörðinni og eftir því sem síðar kom fram, þá liggur mér við að halda að hann hafi átt kollgátuna. Það sem við tókum út um tíma þarna á eftir var meira en svo, að eg geti lýst því.Við vorum hættir að svitna,því allur sviti var þegar pressaður út af okkur. Við lágum að eins þarna í botninum á bátnum, öldungis hjálparlausir og ófærir til að stýra honum lengur. Okkur fanst við vera eins og heitt kol, og munum annars hafa tekið út eitthvað svipað og vesalings fiskurinn,

þegar hann er að deyja á þurru landi, nl. þessa sígandi, seigpínandi köfnun. Sprungur fóru að koma í hörundið á okkur, og blóðið lamdist um í höfðum okkar líkast gufuvél.

Þannig hafði gengið um nokkurn tíma, þegar alt í einu dálítll krókur kom á ána, og eg heyrði Sir Henry, sem var fram í, kalla upp með hásum rómi eins og honum hefði orðið bylt við; eg leit upp og sá hina undraverðustu og voðalegustu sjón. Hér um bil hálfa mílu frá okkur, og heldur vinstra megin við miðju árinnar — sem við sáum nú að var um 90 fet á breidd — stóð upp úr ánni stórkostlegur logi eins og stólpi, fimtíu fet upp í loftið, en þar tók steinhvelfingin við, svo að eldurinn breiddist út hér um bil 40 fet í þvermál, og féll svo niður hringinn í kring eins og blómkrans á fullsprottinni rós. Í sannleika líktist þessi eldstraumur, meira en nokkru öðru, skínandi blómi, sem risi þannig upp úr dökku og dimmu vatninu. Að neðan var leggurinn meira en eitt fet í þvermál, og að ofan þessi voðalegi, logandi krans. Hvað hroðalegt þetta var og hve fegurðin var afskapleg, get eg ekki útmálað. Jáfvel þó við værum nú um þrjú hundruð faðma frá því, þá lýsti það upp hellinn eins og hábjartur dagur væri, þrátt fyrir gufumökkinn, sem rauk upp úr vatninu, og við gátum séð steinhvelfinguna hér um bil 40 fet fyrir ofan okkur, spegilslétta af vatnsþvottinum. Bjargið var svart en hér og þar sá eg glansandi æðar af málmi, en hverrar tegundar vissi eg ekki.

Áfram þutum við nær og nær eldstólpanum,

sem brann voðalegar en nokkur eldur kveiktur af mönnum.

„Haldið þér bátnum að hliðinni hægra megin, Quatermain—hægra megin,“ kallaði Sir Henry, og féll um leið áfram meðvitundarlaus. Alfonse var áður dottinn úr sögunni. Næst datt Godd út af. Þarna lágu þeir þrír, eins dauðir væru. Við Umslopogaas vorum einir eftir með meðvitund. Við vorum ekki nema 25 faðma frá eldinum, og eg sá höfuð *Z*úlúans falla niður á hendur hans. Hann var farinn líka, og eg var einn eftir. Eg gat varla andað; þessi steikjandi hiti var búinn að þurka mig upp. Á mörgum föðmum í kringum logann var bjargþekjan logandi. Báturinn var að því kominn að brenna. Fjaðrirnar á annari álftinni skorpnuðu og hringuðust upp af hitanum; en eg vildi ekki láta undan. Eg vissi að ef eg gerði það, þá færum við svo sem tvo eða þrjá faðma frá eldgosinu sjálfu, og yrðum að þola mikinn kvaladauða. Eg beitti árinni þannig að halda bátnum sem lengst frá eldinum, og herti mig af öllum mætti. Það var eins og augun ætluðu að springa út úr höfðinu á mér, og þó eg hefði þau lokuð, þá sá eg eldinn samt í gegnum augnlokin. Við vorum nærri beint á móti eldinum nú. Hann brakaði eins og þar væru allir eldar helvítis samankomnir, og vatnið vall og sauð alt í kring. Fimm sekúndur liðu. Og við vorum komnir fram hjá; eg heyrði suðuna að baki mér.

Og svo leið yfir mig líka. Það næsta, sem eg man eftir, var það að eg fann loftandvara leika um andlitið á mér. Eg opnaði augun með miklum erf-

iðismunum. Eg leit upp. Langt, langt fyrir ofan mig sá eg birtu, þó að myrkur umkringdi mig. Alt í einu rankaði eg við mér og litaðst um. Báturinn flaut á ánni enn, og í botninum á honum lágu naktir líkamar félaga minna. „Voru þeir dauðir?“ spurði eg sjálfan mig. „Var eg einn eftir skilinn í þessum hörmungastað?“ Mér var það óljóst. Næst varð eg þess áskynja að eg kvaldist af þorsta. Eg rak hendina út yfir borðstokkinn og ofan í vatnið, og kippti henni að mér aftur hljóandi. Það var síst að undra: nærri alt handarbakið á mér var eitt brunasár. Samt var vatnið þarna hér um bil kalt, og eg drakk mikið af því, og jós yfir mig allan. Líkami minn drakk í sig vökvann eins og múrveggur eftir langvarandi þurka; en þar sem eg var brendur orsakaði vatnið sáran sviða. Svo fór eg að hugsa um hina, og mjakaði mér til þeirra með þrautum og fór að ausa á þá vatni, og mér til hinnar mestu gleði fóru þeir að rakna við—fyrst Umslopogaas, og svo hinir. Svo fóru þeir að drekka og sulgu vatnið í sig eins og njarðarvettir. Svo kom í okkur kuldahrollur svo við fórum með veikum burðum að bisa við að klæða okkur í fötin. Meðan við vorum að því benti Good okkur á aðra hliðina á bátnum. Hún var öll skopin af hita og sumstaðar algerlega brunnin. Hefði hann verið smíðaður eins og bátar siðaðra manna, sagði Good að borðin hefðu verpst svo, að nóg vatn hefði komist inn til að sökkva bátnum. En til allrar hamingju þá var hann eintrjáningur úr mjúkum við, og hliðarnar þriggja þumlunga þykkar og botninn fjögra þumlunga þykkur. Hvern-

ig á þessum loga stóð, gátum við aldrei komist fyrir. Að líkindum hefir þar verið sprunga i árbotninum, sem glóandi gasstraumur hefir þrengt sér upp um frá mikilli eldstöð langt niður í jörðunni. Hvernig þessi eldur fyrst hefir kviknað, veit eg ekki —ef til vill hefir það verið af því, að gas hefir safnast þar saman og við umbrot af því eldurinn kviknað af sjálfu sér.

Þegar við vorum búnir að klæða okkur og hlúa að okkur það sem við gátum. fórum við að hugsa til þess að komast að því, hvar við værum staddir. Eins og eg sagði áður, þá sást skíma upp undan okkur, og eftir nákvæmari eftirtekt sáum við að hún kom frá himninum. Áin okkar, sem Sir Henry sagði að væri lifandi eftirmynd af hinni afskaplegu hugmynd skáldsins,*) var nú ekki lengur neðanjarðar, heldur hélt hún sína skuggalegu leið, ekki „gegn um hella ómælandi", heldur milli tveggja hræðilegra standbjarga, sem hafa að minsta kosti verið tvö þúsund fet á hæð. Svo afar hátt var það, að þó heiður himininn væri uppi yfir okkur, þá var þar samt dimt, auðvitað ekki svartamyrkur, heldur líkt því sem gerist að dagtíma í húsi, sem allir hlerar eru lokaðir á. Til beggja hliða var hið mikla beina standberg illúðlegt og tilfinningarlaust, sem gerði augað magnlaust ef það réðist í að reyna að mæla þess geypilegu hæð. Þessi litla spilda af himninum, sem sást á milli hamrabrúnanna, sýndist eins og ljósblár þráður

*) Ein í Kubla Khan rann á
innan um hella ómælandi
niður í dymman dauðans sjá.

liggjandi eftir svörtum hömrum, sem voru alls nakt-ir og gróðurlausir, nema hvað í einstaka stað vottaði fyrir draugalegum blettum af löngum, gráum mosa, sem héngu hreyfingarlausir fram af brúnunum eins og hvítt skegg á dauðum manni. Það var eins og sorinn að eins, eða það þyngsta af birtunni hefði sokkið niður í þetta hræðilega djúp. Enginn létt-vængjaður sólargeisli gat fallið svo lágt: þeir dóu langt, langt fyrir ofan höfuð okkar.

Öðrumegin við ána var ofurlítil fjara, sem mynd-ast hafði af því sem hrunið hafði úr bjarginu, en nú voru steinarnir allir hnöttóttir af óaflátanlegum vatnsþvotti, svo það var eins og dreift hefði verið um þennan stað þúsundum af fallbyssukúlum. Þeg-ar vatnið er mikið í ánni, þá er svo sem enginn þessi fjara á milli vatnsins og bjargsins; en nú var bilið þar á milli sextán til tuttugu fet. Á þessari strönd ásettum við okkur að lenda, til að teygja okkur eftir stritið og teygja dálítið úr okkur. Þetta var hræði-legur staður; þó urðum við fegnir að forða okkur þangað um stund frá þessari geigvænlegu á, og svo til að ditta að bátnum okkar. Svo völdum við okkur álitlegasta blettinn og komum bátnum á land eftir langa mæðu og drógum okkur með veikum burðum út malarhnullungana.

„Ja, skárra er það nú,“ hrópaði Good, sem sté fyrstur á land, „þetta er óttalegur staður! hann er nógu hræðilegur til að gera mann vitlausan.“ Og hann hló.

Í sama bili heyrðist þrumandi rödd taka upp sömu orðin, en hundrað sinnum hærra. „*Gera mann*

*vitlausan! Ha! ha! ha!*" *„Vitlausan, ha! ha! ha!*" svaraði önnur rödd með kynlegum áherzlum langt upp í hömrunum — *„vitlausan! vitlausan! vitlausan!*" kvað við hver röddin eftir aðra með háværum hlátursköllum, og hver heyrist taka við af annarri þangað til þær allar bergmáluðu sömu orðin með djöfullegri kátínu, sem svo hætti jafn-skyndilega eins og hún hafði byrjað.

„Oh, mon Dieu!" hljóðaði Alfonse, og gaf frá sér með öllu þá stjórn á sjálfum sér, sem hann hafði haft áður.

*„Mon Dieu! Mon Dieu! Mon Dieu!*" tók tröllslega röddin undir og veinaði ámátlega.

„Já," sagði Umslopagaas stillilega, „eg er þess fullviss, að hér eiga djöflar heima, enda ber staðurinn það með sér."

Eg reyndi að koma honum í skilning um að allur þessi gauragangur væri ekkert annað en einkennilegt bergmál, en hann var ófáanlegur til að trúa því.

„Nei," sagði hann, „eg kannast við bergmál, þegar eg heyri það. Eitt var gagnvart húsinu mínu í *Z*úlúalandi, og ungu stúlkurnar lögðu í vana sinn að tala við það. Ef þetta er nú ekkert annað en fullorðið bergmál, þá hefir hitt hlotið að vera barn. Nei, nei—hitt er það, það eru djöflar þarna uppi. En eg geri lítið úr þeim," bætti hann við og tók í nefið. „Þeir geta étið eftir það sem aðrir segja, en af eigin ramleik geta þeir ekki talað, og ekki þora þeir að láta sjá farman í sig," og hann þagnaði og virtist ekki kæra sig lifandi vitund um jafn auðvirðilega féndur eins og þessa í hömrunum.

Eftir þetta vorum við nauðbeygðir til að tala í hálfum hljóðum, því það var óþolandi að láta þrífa hvert orð, sem maður talaði, og henda því eins og leikhnetti til og frá um allan hamrageiminn.

En jafnvel hljóðskraf okkar flaug upp hamarinn með ónotalegum nið, þangað til það dó út af eins og langdregið andvarp. Bergmál er indislegur og rómantiskur náttúruviðburður, en í þessu ginnungagapi fengum við meira en nóg af því.

Þegar við vorum búnir að koma okkur dálítið fyrir þar á hnullungunum, fórum við að þvo okkur og búa um brunasárin á okkur sem bezt við gátum. En með því að lítið var orðið eftir af olíu í ljósberanum okkar, þá gátum við lítið tekið af því til að bera á sárin, og því fláðum við aðra álptina, sem við höfðum, og notuðum fituna af bringunni á henni, og reyndist það ágætlega. Næst gerðum við að bátnum það sem þurfti og fórum svo loksins að fá okkur að borða, og þarf eg varla að taka það fram, að okkur var orðið mál á því, því við höfðum legið í öngvitinu marga klukkutíma, og úrin okkar sögðu til að það var komið fram á miðjan dag. Þar settumst við svo niður í hring og fórum að fást við okkar kalda ket með allri þeirri matarlyst, sem til var í okkur; en hún var, hvað mig snerti, fremur lítil, því bæði var óstyrkur í mér eftir það sem eg hafði tekið út um nóttina á undan, og svo hafði eg dynjandi höfuðverk. Og þetta var skrítin máltíð. Myrkrið var svo mikið að við gátum varla séð til að skera munnbitana og láta þá upp í okkur. Samt sem áður gekk alt bærilega, jafnvel þó ketið væri skemt af

hitanum, sem það hafði gengið í gegnum, þangað til eg leit aftur fyrir mig af tilviljun, af því eg heyrði skrjáfið af einhverju, sem var að skríða þar um steinana, og eg sá rétt fyrir aftan mig sitja á steini vatnskrabba fimm sinnum stærri en eg hefi nokkurn tíma séð fyr eða síðar. Augun í þessari viðbjóðslegu skepnu stóðu út úr höfðinu og sýndust loga framan í mann, langt þreifingarhorn beyganlegt í allar áttir, og stórkostlegar klær. Mér varð líka hverft við þessa sjón. Þessi óþverralegu kvikindi skriðu tugum saman fram úr hverri holu milli steinanna og skoru, sem var inn í bjargið. Sum af þeim voru þegar komin rétt að okkur. Eg glápi öldungis utan við mig á þessa óvanalegu sjón, og sá alt í einu einn krabbann teygja út klóna og klípa Good, sem átti sér einkis háttar von, svo aftan í bakið neðanvert, að stökk upp með svo miklu orgi, að bergmálið gekk fram úr öllu hófi. Í sama bili sló annar sér á fótinn á Alfonse og neitaði með öllu að sleppa því taki, og eins og menn geta ímyndað sér, þá gekk það ekki af með samkomulagi. Umslopogaas greip öxina sína og molaði skelina á einum þeirra með skallanum, og rak sá hinn sami upp viðbjóðslegan skræk, sem klettarnir margfölduðu þúsundfalt, og svo fór að koma froða fram úr kjaftinum á honum; varð þetta til þess, að vinir þeirra komu í hundruðum fram úr nýjum og nýjum holum og gjótum. Þegar hinir urðu þess varir, að þessi eini var meiddur, þá stukku þeir allir á hann eins og skuldheimtumenn á þann sem verður gjaldþrota, og táðu hann bókstaflega í sundur ögn fyrir ögn, og átu með græðgi. Tæjurn-

ar tíndu þeir upp í sig með klónum. Við gripum til þeirra vopna, sem voru fyrir hendi, svo sem steinana og árarnar, og lögðum til bardaga við þessa varga, sem alt af fjölguðu meir og meir og gáfu frá sér óþolandi ódaun. Jafnóðum og við brutum skelina á einhverjum, lögðu hinir að þeim meidda og rifu hann í sundur og átu með orgi og froðufalli. En ekki létu þeir sér það nægja. Þegar þeir sáu sér fært, klipu þeir okkur, og voru það viðbjóðsleg átök, og líka reyndu þeir að stela frá okkur ketinu. Einn fjarska stór krabbi náði í álptina, sem við höfðum tekið haminn af, og fór að draga hana burtu. Í sömu svipan hentust margir aðrir utan um þessa veiði, og með það byrjaði einhver sú ljótasta orusta. Hvað ófreskjurnar froðufeldu og skræktu og rifu hver aðra í sundur! Það var óviðkynnileg sjón, sem maður getur tæplega gleymt, og átti myrkrið og bergmálið góðan þátt í að gera það óbærilegt. Þó mönnum kunni að þykja það ótrúlegt, þá var eitthvað í þessu svipað og kemur fram hjá manninum undir vissum kringumstæðum. Það var eins og allur sá dýrslegasti ofsi í manninum og hans ljótustu eftirlanganir hefðu safnast saman í eina skel af krabba og orðið þar æðisgengnar. Þeir voru svo voðalega áræðnir og sniðugir, og litu út eins og þeir hefðu *skynsemi.*

„Heyrið þið, piltar, við skulum hafa okkur héðan hið fyrsta,annars er úti um okkur,“ hrópaði Good; og við létum ekki segja okkur það tvisvar. Við ýttum bátnum á flot, og voru nú hundruð af þessum skepnum að reyna að klifra upp í hann, þó þeim

tækist það ekki; við hentum okkur upp í bátinn og komumst fram á miðja ána og skildum matarleifarnar eftir, og þessar ófreskjur froðufellandi og organdi og gátu þær núríkt einar yfir öllu, sem etfir var.

„Þarna koma nú djöflarnir,sem hér ríkja,“ sagði Umslopogaas, og var auðheyrt, að hann þóttist hafa ráðið þunga gátu, og mér lá við að halda þetta sama.

Athugasemdir Umslopogaass voru eins og öxin hans—þær hittu staðinn sem hann ætlaði þeim.

„Hvað eigum við nú að gera?“ spurði Sir Henry ráðaleysislega.

„Láta hrekjast, býst eg við,“ svaraði eg, og svo létum við hrekjast. Allan síðari hluta dagsins og langt fram á kvöld rak okkur þannig áfram í myrkrinu langt fyrir neðan ljósbláa himinþráðinn, og urðum varla varir við umskifti dags og nætur, því niðri í þessu mikla djúpi var enginn munur dægranna, þangað til loksins að Good benti okkur á stjörnu, sem hékk beint upp yfir okkur, og störðum við á hana með mikilli eftirtekt af því við höfðum ekkert annað að gera. Alt í einu hvarf hún og myrkrið varð eins svart og nokkurn tíma áður, og við heyrðum aftur niðinn í loftinn, sem við könnuðumst svo vel við. „Niðri í jörðunni á ný,“ sagði eg andvarpandi, og hélt upp ljóskerinu. Já, það var enginn vafi á því. Eg gat að eins grilt í hvelfinguna. Opið var á enda, og jarðgöngin höfðu tekið við af nýju. Og svo byrjaði önnur löng, löng nótt, hættu og skelfingar nótt. Að lýsa öllu, sem fyrir okkur kom um nóttina, yrði of þreytandi; að eins skal eg geta

þess, að um miðja nóttina rákumst við á flatt sker, fram í miðri ánni, og vorum þá eins nærri því að hvolfa undir okkur og drukkna, eins og hægt er. En á endanum tókst okkur að losna þaðan, og héldum við svo leið okkar eins og að undanförnu. Þannig leið tíminn þangað til klukkan var nærri þrjú. Sir Henry, Good og Alfonse voru allir sofnaðir og öld-ungis uppgefnir. Umslopogaas var frammi í fram-stafninum með staurinn, og eg var að stýra, og veitti því alt í einu eftirtekt, að á okkur var komin meiri ferð. Í sömu svipan heyrði eg Umslopogaas segja eitthvað, og um leið heyrðist hljóð eins og þegar skógargreinar eru rifnar sundur, og eg varð þess var, að bátnum var þrengt af straumnum gegnum viðar-hríslur. Önnur mínúta leið og eg fann andann af ilmandi lofti blakta um andlitið á mér, og við vorum komnir fram úr göngunum og flutum á hreinu vatni. Eg segi að eg hafi fundið þetta, því ekkert var hægt að sjá, því myrkrið var eins svart eins og það er oft rétt á undan aftureldingunni. En jafn vel það gat ekki dregið úr gleði minni. Við vorum komnir út af þessari hræðilegu á, og hvar sem við svo vorum niðurkomnir, þá var þó að minsta kosti ástæða til að vera þakklátur fyrir það. Og eg sat þarna og drakk blessað næturloftið og beið dagsins með allri þeirri stillingu sem eg átti til.

---

## XI. KAPITULI.

### *Borgin ógnandi.*

Í heilan klukkutíma sat eg og beið, því Umslopogaas hafði líka sofnað, þangað til loksins austurloftið fór að lýsast, og risavaxar þokumyndir liðu yfir vatnið eins og svipir frá fyrri tímum, sem risu af rekkju til að fagna sólinni. Svo varð gráa loftið bleikt og þar næst rautt. Svo fóru skínandi geislarnir að stafa yfir austurloftið, og með þeim komu sendiboðar dagsins, og dreifðu úr þokuvofunum og vöktu fjöllin með kossı um leið og þeir flugu fram hjá þeim á leið sinni um geiminn. Eitt augnablik leið og gullhliðið var opið og út gekk sólin sjálf eins og brúður fram úr herbergi sínu, með hátign og fegurð og ljóma af ótal miljónum geislabrota, sem umföðmuðu nóttina og alþöktu hana með birtu, og með það sama var kominn dagur.

Enn sem komið var gat eg þó ekkert séð nema skínadni bláloftið, því yfir vatninu var þykk þokuábreiða, eins og alt yfirborðið væri þakið í baðmullarbylgjum. En smátt og smátt drakk sólin upp úðann og eg sá, að við vorum staddir á skínandi fallegu

vatni, en strandir þess gat eg ekki séð. Eitthvað átta eða tíu mílur á bak við okkur var að sjá stórkostlegar hæðir eða fjöll, eins langt burtu og augað eygði, og líktust þau vegg, sem vatnið félli upp að; eg efaðist ekki um, að í gegnum þessar hæðir var farvegurinn, sem áin okkar rann um út í vatnið. Og seinna fékk eg vissu mína um það að þessu var þannig varið, og er það merkileg sönnun fyrir straumhraðanum í ánni, að enn þá rak hann bátinn okkar áfram og hélt honum í áttinni á þessari miklu vegalengd. Rétt í þessari andránni tók eg, eða öllu heldur Umslopogaas, sem þá var vaknaður, eftir nýjum atburði, og honum alt annað en viðfeldnum. Umslopogaas sá á vatninu einhverja hvítleita flyksu, sem hann fór að benda mér á, og með fáum áratogum rendi hann bátnum þangað, og sáum við þá að þetta var maður liggjandi á grúfu. Þetta var í sjálfu sér full óþægilegt, en þið getið gert ykkur í hugarlund, hvílík skelfing kom yfir mig, þegar Umslopogaas sneri manninum við með árinni, og við sáum að þetta kinnfiskasogna andlit var andlitið á—hverjum, haldið þið? Engum öðrum en vesalings þjóninum okkar, sem sogast hafði tveim dögum áður niður í ána, sem niðri í jörðunni rann. Mér hnykti ákaflega mikið við þetta. Eg hafði haldið, að við mundum aldrei sjá hann aftur, og sjá! straumurinn hafði borið hann ásamt okkur alla þessa voðaleið, og ásamt okkur hafði hann náð takmarkinu. Útlit hans var mjög viðbjóðslegt. Hann hafði verið svartur maður, en nú var hann hvítleitur, því heita vatnið hafði soðið af honum ystu húðina; líka sáust þess

merk að hann hafði komist við eldstólpann, því annar handleggurinn á honum var algerlega skorpinn saman, og hárið brunnið. Augu hans voru sokkin, en samt var eftir á þeim þessi skerandi angistar svipur, sem eg tók eftir, þegar vesalings maðurinn var að sogast niður. Í sannleika að segja þá dró þessi sjón úr mér allan þrótt, af því eg var illa fyrirkallaður eftir allar þær þrautir, sem eg hafði ratað í, og eg varð feginn, þegar hann fór alt í einu að smá síga niður, rétt eins og hann hefði átt við okkur sérstakt erindi, sem hann hefði nú lokið; en auðvitað var orsökin sú, að þegar honum var snúið upp í loft, opnaðist leið út fyrir gasið, sem í honum var. Og niður sökk í hið tæra djúp—faðm eftir faðm gátum við séð leið hans, þangað til loksins að löng trossa af hvítum vindbólum, sem keptu hver við aðra til yfirborðsins, var það eina sem eftir var, þar sem hann hafði sokkið. Á endanum voru vindbólurnar horfnar líka, og þar með var lokið sögu vesalings þjónsins okkar. Umslopogaas horfði á, þegar hann var að sökkva og var í þungum hugsunum.

„Því var hann að elta okkur?“ spurði hann. „Það er fyrirboði ills fyrir þig og mig, Macumazahn,“ og svo hló hann.

Eg leit til hans reiðulega, því eg hefi ama af slíkum óheillaspám. Þegar fólk hefir slíkar hugmyndir, þá má ekki minna vera en að það þegi um þær. Mér leiðist fólk, sem gerir mig að höfuðpersónunni í sínum óhamingju getgátum eða þarf endilega að vera að segja frá því við morgunverðinn, ef það hefir dreymt, að glæpur hafi komist upp um mig

og eg hafi verið hengdur; og það eru jafnvel til menn, sem vinna það til að fara á fætur fyrir allar aldir til að segja slíka drauma.

En rétt í þessu vöknuðu hinir og voru sérlega glaðir af að finna að þeir voru slopnir út úr þessari hræðilegu á, og einu sinni enn komnir undir bert loft. Næst á eftir þessu byrjaði stjórnlaus vaðall í okkur öllum í einu og einlægar tillögur um, hvað nú skyldi taka til bragðs, og endirinn á því varð sá, að af því við vorum glorhungraðir og höfðum ekkert til að borða nema fáein strengsli af hertu dýrsketi, því alt annað fór í vatnskrabbana, þá afréðum við að hafa okkur til lands. En nú báru ný vandræði að höndum. Við vissum ekkert, hvar land var að finna, því að undanskildum fjöllunum, sem undirdjúpa áin rann í gegnum, sáum við ekkert annað en endalausan geim af spegilgljáandi vatninu. En við tókum eftir því, að allur fuglaskarinn á vatninu flaug jafnt og stöðugt til vinstri handar þaðan sem við vorum, og séðum af því, að þeir kæmu þaðan, sem þeir tækju fæðu sína á landi til að hafast við að deginum fram á vatninu, og samkvæmt því stefndum við bátnum í áttina, sem þeir komu úr, og fórum að róa. En áður en langt leið kom stinn gola, og stóð einmitt í þá áttina, sem við vorum að halda, svo við settum upp segl með ábreiðum og staurnum, sem við höfðum, og sigldum greiðlega. Þegar þetta var alt komið í gott lag, gleyptum við í okkur kjötleifarnar, sem við áttum, kveyktum svo í pípunum okkar og biðum þess sem að höndum bæri.

Þegar við höfðum siglt einn klukkutíma, lýsti

Good, sem var að rannsaka sjóndeildarhringinn með sjónpípu sinni, yfir því með mikilli gleði, að hann sæi land. Og hann sýndi fram á, að eftir litaskiftum á vatninu að dæma, mundum við vera á leið að ármynni. Eftir svo sem eina mínútu sáum við hvolfþak mikið, gylt, ekki ólíkt hvolfþakinu á St. Páls kirkjunni, og meðan við vorum að virða fyrir okkur, hvað þetta gæti verið, komst Good að öðru nýju, sem var enn meira varið í, og það var það, að dálítill seglbátur kom á móti okkur. Þessar litlu fréttir, sem við innan skamms gátum gengið úr skugga um með okkar eigin augum, komu okkur út í töluverða óvissu. Það að fólkið, sem bjó við þetta óþekta vatn, kunni til siglinga, virtist benda á, að það væri að meira eða minna leyti siðað. Eftir fáeinar mínútur varð það augsýnilegt, að sá eða þeir, sem á bátnum voru, höfðu tekið eftir okkur. Um fáein augnablik var bátnum beitt upp í vindinn og haldið kyrrum, en svo kom hann beint að okkur með miklum hraða. Eftir 10 mínútur voru ekki nema 50 faðmar á milli okkar, og við sáum, að báturinn var mjög snotur — ekki eintrjáningur, heldur að miklu leyti líkur Norðurálfu-bátum, smíðaður úr borðum, og með einkennilega stóru segli. En eftirtekt okkar drógst fljótlega frá bátnum og til þeirra, sem í honum voru; þar voru karlmaður og kona, *nærri því eins hvít eins og við sjálfir.*

Við störðum hver á annan steinhissa, og héldum okkur mundi missýnast; en það var deginum ljósara, að hér var um ekkert að villast. Þessi karlmaður og kona voru ekki bjartleit, en það var ekki um

það að villast, að þau voru hvít en ekki svört, eins hvít, til dæmis að taka, eins og Spánverjar og Ítalir. Það var engum blöðum um það að fletta. Svo að það voru þá loksins sannar sögurnar um hvíta fólkið í Afríku; og fyrir leyndardómsfulla handleiðslu einhvers æðra valds en okkar, höfðum við fundið þetta undarlega fólk. Mér var næst skapi að reka upp fagnaðaróp, þegar eg hugsaði um, hve dásamlegt þetta var; og þó að við gerðum það ekki, þá tókum við allir hver í hendurnar á öðrum og óskuðum hver öðrum til hamingju í tilefni af því, hve prýðilega hin ofdirfskufulla leit okkar hafði tekist. Alla mína æfi hafði eg heyrt orðróm um hvítt fólk, sem ætti að eiga heima upp í hálöndum þessa mikla meginlands, og alt af hafði mig langað til að fá sönnun fyrir þeirri sögusögn, og nú sá eg það þarna með mínum eigin augum og varð sem steini lostinn. Það var satt, eins og Sir Henry líka tók fram, sem gamli Rómverjinn sagði þegar, hann skrifaði þessi orð: „Ex Africa semper aliquid novi“ sem hann segir mér að þýði: ávalt fréttist eitthvað nýtt úr Afríku.

Karlmaðurinn í bátnum var hraustlegur, en ekkert sérlega fallegur í vexti; hann hafði strítt, svart hár, kónganef og var greindarlegur á svipinn. Að ofan var hann í brúnu fati, ekki ólíku ullarskyrtu ermalausri, og svo var hann í stuttpilsi, eins og Skotar, úr sama efni. Fótleggirnir og fæturnir voru berir. Um hægra handlegginn og vinstri fótinn hafði hann digra hringi úr gulum málmi, sem eg þóttist sjá að mundi vera gull. Konan var lagleg og ljúfmannleg, gáskaleg og feimin, stóreyg og með móleitt

hár, sem féll í liðum. Fatnaður hennar var úr sama efni eins og fatnaður mannsins. Hún var, eftir því sem við komumst að síðar, í nærfati, sem náði niður að hnjám, og þar utan yfir hafði hún að eins eina dúkræmu, hér um bil fjögra feta breiða og fimtán feta langa, og var hún vafin um líkamann í yndislegum fellingum, og að lokum lögð yfir vinstri öxlina, svo að endirinn, sem litaður var blár, purpurarauður, eða úr einhverjum öðrum lit, eftir því hve hátt konan stóð í mannfélaginu, hékk fram af öxlinni; en hægri handleggurinn var alveg ber og eins brjóstið. Snotrari klæðnað er ómögulegt að ímynda sér, allra sízt á ungri og laglegri konu, eins og hér var um að ræða. Good (sem hefir auga fyrir þess háttar) fanst mjög mikið til, og eins mér. Þessi búningur var svo einfaldur, og þó svo tilkomumikill.

En þó við yrðum forviða á að sjá þau, þá var það augsýnilegt, að þau voru mikla meira hissa á að sjá okkur. Af manninum er það að segja, að hann virtist alveg yfirkominn af ótta og undrun, og um stund var hann að flækjast kring um eintrjáninginn okkar, en vildi ekki koma mjög nærri okkur. Loksins kom hann þó svo nærri, að við gátum kallast á, og hrópaði til okkar á máli, sem virtist vera mjúkt og viðfeldið, en ekki skildum við eitt einasta orð af því, sem hann sagði. Svo kölluðum við aftur á ensku, frönsku, grísku, latínu, þýzku, zúlúsku, hollenzku, sísútsku, kúkúönsku og fáeinum öðrum Afríku-málýzkum, sem eg kann ögn í, en komumaður skildi ekkert; hann virtist þvert á móti verða alt af ruglaðri og ruglaðri. Aftur á móti hafði konan nóg

að gera að virða okkur fyrir sér, og Good endurgalt þá kurteisi með því að glápa stöðugt á hana gegn um gleraugað sitt, og virtist hún hafa fremur gaman af því en hitt. Maðurinn, sem ekki skildi neitt af því, sem við sögðum, sneri loks bátnum við og stefndi til lands, og þaut hann undan vindinum eins og svala. Um leið og báturinn fór fram hjá okkur sneri maðurinn sér við til að hagræða segli á honum og greip Godd tækifærið til að kyssa á fingurna á sér í áttina til stúlkunnar. Mér var illa við að hann gerði þetta. Bæði þykir mér það ljótt í verunni, og svo var eg hræddur um að henni mundi þykja það, en mér til mestu ánægju sá eg, að því var ekki svo varið, því að hún leit til manns síns, eða bróður síns, eða hver sem hann nú var, og þegar hún sá, að hann tók ekki eftir neinu nema seglinu þá sendi hún Good í mesta snarræði koss aftur á sama hátt og hann hafði gert.

„Jæja,‘ sagði eg. „Það er svo að sjá, sem við höfum loksins hitt á tungumál, sem þjóð þessa lands skilur.“

„Já,“ sagði Sir Henry, „og mun Good reynast okkur ágætur túlkur.“

Eg ygldi mig, því það á illa við mig, hvað Good er hégómlegur, og hann veit það sjálfur, og sneri eg því samtalinu að alveg nýju efni.„ Eg tel vafalaust,“ sagði eg, „að maðurinn muni koma aftur með hóp af félögum sínum, svo það væri vissara fyrir okkur að komast að niðurstöðu um, hvernig við eigum að taka á móti þeim.“

„Aðalatriðið er, hvernig þeir taka á móti okkur,“ sagði Sir Henry.

Good lagði ekkert til málanna, en fór að ná undan dyngju af öðrum varningi pjáturkasssa, sem hafði fylgst með í allri ferðinni. Við höfðum verið önugir við Good út af þessum kassa, af því að hann var óþægilegur í flutningi, og hann hafði aldrei sagt okkur greinilega, hvað í honum væri,en hann lét sér aldrei verða að skilja hann við sig og sagði einstaklega spekingslega, að það sem í honum væri gæti komið sér vel á sínum tíma.

„Hvern fjárann ætlið þér að fara að gera, Good?“ spurði Sir Henry.

„Gera — auðvitað að hafa fataskifti. Þér ætlist þó líklega ekki til að eg láti sjá mig í ókunnu landi í þessum görmum, eða hvað?“ og hann benti á slitnu fötin sín, sem voru, eins og alt sem honum tilheyrði, mjög þokkaleg, og alls staðar vel tjaslað í þau þar sem þau höfðu bilað. Við sögðum ekki eitt orð frekar, en horfðum með innilegri eftirtekt á það, sem hann var að gera. Það fyrsta, sem hann gerði, var að láta Alfonse, sem var snillingur til þeirra hluta, klippa hár sitt og skegg eftir nýjustu tizku. Eg efast ekki um, að ef hann hefði haft heitt vatn og sápu við hendina, þá hefði hann rakið sig; en hann hafði það ekki. Þegar þetta var búið, kom hann upp með það, að við skyldum fella seglið og baða okkur allir, og gerðum við það, og varð Alfonse bæði óttasleginn og undrandi við að sjá þá sjón, og fórnaði upp höndunum og sagði, að Englendingar væru óviðjafnanlegir menn. Umslopagaas, sem þó var hreinlátur eins og aðrir *Zúlúar* af betri ættum, gat ekki séð neina skemtun í því að vera að synda þarna í vatninu,

og horfði á okkur með þegjandi undrun. Við fórum upp í bátinn aftur, endurlífgaðir af kalda vatninu, og setumst niður og létum sólina þurka okkur, meðan Good var að opna kassann sinn. Hann dró fyrst upp úr honum mjallhvíta léreftsskyrtu, rétt eins og hún hafði komið frá gufu-þvottahúsinu í Lundúnaborg. Þar næst tók hann upp utanhafnarföt, vafin innan í gráan og hvítan pappír og seinast í silfurpappír. Við horfðum á, meðan hann var að fletta þessu úr reifunum, með mikilli óvissu um, hvað það væri. Með sérlegri gætni tók hann umbúðirnar,sem huldu skrautið á fötunum, og vafði svo hvert pappírssnipsi vandlega saman og lét niður í kassann; og að endingu lá þar fyrir framan okkur, í allri sinni fegurð, axlaskúfum, snúrum og hnöppum, einkennisbúningur af konunglegum sjóliðsforingja — skrautsverði, þrístrendur hattur, gljáandi stígvél og alt annað búningnum tilheyrandi; við stóðum á öndinni og gláptum steinhissa.

„Hvað!“ sögðum við, „hvað! Þér ætlið þó aldrei að fara að fara í þetta?“

„Jú, auðvitað,“ svaraði hann blátt áfram. „Eins og þið sjáið, þá er mikið komið undir því, hvaða áhrif við höfum á fólkið fyrst, sérílagi,“ bætti hann við, „af því, að kvenfólkið er á meðal þeirra. Einn okkar, að minsta kosti, ætti að vera þokkalega búinn.“

Við sögðum ekki eitt orð; við urðum alveg að gjalti, einkum þegar við hugsuðum til þess, hve kænlega Good hefði tekist að leyna því, hvað var í kassanum, alla þessa mánuði. Að eins eina tillögu gerð-

um við, og það var sú, að hann skyldi vera á stálskyrtunni næst sér. Hann svaraði, að treyjan mundi ekki fara eins vel þá, en á endanum lét hann þó tilleiðast. Það skemtilegasta af öllu þessu var, að sjá hvað Umslopagaas undraðist og hvað Alfonse varð ánægjulegur yfir breytingunni, sem varð á Good. Þegar hann svo loksins stóð upp í öllu-skartinu, sem lá meðal annars í medalíum, sem hann hafði á brjóstinu,, og spegladi sig í sléttu vatninu, eins og ungi maðurinn í gömlu sögunni, sem eg man annars ekki hvað hét, maðurinn, sem varð ástfanginn af skugganum sínum, þá gat gamli *Z*úlúinn ekki lengur hulið tilfinningar sínar.

„Ó, Bougwan!“ sagði hann. „Ó, Bougwan! Ætíð hefir mér þótt þú lítill maður og ljótur, og feitur eins og kýr komin að burði; en nú ertu líkur blárri skjór, sem sperrir upp stélið. Mig svíður í augun af að horfa á þig.“

Good féll ekki sem bezt þessi athugasemd um fituna, og hann átti það, sannast að segja, ekki skilið,, því hann hafði fyrir stöðuga áreynslu mjókkað um fjóra þumlunga; en yfir höfuð þótti honum vænt um aðdáun Umslopagaass. Af Alfonse er það að segja, að hann var allur sem á hjólum.

„Já! Monsieur hefir þessa ljómandi tilburði — hermanna tilburði. Kvenfólkið mun segja það sama, þegar við komum á land. Monsieur hefir alt, sem maður getur hugsað sér; hann minnir mig á kappann hann afa —“

Hér létum við hann hætta.

Þegar við nú horfðum á alt skartið utan á Good,

kviknaði í sjálfum okkur löngun til að verða ekki minni, svo við fórum að búa okkur sem bezt við gátum. Það mesta, sem við gátum gert í því efni, var að fara í föt, sem við vorum vanir að vera í á veiðum, og höfðum við báðir alfatnað af þeim, en stálskyrturnar höfðum við innan undir. Hvað mitt eigið útlit snertir, þá hefði ekki alt skart heimsins getað látið það verða öðruvísi en bjálfalegt og ófullkomið. Sir Henry sýndist hinn tígulegasti, eins og hann í rauninni var, í nærri því nýjum fötum, iljaleistum og stígvélum. Alfonse bjó sig líka með því, að gera auka-snúning á sitt mikla yfirskegg. Jafnvel Umslopagaas gamli, sem í rauninni mátti þó ekki heita smámunalega tilhaldssamur, fékk sér olíu úr ljóskerinu og hamp og fægði upp höfuðbúninginn sinn þangað til hann gljáði eins og stígvélin á Good. Svo fór hann í stálskyrtuna, sem Sir Henry hafði gefið honum, þurkaði Inkosi-kaas dálítið og stóð svo albúinn.

Meðan á öllu þessu stóð höfðum við færst jafnt og þétt í áttina til strandarinnar eða ármynnisins. Þegar hér um bil einn klukkutími var liðinn frá því að litli báturinn fór frá okkur, sáum við alt í einu mikinn fjölda af bátum koma frá höfninni eða ánni, og voru þeir að stærð hérum bil eins og bátar, sem flytja tíu til tólf tonn. Einn þeirra gekk fyrir tuttugu og fjórum árum, en flestum hinum var siglt. Í sjónauka gátum við séð, að báturinn sem róið var,var embættismanna bátur, því allir í bátnum voru í einkennisbúningi, og uppi á palli að framan stóð gamall höfðinglegur maður með hvítt skegg, og gyrtur

sverði, og var hann auðsjáanlega fyrirliði flokksins. Í hinum bátunum var vitanlega fólk, sem hafði komið út fyrir forvitnis sakir, og reri það og sigldi að okkur svo hratt sem það gat.

„Nú er tækifæri til að veðja, ef þið viljið,“ sagði eg. „Ætla þeir að verða vingjarnlegir við okkur, eða ætla þeir að drepa okkur?“

Enginn gat svarað þessari spurningu, og af því að okkur þótti, gamli maðurinn bera sig nokkuð ófriðlega, þá vorum við ekki sem öruggastir í huga.

Rétt í þessu sá Good vatnahesti bregða fyrir í vatninu, svo sem hundrað faðma frá okkur, og stakk upp á að sýna hinum, hvað við ættum hjá okkur, með því að skjóta hann, ef við gætum. Til allrar ógæfu féllumst við á þetta ráð og fórum að taka upp átthlaðningana okkar, sem við áttum fáein skot fyrir, og höfðum alt til reiðu. Þessar skepnur voru fjórar, stór hestur, hryssa og tvö tryppi, annað meir en hálfvaxið. Við komumst að þeim hæglega,og voru þessar stóru skepnur að skemta sér með því að stinga sér niður í vatnið og koma upp á milli tàa faðma frá; sannast að segja þótti mér kynlegt, hvað gæf þau voru. Þegar bátarnir, sem komu, voru svo sem tvö hundruð og fimtíu faðma frá okkur, byrjaði Sir Henry leikinn með því að skjóta á stærra tryppið. Þunga kúlan hitti dýrið rétt á milli augnanna og molaði hauskúpuna í sundur, svo það sökk steindautt og skildi eftir langa blóðrák í vatninu. Í sama byli skaut eg á hryssuna og Good á hestinn. Mitt skot hitti, þó ekki dræpi það alveg, og svo sökk kýrin með afarmiklu busli, en kom upp þegar aftur með orgi og

ólátum, og blóðlitaði vatnið alt í kring um sig, og svo hleypti eg úr hinu hlaupinu og gerði það út af við hana. Good, sem er annars handónýt skytta, hitti alls ekki hausinn á hestinum, að eins rispaði kúlan vangann á honum, um leið og hún fór hjá. Þegar eg litaðist um eftir seinna skotið, sá eg að þessu fólki, sem við vorum komnir til, hlaut að vera alveg ókunnugt um skotlistina, því að óttinn, sem sló á það við skotin, var afar mikill, og eins varð dýrunum afarhverft við þau. Sumt af fólkinu fór að hljóða upp yfir sig af hræðslu; aðrir sneru frá og héldu burt eins hart og þeir gátu; og jafnvel gamli maðurinn með sverðið sýndist vera skelkaður og hikandi, og hann lét stóra róðrarbátinn nema staðar. Annars höfðum við lítinn tíma til að íhuga þetta, því að gamli hesturinn, sem hafði orðið alveg tryltur af sárinu, sem hann fékk, reis nú upp með mikilli grimd hér um bil 20 faðma frá okkur, og horfði á okkur heiftarlega. Við skutum allir í einu, og hittum hann á ýmsum stöðum, og svo stakk hann sér mikið særður. Forvitnin fór nú að verða hræðslunni yfirsterkari hjá sumum, sem horfðu á okkur, svo þeir sigldu bátum sínum nærri fast að okkur, og voru meðal þeirra maðurinn og konan, sem við höfðum séð fyrir tveimur klukkutímum, og komu þau rétt upp að hliðinni á okkar bát. En í sama bili reis dýrið upp aftur, svo sem fimm faðma frá þeirra bát og rendi sér að honum með opinn kjaftinn. Stúlkan hljóðaði og maðurinn reyndi að víkja bátnum úr vegi, en það var árangurslaust. Á næsta augnabliki sá eg rauðan kjaftinn og hvítar tennurnar skella með miklu braki utan

um næfurþunnu hliðina á bátnum; hann tók úr henni stórt stykki og bátnum hvolfdi með það sama. Báturinn sökk, og þeir sem í honum voru lömdust um í vatninu. Á næsta augnabliki, áður en við gátum gert nokkuð til að hjálpa þeim, reis þessi vargur upp aftur með miklu grimdarorgi og rendi sér með opinn kjaftinn að vesalings stúlkunni, sem barðist um í vatninu. Eg þreif riffilinn minn, rétt þegar kjálkar dýrsins voru rétt í þann veginn að skella utan um hana, og skaut yfir höfuðið á henni beint ofan í kokið á hestinum. Hann kastaðist aftur á bak, og veltist svo um hrygg nokkra snúninga frísandi, og stór blóðbuna stóð úr nösunum á honum. Áður en hann gat jafnað sig, kom eg öðru skoti á hálsinn á honum öðrum megin, og þurfti hann ekki meira. Eftir það hrærði hann hvorki legg né lið, en sökk steindauður. Næst fórum við að fást við að bjarga stúlkunni; maðurinn hafði synt að öðrum bát; okkur hepnaðist það vel, til allrar hamingju, og drógum við hana upp í bátinn allmikið þjakaða og hrædda, en að öðru leyti óskemda, og meðan á þessu stóð heyrðist mikið fagnaðaróp frá fólkinu, sem horfði á það er fram fór.

Meðan á þessu stóð, drógu allir bátarnir sig saman, og við þóttumst sjá, að fólkið, sem varð skelkað af því sem það sá, væri að ráðgast um, hvað það ætti að taka til bragðs. Án þess að gefa þeim lengri tíma til ráðagerðar, sem við óttuðumst að mundi geta endað öðru vísi en við mundum kjósa, tókum við til áranna og rerum til bátanna, og stóð Good fram í og lyfti þríhyrnda hattinum kurteislega í allar áttir að fólkinu og lék vinsamlegt en um leið íbyggilegt

bros á hans hátíðlega andliti. Flestir bátarnir þokuðu sér frá, þegar við komum, en sumir biðu kyrrir, og stóri róðrarbáturinn kom á móti okkur. Innan lítils tíma vorum við komnir samhliða við hann og það leyndi sér ekki, að útlit okkar — einkum Goods og Umslopogaas—vakti óttablandna undrun hjá hinum höfðinglega flokksforingja. Hann var búinn líkt og maðurinn, sem við sáum fyrst, að öðru en því, að skyrtan hans var ekki úr mórauðu klæði, heldur úr-drifhvítu lérefti með rauðum bryddingum. Aftur var mjaðmabúningurinn mjög líkur og digru hringirnir á handleggjunum og á fætinum neðan við hnéð. Róðrarmennirnir voru að eins í mjaðmabúningi, en naktir ofan að mitti. Good tók ofan fyrir gamla manninum með sérstökum viðhafnartilburðum og spurði á hreinni ensku, hvernig honum liði, og svaraði hann með því að leggja vísifingur og löngutöng á hægri hendi rétta framan á varirnar á sér, og hélt hann fingrunum þar eitt augnablik, og skildum við það svo, sem það væri kveðjuteikn þeirra. Svo ávarpaði hann okkur með undur mjúkum áherzlum, sem líka höfðu einkent það sem hinn maðurinn hafði talað við okkur, og vorum við nauðbeygðir til að láta í ljósi, að við skildum ekki málið, með því að hrista höfuðin og ypta öxlum. Þetta síðasta gerði Alfonse svo aðdáanlega, eins og það væri honum meðfætt, að enginn hefði getað látið sér verða, að reiðast við hann út af því. Svo varð alt kyrt þangað til eg, sem var glorhungraður, hélt að það væri eins gott að láta þá vita það, , og eg gaf það til kynna þannig, að eg gapti og benti upp í mig með fingrinum og nudd-

aði kviðinn á mér. Gamli maðurinn skildi þetta merki vel, því hann hneiði sig í ákafa og benti til hafnarinnar, og um leið fleygði einn af mönnum hans kaðli yfir í okkar bát og benti okkur að festa hann í bátinn og gerðum við það. Stóri róðrarbáturinn hélt svo af stað með miklum hraða, með okkur í togi, beint að ármynninu, og allir hinir bátarnir fylgdust með. Að hér um bil tuttugu mínútum liðnum komum við að hafnarmynninu, og þar var fult fyrir af bátum með fólki, sem komið hafði til að sjá okkur. Það leyndi sér ekki, að fólkið var alt af sameiginlegum þjóðflokki, þó að það væri ekki alt jafn-bjart á hörund. Einstaka konur sáum við þar mjallahvítar á hörund; aftur voru þeir blökkustu meðal fólksins viðlíka og heldur mórauðir Spánverjar. Alt í einu kom hlykkur á ána, og undrunar og fagnaðarorð komu um leið fram á varir okkar, því þá sáum við í fyrsta sinn staðinn, sem við síðar meir fengum að vita að hét Milosis eða Borgin Ógnandi.

Hér um bil tvö hundruð og fimtíu fet frá ánni var snarbrattur graníthamar og hafði hann auðsjáanlega áður verið sjálfur árbakkinn. Ströndin þaðan ofan að ánni var notuð bæði fyrir vegi og til að leggja þar upp skipum og bátum og hafði náðst undan vatninu með því að dýpka árfarveginn og hlaða upp með honum. Á brúninni á þessum þverhnýpta hamri stóð stórhýsi úr sömu grjóttegund eins og var í hömrunum sjálfum. Það var bygt í þremur örmum utan um ferhyrnt svæði, en fyrir fjórðu hliðinni var varnargarður, og voru ofur litlar dyr á honum niður við jörðina. Þetta tignarlega hús fengum við

síðar að vita, að var höll drotningarinnar, eða öllu heldur drotninganna. Bak við höllina stóð bærinn í aflíðandi brekku, en efst uppi á hæðinni var skínandi hús úr hvítum marmara, og á því var hvolfþakið gilta, sem við höfðum séð. Að undanteknu þessu eina húsi, var allur bærinn úr rauðum granít og var honum skift reglulegaí ferhyrninga og ágætar brautir milli þeirra. Eins langt og við fengum séð voru húsin einloftuð og laus hvort frá öðru, og með garði í kring, sem hvíldi augað, þreytt af að horfa á rauðan tígulsteininn. Á bak við höllina lá vegur óvanalega breiður, upp brekkuna, hér um bil hálfa aðra mílu, og sýndist vegurinn enda á auðum bletti, sem umkringdi stórhýsið efst uppi í brekkunni. En rétt fram undan okkur var aðal-furðuverk og dýrð þessa staðar — hinn stórkostlegi stigi upp í höllina, sem var þvílíkt undraverk, að við stóðum agndofa við þá sjón. Látum lesarann ímynda sér, ef hann annars getur, skrautlegan stiga, sextíu feta breiðan milli hliðarbríkanna, í tveimur beinum örmum, hvorum með eitt hundrað tuttugu og átta tröppum, átta þumlunga háum og þriggja feta breiðum, með sextíu feta löngum palli í miðjunni, þar sem stigarnir komu saman. Stiginn nær allaleið frá hallarveggnum uppi á hábrúninni og niður að síki, sem grafið er úr ánni upp að brekkunni sjálfri. Þessum afarmikla stiga var haldið uppi með einum geysimiklum steinboga og var pallurinn í miðjum stiganum, eða hvíldarstaðurinn, beint ofan á boganum. Frá þessum boga lá upp á við undir efri helmingnum af stiganum annar hjálparbogi eða eitthvað sem líktst boga, en þó svo, að

enginn okkar hafði nokkurn tíma séð neitt svipað í nokkru landi, og var fegurðin á því svo stórkostleg, að hún skaraði langt fram úr öllu, sem okkur hafði nokkurn tíma dottið í hug. Þessi steinbogi var þrjú hundruð fet beint á milli endanna, og fimm hundruð og fimtíu fet eftir sveignum sjálfum. Að ofan verðu snerti þessi hálfhringur stigann á fimtíu fetum að eins og var annar endinn greiptur í aðalbogann, en hinn framan í harðgrýtisvegginn, sem stiginn lá upp á.

Þessi stigi ásamt með bogastyttunum var þvílíkt stórvirki, bæði að styrkleik og fegurð, að aldrei hefir sá maður fæðst, sem ekki hefði mátt þykjast af að láta slíkt eftir sig liggja. Seinna urðum við þess vísir, að fjórum sinnum, snemma í fyrndinni, var þetta verk byrjað, og mistókst í hvert skifti, og svo var hætt við það og geymt þannig hálfgert í þrjár aldir, þangað til loksins ungur verkfræðingur, sem Radimas hét, gaf sig fram, og kvaðst skyldi afljúka verkinu, og lagði líf sitt í veð. Ef verkið mishepnaðnst, átti honum að verða steypt fram af hamarbrúninni, sem hann átti að byggja stigann upp á. Verðlaunin, ef honum hepnaðist verkið, áttu að vera dóttir konungsins þar. Fimm ár voru honum gefin til að ljúka þessu af og efni og vinnukraftur ótakmarkað. Þrisvar sinnum hrundi boginn jafnótt og hann var bygður og misti hann þá kjarkinn og alla von um að þetta ætlaði að hepnast, og einsetti hann sér að fyrirfara sér morguninn eftir, ef boginn hryndi í þriðja sinn. En um nóttina kom til hans í draumi skínandi fögur kona og studdi á ennið á honum, og birtist honum þá alt í einu mynd af verkinu fullgerðu,

og sá hann þar, hvernig grjótið var höggvið og hvernig erfiðleikinn við að koma fyrir efri boganum sem hagsýni hans hafði alt af strandað á, gæti orðið yfirunnin. Svo vaknaði hann, og byrjaði verkið einu sinni enn, en á alt annan hátt. Og sjá! það hepnaðist, og á seinasta degi fimta ársins leiddi hann brúði sína, dóttur konungsins, upp stigann og inn í höllina. Og á sínum tíma varð hann konungur, samkvæmt erfðarétti konu sinnar, og er frá honum komin, hin núverandi *Z*uvendi konungaætt, sem þann dag í dag er kölluð „stigaættin". og sannast þar einu sinni enn, hvernig áhugi og hæfileikar eru þær náttúrlegu sigarimar upp í konungshásætið. Og til endurminningar um sigur sinn, bjó hann til standmynd af sjálfum sér, þar sem hann svaf og dreymdi, og af fögru draumkonunni styðjandi hendinni á enni hans, og setti þessa mynd í hið mikla hallarfordyri, og sést hún þar þann dag í dag.

Svona var nú stiginn upp að Milosis, og svona er borgin, sem þar tók við. Það var sízt að undra, þó hún væri kölluð „Borgin Ógnandi", því að það var alveg eins og þessi stórvirki úr eintómum granítsteini litu harðýðgislega niður á okkar lítilleik frá þeirra alvarlega ljóma. Þannig var þetta jafnvel í sólskininu, en þegar kólguskýin söfnuðust saman yfir hennar tignarlegu brúnir, þá sýndist líkari yfirnáttúrlegum bústöðum, eða einhverri skálda-ímyndan, en því sem hún er — forgengileg borg, höggvin út af listamönnum liðinnar aldar, í þögulli fjallakyrðinni.

---

## XII. KAPITULI.

### *Systurnar.*

Stóri róðrarbáturinn hélt áfram inn í síkið, sem var grafið frá ánni og nærri fast upp að stóra sigan-um, og þar nam hann staðar hjá dálitlum tröppum, við lendinguna. Þar sté gamli maðurinn á land, og bauð okkur að gera hið sama, og af því við höfðum ekki um neitt annað að velja og vorum aðfram komn-ir af hungri, þá gerðum við það mótmælalaust, en tókum samt með okkur byssurnar okkar til vonar og vara. Jafnskótt, sem hver um sig af okkur sté á land, heilsaði gamli maðurinn okkur með því að leggja fingurnar framan á munninn og hneigja sig djúpt, og skipaði fólkinu, sem tróðst að til að horfa á okkur, að víkja frá.

Síðast kom upp úr okkar bát stúlkan, sem við björguðum úr vatninu, og beið félagi hennar eftir henni. Áður en hún fór, kysti hún mig á höndina, og skildi eg það sem þakklætismerki frá henni fyrir það sem eg forðaði henni frá gini vatnahestsins; og eg gat ekki betur séð, en úr henni væri farin öll

hræðsla við okkur, og enginn sérlegur flýtir sýndist vera á henni að komast frá okkur til sinna löglegu eigenda. Að minsta kosti ætlaði hún að fara að kyssa á höndina á Good líka, en þá skarst félagi hennar í leikinn og leiddi hana burtu. Þegar við vorum komnir á land, komu nokkrir af róðrarmönnunum af stóra bátnum og tóku okkar litla flutning og héldu af stað með hann upp stóra stigann, og gaf gamli maðurinn okkur til kynna með bendingum, að við mættum vera óhræddir um hann. Að því búnu hélt hann með okkur til hægri handar að litlu húsi, sem eg síðar fékk að vita að var gestgjafahús. Í rúmgóðu herbergi, sem við komum fyrst inn í, sáum við matbúið borð, viðarborð, og var maturinn að öllum líkindum ætlaður okkur. Leiðsögumaður okkar benti okkur að setjast þar á bekk, sem stóð með fram borðinu endilöngu. Við létum ekki segja okkur það tvisvar, en tókum gráðuglega til matar, af því sem fyrir hendi var; það var borið fram á trédiskum og var kalt geitakjöt vafið í jurtablöðkum, sem ágætt bragð var að, grænn garðávöxtur, sem við þektum ekki, dökkmórautt brauð og rautt vín, sem helt var úr beljum í hornkönnur. Þetta vín var einkennilega viðfeldið á bragðið, líkast Burgundy-víni. Eftir að hafa setið tuttugu mínútur við þetta gestrisnislega borð, stóðum við upp eins og nýir menn. Eftir alt, sem við vorum búnir að þola, var það tvent, sem við sérstaklega þurftum: matur og hvíld; og matinn höfðum við nú fengið og var það mikil blessun. Tvær mjög fríðar stúlkur, líkar þeirri, sem við sáum fyrst í bátnum, þjónuðu okkur við borðið og gerðu það mjög vel.

Þær voru líka klæddar eins og hin stúlkan; það er að segja í hvítu léreftspilsi, sem náði niður á hnén, en að ofan vafðar í eins konar dúk úr mórauðu klæði, en brjóstin nakin og eins hægri handleggurinn. Seinna varð eg þess vís, að þetta var þjóðbúningur, bundinn föstum reglum, en þó auðvitað háður ýmsum breytingum. Til dæmis að taka, ef pilsið var drifhvítt, þá gaf það til kynna, að stúlkan, sem í því var, væri ógefin; ef það var hvítt, með blóðrauðri rönd í kantinum að neðan, hringinn í kring, þá þýddi það, að sú, sem í því var, væri lögleg kona, sama sem fyrsta kona manns síns; ef röndin var bleik, þá var hún önnur eða þriðja kona; ef röndin var svört, þá var hún ekkja. Að sínu leyti var það eins með dúkinn að ofan; hann var með ýmsum litum frá því að vera mjallahvítur og til þess að vera dökkbrúnn, eftir tign konunnar, og útsaumaður var hann á báðum endum á ýmsan hátt. Sama er og að segja um skikkjur karlmannanna; þær voru úr ýmsu efni og með ýmsum lit. En stuttpilsin voru ávalt eins, nema hvað ekki var jafngott í þeim. En eitt var það, sem hver einasti karl og kona í landinu hafði utan á sér sem þjóðarmerki, og það var digra gullhringinn utan um hægra handlegginn fyrir ofan olnbogann og um vinstra fótinn fyrir neðan hnéð. Tígið fólk hafði líka gullkeðju um hálsinn, og tók eg eftir því, að leiðsögumaður okkar var skreyttur slíkri keðju.

Hinn virðulegi leiðtogi okkar, sem alt af stóð hjá okkur meðan við vorum að borða og horfði rannsóknaraugum á okkur og byssurnar okkar með eins miklum beyg og honum var um að láta koma í ljós,

hneigði sig, þegar við höfðum matast, fyrir Good, sem hann auðsjáanlega hélt að væri foringi okkar vegna búningsins, og leiddi okkur út. Aftur lá leið okkar fram hjá neðri endanum á stóra stiganum. Þar námum við staðar eitt augnablik til að virða fyrir okkur tvö risavaxin ljón, sem hvort fyrir sig var höggvið út úr einu stykki af hreinum svörtum marmara, og risu þau bæði á afturfótunum á stuðlunum, sem voru sinn hvoru megin við stigann, þar sem hliðargrindurnar byrjuðu. Þessi ljón voru snildarverk, og það er sagt, að þau hafi verið búin til af Rademas, þjóðhöfðingjanum fræga, sem bjó til stigann, og var það óefað satt, eftir mörgu því að dæma, er eg sá síðar af verkum hans; hann var einhver sá mesti myndasmiður, sem uppi hefir verið í þessu landi eða nokkru öðru landi. Svo héldum við af stað með hálfgerðri óttatilfinning, upp þenna mikla stiga, sem eg er viss um að vekur aðdáun komandi kynslóða um þúsundir ára, ef hann hrynur ekki niður af jarðskjálfta. Jafnvel Umslopagaas, sem ætíð varaðist að láta sjá að sér þætti mikils um vert, því hann taldi slíkt ómannlegt, jafnvel hann varð steinhissa og spurði, hvort „brúin hefði verið gerð af mönnum eða djöflum“; hann mintist jafnan á yfirnáttúrleg öfl á þann hátt. En aftur þótti Alfonse ekki neitt sérlega mikið til stigans koma. Hinn sterklegi tíguleikur stigans átti illa við þennan veigalitla Franzmann, og hann sagði að það væri „trés magnifique, mis trist—ah, trist!“ og svo sagði hann að endingu, að það mætti prýða þetta mikið með því að *gylla* grindurnar beggja megin.

Og svo héldum við áfram upp fyrri stigann,

þessar eitt hundrað tuttugu og fimm tröppur, og yfir þveran pallinn, þar sem stigarnir mættust, og biðum við þar lítið eitt, gagnteknir af útsýninu meðfram vatninu heiðbláu, einhverju því allra fegursta útsýni, sem hugsanlegt er að til sé í nokkru landi. Og áfram héldum við enn upp brekkuna, þangað til loksins við komum á brúnina, og var þar stór pallur til að standa á og lágu þangað þrír gangar, allir fremur mjóir. Tveir af þeim lágu út á fremur mjó þrep, er höggin höfðu verið í hamarinn, og voru af borgarbúum notuð til að fara upp og ofan frá og að skipakvíunum. Skipakvíarnar voru varðar með koparhliðum og síðar fengum við að vita, að mögulegt var að að hleypa niður nokkrum af þrepunum, með því að taka burt slár nokkrar, og var þá nálega ómögulegt fyrir óvini að fara þar um. Þriðji gangurinn, sem frá pallinum lá, var 10 marmaratröppur úr svörpm marmara, og þegar þær þrutu, tóku við göng, sem höggvin voru gegn um hallarvegginn. Þessi veggur var listaverk út af fyrir sig, fjörutíu feta hár, hlaðinn úr afarmiklum granítbjörgum, og bugða inn í hann að utan, svo að ómögulegt var að fara upp eftir honum. Að þessum göngum fór leiðtogi okkar með okkur. Hurðin var mjög þung og var úr við, og fyrir utan dyrnar var koparhlið, og var það lokað; en þegar við komum að því, laukst það upp til fulls, og yrti þar varðmaður einn á okkur; hann hafði þungt spjót þrístrent, ekki ólíkt byssusting í lögun; annað vopn hans var sverð; á brjósti og baki hafði hann sér til hlífðar mjög haganlega gerðar plötur úr vatnahests-húð, og lítinn kringlóttan skjöld hafði

hann úr hinu sama efni. Sverð hans vakti þegar athygli okkar; það var alveg eins og sverðið, sem Mr. Mackenzie átti, og hafði fengið frá ferðamannsræflinum. Það var ómögulegt að villast a gullröndunum, sem smelt var inn í blaðið, þar sem það var þykkast. Svo maðurinn hafði þá loksins sagt satt. Leiðsögumaður okkar sagði tafarlaust umgangsorðið, og kannaðist hermaðurinn við það, að það væri rétt, á þann hátt, að hann rak járnskaftið á spjóti sínu niður í steinlagðan grunninn svo að glamraði í, og við fórum inn um þennan sterklega vegg og komum inn í hallargarðinn. Hann var hér um bil 20 ferhyrningsfaðmar og var honum skift niður í blómsturbeð; þar uxu ýmsar ljómandi fallegar plöntur, og hafði eg aldrei fyr séð sumar þeirra. Eftir miðjum garðinum var breiður stígur, og var muldum skeljum stráð yfir hann í stað sands, og höfðu skeljarnar verið fluttar neðan frá vatninu. Við fórum eftir þessum stíg, þangað til við komum að öðru hliði bogadregnu, og héngu fyrir því þykk dyratjöld, því að í sjálfri höllinni eru engar hurðir. Svo kom annar stuttur gangur, og svo vorum við komnir inn í hinn mikla hallarsal, og enn stóðum við steinhissa á þeim einfalda en jafnframt hátíðlega mikilleik, sem fyrir augað bar.

Eftir því sem við fengum síðar að vita er salurinn hundrað og tíu feta langur og áttatíu feta breiður, og er í honum dýrðleg hvelfing úr útskornum viði. Eftir endilöngum salnum voru beggja megin, 20 fet frá veggjunum, grannar súlur úr svörtum marmara; þær náðu rétt að segja upp í loft

ið, og voru fagurlega strykaðar og útskornar. Í öðrum enda þessa mikla sals er mynd sú, er eg hefi áður minst á, að Rademas konungur hafi búið til til minningar um það, að hann kom upp stiganum. Mannalíkneskjurnar eru úr hvítum en legubekkurinn svörtum marmara, og er sýndur ungur maður með göfugmannlegt andlit og tígulegt vaxtarlag; hann sefur fast í legubekknum. Annar handleggurinn hangir fram af hliðinni á legubekknum, en á hinum handleggnum hvílir höfuðið, og er sá handleggur að nokkru leyti hulinn af hrokknum lokkum. Fram yfir hann hallast alklædd kona og styður hendinni á enni hans, og er hún svo fögur, að hver sá, sem slíkt lítur, hlýtur að verða frá sér numinn. Og af stillilegu dýrðinni, sem skín á hennar fögru ásjónu, er það að segja — nei, eg get ekki gert mér neina von um að lýsa henni. En þar er hún, líkt og skugginn af engils brosi; og í þeirri dýrð sést bæði vald og dýrð og guðdómleikur. Konan hvessir augun á hinn sofandi ungling, og ef til vill er það einkennilegast við þetta dásamlega hagleikssmíði, hve vel listamanninum hefir tekist að sýna á þreytulega og áhyggjufulla andlitinu á hinum unga manni, hvernig ný hugsjón rís alt í einu upp í huga hans jafnframt því sem hann verður fyrir áhrifum vitrunarinnar. Það er auðséð, hvernig innblásturinn er að brjótast inn í myrkrið í sál mannsins eins og dagsljósið brýzt inn í dimmu næturinnar. Þetta er dýrðlegt listaverk, og enginn hefði getað hugsað það út, nema hann hefði verið í tölu hinna mestu anda heimsins. Milli hvorra tveggja af hinum svörtu súlum er eitthvert mynda-

smíði, og táknar sumt af því sérstakar hugmyndir, en sumt eru myndir af látnum konungum, eða öðrum stórmennum og konum þeirra. En enga þeirra fanst okkur eins mikið um, eins og þá, sem eg hefi nú lýst, jafnvel þótt nokkrar þeirra væru gerðar af hinum mikla myndasmið og verkfræðingi, Rademas konungi.

Nákvæmlega í miðjum salnum var stykki af svörtum marmara, hér um bil á stærð við barnaruggustól, og ekki ósvipað því húsgagni í löguninni. Síðar fengum við að vita, að þessi merkilega þjóð taldi þennan stein heilagan; konungar hennar lögðu eftir krýninguna hönd sína á hann, og sóru við sólina, að vernda hag ríkisins og viðhalda siðum þess, venjum og lögum. Þessi steinn var auðsjáanlega afarforn (eins og reyndar allir steinar eru) og lágu niður eftir hliðum hans langar rákir eða línur, sem Sir Henry sagði, að sýndu, að hann væri brot af steini, sem einhvern tíma á fyrri tímum hefði molast sundur í járnkjöftum jöklanna. Það var lýðurinn, sem sagði, að hann hefði dottið niður frá sólinni, og spádómurinn var á þá leið, að þegar steinninn brotnaði, ætti konungur af útlendum þjóðflokki að ná yfirráðum yfir landinu. En steinninn sýndist alt annað en brothættur, og voru því talsverðar líkur til, að þarlendu prinzarnir mundu standa vel að vígi um allmörg ár enn.

Í enda salsins var gólfið upphækkað; og voru þar á því dýrindis ábreiður, og tvö hásæti stóðu þar hvort við hliðina á öðru. Þessi hásæti eru laginu eins og stórir stólar, og eru allir úr gulli. Í sætunum

eru dýrindis sessur, en bökin eru nakin, og er grafin þar á mynd af sólunni, sem skýtur geislum sínum í allar áttir. Fótskarirnar eru liggjandi gulllljón, og eru gulir tópasar í augunum. Engir aðrir gimsteinar eru þar.

Salurinn fær birtu af mörgum en mjóum gluggum, sem eru hátt uppi, líkastir skotgötum þeim sem sjá má á gömlum köstulum, en rúður voru engar í þeim, og var gler auðsjáanlega óþekt þar í landi.

Þannig var í stuttu máli þessi dýrðlegi salur, er við vorum nú staddir í, og hefi eg auðvitað samið lýsinguna eftir þekkingu, sem eg fékk síðar af honhonum. Í þetta skifti höfðum við ekki mikinn tíma til að litast um, því að þegar við komum inn, sáum við fjölda manna saman kominn fyrir framan hásætin; en í hásætunum sat enginn. Helztu mennirnir á meðal þeirra sátu í útskornum viðarstólum, sem raðað var vinstra megin og hægra megin við hásætin, en ekki beint fram undan þeim, og voru mennirnir í hvítum skikkjum, útsaumuðum hér og þar og með allavega litum köntum, og svo voru þeir vopnaðir með hinum vanalegu gullbúnu sverðum. Af því hve tígulega þeir báru sig, var það að ráða, að þeir mundu allir vera sérlegir merkismenn. Fyrir aftan þessi stórmenni var dálítill hópur af fylgismönnum og þjónum.

Sex menn, alveg ólíkir hinum, sátu í hóp út af fyrir sig vinstra megin við hásætið. Þeir voru ekki í hinum venjulegu stuttpilsum, heldur í síðum klæðum úr snjóthvítu líni, og var sama sólarmerkið, eins og á stólbökunum, búi. til úr glampandi gullþræði, í

á brjóstunum á þeim. Þessu hvíta fati var haldið saman um mittið með gullkeðju, og héngu úr henni sporöskjulagaðar plötur úr sama málmi, líkastar glampandi fiskhreistri, og þegar mennirnir færðu sig eitthvað til, glömruðu þessar skeljar og köstuðu frá sér ljósgeislum. Allir voru mennirnir rosknir og alvarlegir og fyrirmannlegir á svipinn, og voru þeir enn tilkomumeiri vegna síða skeggsins, sem þeir allir höfðu.

En sérstaklega drógst þegar athygli okkar að einum þessara manna. Hann virtist bera af öllum hinum, og það var ómögulegt annað en að gefa gætur að honum. Hann var mjög gamall — áttræður að minsta kosti — og afarhár, með langt snjóhvítt skegg, sem náði næstum því ofan að mitti. Hann hafði konganef og drættirnir í andlitinu voru djúpir, og augun voru grá og kuldaleg. Hinir voru berhöfðaðir, en þessi maður hafði í höfðinu nokkurs konar kringlótta húfu, alveg þakta af gullsaum, og réðum við af því, að þessi maður mundi hafa mikil völd, og síðar komumst við líka að því, að þetta var Agon, æðsti prestur landsins. Þegar við komum nær, stóðu allir þessir menn upp, að prestunum meðtöldum, og hneigðu sig fyrir okkur með hinni mestu kurteisi, og jafnframt lögðu þeir tvo fingur þvert yfir varnir sem kveðjumerki. Þá komu mjúkfættir þjónar frá súlunum og komu með sæti, sem voru sett beint fram undan hásætunum. Þrír af okkur settust niður, en Alfonse og Umslopagaas stóðu að baki okkar. Jafnskjótt sem við vorum seztir, heyrðist lúðraþytur úr einhverjum göngum hægra megin við

okkur, og svo líkur þytur vinstra megin. Þar næst kom fram fyrir hægra hásætið maður með langan fílabeinsstaf í höndum sér, og hrópaði eitthvað með hárri raust og endaði það á orðinu *Nýleppa;* hann tók sömu orðin upp þrisvar sinnum; svo kom annar maður eins búinn, fyrir framan hitt hásætið, og hrópaði sömu orðin, nema hvað síðasta orð hans var *Sórais;* hann tók líka orðin upp þrisvar sinnum. Svo heyrðist fótatak vopnaðra manna í göngunum til hægri hliðar, og inn kom hópur af völdum og skrautlega búnum varðmönnum, sem röðuðu sér beggja megin við hásætin, og létu þungu járnskeftu spjótin falla í einu með braki miklu í svarta marmaragólfið. Svo heyrðist aftur lúðraþytur beggja megin við hásætin,og inn í salinn komu báðar drotningarnar í Zuvendis, sín frá hvorri hlið; sex meyjar fylgdu hvorri drotningu, en þegar þær komu inn, stíðu allir upp, sem inni í salnum voru, til þess að heilsa þeim.

Eg hefi séð ýmsar fríðar konur um mína daga, og eg geng ekki lengur af göflunum, þó eg sjái snotturt andlit; en mig brestur orð, þegar eg ætla að fara að reyna að gefa mönnum einhverja hugmynd um þann skínandi yndisleik, sem okkur birtist, þegar við sáum þessar systur, drotningarnar. Báðar voru ungar, — ef til vill tuttugu og fimm ára gamlar — háar og aðdáanlega vel vaxnar; en að öðru leyti voru þær ólíkar. Önnur þeirra, Nýleppa, var einkar bjartleit; hún hafði hægri handlegginn beran og eins brjóstið, samkvæmt tízku þjóðarinnar, og hvorttveggja sýndist eins og snjór, jafnvel þegar það var borið saman við hvíta og gullsaumaða skykkjuna.

Og að því er snertir hennar yndislega andit, þá get eg ekkert annað af því sagt en það, að fáir karlmenn mundu hafa getað litið á það og gleymt því! Hár hennar var nákvæmlega eins og gull á litinn, og liðaðist í stuttum lokkum utan um snotra höfuðið á heni og huldi til fulls ennið, sem hvítt var og slétt eins og fílabein; en þar fyrir neðan glömpuðu augun dökkgrá með mikilli tign. Eg get ekki reynt að lýsa öðrum andlitsdráttum hennar; að eins skal eg geta þess, að munnurinn var mjög fallegur, bogadreginn eins og bogi ástarguðsins, og yfir öllu andlitinu lá ástúðlegur blíðusvipur; en jafnframt var í svipnum viðkvæmnisleg glettni, líkt og silfurslikja, sem liggur yfir rósrauðu skýi.

Hún hafði engan gimstein utan á sér, en um háls hennar, handlegg og hné voru hin venjulegu gulldjásn, og hennar gullhringir voru með höggormslagi. Og skikkja hennar var úr mjallahvítu líni, afar smágervu, og gullsaumar á henni víða og hin algenga ímynd sólarinnar.

Þær voru tvíburar, drotningarnar. Hin systirin, Sórais, var Nýlepþu mjög ólík, þótt hún fögur væri. Hár hennar féll í liðum, eins og hár hinnar, en það var kolsvart og féll niður um herðar hennar. Hörundslitur hennar var dökkleitur, augun stór, svört og glampandi; varirnar voru heldur í þykkara lagi, en mér fanst þær nokkuð grimdarlegar. Jafnvel þótt andlit hennar væri stillilegt og enda kuldalegt, þá kom það þó einhvern veginn inn hjá mönnum hugmyndinni um ástríðu, sem lægi í dvala, og mér varð það, að fara ósjálfrátt að hugsa um það, hvernig það

mundi verða, ef stillingin færi af. Það minti mig á djúpa sjóinn; jafnvel þegar hann er sem mest fagurblár, ber hann sýnilegt merki valdsins, og í suðunni sem heyrist í honum sofandi, má finna skyldleik við óveðrið. Vaxtarlag hennar var eins og vöxtur systurinnar, nálega svo fagurt, sem frekast er mögulegt að hugsa sér, en hún var ofur litla ögn þreknari, og hún var nákvæmlega eins klædd eins og Nýlepþa.

Þegar þessar yndislegu systur gengu að hasætum sínum, starði öll hirðin á þær steinþegjandi,og eg gat ekki anað en játað með sjálfum mér, að fullkomnari hugmynd gæti eg ekki gert mér um konungbornar konur. Konunglegt var alt hjá þeim — vaxtarlagið, yndisleikurinn, drotningarlegi tíguleikurinn og villimannlega viðhöfnin, sem þeim var sýnd. En mér fanst sem þær þyrftu ekki neitt varðlið né heldur neitt gull til þess að lýsa yfir valdi sínu og halda mönnum í skefjum. Meðan rautt blóð rennur í æðum æskumanna, þarf ekki nema eitt tillit frá þessum fjörlegu augum, eða eitt bros frá þessum ljúfu vörum til þess að slíkar konur hafi ávalt þegna, sem reiðubúnir eru að hlýða skipunum þeirra til dauðans.

En hvað sem því líður, þá voru þær fyrst og fremst konur og þar næst drotningar, og þess vegna voru þær ekki lausar við forvitni. Um leið og þær gengu að sætum sínum, sá eg þær líta skyndilega í áttina til okkar. Eg sá líka, að þær litu fljótt af mér; þeim mun ekki hafa þótt neitt töfrandi við mig, tilkomulítið og gráhært gamalmenni. Svo litu þær auðsjáanlega steinhissa á Umslopagaas gamla, og

lyfti hann upp exi sinni til að kveðja þær. Þar næst drógust augu þeirra að ljómanum á fötum Goods, og þar hvíldu þau svo sem eina sekúndu, eins og fiðrildi á blómi; en svo varð systrunum litið þangað, sem Sir Henry Curtis stóð, og lék sólarglampinn frá einum glugganum um gula hárið og skeggið á honum, og bar því sérstaklega mikið á hans þreklega vaxtarlagi þar í salnum, sem allskuggsýnt var í. Hann leit upp, og augu hans og Nýlepþu hinnar fögru mættust, og þannig litu hvort á annað í fyrsta sinni hinn fegursti karlmaður og hin fríðasta kona, sem mér hefir nokkurn tíma auðnast að sjá. Og eg veit ekki hvernig á því stóð, en eg sá blóðið þjóta fram undir skinnið á Nýlepþu, eins og rósrauðir geislarnir renna upp eftir himninum á morgnana. Rauður varð bjarti barmurinn og fagri handleggurinn, og rauður varð svanhvíti hálsinn; kinnarnar urðu rjóðar eins og krónublöð rósarinnar, og svo seig þetta blóðrauða flóð aftur þangað er það kom frá og konan stóð föl og titrandi.

Eg leit á Sir Henry. Hann hafði líka roðnað upp að augum.

„Já, já,“ hugsaði eg með sjálfum mér, „nú eru konurnar komnar á leiksviðið, og nú fer eitthvað sögulegt að gerast.“ Og eg andvarpaði og hristi höfuðið, því að eg vissi, að fegurð konunnar er eins og fegurð eldingarinnar — veldur tjóni og hugarhrelling. Um það leyti sem eg hafði lokið hugleiðingum mínum, voru báðar drotningrnar seztar í hásæti sín, því að alt þetta hafði gerzt á hér um fjórum sekúndum. En heyrðist þytur frá hinum ósýnilegu

lúðrum, og þá settist hirðin niður, og Sórais drotning gaf okkur bending um, að við skyldum gera slíkt hið sama.

Leiðsögumaður okkar, gamli herrann, sem hafði flutt okkur að landi, hafði gengið í hóp þeirra, sem fyrir voru inni í salnum. Nú steig hann fram og leiddi við hönd sér stúlkuna, sem við höfðum fyrst séð og þar næst frelsað úr gini vatnahestsins. Hann hneigði sig fyrst fyrir drotningunum og tók því næst til máls; augsýnilega var hann að skýra þeim frá, hvar við hefðum fundist. Það var einstaklega gaman að sjá þá undran, sem ekki var laus við ótta, er lýsti sér á andlitum drotninganna, þegar þær hlustuðu á sögu hans. Þær gátu auðsjáanlega ekki skilið hvernig við hefðum komist á vatnið, og verið þar á floti, og þeim lá við að halda, að eitthvað væri yfirnáttúrlegt við návist okkar. Svo þóttist eg sjá af því, hve oft hann vék máli sínu til stúlkunnar, að hann var kominn að því atviki, er við skutum vatnahestana, og við sáum þegar, að einhverjir annmarkar voru á viðvíkjandi þessum vatnahestum, því að hvað eftir annað ráku hvítklæddu prestarnir og jafvel hirðmennirnir upp gremjuóp, og drotningarnar hlustuðu á söguna steinhissa, og einkum varð þeim hverft við, þegar leiðsögumaður okkar benti á byssurnar í höndum okkar, er við höfðum banað skepnunum með. Og eg get eins skýrt málið tafarlaust með því að geta þess, að íbúar *Z*u-vendis eru eldsdýrkendur, og að þeir telja vatnahestinn heilagt dýr, hvernig sem á því stendur. Ekki svo að skilja, að þeir drepi ekki þessi dýr, því að á nokkrum tíma ársins drepa þeir

þau þúsundum saman—og er þeim sérstaklega haldið við í stórum vötnum uppi í landinu og húðir þeirra notaðar í herklæði, en samt sem áður líta þeir svo á, sem þessi dýr séu helguð sólunni. Nú vildi svo illa til, að einmitt þeir vatnahestar, sem við höfðum skotið, voru tamin dýr, sem voru alin þarna í hafnarmynninu; prestarinr gáfu þeim daglega mat, og það var þeirra sérstaka skylda að annast þau. Þegar við skutum skepnurnar, þótti mér grunsamt, hve spakar þær voru, og þetta var orsökin, eftir því sem við fengum síðar að vita. Og þannig varð sú niður staðfengum síðar að vita. Og þannig varð sú niður staðan, að þegar við vorum að reyna að sýna snilli okkar, þá urðum við sekir um mjög illkynjaða goðgá.

Þegar leiðsögumaður okkar hafði lokið máli sínu, stóð upp gamli maðurinn með síða skeggið og kringlóttu húfuna, sem eg hefi þegar lýst, og var, eins og eg hefi þegar tekið fram, æðsti prestur landsins og hét Agon. Hann tók til máls, og var auðheyrt, að honum var mikið niðri fyrir. Mér var ekki um svipinn í kuldalega, gráa auganu, sem hann hvesti á okkur. Mér hefði þó verið enn minna um það, ef eg hefði vitað, að hann var að heimta í nafni guðs síns, er svo mikil mótgerð hefði verið sýnd, að við yrðum brendir lifandi til friðþægngar.

Eftir að hann hafði lokið máli sínu, ávarpaði Sorais drotning hann með mildri og hljómfagurri rödd, og á mótbáruhreyfingum , sem á hann komu, var svo að sjá, sem hún væri að sýna honum fram á aðra hlið málsins, en þá er hann hafði fram haldið. Svo tók Nýlepþa til máls og var málrómur hennar yndislegur. Litla hugmynd höfðum við þá um það,

að hún væri að verja líf okkar. Að lokum sneri hún sér við og yrti á háan mann, hermannlegan, miðaldra, með svart skegg og langt sverð. Eftir því sem við fengum síðar að vita, hét hann Nasta, og var hinn göfugasti lávarður í landinu. Það virtist svo, sem hún væri að skora á hann að styðja mál sitt. Þegar Sir Henry hafði litið í augu hennar, og hún hafði blóðroðnað, þá hafði eg tekið eftir því, að þetta atvik fór ekki fram hjá þessum manni, og meira að segja að honum féll það afleitlega, því hann beit á vörina og krefti hnefann utan um handfangið á sverði sínu. Síðar komumst við að því, að hann var að biðla til þessarar drotningar, og varð þá geðshræring hans skiljanleg. En með því að þessu var þannig varið, þá hefði Nýleppha ekki getað leitað í lakari stað, enda var svo að sjá, sem hann styddi alt það er æðsti presturinn Agon hafði sagt, og talaði hann hægt og þuglamalega. Meðan hann var að tala, studdi Sorais olnboganum á kné sér og hönd undir kinn, og horfði á manninn hálf brosandi, eins og hún sæi, hvað honum bjó í brjósti, og hefði staðráðið að fara sinna ferða fyrir honum; en Nýleppha varð reið mjög. Hún varð blóðrauð í kinnum, augu hennar glömpuðu, og sannarlega var hún yndisleg ásýndum. Að lokum sneri hún sér að Agon og virtist gefa honum samþykki sitt að einhverju leyti, því að hún hneigði sig er hún hafði talað; og meðan hún talaði hreyfði hún til hendurnar, eins og hún væri þar með að gefa orðum sínum áherzlu; en Sorais sat allan tímann, studdi hönd undir kinn og brosti. Svo gaf Nýleppha alt í einu merki, lúðraþyturinn heyrðist

aftur, og allir stóðu á fætur til þess að fara út úr salnum, nema við og varðmennirnir; hún hafði gefið okkur bending um að vera kyrrir.

Þegar allir voru farnir, laut hún áfram og brosti blíðlega, og gaf okkur að skilja, sumpart með merkjum og sumpart með upphrópunum, að henni væri mjög ant um að fá að vita, hvaðan við kæmum. Við vorum í vandræðum með það, hvernig við ættum að skýra frá því, en að lokum datt mér ráð í hug. Eg hafði í vasanum stóra vasabók og ritblý. Eg tók hvorttveggja upp, dró upp dálitla mynd af vatni, og svo dró eg upp svo vel sem eg gat, mynd af ánni niðri í jörðunni og vatninu hinu megin. Þegar eg hafði lokið við þennan uppdrátt gekk eg upp að hásætinu og rétti hann að henni. Hú skildi hann þegar, klappaði saman höndunum af fögnuði, fór svo niður frá hásætinu og færði Sorais, systur sinni, uppdráttinn, og var augsýnilegt að hún skildi hann líka. Svo tók hún af mér ritblýið og eftir að hún hafði skoðað hann í krók og kring með forvitnisaugum, fór hún sjálf að búa til tvo allra fallegustu smáuppdrætti; á öðrum þeirra var hún sjálf og rétti fram báðar hendurnar eins og til þess að fagna komumanni, og karlmaður, sem tók í hendurnar, og var sá maður einkennilega líkur Sir Henry. Svo dró hún upp ljómandi fallega smámynd af vatnahesti, sem var að veltast um í vatninu deyjandi, og af manni sem stóð á bakkanum og fórnaði upp höndunum í skelfingarofboði; við þektum þegar, að það var Agon, æðsti presturinn. Þar næst bjó hún til mynd sem mér varð æði bylt við að sjá; hún var af hræðilegum eldsofni,

og sama myndin aftur af Agon, sem var að stinga okkur inn í logann með stöng með göddum fram úr endanum. Þessi mynd gerði mig logandi hræddan, en eg náði mér dálítið við það, að drotningin kinkaði kolli blíðlega og fór að draga upp fjórðu myndina af manni, mjög líkum Sir Henry, og af tveimur konum, og þekti eg þar Sorais og hana sjálfa, og héldu þær utan um hann sínum handleggnum hvor, og með sínu sverðinu hvor yfir honum, honum til varnar. Sorais, sem gaf sig við engu öðru en að veita okkur nákvæma eftirtekt, einkum Curtis, samþykti þetta alt með því að kinka kolli.

Loks bjó Nýlepþa upp mynd af sólaruppkomu, sem þýddi það, að þá yrðu þær að yfirgefa okkur, og að við skyldum finnast næsta morgun. Við þetta varð Sir Henry svo bilt, að hún veitti því eftirtekt, og svo sem til að hafa af honum rétti hún honum hendina til að kyssa á hana, og gerði hann það mjög innilega. Meðan á öllu þessu stóð, hafði Good aldrei snúið glerauganu sínu frá Sorais, og í endurgjalds skyni rétti hún honum nú hendina, svo hann gæti kyst á hana, en hafði þó á meðan ekki augun af Sir Henry. Mér þykir væntum að geta sagt, að eg varð ekkert bendlaður við þær sakir; hvorug þeirra rétti mér hendina eftir kossi.

Þá sneri Nýlepþa sér við og ávarpaði manninn, sem sýndist vera fyrirliði varðliðsins, og gaf honum enhverjar mjög ákveðnar fyrir skipanir; að því búnu og eftir að hafa kinkað kolli til okkar glaðlega gekk hún burt úr salnum og fylgdi Sorais henni eftir og flestir varðmennirnir.

Þegar drotningarnar voru farnar, kom til okkar foringinn, sem Nýlepþa hafði ávarpað, og benti okkur með miklum virðingarmerkjum að fylgja sér eftir, og leiddi hann okkur burt úr þessum sal í gegnum mörg göng og vísaði okkur loksins að mjög skrautlegum herbergjum, sem lágu út úr stórum sal og var þar ljós á hengilömpum úr kopar, (því nú var komið rökkur), gólfteppi hin allra kostulegustu og legubekkir. Á borði í miðjum salnum var matur og ávextir, og það sem meira var, blóm. Þar var ljúffengasta vín í fornfálegum, innsigluðum leirflöskum, og skínandi falleg staup úr gulli og fílabeini. Þjónn var þar líka og stúlka, er gengust um beina, og á meðan við vorum að borða heyrðum við kveða við einhvers staðar utan að frá:

hörpunnar hrífandi óminn
og hornanna göfuga róminn;

og yfir höfuð fanst okkur við vera þar í jarðneskri paradís og truflaðist sú tilfinning að eins af viðbjóðslegu myndinni af æðsta prestinum, sem ætlaði að stinga okkur inn í logann. En svo þreyttir og sifjaðir vorum við, að við gátum tæplega haldið okkur vakandi við þessa ágætis máltíð, og þegar við höfðum matast, gáfum við í skyn, að við óskuðum að fá að sofa. Fylgdu þau okkur svo þaðan og ætluðu að vísa hverjum okkar inn í svefnherbergi út af fyrir sig, en við létum í ljósi að við vildum heldur vera tveir og tveir í hvoru. Til frekari varúðar létum við Umslopogaas sofa með öxina við hlið sér, í aðalsalnum rétt fyrir framan dyrnar á herbergjunum, sem áttum að sofa í, og skiftum við okkur þannig, að við

Good vorum í öðru, en Sir Henry og Alfonse í hinu. Svo fórum við úr fötunum, nema hvað okkur þótti vissara að vera í stálskyrtunum og fleygðum við okkur svo niður á þessa mjúku hvílubekki og breiddum ofan á okkur silkiofnu ábreiðurnar.

Eftir tvær mínútur var eg rétt að festa svefninn, en hrökk þá upp við rödd Goods.

„Heyrið þér hérna, Quatermain,“ sagði hann, „hafið þér nokkurn tíma séð önnur eins augu?“

„Augu!“ sagði eg önuglega; „hvaða augu?“

„Drotningarinnar, auðvitað! Sorais drotningar —eða eg held að hún heiti það.“

„Ó! það veit eg ekki,“ sagði eg geispandi, „eg tók lítið eftir þeim; eg býst við að það séu dáfalleg augu,“ og svo datt eg út af aftur.

Svo sem fimm mínútur liðu, og eg hrökk upp á ný.

„Heyrið þér, Quatermain,“ heyrði eg sagt.

„Nú-nú,“ svaraði eg bystur, „hvað er nú um að vera?“

„Tókuð þér eftir öklunum? Lögunin á þeim.“

Mér var of mikið boðið með þessu. Rétt við rúmið mitt stóðu skórnir, sem eg hafði verið í. Eg þreif þá í bræði minni og miðaði þeim á höfuðið á Godd — og hitti.

Þar á eftir sofnaði eg svefni hinna réttlátu, og fastur svefn hlýtur það að hafa verið. Hvort Godd hefir haldið áfram að velta fegurð Sorais fyrir sinni andans sjón, veit eg ekki, og eg læt mig það, meira að segj. engu skifta.

## XIII. KAPITULI.

### *Um fólkið í Zu-vendis.*

Tjaldið er nú fallið og verður niðri um nokkra klukkutíma og persónurnar í þessum leik eru í fasta svefni. Ef til vill væri þó rétt að undanskilja Nýlepþu, sem lesarinn getur, ef hann er skáldlega innrættur, hugsi sér að hvíli í sínu konunglega rúmi umkringd af hirðmeyjum og varðmönnum og öðru fólki og af öllum útbúnaði, sem landsdrotnum ber, en geti þó ekki sofnað af umhugsun um þessa ókunnu menn, sem þar voru komnir til landsins, ólíkir voru öllum öðrum mönnum, er hún hafði séð. Ennfremur geta menn og hugsað sér, að þar sem hún liggur andvaka, sé hún að velta því fyrir sér, hverjir þeir séu og hvernig hafi verið þeirra liðna æfi, og hvort hún muni vera ófríð í samanburði við kvenfólkið í því landi, sem þeir eru frá. En eg, sem ekki er skáld, nota tækifærið, sem þessi kyrð gefur mér, til að lýsa fólkinu sem við vorum komnir til, og þarf ekki að geta þess að eg styðst þar við upplýsingar, sem við fengum síðar.

Til þess svo að byrja á upphafinu, þá hét landið *Zu*-vendis, og er nafnið sett saman úr orðunum *Zu*, „gult“ og Vendis „staður eða land“. Hvers vegna það var kallað landið gula, hefi eg aldrei getað eftir grafist nákvæmlega og ekki er það heldur ljóst íbúum landsins sjálfum. Þrjár getgátur eru þó til, sem komið hefir með, og mundi hver um sig nægja. Hin fyrsta er sú, að nafnið sé dregið af þeirri gnægð gulls, sem til er í landinu. Og sannleikurinn er, að í *Zu*-vendis er óvanalega mikið af þeim dýrmæta málmi. Nú sem stendur er það tínt upp þar sem vatn hefir grafið það upp og borið það á land, og skoðuðum við seinna stað, þar sem það var, ekki fulla dagleið frá Milosis, og var það mest í holum, sem voru ofan í björg og kletta og líka var þar mikið af stykkjum, sem voru frá einu lóði alt upp í sex og sjö pund að þyngd. Í *Zu*-vendis er gull mikið algengari málmur en silfur, og því hefir sú kátlega regla komist þar á, að silfur er sá eini lögeyrir landsins.

Önnur ástæða, sem gefin er fyrir nafninu, er sú, að á nokkrum tímum ársins verður grasið þar, sem er ilmríkt og kjarngott, gult eins og þroskaður kornakur; og sú þriðja er dregin af þeirri munnmælasögu, að upphaflega hafi fólkið þar verið gult en hafi orðið hvítt af að lifa þar uppi á fjalllendinu um marga mannsaldra. *Zu*-vendis er hér um bil á stærð við Frakkland; er svona hér um bil sporöskjumyndað og á allar hliðar aðskilið frá landinu umhverfis með ómælanlegum þyrniskógum, sem ómögulegt er að komast gegnum, og er sagt að hinu megin við þá skóga séu mörg hundruð mílna af fenjum, gróður-

lausumu eyðimörkum og háum fjöllum. Það er í stuttu máli hrikalegt fjalllendi, sem rís upp í miðju „meginlandinu dökka“ á líkan hátt eins og fjöllin í Suður Afríku gnæfa upp yfir slétturnar þar. Milosis sjálf er, eftir því sem mér mældist, hér um bil tíu þúsund fet fyrir ofan sjávarmál, en það mesta af landinu er enn þá hærra; það hæðsta sem kannað hefir verið, er sagt að sé ellefu þúsund fet fyrir ofan sjó. Af þessu leiðir að loftslagið má heita kalt þar, og ekki ólíkt því sem er syðst á Englandi, en léttara og þurrara en þar. Samt eru landkostir þar hinir beztu, og vaxa þar ávextir og timbur ágætlega; og á ýmsum lægri stöðum landsins sprettur ágæt tegund af sykurtré. Kol eru þar í ríkum mæli og ná á sumum stöðum upp á yfirborð jarðarinnar; og sama er að segja um hreinan marmara, bæði svartan og hvítan, og einnig um flestar málmtegundir, nema silfur; af því er lítið til og fæst það ekki nema í fjöllum nokkrum langt norður í landi.

Í *Z*uvendis eru margar fagrar tilbreytingar á landslaginu, og má telja með því tvær raðir af fjöllum, þöktum snjó, önnur við vesturtakmörk landsins, utan við hinn mikla þyrniskóg, og hin eftir endilöngu landinu frá norðri til suðurs, og eru þau í hér um bil áttatíu mílna fjarlægð frá Milosis, og sjást glögt frá bænum hæstu tindar þeirra fjalla. Frá þeim fjöllum koma flestar ár landsins. Líka eru þar í landinu þrjú stór vötn; það stærsta af þeim er það, sem við komum á, þegar við komum fram úr göngunum, og heitir það Milosis eftir bænum og er um

tvö hundruð ferhyrningsmílur á stærð. Líka eru þar mörg smávötn, og sum þeirra sölt.

Fólksfjöldinn í þessu landi má heita afarmikill; á að gizka tíu miljónir. Mestur fjöldi fólksins lifir á jarðrækt, og skiftist í stóra flokka eins og hjá siðuðum þjóðum. Þar eru voldugar aðalsmannaættir; svo kemur flokkur manna, sem talinn er næstur tignum mönnum að virðingum, og eru í honum einkum kaupmenn, embættismenn í hernum o. s. frv.; en langmestur fjöldi fólksins eru leiguliðar á jörðum aðalsmannanna og komast þeir jafnan prýðilega af. Fólkið af beztu ættunum er, eins og eg hefi tekið fram, alhvítt á lit, með ofurlítið suðrænu yfirbragði; en aftur er hitt miklu dekkra, þó það sé auðvitað langt frá því að vera svart eða líkt öðru Suðurálfufólki. Um uppruna þess get eg ekkert sagt með vissu. Annálar þjóðarinnar, sem ná um þúsund ár aftur í tímann, benda ekki neitt á það. Einn mjög gamall höfundur talar auðvitað um uppruna þess á þá leið, að ekki sé ómögulegt að það hafi „komið þangað með fólkinu frá sjávarströndinni,“ og vitnar hann þar til munnmælasögu, sem til hafi verið um það leyti, sem hann skrifaði þetta, og er það því að líkindum óáreiðanlegt. Sannleikurinn er, að uppruni fólksins í *Z*u-vendis er hulinn í þoku tímans. Hvaðan það kom, eða af hvaða kynþætti það er, veit enginn. Byggingalag þess og myndasmíði bendir til að uppruninn sé egypzkur eða jafnvel assýriskur; en aftur er vitanlegt að byggingar þess eru að eins um átta hundrað ára gamlar, og alls ekkert finst hjá þeim af trúfræði Egiypta og siðum. Aftur er fólkið ekki fjarri því

að líkjast Gyðingum, bæði í sjón og líka í ýmsum háttum, en þó strandar maður aftur á því, hve ólíkt það er, að það hefði alveg tapað þeirra trúarbrögðum. En, hvað er fyrir mig að segja nokkuð um það; það getur, þó eg ekki viti það, verið af tíu kynkvíslunum, sem menn eru alt af að skemta sér við að finna alls staðar í heiminum. Þetta er mér hulið, og verð eg þess vegna að lýsa fólkinu að eins, eins og það kom mér fyrir sjónir; hitt skil eg eftir handa mér fróðari mönnum, ef þessi frásaga mín verður annars, nokkurn tíma lesin, sem er mjög vafasamt.

Og eftir alt, sem eg hefi nú sagt, ætla eg nú að eiga á hættu að láta í ljósi mína eigin hugmynd um þetta mál. Hún er bygð á frásögu, sem eg hefi heyrt hjá Aröbum á sjávarströndinni, um að fyrir „meir en tvö þúsund árum“ kom upp sundurlyndi í landi, sem Babylonia heitir, og af því leiddi, að mikill flokkur af Persum flutti niður til Bushire og stigu þeir þar á skip og hröktust fyrir norðaustan-vindum að austurströnd Afríku, og segir sagan að þar hafi þessir sólar og elds dýrkendur lent í stríði við Araba, sem jafnvel þá þegar bjuggu á austurströnd Afríku, og sagt er að Persarnir hafi að lokum brotist í gegn um Araba-bygðina og flutt sig inn í landið og horfið með öllu. Nú vil eg leyfa mér að spyrja: „Er ekki hugsanlegt að *Zu-vendis* fólkið sé komið af þessum „sólar og eldsdýrkendum“, sem brutust í gegn um Araba-bygðina og hurfu svo úr sögunni? Ekki er því að neita, sumt er það í eðli þeirra og siðum, sem er í fullkomnu samræmi við þá litlu þekkingu, sem eg hefi af Persum. Auðvitað hefi eg engar bækur til að

vitna til, en Sir Henry segir, að ef hann muni rétt, þá hafi um þær mundir, sem sagan bendir á, verið mikið upphlaup í borginni Babýlon, og hafi út af því mikill fjöldi fólks verið rekinn burt úr borginni. En hvað sem um þetta er, þá er þó hitt vitanlegt, að til forna fluttu Persar alloft til austurstrandar Afríku, og það fyrir ekki meira en 700 árum síðan. Á austurströndinni, í Kilwa, eru persneskir legstaðir í góðu lagi, og sýna ártölin á þeim að þeir eru 700 ára gamlir.*)

Auk þess sem *Z*u-vendismenn eru akuryrkjuþjóð þá eru þeir, þó undarlegt sé, herskáir mjög og með því þeir geta ekki barist við aðrar þjóðir, vegna þess hve afskektir þeir eru, þá berjast þeir innbyrðis líkt og Kilkenny-kettirnir nafntoguðu, og af þeim óeirðum leiða þær heillavænlegu afleiðingar, að fólkið verður aldrei of margt fyrir landið. Þessir bardagar þeirra stafa að miklu leyti af stjórnarfyrirkomulaginu. Einveldið er að nafninu til óbundið, nema að því leyti sem það er takmarkað af valdi prestanna

---

*) Það er til önnur getgáta um uppruna *Z*u-vendismannanna, sem vini mínum Mr. Quatermain og félögum hans virðist ekki hafa komið til hugar, og hún er sú, að þeir séu afkomendur Fönekíumanna. Menn hyggja, að vagga Fönekíumanna-flokksine hafi verið á vesturströnd Persneska flóans .Það eru nægar sannanir til fyrir því, að þeir fóru þaðan í tveimur straumum: annar straumurinn hélt til stranda Gyðingalands og settist þar að; en hinn straumurinn halda lærðir menn að hafi farið suður með strönd Austur-Afríku, og eru enn nóg merki þeirra nálægt

og ráðgjafarþings hinna voldugu lávarða; en eins og oft hefir viljað verða, þar sem líkt er ástatt, er boðum konungsins ekki skilmálalaust hlýtt úti um landið. Í stuttu máli má segja, að lénsmannavald sé ríkjandi (þó að algert þrælahald sé óþekt); allir voldugir lávarðar hafa að nafninu til lönd sín að léni frá krúnunni, en fjöldi þeirra er í rauninni sjálfstæðir drotnar, hafa vald á lífi manna og dauða, segja nágrönnum sínum stríð á hendur og semja frið við þá, eftir því sem þeim ræður við að horfa, eða hagur þeirra býður; stundum kemur það og fyrir, að þeir hefjast handa gegn konungi sínum eða drotningu, og bjóða sínum yfirdrotnum byrginn árum saman í kastölum sínum og víggirtu bæjum, langt fra aðsetursstað stjórnarinnar.

Það hefir verið skift um konungaættirnar í *Zu-vendis*, ekki síður en á Englandi, eins og menn geta bezt séð af því, að á síðustu 1,000 árunum hafa átta ættir setið að völdum, og er hver um sig komin frá einhverri tiginni ætt, sem tekist hefir að rífa til sín

---

Mozambique. Það hefði líka sannarlega verið undarlegt, ef þeir hefðu ekki haldið beint til austurstrandarinnar, þegar þeir fóru frá persneska flóanum, þar sem norðaustan staðvindarnir blása um 6 mánuði af árinu óaflátanlega í þá átt. Og til þess að gera þessa tilgátu enn líklegri, skal eg bæta því við, að þann dag í dag eiga sér stað mjög mikil verzlunarviðskifti milli persneska flóans og Lamu og annara hafna í Austur-Afríku, alt suður að Madagascar, sem auðvitað er gamla Ibenholts-eyjan, sem getið er um í „1001 nótt“.

konungsskykkjuna eftir blóðugar deilur. Þegar við komum til landsins, stóð heldur betur á en um nokkrar undanfarnar aldir, því að síðasti konungurinn, faðir Nýlepþu og Sórais, hafði verið óvenjulega góður og duglegur landsdrottinn, og hafði hann því bælt niður vald prestanna og aðalsmannanna. Hann hafði látist tveim árum áður en við komum til *Zu*-vendis, og þá hafði báðum dætrum hans verið fengið konungsvaldið í hendur, og voru dæmi til slíks áður, enda hefði tafarlaust orðið úr því blóðugt borgarastríð, ef nokkur tilraun hefði verið gerð til að útiloka aðrahvora þeirra frá veldisstólnum; en menn fundu alment til þess úti um landið, að þetta fyrirkomulag var mjög óhagkvæmt, og bjuggust naumast við því, að það yrði langgætt, enda var þegar farið að bóla á óeirðum út af undirferlis-brögðum þeim, sem ýmsir metorðagjarnir aðalsmenn beittu til þess að kvænast drotningunum, og alment hugðu menn, að blóðsúthellinga mundi skamt að bíða.

Eg ætla nú að snúa mér að trúarbrögðum *Zu*-vendis-manna; þau eru ekkert annað en sólardýrkun í mjög fullkominni og þroskaðri mynd. Alt fyrirkomulag mannfélagsins þar stendur í sambandi við þessa sólardýrkun. Alt þjóðfélagið er trúarbrögðunum samvaxið og allar þjóðarinnar venjur. Frá vöggunni til grafarinnar fylgir *Zu*-vendis-maðurinn sólunni í öllum skilningi. Þegar hann er ungbarn er honum haldið upp í ljós hennar og er hann þá helgaður „tákni hins góða, ímynd valdsins og eilífðar-voninni“, og svarar sú athöfn til skírnarinnar vor á meðal. Meðan hann er ofurlítið barn, benda foreldrar

hans honum á hinn dýrðlega hnött sem sýnilegan og góðviljaðan guð, og þennan guð tilbiður hann bæði við uppgöngu hans og niðurgöngu. Og á unga aldri fer hann enn fremur, haldandi sér í lafandi endann á skikkju móður sinnar, til musteris sólarinnar í næsta bæ, og þegar björtu hádegisgeislarnir falla niður á gullna altarið þar, svo að eldurinn, sem á því logar, sýnist daufur, þá heyrir hann hvítklæddu prestana hefja sitt hátíðlega lofgerðar-tón, og sér fólkið falla fram tilbiðjandi, og jafnframt því, sem hann heyrir þyt gullinna lúðra, horfir hann á fórnina, sem brennur á glóandi eldstallinum fyrir neðan altarið. Síðan kemur hann þangað til þess að láta prestana lýsa yfir því, að hann sé „fullorðinn karlmaður", helgaður hernaði og góðum verkum; upp að þessu hátíðlega altari leiðir hann og brúður sína; og þar segir hann líka skilið við hana, ef ósamlyndi kemur upp milli hjónanna.

Og þannig heldur hann áfram alla sína löngu lífsleið, þangað til hann hefir farið síðustu míluna, og hann kemur aftur í musterið, vopnaður að sönnu og með viðhöfn, en ekki lengur í tölu lifandi manna. Þangað bera menn hann látinn, og leggja hann á líkbörur á málmhlemma fyrir framan austur-altarið, og þegar síðustu geislar sólarinnar falla á hina hvítu ásjónu hans, þá eru slárnar dregnar frá og hann hverfur niður í eldinn, sem logar þar undir, og þar með er hans jarðnesku vist lokið.

Prestar sólarinnar kvænast ekki, en í stað þeirra sem frá falla, koma ungir menn, er sérstaklega hafa verið helgaðir því starfi af foreldrum sínum, og fá

þeir styrk úr ríkissjóði. Krúnan nefnir menn í hin æðri prestsembætti, en þegar menn hafa verið í þau embætti settir, þá er ómögulegt að svifta þá embættinu aftur, og það eru naumast neinar ýkjur, þó að sagt sé, að í raun og veru drotni þeir yfir landinu. Fyrst og fremst eru þeir samgróin félagsheild, og hafa svarið yfirmönnum sínum hlýðni og að halda leyndum launungarmálum stéttarinnar, og því hlýðir hver einasti prestur í hverjum smábæ úti um landið tafarlaust hverri sem helzt skipan, er hann fær frá æðsta prestinum í Milosis, þó að hann eigi heima þrjú hundruð mílur frá höfuðstaðnum. Þeir eru dómarar landsins, bæði í sakamálum og einkamálum, og má skjóta dómi þeirra að eins til lávarðar þess, er ræður yfir því umdæmi; svo má aftur skjóta hans dómi til konungsins; og svo hafa prestarnir ótakmarkað dómsvald yfir brotum, sem framin eru gegn trúarbrögðunum og góðu siðferði, og rétt til að bannfæra menn, sem hefir mjög mikil áhrif, eins og í sumum öðrum löndum, þar sem þjóðmenningin er miklu lengra á veg komin. Í raun og veru eru réttindi og völd prestanna hér um bil ótakmörkuð; en mér þykir rétt að taka það fram hér, að prestar sólarinnar eru vitrir menn, og þeir neyta ekki valds síns svo, að bagi verði að. Það kemur mjög sjaldan fyrir, að þeir beiti sér eins og þeir framast geta gegn neinum manni, og þeir hafa meiri tilhneigingu til að nota vald sitt til að vægja mönnum, heldur en til að æsa upp lýðinn, sem þeir hafa lagt ok sitt á, en sem er þrekmikill og örgeðja, því að þeir óttast, að annars

kunni hann að rísa upp og brjóta af sér okið með öllu.

Annað það, sem veldur því, að prestarnir hafa svo mikil yfirráð, er, að þeir eru í raun og veru einu lærðu mennirnir; þeir bera töluvert skyn á gang himintunglanna og hafa vald yfir hugum manna með því að segja fyrir myrkva og jafnvel halastjörnur. Í Zu-vendis kunna að eins fáir menn í æðri stéttunum að lesa og skrifa, en nálega allir prestarnir hafa þá mentun, og eru þeir því skoðaðir lærðir menn.

Lög landsins eru yfir höfuð mild og réttlát,, en í ýmsu eru þau ólík lögum hinna mentuðu þjóða í vorri heimsálfu. Til dæmis skal þess getið, að lögin á Englandi eru miklu strangari þar sem ræða er um brot gegn eignarréttinum heldur en þar sem ræða er um illa meðferð á mönnum, og sómir það sér vel, þar sem peningagræðgin er aðalástríða Englendinga. Maður getur barið konu sína í hel og kvalið börn sín hræðilega, og sloppið miklu léttara, heldur en sá sem stolið hefir gömlum stígvélum. Í Zu-vendis er því ekki svo varið, hvort sem það er nú rétt eða rangt, þá er gert miklu meira úr mönnunum en úr dauðum munum og kvikfénaði; maðurinn er ekki þar, eins og hann er á Englandi, nokkurs konar smáviðbót við eignirnar. Hegningin fyrir morð er líflát og fyrir landráð líflát; dauðahegning er og lögð við því að svíkja munaðarleysingja og ekkjur, við goðgá og við því að reyna að fara burt úr landinu (sem er talið goðgá). Ávalt fer líflátið fram á fremur hræðilegan hátt. Glæpamanninum er hrundið lifandi niður í glóandi eldinn, sem er undir einu af ölturum sólar-

innar. Fyrir öll önnur afbrot, og að leti meðtalinni, er hegningin sú, að menn eru neyddir til að vinna við hin miklu stórhýsi þjóðarinnar, sem alt af er verið að reisa einhvers staðar í landinu; stundum fylgir þeirri nauðungarvinnu húðstroka með ákveðnu millibili, stundum ekki, eftir því hve glæpurinn hefir verið mikill.

Mannfélags fyrirkomulag *Zu*-vendis fólksins veitir hverjum einstökum manni allmikið frelsi, ef hann brýtur eigi gegn lögum og venjum landsins. Að vísu ræður þar fjölkvæni, þó flestir þeirra hafi að eins eina konu, sakir þess hve hitt er útdráttarsamt. Að lögum er maðurinn skyldur að sjá hverri konu fyrir sérstöku heimili. Hin fyrsta kona er og löglega kona mannsins og um börn hennar er svo sagt, að þau séu „af húsi föðursins.“ Börn hinna eru af húsum hinna sérstöku mæðra þeirra. En þetta varpar eigi neinum skugga hvorki á mæðurnar né barnið. Aftur getur hin fyrsta kona, þá er hún gengur í hjónaband, samið svo um, að húsbóndi hennar eigi gangi að eiga aðra konu. En þetta ber mjög sjaldan við, þar sem konurnar halda mjög fast við fjölkvæni, er eigi að eins sér fyrir konum þeim, er ella kynnu að verða afgangs, heldur og hefir hina fyrstu konu á æðra stig, þar sem þannig í raun réttri er oddviti allmargra heimila. Hjónabandið er skoðað sérstaklega borgaralegur samningur, og slítanlegt með samþykki beggja málsaðila, en þó verður að gæta vissra skilyrða og einnig sjá fyrir börnunum. Skilnaðurinn eða „leysing“ fer fram eftir vissum

reglum og er þá farið yfir ýmsar seremóníur giftingarathafnarinnar aftur á bak.

Zu-vendis menn eru þegar á alt er litið, mjög góðmannlegir, viðfeldnir og léttlyndir. Þeir eru eigi miklir verzlunarmenn og hirða lítið um peninga, en vinna að eins svo, að þeir hafi nægilegt fyrir sig að leggja í stöðu þeirri, er þeir eru í. Þeir eru fjarska miklir íhaldsmenn og geðjast lítt að breytingum. Gangpeningur þeirra er silfur, er skorið er í litla ferhyrninga af ýmsri þyngd. Gull er þar óæðra og gildir álíka og silfur hjá oss. En þó er það mikils metið fyrir sakir fegurðar þess og mjög haft til skrauts og prýðis. Verzlun fer að mestu leyti fram með sölu og skiftum og er borgað með fénaði eða munum.

Akuryrkja er einn hinn helsti atvinnuvegur landsins og er á fremur háu stigi, því mestur hluti ræktanlegs lands hefir verið yrktur. Svo hefir og verið lögð mikil stund á að koma nautpeningi upp og hestum og hefi eg hvorki í Evrópu né Asíu séð aðrar fríðari skepnur.

Landið er í raun réttri eign krúnunnar, en í nafni hennar hafa hinir æðri höfðingjar umráð yfir því og skift því aftur milli hinna minniháttar höfðingja, og fer svo koll af kolli niður til smábændanna, sem yrkja hinar fjörutíu „reestu“ (ekrur) sínar og skifta hálfum ágóða með landsdrotni sínum. Er því beinlínis lénsmanna vald hér ríkjandi, eins og þegar hefi sagt, og þótti oss mjög fróðlegt að rekast á svo gamlan kunningja langt inni í hinum óþektu miðhlutum Afríku.

Álögur eru mjög þungar. Tekur ríkið þriðja

hlut af öllum tekjum hvers manns og prestar hér um bil fimm af hundrað af því, er afgangs er. En hinsvegar að einhver maður skyldi verða fyrir óhappi, án þess að honum sé að kenna, þá aðstoðar ríkið hann á þann hátt, er stöðu hans í mannfélaginu er samboðið. En sé hann iðjuleysingi, er hann látinn vinna að einhverjum störfum stjórnarinnar og sér ríkið fyrir konu hans og börnum.

Ríkið leggur alla vegi og byggir öll bæjarhús og er þessa nákvæmlega gætt; eru þau svo leigð hinum ýmsu fjölskyldum fyrir lagt kaup. Það heldur og fastan her, hér um bil 20,000 manns, og sér fyrir varðmönnum o. fl. Prestarnir annast musteris þjónustu fyrir þá fimm af hundraði, er þeir fá, og halda skóla, og kenna þar alt það, er þeir ætla að æskilegt sé, en það er fremur lítið. Sum musterin eiga og sjálf eignir, en prestar mega eigi sérstaklega vera landeigendur.

Og nú kemur spurning, er mér veitir næsta örðugt að svara. Er Zuvendi þjóðin mentuð eða ósiðuð þjóð? Stundum dettur mér eitt og stundum hitt í hug. Að því er snertir ýmsar íþróttir, þá hafa þeir komist á mjög hátt stig. Lítum til dæmis á byggingar þeirra og myndasmíði. Eg ætla eigi að komist verði nokkurs staðar í heimi til jafnaðar við þana að því er snertir fegurð eða ímyndunarafl, en það kann að vera að jafn stórkostlegar byggingar megi finna hjá forn Egyftum, en eg er þess fullviss, að þær hafa eigi verið gerðar síðan. En hinsvegar kunna þeir alls ekkert til nokkurra annara lista. Það var fyrst þá er Sir Henry, er nokkuð kunni til þessa, sýndi þeim

hvernig þeir ættu að blanda kisiljörð og kalki, að þeim tókst að búa til gler, en ílát þeirra eru fremur lítilfjörleg. Þeir hafa vatnsúr í stað reglulegra úra og þótti þeim mjög gaman að okkar úrum. Þeir þekkja ekkert til gufuafls, rafurmagns eða púðurs og til allrar hamingju fyrir sjálfa sig, þekkja þeir ekkert til prentlistar né heldur penny-póstflutninga. Þeir hafa þannig komist hjá mörgu meini, því satt að sega hafa menn nú á tímum orðið að kannast við orð þessi: „Sá er eykur þekkingu sína, eykur sorg sína.“

Að því er snertir trúarbrögð þeirra, þá eru þau eðlileg mönnum, er gæddir eru ímyndunarafli og eigi vita af öðru betra að segja og því snúa sér til sólarinnar og dýrka hana sem alföður, en þó má segja að þetta sé hvorki hefjandi fyrir mannsandann né andríkt. Það er að vísu satt, að þeir tala stundum um sólina sem „búning andans“ en þetta er alt á huldu, því það er þeir tilbiðja, er eigi annað en sjálfur hinn eldlegi hnöttur; þeir nefna hana og „von eilífðarinnar“ en þetta er og nokkuð ótiltekið og efast eg um þeim séu orð þessi fyllilega ljós. Sumir þeirra trúa að vísu að til sé annað líf fyrir þá er góðir séu—eg veit að Nýlepþa trúir svo fastlega—en það er að eins trú einstakra manna, er rís af innblæstri andans en er ekki samgróin kenning þeirra. Eg get því eigi, þegar á alt er litið, sagt að eg líti svo á þessa sólardýrkun sem trúarbrögð, er bendi á mentaða og siðaða þjóð, hversu mikilfengir og tingaregir sem siðir þeirra kunna að vera eða hversu sem siðalögmál prestanna kann að nafninu til að vera, því margir þeirra hafa án efa sínar eigin skoðanir, að því, er

þetta snertir, þó að þeir hinsvegar eigi geti nógsamlega mælt með fyrirkomulagi því, er veitir þeim svo mörg gæði þessa heims.

Nú eru að eins eftir tvö atriði, er eg vil minnast lítið eitt á, en það er málið og leturlist þeirra. Málið er liðugt, hljómfagurt, fjölort og mjúkt. Sir Henry segir svo, að það sé eigi ólíkt nýgrísku, þó auðvitað sé, að það er því næsta óskylt. Það er auðlært, því samsetning þess er mjög einföld og lætur það mjög vel í eyrum og er sem hljómur og merking orðanna falli einkar vel saman. Löngu áður en vér höfðum lært málið til fullnustu, gátum vér oft skilið við hvað átt var af hljóðfalli setninganna. Það er vegna þessa að málið er svo sérstaklega fallið til skáldlegrar viðhafnarræðu, er þessi merkilegi þjóðflokkur er mjög gefinn fyrir. Sir Henry segir að stafrof *Z*u-vendi manna sé, líkt og öll önnur kunn stafsetning, fönesisk að uppruna og að því leyti skyld hinu forna egifzka myndaletri. En hvort svo sé, get eg eigi staðhæft, þar sem eg hefi eigi nægilega þekking til þess.

Það eitt veit eg um stafrof þeirra að í því eru átján stafmyndir, og er hver annarri örðugri viðfangs.* En þar sem *Z*u-vendi menn eigi gefa sig

---

*) Í hinu fönesiska stafrofi eru tuttugu og tveir stafir (sjá viðbætir við Masqeros Histoire ancienne des peuples de' Orient, o. s. frv.). Því er miður að Mr. Quatermain eigi sýnir oss neitt sýnishorn af letri *Z*u-vendi manna, en það er hann hér segir virðist að miklu leyti styðja skoðun þá, er haldið er fram í athugasemd fyr í þessari bók.

við bókagerð og rita fátt annað en skjöl og stuttorðar skrár, þá nægir þeim fyllilega letur þetta.

---

## XIV. KAPITULI.

### *Blóm-musterið.*

Klukkan mín var hálf níu, er eg vaknaði morguninn eftir að við komum til Milosis og hafði eg sofið nær því tólf stundir og verð eg að segja að eg varð sannarlega hressari. Já, mikil blessun er svefninn! og hve mikinn mun gerir eigi tólf stunda svefn á oss, er vér höfum legið í striti og hættum um daga og nætur. Það er eins og að rísa á fætur alt annar maður en þá er maður lagðist fyrir.

Eg settist upp í hinni silkimjúku sæng—aldrei hafði eg sofið í slíku rúmi—og hið fyrsta, er eg leit, var augngler Goods, er starði á mig frá fylgsnum hinnar silkimjúku hvílu. Það sást eigi annað af honum en augnagler hans, en eg varð þess áskynja að hann var vakandi og beið þess að eg skyldi vakna.

„Heyrið þér, Quatermain,“ svo tók hann til máls, „gættuð þér að hörundi hennar? Það er jafn slétt eins og bak á fílabeins hárbusta.“

„Lítið þér nú á, Good,“ mælti eg aftur á móti, en þá var barið á dyrnar og þegar upp var lokið, gekk embættismaður einn inn, er lét í ljósi með bendingum að hann væri hér kominn til þess að leiða okkur til baðsins. Við tókum því glaðlega og var okkur

fylgt til yndislegs marmaraherbergis; var dæld í miðju þess með rennandi kristaltæru vatni, er við fúslega steyptum okkur í. Er við höfðum baðast fórum við aftur til herbergis okkar og klæddumst og gengum þá til miðherbergisins, þar er við höfðum tekið kveldverð deginum áður og var þar þegar lagður fram morgunverður, og ágætis matur var það, enda þótt mér mundi veita örðugt að skýra frá, hverjir réttirnir voru.

Að loknum morgunverði gengum við um og dáðumst að veggtjöldunum, gólfábreiðunum og ýmsum líkneskjum, er voru sett þar og vorum að velta fyrir okkur, hvað nú mundi bera að höndum. Satt að segja var hugur okkar á slíkri ringulreið að við vorum búnir við hverju einu. En við vorum algerlega hættir að verða hissa á nokkru. Er við vorum að íhuga þetta, gekk vinur okkar og benti okkur með með mikilli kurteisi að ganga með sér og gerðum við svo, en eigi var það án efasemda og heilabrota—því við ætluðum að nú væri kominn sá tími,er gera skildi upp reikninginn fyrir bannsetta vatnahestana við hinn kaldeyga vin okkar, Agon, æðsta prestinn. En eigi var hægt við því að gera og hvað mig sjálfan snerti huggaði eg mig við loforð drotninganna, að þær mundu vernda mig, þar sem eg vissi, að ef konur á annað borð vilja, þá sjá þær og einhver úrræði; gengum við svo af stað líkt og þetta væri okkur geðleikið.

Fórum við fyrst stundarkorn um göng ein og ytri garð og komum þá að hinum miklu tvöföldu hallarhliðum, er snúa út að hinum breiða þjóðvegi,

er liggur upp eftir hæðinni um þver Milosis til Sólmusterisins, sem er hér um bil mílu vegar á burtu, og þaðan niður eftir hallanum hinu megin við musterið og út að borgarveggnum.

Hlið þessi eru mikil, stórkostleg og afarfögur; þau eru gerð af málmi. Milli þeirra—því annað hliðið er við inngöngu til innri veggjarins, og hitt við ytri vegginn—er gröf, fjörutíu og fimm feta djúp. Gröf þessi er full af vatni og liggur vindubrú yfir hana, en þegar henni er lyft upp, er höll þessi því nær óvinnandi nema með umsáturs fallbyssum. Er við komum þar, var annar helmingur hliðanna opinn og gengum við yfir vindubrúna og litum þá jafnskjótt yfir eina hina stórkostlegustu vegagjörð, er líklega er til í öllum heimi. Vegur þessi er hundrað feta breiður og beggja megin eru raðir fagurra, einloftaðra húsa úr rauðum granítsteini; er þeim eigi hrúgað saman, eins og Norðurálfu siður er, en hvert þeirra stendur á sinni eigin lóð og er jafnt bil milli þeirra og hið sama snið á þeim. Þetta eru bæjarhús hirðmannanna og ná þau í óslitnum línum um meira en mílu vegar, þar til augað loks staðnæmdist við hina dýrðlegu sjón sólmusterisins er krýnir hæðina og ligur fyrir öðrum enda vegarins.

Þegar við stóðum og litum á dýrð þessa, er síðar verður frekar getið, var fjórum vögnum skjótlega ekið um hliðin og vóru tveir hvítir hestar fyrir hverjum þeirra. Vagnar þessir eru tvíhjólaðir og gerðir úr við. Þeir eru með sterkri stöng, og er henni haldið uppi með leðurgjörðum, er aftur eru nokkur hluti aktygjanna. Hjólin hafa að eins fjögur rif og eru

girt járnböndum en fjaðralaus. Á framanverðum vagninum beint uppi yfir stönginni er lítið sæti fyrir vagnstjórann og eru rið um það, svo hann eigi falli niður. Inni í sjálfum vagninum eru þrjú lág sæti, eitt sitt hvoru megin og eitt að baki hestanna,en beint á móti eru dyrnar. Allur vagninn er léttur, og þó sterkur, og þó að hann sé einfaldur í laginu, þá er hann ekki nærri eins ljótur og búast mætti við.

En þó að kerrunum væri dálítið ábóta vant, þá var hestunum það ekki. Þeir voru hreina afbragð, ekki mjög stórir, en sterklegir, höfuðlitlir, með einkennilega stóra og kringlótta hófa, og hinir fjörlegustu. Eg hefi oft verið að hugsa um, hvaðan þetta hestakyn, sem er að mörgu leyti svo einkennilegt, muni hafa komið, en það er með hestana eins og eigendur þeirra, að saga þeirra er myrkri hulin. Menn vita ekki um hestana, fremur en mennina, hvenær þeir hafa í þetta land komið. Í fyrstu kerrunni og hinni síðustu voru varðmenn, en þær tvær, sem í miðjunni voru, voru tómar, nema hvað ökumenn voru í þeim, og var okkur fylgt til þeirra. Við Alfonse fórum upp í fyrri kerruna, og Sir Henry, Good og Umslopogaas upp í þá aftari, og svo lögðum við skyndilega af stað, og það var heldur en ekki ferð á okkur. Meðal *Zu*-vendi manna er það ekki siður, að láta hestana brokka, hvorki þegar þeim er ekið né riðið, allra síst þegar ekki á að fara nema stutta leið —þeir fara á harðastökki. Jafnskjótt og við vorum setir niður kallaði ökumaðurinn til hesta sinna, þeir tóku viðbragð, og við þyrluðumst áfram svo hart, að við gátum naumast náð andanum, og var eg dauð-

hræddur um, að vagninn mundi á hverju augnabliki velta um koll, þangað til eg fór að venjast þessari fleygiferð. En aumingja Alfonse hélt sér dauðahaldi við það, er hann kallaði „þenna vagndjöful“ og hélt að hver stundin væri hans síðasta. En alt í einu datt honum í hugað spyrja,hvert við værum að fara, og sagði eg honum þá að líklegast væri að nú ætti að fórnfæra okkur á báli. Þér hefðuð átt að sjá andlit hans, er hann tók höndunum um vagninn og æpti hástöfum af skelfingu.

En hinn lítt siðaði vagnstjóri hallaði sér út yfir hestana, er geystu áfram og rak upp mikið óhljóð, vindþyturinn bar á burtu óminn a kveinstöfum Alfonse.

Og nú glampaði fram undan okkur sólar-musterið í allri hinni aðdáanlegu dýrð þess og skínandi fegurð — en Zu-vendis-mönnum þótti jafnmikið koma til þess sem Gyðingum til musteris Salómons eða öllu heldur musteris Heródesar. Fé, kunnáttu og vinnu margra kynslóða hafði verið varið til byggingar þessa undursamlega mannvirkis, er loks hafði verið lokið við fyrir rúmum fimtíu árum. Ekkert hafði verið tilsparað af því sem landið gat í té látið og mátti svo segja, að árangurinn væri samboðinn tilraunum þessum, að vísu eigi svo mjög fyrir stærðar sakir — því stórkostlegri musteri eru til í heiminum—sem fyrir hinn algerða jöfnuð, mikilleik og fegurð efnisins og hina aðdáanlegu smíði. Hús þetta (er stendur sérstakt, efst á hæðinni,og er garður,átta ekrur að víðáttu umhverfis það, en bústaðir prestanna þar í nánd) er bygt í líkingu sólar-blómsins með

hvelfdum miðsal, en út frá honum kvíslast tólf garðar, myndaðir sem laufblöð og er hver þeirra helgaður einum of hinum tólf mánuðum, og eru þar reist líkneski til minningar frægra framliðinna manna. Vidd hringsins undir hvelfingunni er þrjú hundruð fet, en hæð hvelfingarinnar er fjögur hundruð fet og lengd hálfra miðlínanna hundrað og fimtíu fet og hæð þaknanna þrjú hundruð fet, þannig, að þau liggja inn að miðhvelfingunni alveg á sama hátt sem blöð sólarblómsins inn að miðjunni. Nákvæm mæling frá miðju miðaltarisins yzt út á hverja eina af hinum bognu miðhálflínum yrði því þrjú hundruð fet (vidd sjálfs bogans) eða alls sex hundruð fet frá hinni yztu hringbygging einnar miðhálflínu eða blaðs til þess, er yzt er andspænis.*)

Musterið sjálft er úr hreinum, fáguðum hvítum marmara og ber því mjög af hinum rauða granítsteini, er borgin er bygð úr, og glitrar það á brún hennar eins og konunglegt djásn á enni blakkrar drotningar. Að utan verðu er hvelfingin og hinir tólf blaðamynduðu garðar algerlega þaktir þunnum flögum af slegnu gulli, og yzt á þaki hvers þess blaðs er dýrðleg gullin mynd með lúður í hendinni og útbreidda vængi búin til þess að líða út í geiminn. Eg verð að láta það á valdi hvers eins er les þetta, að hugsa sér hina yfirvættis dýrð þessara gullnu þaka, er á þau leiftrar í sólskininu — leiftrar líkt og af þúsundum eldsloga á fjalli fágaðs marmara, svo sterk-

*) Þetta er alt innanmál. A. Q.

lega, að endurskinið má glögglega sjá frá hinum miklu fjallstindum í hundrað mílna fjarlægð.

Það er aðdáanleg sýn—þetta gullnablóm ofan á hinum kalda hvíta marmaravegg og efast eg um að önnur eins sjáist í heimi; það er gerir sýn þessa enn stórkostlegri, er það, að belti, sem er 150 fet á breidd, umhverfis marmaravegg musterisins, er gróðursett með innlendri tegund sólarblóma, er voru þá er við sáum þau, ein síbreiða gullins blómskarts.

Aðal inngangurinn til þessa undrastaðar er milli hinna nyrstu miðhálflína eða blaðmynduðu garða og eru fyrst hin vanalegu bronze-hlið og þá hlið af marmara, með fögrum mynda-skurðum og lagt á þær gullþynnur. Þegar komið er inn fyrir hlið þessi tekur við sjálfur veggurinn, sem þó er 25 fet (því *Zuvendi* menn byggja fyrir alla ókomna tíð) og eru þá aðrar minni dyr, er einnig eru af hvítum marmara og er þá komið inn í hinn kringlótta sal undir hinni miklu hvelfingu. Ef þá er gengið til miðaltarisins má líta svo fagra sýn, er hugsast getur. Menn standa þar í miðju helgistaðarins og fyrir ofan rís hin mikla hvíta marmara hvelfing (því hið innra er og úr fægðum marmara) í fögrum bogum eigi ósvipað og í St. Pauls kirkjunni í London, en þó eigi jafn bratt og frá hinu trektmyndaða opi á sjálfum toppnum fellur bjartur ljósgeisli niður yfir hið gullna altari. Að austan og vestanverðu eru önnur ölturu og aðrir ljósgeislar rjúfa þar hið helga rökkur. Til allra hliða, liggja hinir geislamynduðu garðar hvítir, leyndardómsfullir og furðulegir, og um hvern einn þeirra fer ein einstök ljósör, er lýsir

yfir hinni hátíðlegu þögn og sýnir óljóst minnisvarða hinna miklu framliðnu manna.*

Lítirðu slíka sjón, þá muntu verða gagntekinn af lotningu; það mun fara titringur um taugar þínar af hinum stórkostlega yndisleik sjónarinnar líkur þeim titringi er augnaráð ljómandi fallegrar stúlku kemur til leiðar og þú munt snúa þér að gullaltarinu í miðjunni. Þó að þú sjáir það ekki nú, þá er á því miðju föllleitur en stöðugur logi, og efst um hann leikur daufur blár reykur líkt og hrokknir hárlokkar. Það er af marmara og lagt skýru gulli og er að lögun kringlótt eins og sólin, fjögur fet að hæð og þrjátíu og sex fet að ummáli. Hér eru og tólf blöð af slegnu gulli, fest við undirstöðu altarisins. Á hverri nótt, að undantekinni einni stund og einnig á daginn lykjast blöðin yfir sjálft altarið alveg eins og blöð vatnsliljunnar lykjast í hvassviðri yfir hina gulu krónu, en þegar sólarljósið um hádegið skín niður um opið á hvelfingunni, og fellur á hið gullna blóm, þá opnast blöðin og sýna hinn hulda leyndardóm, en lykjast aftur um leið og ljósgeislinn hverfur á burt.

En þetta er þó eigi alt. Því tíu gullnir englar eða vængjaðar kvenlegar myndir, fagurlega gerðar og dýrðlega skreyttar, standa í hálfhringum með jöfnu millibili hver frá annari að norðan og sunnanverðu við helgistaðinn. Þessar myndir, sem eru lítið eitt stærri en á mannstærð standa og lúta höfði, eins og þær væru að biðjast fyrir; skyggja vængirnir á

---

*) Birta féll og niður um hlera, er hleypa mátti til undir þakskeggi hvelfingarinnar og á þakinu.

andlit þeirrar, og eru þær mjög tignarlegar á að líta og fram úr skarandi fagrar.

Það er að eins eitt eftir, er lýsa þarf, að því er altari þetta snertir, en það er, að gólfið að austanverðu fram undan altarinu er eigi af hreinum marmara eins og annars staðar í musterinu, heldur af eintómu látúni, og er svo einnig fram undan hinum tveimur ölturunum.

Austur og vestur ölturin, sem eru eins og hálfhringur í lögun, og reist eru við vegg musterisins, eru eigi eins stórkostleg og eigi heldur lykjast hin gullnu laufblöð um þau. En þau eru þó einnig af gulli, hinn helgi eldur brennur á hvorumtveggja þeirra og mynd með gullnum vængjum stendur á hvora hlið þeirra. Tveir gullnir geislar skína á veggnum að baka til við þau, og þar sem þriðji eða miðgeislinn ætti að vera er op á veggnum, er það vítt að utan en mjótt að innan líkt og öfugt skotgat. Inn um austur skotgatið skína fyrstu geislar hinnar upprennandi sólar og liggja um þveran hringinn og snerta hin samlögðu blöð hins mikla gullna blóms, þar til að þeir falla á vestur altarið. Á sama hátt falla og að kveldi dags hinir síðustu geislar hinnar sígandi sólar stundarkorn á austuraltarið, þar til er þeir hverfa burt í dimmunni. Það er heitstrenging afturbirtu við kveldið og kvelds við afturbirtuna.

Að undanskildum þessum þremur ölturum og hinum vængjuðu myndum umhverfis þau er alt rúmið neðan undir hinni miklu hvítu hvelfing algerlega tómt og án alls skrauts — og eykur það mjög mikilleik þess að því er mér virðist.

Þetta er stutt lýsing þessa aðdáanlega og fagra musteris og vildi eg óska, að eg gæti látið dýrð þess, er að minni hyggju vex svo mjög af hinum óbrotna einfaldleik sínum, njóta alls sannmælis. En eg get það eigi, og er því til einskis að ræða meira um það. En þegar eg ber þetta mikla andans verk saman við sumar hinar smekklausu byggingar og fánýta skraut, sem kirkjusmiðir í Norðurálfunni nú á dögum viðhafa, þá finst mér að jafnvel íþrótt mentaðra þjóða gæti lært allmikið af meistaraverkum Zu-vendismanna. Eg get að eins sagt, að orð þau er fóru mér um munn, þá er augu mín höfðu vanist hinni óskýru birtu í þessu dýrðlega musteri, og þá er hin hvíta, yndislega fegurð, er var fullkomin og töfrandi sem naktrar gyðju, varð mér fyrst fyllilega ljós, voru þessi: „Já, hér mundi jafnvel hundur finna til trúrækni“; þetta kann að vera nokkuð hversdagslega mælt, en ef til vill skýrir það betur hugsun mína en nokkuð annað kurteisara orðalag.

Við musterishliðin var tekið við okkur af hermannaflokki, er virtist vera undir stjórn prests eins, og fylgdi hann oss inn í einn geisla eða blaðamyndaða garðinn og vorum við látnir bíða þar að minsta kosti hálfa klukkustund. Ræddum vér hér saman og þóttumst í miklum staddir, en fastréðum þó að selja líf vort svo dýrt sem auðið væri, ef ráðist yrði á oss — því Umslopagaas lét í ljósi áform sitt að blóta Agon, æðstapresti, með því að kljúfa hið virðulega höfuð hans með Inkosi-kaas. Þaðan er vér stóðum gátum vér séð, að mesti mannfjöldi þyrptist inn í musterið og bjuggust menn auðsjáanlega við

einhverju óvanalegu, og var eigi laust við, að eg væri hálfhræddur um að vér mundum verða eitthvað riðnir við það. Og hér má og geta þess að dag hvern, þá er sólarljósið fellur á miðaltarið og blásið er í lúðrana er brennifórn færð sólinni og er það vanalega sauður eða nautsskrokkur eða stundum ávextir eða korn. Fer athöfn þessi fram um hádegi, þó auðvitað sé að það er eigi ætíð nákvæmlega um það leyti, en þar sem *Z*u-vendis eigi liggur mjög fjarri miðjarðarlínunni — en loftslag er þar þó mjög temprað, því landið liggur svo hátt yfir sjávarmál — var það oftast nær samstundis að hádegi var og að sólarljósið féll á altarið. Í dag átti fórnfæringin að fara fram hér um bil átta mínútum eftir hádegi.

Rétt um hádegi kom presturinn og gaf bending og fyrirliði varðmannanna gerði oss skiljanlegt, að ætlast væri til að vér gengjum fram og gerðum vér svo allir eins einarðlega og oss var unt, nema Alfonse, því tennur hans fóru þegar samstundis að hríðnötra. Leið eigi á löngu að vér vorum komnir út úr garðinum og litum vér þá óteljandi mannsandlit, er öll reyndu til að koma auga á hina ókunnu menn er sekir voru um goðgá, en hér má geta þess, að þetta voru hinir fyrstu útlendu menn, er nokkru sinni höfðu sett fót sinn í *Z*u-vendis, að því er mannfjölda þessum var kunnugt.

Jafnskjótt og til okkar sást varð mikil háreisti meðal mannfjöldans og barst bergmálið upp hina miklu hvelfing og sáum vér ljóslega hversu æsingarroði fór um hin þúsund andlit líkt og rósemdarbjarmi á fölleitum skýbólstri og var þetta mjög skrítið út-

lits. Gengum vér áfram um göng er voru höggvin gegn um manngrúann ,þar til að vér alt í einu stóðum á malarlagða blettinum austan vert við miðaltarið og beint fram undan því. Var dregið reipi hér um bil þrjátíu fet umhverfis hinar gullvængjuðu myndir og stóð manngrúinn utan vert við það. Innanvert við það hringur hvítklæddra presta með gulldregnum mittisböndum og héldu þeir á löngum gyltum lúðrum og beint fram undan oss var vinur vor Agon, æðstiprestur, og hafði hann á höfðinu hina skringilegu húfu sína. Var hann hinn einasti í öllum þessum mikla mannhóp, er hafði nokkurt höfuðfat. Vér námum staðar á málmblettinum og grunaði lítt hvað oss var búið fyrir neðan hann, en eg tók eftir skrítilegu hvæstndi hljóði, er virtist koma frá gólfinu, og gat eg eigi gert mér ljósa grein fyrir því. Þá varð þögn, og leit eg í kring um mig til þess að gæta að því hvort nokkuð sæist til drotninganna, Nýlepþu og Soroas, en þær voru þar eigi. En til hægri handar við oss var autt rúm, er eg hélt að mundi vera ætlað þeim.

Vér biðum og leið skamt að blásið væri í lúður, að því er virtist hátt upp í hvelfingunni. Heyrðist þá enn á ný mikil háreisti meðal manngrúans og sáum vér þá hvar hinar tvær drotningar gengu samhliða eftir mjóu stræti, er lá inn á hið opna svæði, hægra megin við oss. Fylgdu þeim allmargir hirðmenn og þekti eg meðal þeirra hinn mikla höfðingja Nasta, en á eftir þeim komu hér um bil fimtíu manns úr lífverðinum. Var eg mjög glaður að sjá þessa menn. Leið nú eigi á löngu, að þeir voru allir komn-

ir og höfðu raðað sér; voru báðar drotningarnar fremstar og hirðmennirnir til hægri og vinstri handar, en lífverðirnir í tveimur hálfhringum að baki þeirrra.

Varð þá aftur þögn, og Nýlepþa leit upp og kom auga á mig. Virtist mér sem eitthvað lægi þar undir, og gætti eg hennar því vandlega. Liðu augu hennar af mér og niður eftir hinu málmlagða gólfi, en vér stóðum við ytri rönd þess. Hallaði hún þá enn höfði sínu lítið eitt til hliðar og bar lítið á því. Eg skildi þetta eigi en hún gerði það aftur, giskaði eg því á, að hún ætlaðist til þess, að vér færum til baka til málmlagða gólfsins. Leit hún enn á ný til mín, og vissi eg því hvað hún átti við, — það var hætta búin að standa á gólfinu. Sir Henry stóð öðru megin við mig, en Umslopagaas hinu megin. Leit eg beint fram undan mér og hvíslaði til þeirra, á *Zúlúmáli* og svo á ensku, að þeir skyldu hörfa lítið eitt aftur, þar til þeir stæðu að hálfu á marmaragólfinu þar til málm lagða gólfið hrykki. Sir Henry hvíslaði að Good og Alfonse og hörfuðum vér svo hægt og hægt aftur á bak; svo hægt, að enginn varð þess var, nema Nýlepþa og Soroais virtust taka eftir hverju einu. Leit eg þá aftur til Nylepþu og tók eg þá eftir því að hún hneigði höfuð sitt snöggvast eins og hún væri að samsinna þessu. En á meðan að á þessu stóð, einblíndi Agon á altarið og var sem í leiðslu. Fórnaði hann þá alt í einu hinum lágu handleggjum sínum og tók með hátíðlegri og hvellri rödd að tóna kvæði eitt, er eg hér til skilningsauka sný mjög lauslega, því að

eg, sem auðvitað var, skildi eigi þá efni þess. Það var ákall á sólina og var nokkuð á þessa leið:

Á yfirborði jarðarinnar og vötnum hennar er þögn.
Já, þögn breiðir vængi sína yfir vötnin, líkt og fugl, sem liggur á eggjum.
Þögnin sefur í faðmi niða-myrkursins.
Að eins hátt uppi í geimnum talar stjarna við stjörnu.
Jörðin er magnþrota af þrá og vot af tárum eftirlöngunarinnar.
Stjörnubeltuð nóttin faðmar hana, og þó lætur hún ekki huggast.
Hún liggur hjúpuð í þoku líkt og lík í náklæðunum,
Og réttir sínar fölu hendur til austurs.

Sjá, lengst í austrinu bregður fyrir ljósglampa.
Jörðin sér það, og lyftist upp. Hún skyggir fyrir augað með hendinni og horfir.
Þá fljúga þínir miklu englar, ó, Sól, frá þinni heilögu höll.
Þeir skjóta sínum glampandi sverðum inn í dimmuna og hún kreppist saman.
Þeir fara um himininn og varpa fölum stjörnunum úr hásætum sínum;
Já, þeir fleygja stjörnunum aftur í kyrð næturinnar;
Þeir láta mánann verða fölan sem ásjónu deyjandi manns,
Og sjá! Svo kemur þú í dýrð þinni, ó, Sól‘

Ó, þú yndislega, sem varpar utan um þig eldinum
eins og skykkju.
Himnarnir eru leið þín. Þú veltur yfir þá eins
og kerra.
Jörðin er brúður þín. Þú faðmar hana, og hún
fæðir börn;
Já, þú ert hennar unnusti, og hún færir þér sína
niðja.
Þú ert faðir alls, og lífgjafi, ó, Sól!
Ungu börnin rétta út hendur sínar og vaxa í birtu
þinni;
Gamalmennin skreiðast áfram og minnast afls
síns er þeir sjá þig.
Enginn gleymir þér, ó, Sól, nema hinir dauðu!

Í bræði þinni hylur þú andlit þitt; þú vefur
utan um þig þykkri skugga-slæðu.
Þá verður jörðin köld og himnarnir hnípnir;
Þeir skjálfa, og hljómurinn af þér er hljómur
þrumunnar;
Þeir gráta og tár þeirra streyma niður í regninu;
Þeir stynja og andvörp þeirra heyrast í æðis-
gengnum vindum.
Blómin deyja, frjósamir akrarnir dragast upp
og fölna;
Gamalmennin og ungbörnin hypja sig inn í hí-
býlum sínum, þegar þú hylur ljós þitt, ó, Sól!

Seg, hvað ertu, þú óviðjafnanlegi ljómi —
Hver setti þig í upphæðir, þú blossandi skelfing?
Hve nær byrjaðir þú að vera til og hve nær kemur
dagur endalyktar þinnar?

Þú ert endurskin hins lifandi anda.
Enginn setti þig í upphæðir, því að þú varst til frá upphafi.
Ekki mun endalykt þín komin, þegar börn þín eru gleymd.
Nei, aldrei munt þú undir lok líða, því að stundir þínar eru eilífar.
Þú situr á upphæðum í þínu gullhúsi og mælir út aldirnar.
Ó, þú faðir lífsins! Þú myrkurdreifandi Sól!

Hann hætti sínu hátíðlega tóni, sem var sannarlega yndislegt og tilkomumikið, þó að lítið verði úr því, þegar það er búið að ganga í gegn um mínar hendur. Svo varð augnabliks þögn, og presturinn leit upp í trektmyndaða gatið á hvelfingunni og sagði:

„Ó, Sól, síg þú niður á altari þitt!“

Um leið og hann sagði þetta bar við dásamlegur og yndislega fagur atburður. Ofan frá hæðunum skauzt ljómandi ljósgeisli, sem klauf rökkrið líkt og eldsverð. Hann féll á lokuð blómblöðin og rann glampandi niður eftir hinum gullnu hliðum þeirra, og svo opnaðis hið dýrðlega blóm, alveg eins og geislinn hefði lokið því upp. Hægt og hægt opnaðist það og þegar blöðin höfðu lokist upp að fullu og altarið, sem eldurinn brennur alt af á, sást, þá blésu prestarnir á lúðrana, og alt fólkið rak upp lofgjörðar-óp, sem skall á hvelfingunni og bergmálaði niður eftir marmaraveggjunum. Og nú var blómaltarið opið og sólarljósið féll á hina heilögu eldtungu, svo hún

blakti, drógst niður og hvarf niður í hið helga fylgsni er hún hafði komið upp úr. Um leið og hún hvarf ultu enn út yfir mannsöfnuðinn hinir mjúku tónar lúðranna. Aftur rétti gamli presturinn upp hendurnar og hrópaði hátt:

„Vér færum þér fórn, ó, Sól!“

Enn varð mér litið á augu Nýlepþu; hún starði á málmgólfið.

„Gætið þið ykkar“, sagði eg hátt; og um leið og eg sagði það sá eg Agnon beygja sig áfram og snerta eitthvað á altarinu. Um leið og hann gerði það, varð hvíti andlita-sjórinn umhverfis okkur rauður og svo aftur hvítur, og allir drógu á því augnabliki andann þungt, eins og þeir væru að stynja. Nýlepþa hallaði sér áfram og tók ósjálfrátt hendinni fyrir augun. Sorais sneri sér við og hvíslaði einhverju að yfirmanni hins konunglega lífvarðar, og svo kom brak, eins og eitthvað væri að rifna, og alt málmgólfið færðist burt frá fótum okkar, og í þess stað sást alt í einu marmaragröf; neðst í henni var voðalega stór arinn, nógu stór og nógu heitur til að hita allan skutinn á herskipi.

Við rákum upp skelfingar-org og stukkum aftur á bak, allir nema Alfonse garmurinn; hann var magnlaus af ótta, og hefði skollið ofan í logandi eldinn, sem okkur var ætlaður, ef Sir Henry hefði ekki náð í hann með sinni styrku hendi, rétt í því bili að hann var að rjúka út af, og dregið hann aftur á bak.

Nú varð á augabragði óttalegur ógangur, og við fjórir snerum saman bökunum, en Alfonse hringlaðist eins og vitlaus maður kring um okkur og var að

reyna að leita sér athvarfs milli fótanna á okkur. Við höfðum allir á okkur skammbyssur okkar — því að þó byssurnar hefðu verið kurteislega teknar af okkur, þegar við fórum frá höllinni, þá vissi þetta fólk auðvitað ekki, hvað skammbyssur eru. Umslopagaas hafði líka öxi sína, því að enginn hafði reynt að taka hana af honum, og nú veifaði hann henni umhverfis höfuð sér, og skerandi, þvergirðingslega *Zúlúa*-herópið, sem hann rak upp, bergmálaði upp eftir marmaraveggjunum. Á næstu sekúndu höfðu prestarnir sem mist höfðu af herfangi sínu dregið sverð sín und an hinum hvítu skykkjum sínum, og hlupu að oss líkt og hundar á ljón, er eigi fær undan komist. Eg sá að nú var eigi annað úrræði en að duga eða falla, svo að þegar hinn fyrsti maður kom þjótandi fram — og mikill og stór var hann — þá sendi eg vænt kúluskot gegn um hann og hann féll niður fram undan gröfinni og rann með miklum óhljóðum niður í bál það, er oss hafði verið búið.

Hvort það nú heldur var fyrir org hans eða hið ógurlega hljóð og áhrif smábyssu-skotsins eða eitthvað annað, það skal eg eigi segja, en hinir prestarnir námu staðar agndofa og hlessa, og fyr en þeim tókst að gera annað áhlaup hafði Sorais kallað eitthvað, og vorum vér þá og báðar drotningarnar og flestir hirðmennirnir umkringdir af fjölda vopnaðra manna. Þetta var á svipstundu og prestarnir voru sem á báðum áttum og fólkið vissi ekkert hvernig það átti að snúa sér, líkt og hafrahópur, sem hræddur hefir orðið, og lét ekki í ljósi tilfinningar sínar á einn eða annan hátt, því org prestsins, er hrapað

hafði í eldinn, voru nú um garð gengin og hafði eldurinn séð fyrir honum og mikil þögn varð yfir staðnum.

Sneri þá Agon æðsti prestur sér við og var andlit hans djöfullegt ásýndar. „Látið blótið fara fram", útkallaði hann til drotninganna. „Hafa eigi þessir útlendu menn framið svo mikla goðgá og munduð þér, sem drotningar, vilja varpa skýlu yðar hátignar yfir afbrotamenn. Eru eigi dýr þau, er helguð eru sólinni, dáin? Og er ekki prestur sólarinnar og dáinn, drepinn af töfrum þessara ókunnu manna, er koma sem vindur frá himninum, vér vitum eigi hvaðan, né heldur hverjir þeir eru? Gætið yðar, drotningar, hversu þér leikið með hátign guðsins, jafnvel frammi fyrir sjálfu hásæti hans. Til er meiri máttur en yðar, og réttlæti æðra en yðar. Varið yður, að þér eigi hefjið hönd guðlöstunar gegn þessu. Látið blótið fara fram, drotningar."

Þá svaraði Sorais með djúpri rólegri rödd, er mér ætíð virtist vera eitthvað háðsleg enda þó um alvarlegt mál væri að ræða: „Ó, Agnon, þú hefir mælt eftir ósk þinni, og þú hefir mælt sannleik. En það ert þú, er vildir hefja hönd guðlöstunar gegn réttlæti guðs þíns. Gæt þess, að hádegisfórninni er lokið, sólin hefir heimtað prest sinn sem offur."

Þetta var spáný hugmynd og var að því gerður góður rómur.

„Gæt þess, hverjir eru þessir menn. Þeir eru útlendingar, er menn fundu á floti úti á miðju vatni. Hver flutti þá hingað? Hvernig komu þeir hér? Hvað vitið þér nema þeir séu og þjónar sólarinnar?

Er þetta sú gestrisni, er þér munduð kjósa að þjóð vor sýni mönnum þeim, er tilviljunin kann að hrekja hingað, að fleygja þeim á bál?“

„Fyrirverðið yður—fyrirverðið yður! Hvað er gestrisni? Að taka við ókunnum manni og gera honum gott, að binda um sár hans og leggja svæfil undir höfuð hans og gefa honum mat að eta. En koddi þinn er hinn glóandi ofn og matur þinn hin heita lykt logans. Fyrirverð þig, segi eg!“

Nú þagnaði hún um stund til þess að sjá hver á-hrif ræða hennar hefði á múginn, og er hún varð þess áskynja að lýðnum fél lhún í geð, þá breytti hún rödd sinni, og var nú eigi lengur aðvörun í henni heldur skipun.

„Heyrið þér! rýmið til! þarna,‘ kallaði hún; „rýmið til, segi eg, gangið úr vegi fyrir drotningunum, og þeim er drotningarnar hylja með „kaf“ (mötli) sínum.“

„Og ef eg neita því, ó, drotningar?“ mælti Agon í hálfum hljóðum.

„Þá mun eg ryðja mér braut með varðmönnum mínum,‘ svaraði hún drembilega; „já, jafnvel um musterið sjálft og yfir prestana þína.“

Agon varð ráðalaus og öskuvondur. Hann leit til fólksins eins og að hann væri að hugsa um að skjóta máli sínu til þess, en varð þess brátt var, að hugur þess var hins vegar. Zu-vendismenn eru mjög skrítnir og félagslyndir menn og þó að þeim ofbyði óhæfuverk það, er framið hafði verið, þar sem hinir heilögu vatnshestar höfðu verið skotnir, þá geðjaðist þeim þó eigi að því, að þessir hinir einu sönnu út-

lendingar, er þeir nokkru sinni höfðu séð eða heyrt af, væru lagðir í hinn glóanda ofn, því með því væru þeir sviftir því að geta aflað sér nokkurs fróðleiks eða kunnáttu af þeim eða talað um þá.

Agon sá þetta og kom eitthvert hik á hann og í fyrsta sinni talaði Nýlepþa með hinni mjúku, yndislegu rödd sinni.

„Gættu þess, Agon,‘ ‘mælti hún, „eins og að systur-drotning mín hefir sagt, svo kunna og menn þessir að vera þjónar sólarinnar. Þeir geta eigi talað fyrir sig, því tungur þeirra eru bundnar. Frestum því máli þessu þar til er þeir hafa lært mál vort. Hversu má dæma nokkurn án þess að hann geti varið sig? Þegar þessir menn tala máli sínu, þá mun vera tími til að rannsaka þetta betur.‘

Þarna gafst tilefni til að smokka sér út úr vandræðunum og hinn hefnigjarni gamli prestur notaði sér það, enda þótt hann eigi væri því samdóma.

„Veri það svo, drotningar,‘ ‘mælti hann. „Látum mennina fara í friði og látum þá tala, er þeir hafa hafa lært tungu vora. Og ég, enda eg, mun í auðmýkt beiðast þess fyrir altarinu að eigi komi drepsótt yfir landið fyrir goðgá þessa.“

Var góður rómur gerður að orðum þessum og gengum vér samstundis út úr musterinu og lífverðirnir slóu hring um oss.

En það var löngu síðar, að oss varð fyllilega ljóst, hvað fram hafði farið og hve tæplega að vér höfðum sloppið úr greipum *Z*u-vendiprestanna, því enda sjálfar drotningarnar máttu sín í raun réttri lítið gegn þeim.

Það var marg-ítrekuðum tilraunum þeirra að þakka, að vér vorum eigi þegar fyrir löngu líflátnir, jafnvel löngu áður en vér höfðum stigið inn í musteri sólarinnar.

Það hafði verið reynt, sem síðasta úrræði, að láta oss falla niður í hina glóandi gryfju, þá er mörg önnur ráð höfðu mislukkast, er oss alls eigi grunaði.

---

## XV. KAPITULI.

Þegar vér höfðum sloppið þannig úr greipum Agons og hins guðrækna hyskis hans, fórum vér til bústaðar vors í höllinni og leið oss þar mjög vel. Báðar drotningarnar, hinir tíginbornu menn og öll alþýða keptust um að sýna oss alla virðingu og ausa gjöfum yfir oss. Hið litla atvik, er snerti vatnahestana, gleymdist, og þótti oss lítið fyrir því. Eigi leið nú sá dagur að nefndir manna og einstakir menn heimsæktu oss ekki til þess að skoða byssur okkar og fatnað, hringaskyrtur og verkfæri vor, einkum úrin, er þeim þótti mjög gaman að.

Í stuttu máli þótti nú þau ósköp til vor koma að sumir af hinum ungu tilhaldspiltum meðal Zuvendimanna fóru að stæla sniðið á fötum vorum,einkum skottreyju Sir Henry's. Það var dag einn, að nefnd manna heimsótti oss, og fór þá Good, eins og vant var, er svo bar við, í einkennisbúning sinn. Virtist svo sem nefnd þessi væri annars háttar; en

þær er annars komu til vor. Þar voru litlir, lítilsháttar menn, en mjög kurteisir, að eg eigi segi þrællyndislegir, í allri framgöngu sinni; virtist svo, sem þeir eingöngu væru að taka eftir hvernig einkennisbúningur Goods væri, og athuguðu þeir hann mjög gjörla, og tóku einnig vandlega mál af honum. Good þóttist mjög af þessu, og grunaði alls eigi að hann hér ætti við sex aðal skraddarana í Milosis. En hálfum mánuði síðar, er hann að venju kom til hirðarinnar, og sá sjö eða átta *Zu*-vendi „mashers“ klædda í nokkurn veginn eftirlíking af einkennisbúningi hans, þá varð hann annarar skoðunar. Eg mun aldrei gleyma svip hans; var á honum bæði roga stans og viðbjóður. Það var einkum eftir þetta, að oss kom saman um að taka upp búning þarlendra manna. Var það bæði til þess að eigi væri tekið eftir oss og einnig fyrir þær sakir, að föt vor voru farin að slitna og vér því urðum að hlífa þeim.

Oss fanst búningur þessi næsta þægilegur, því að eg verð að segja, að eigi var laust við að eg væri hálf-hjákátlegur tilsýndar, er eg hafði farið í hann, hvað þá Alfonse! Umslopagaas einn vildi engum slíkum skiftum sinna. Þegar þessi gamli önugi *Z*úlúi, var búinn að slíta út úr því, sem utan á honum var, þá bjó hann sér til nýtt í staðinn, og gekk annars manna á milli, eins og ekkert væri, jafn-nakinn og illúðlegur eins og og axarblaðið hans.

Meðan á þessu stóð, keptumst vér við að læra tungu landsins, og tókum við mjög skjótum framförum. Morguninn eftir æfintýri það, sem fyrir okkur kom í musterinu, komu þrír alvarlegir, velæruverð-

ugir herrar með handritabækur, blekhorn og fjaðrapenna og gáfu okkur í skyn, að þeir hefðu verið sendir til að kenna okkur. Og svo fórum við allir að keppast við að læra, fjórar stundir á dag, að Umslopagaas undanskildum. Af honum er það að segja að hann vildi ekki heldur sinna þessari kenslu. Hann langaði ekki til að læra þetta „kvenna-hjal“, eitthvað síður en svo. Og þegar einn af kennurunum fór til hans með bók og blekhorn, og veifaði því frammi fyrir honum góðlátlega ekki ólíkt því, sem umsjónarmenn kirkna skaka samskota-pokann fyrir framan nefin á ríkum en nískum sóknarbændum, þá stökk hann upp, blótaði hrottalega og lét Inkosi-kaas glampa fyrir framan augun á okkar lærða vini, og eftir það var ekki reynt að kenna honum zu-vendisku.

Þannig notuðum við morgnana til nytsams starfs, sem alt af varð skemtilegra eftir því sem við komumst lengra, og síðara hluta dagsins höfðum við okkur til hressingar. Stundum fórum við smáferðir, þar á meðal einu sinni til gullnámanna og öðru sinni til marmaranámanna; þætti mér gaman af ef eg hefði tíma til að skýra gerr frá báðum þessum ferðum. Og stundum fórum við á dýraveiðar með hundum, sem tamdir voru til þess; það er ánægjuleg skemtun og ekki hættulaus, því að hvervetna um landið eru akuryrkju-girðingar og hestar, og hestar okkar voru ljómandi gull. Menn þurfa ekkert að furða sig á því, þar sem við máttum nota hesta drotninganna eftir vild okkar, og auk þess hafði Nýlepþa gefið okkur fjóra ágæta reiðhesta.

Stundum fórum við á veiðar með haukum, og

þykir *Zu*-vendimönnum mjög mikið til þeirrar skemtunar koma; þeir ota venjulegast haukunum á eina tegund af akurhænum, sem er merkilega flughröð. Þegar haukurinn ræður á þennan fugl, er alveg eins og hann verði utan við sig; hann leitar sér ekki hælis neins staðar, en flýgur í þess stað hátt upp í loftið, og er aðdáanlega gaman að sjá þann leik. Eg hefi séð eina af þessum akurhænum fljúga svo hátt upp, að hún rétt að segja hvarf, þegar haukur var að elta hana. Enn betri skemtun er að veiða eina tegund af stórum hrossagaukum, sem nóg er þar af í landinu; menn hleypa á þá litlum fjörugum, ágætlega tömdum haukum, með næstum því rauðu stéli; stóri hrossagaukurinn flýgur í hornhvössum krákustígum, eins hart eins og elding, og er yndisleg skemtun að horfa á það og svo hreyfingar stélrauða hauksins. Enn önnur skemtun er það, að veiða eina mjög smávaxna antilopa-tegund með tömdum örnum; og það er sannarlega óviðjafnanleg sjón, að sjá þennan stóra fugl fljúga alt af hærra og hærra upp í loftið, þangað til hann er ekki orðinn nema dökkur punktur í sólarljósinu, og steypa sér svo alt í einu niður eins og fallbyssukúla á antilópa, sem kúrir einhvers staðar niðri í grasinu, þar sem enginn sér hann, nema þessi skarpskygni fugl. Þó er enn fallegra að sjá, þegar örninn tekur dýrið á hlaupum.

Svo fórum við stundum í kynnisför til hinna víggyrtu aðsetursstaða sumra lávarðanna og til þorpanna, sem standa fyrir neðan víggirðingarnar. Þar sáum við vínviðargarða og akra og svæði, sem eins vel voru hirtir og skemtigarðar, með skógi, sem

fékk mér unaðar,því að mér þykir vænt um falleg tré. Þarna standa þau svo sterk og borginmannleg, og þó svo ljómandi falleg, alveg eins og beztu mennirnir. Hvað þau lyfta tígulega upp nöktum höfðunum í vetrarstormunum, og hvað þau fagna, þegar vorið kemur aftur. Og hvað rödd þeirra er líka tilkomumikil, þegar þau eru að tala við vindinn; þúsundir af æólskum hörpum geta ekki jafnast við fegurðina í andvarpi mikils, laufgaðs trés. Allan daginn bendir það á sólskinið og alla nóttina á stjörnurnar, og þannig stendur það öldum saman, ástríðulaust og þó fult af lífi, í óveðri og blíðviðri, og dregur viðurværi sitt úr hinum kalda faðmi jarðarinnar móður sinnar, og jafnframt því sem árin dragast áfram lærir það hinn mikla leyndardóm þroskunarinnar og framfararinnar. Og þannig stendur það eina kynslóðina eftir aðra, lifir einstaklingana, konungsættirnar — alt nema sveitina,sem það prýðir, og mannlega náttúru, þangað til sá dagur kemur, er vindurinn vinnur sigur á hinni löngu baráttu og fagnar yfir að hafa aftur náð valdi yfir staðnum, eða þá að rotnunin fær teygt nógu langt sína sveppkendu fingur.

Já, menn ættu jafnan að hugsa sig vandlega um, áður en þeir höggva tré. . .

Á kveldin var það siður okkar Sir Henrys og Goods að borða með drotningunum — vitaskuld ekki á hverju kveldi, heldur hér um bil þrisvar eða fjórum sinnum á viku, hve nær sem ekki voru hjá þeim of margir gestir aðrir og tími var til þess fyrir stjórnarstörfum þeirrra. Og eg verð að kannast við það, að þessir kveldverðir voru þær skemtilegustu stundir

sinnar tegundar, sem eg hefi nokkurn tíma lifað. Hvað það er satt, að þeir, sem allra hæst eru settir, þeir eru ávalt mest blátt áfram og viðkunnanlegastir. Það er miðlungsfólkið, sem berst mest á og gerir það á hinn óvirðulegasta hátt. Eg held í raun og veru, að það yndislegasta við Nýlepþu sé það, hvað hún er blátt áfram, og hvað hún lætur sér góðlátlega og einlæglega ant jafnvel um smámuni. Eg hefi aldrei þekt konu, sem var lausari við stórmensku, og hún er ein af þeim allra blíðlyndustu, sem eg hefi kynst við, þegar ástríður hennar hafa ekki komist í hreyfingu; en hún getur sett á sig nógu mikinn drotningarsvip, þegar hún vill það við hafa, og líka verið eins grimmúðleg eins og hver sem helzt villikona.

Eg mun, til dæmis að taka, aldrei gleyma því, þegar eg komst að því í fyrsta sinni, að hún hafði felt ástarhug til Sir Henrys. Það komst upp á þann veg, sem nú skal greina — og var eingöngu því að kenna, hvað Good þykir gaman að vera innan um kvenfólk. Þegar Good okkar hafði fengist eitthvað þrjá mánuði við nám *Zu*-vendi-tungunnar, þá fór hann heldur að þreytast á þessum gömlu herrum, sem sýndu okkur þann sóma að leiðbeina okkur, og án þess að tala um það við nokkurn annan, fór hann að koma þeim í skilning um, að þó að þeim kynni að þykja það undarlegt,þá væri sér eigi unt að taka neinum verulegum framförum í málinu, komast inn í þess innra eðl, nema hann nyti tilsagnar kvenna — og hann tók það fram, að það þyrftu að vera ungar stúlkur. Hann benti þeim á, að á hans ættjörð væri það siður, að velja allra laglegustu og yndislegustu

stúlkurnar, sem til væru, til þess að kenna þeim útlendingum, er þar bæri að landi, o. s. frv.

Gömlu herrarnir trúðu honum eins og nýju neti. Þeir könnuðust við það, að það væri skynsamlegt, sem hann segði, enda stæði það heima við þá heimspekilegu setning, er kend væri í þeirra eigin fræðum, að skoðun hins yndislega opnaði sálina, og væru þau áhrif lík áhrifum þeim er sólin og loftið hafa á líkamann. Þar af leiðandi væri það líklegt, að *Zu*vendi-tungan kynni að komast dálítið fljótara inn í okkur, ef við fengjum kennara, sem ættu við okkur. Svo væri og þess að gæta, að kvenþjóðin væri af eðlisfari málskarfsmeiri, og gætum við því fengið meiri æfingu í að tala málið.

Good félst á alt þetta með miklum alvörusvip; og svo fóru þessir lærðu herrar leiðar sinnar, og tóku það fram við hann, að þeim væri skipað að láta í hvívetna að óskum okkar, og ef mögulegt væri, þá skyldi beiðni okkar verða framgengt.

Menn geta því gert sér í hugarlund, hve forviða og gramur eg varð — og eg held mér sé óhætt að segja það sama um Sir Henry — þegar við komum inn í herbergi það er við vorum vanir að stunda nám okkar í, og sáum þar, í stað okkar venjulegu æruverðugu kennara, þrjár af laglegustu ungu stúlkunum, sem til voru í Milosis—og með því er ekki lítið sagt. Þær roðnuðu og brostu og hneigðu sig, og létu okkur skilja, að þær ættu framvegis að segja okkur til. Við litum hver framan í annan alveg frá okkur numdir, og þá þóknaðist Good fyrst að skýra málið fyrir okkur, kvaðst hafa alveg gleymt því —

en gömlu kennararnir hefðu sagt sér kveldið áður, að það væri gersamlega óhjákvæmilegt að við fengjum framvegis tilsögn hjá kvenfólki. Eg var alveg utan við mig, og bað Sir Henry að leggja eitthvað ráð á um það, hvernig við skyldum snúa okkur í þessum vanda.

„Ja,“ sagði hann; „stúlkurnar eru nú einu sinni hingað komnar, eins og þér sjáið. Haldið þér ekki, að þeim þætti sér misboðið, ef við segðum þeim að fara aftur? Eg kann ekki við að sýna þeim þá ókurteisi. Og þær eru ósköp sakleysislegar á svipinn — sýnist yður ekki?“

Þegar hér var komið, var Good þegar byrjaður að fá tilsögn hjá laglegustu stúlkunni, og svo lét eg undan og stundi við. Þann dag gekk alt vel; ungu stúlkurnar voru áreiðanlega allra liprustu kennarar, og þær gerðu ekki nema brosa, þegar við sögðum einhverja vitleysu. Eg hefi aldrei séð Good rýna í bækur sínar með jafn-mikilli athygli, og jafnvel Sir Henry virtist hafa meiri ánægju af *Z*u-vendi-tungunni en nokkurn tíma áður. „Skyldi þessu fara lengi fram?‘ ‘hugsaði eg með sjálfum mér.

Daginn eftir vorum við miklu fjörlegri. Stúlkurnar fóru að smá-skjóta inn í kensluna skemtilegum spurningum um ættjörð okkar, hvernig stúlkurnar þar væru o. s. frv., og svöruðum við þeim spurningum svo vel, sem við gátum á zu-vendisku; og eg heyrði Good fullyrða það við sína kenslukonu, að hennar yndisleikur bæri álíka mikið af kvenfegurðinni í Norðurálfunni eins og sólin af tunglinu. Hún setti dálítinn hnykk á höfuðið á sér, og sagðist ekki

vera annað en lítilfjörleg kennarakona, og að það væri ekki vel gert af honum, „að draga stúlkuvesaling svona á tálar.“ Svo sungu þær dálítið fyrir okkur, og var það ljómandi skemtilegt, svo náttúrlegt og blátt áfram. Ástarsöngvar *Z*u-vendismanna eru mjög hjartnæmir. Þriðja daginn var vináttan orðin mjög heit. Good sagði kennarakonu sinni nokkur af sínum gömlu ástar-æfintýrum, og hún komst svo við, að hún andvarpaði, engu síður en hann. Það var glaðlynd bláeyg stúlka, sem sagði mér til, og eg fór að tala við hana um list *Z*u-vendi-manna, og tók ekki lifandi vitund eftir því, að hún var alt af sitja um tækifæri til að hleypa skorkvikindi einu ofan á bakið á mér. En úti í einu horninu sat Sir Henry hjá sinni kennarakonu, og eftir því sem eg gat bezt séð, fór tilsögnin fram hjá þeim, eftir þeim kenslureglum, sem herra Wackford Squeers fylgdi, þó að þeim væri nú fylgt á miklu ljúfmannlegri og ástúðlegri hátt. Stúlkan nefndi blíðlega zu-vendiska orðið, sem merkir „hönd“, og þá tók hann um höndina á henni; „augu“, og hann leit inn í móleitu augun á henni; „varir“, og — en rétt í því augnabliki slepti *mín* stúlka kvikindinu ofan á bakið á mér og stökk svo burt hlæjandi. Ef það er nokkuð til, sem eg hefi meiri andstygð á en öllu öðru, þá er það þess háttar skorkvikindi; eg var alveg utan við mig, og hló að ósvífni hennar, tók sessuna, sem hún hafði setið á, og fleygði henni á eftir henni. Ímyndið þið ykkur svo, hvað eg skammaðist mín, hvað eg varð óttaslegínn og hvað eg varð aumur, þegar dyrunum var lokið upp rétt í þessu, og inn kom *Nýleppa,* með tvo varð-

menn að eins sér til fylgdar. Það var komið sem komið var með sessuna (hún hitti ekki stúlkuna, heldur kom í höfuðið á öðrum varðmanninum), en eg reyndi að setja á mig sakleysissvip, eins og eg hefði ekki kastað henni, án þess mér þó tækist það. Good hætti að andvarpa, og fór að tala bjagaða zu-vendisku eins hátt og hann gat, og Sir Henry fór að blístra og varð kindarlegur. Af stúlku aumingjanum er það að segja, að þær voru öldungis agndofa.

Og þá Nýlepþa! Hún teygði úr sér, svo að hún sýndist jafnvel hærri en hávöxnu varðmennirnir, og fyrst varð hún rauð í framan, og svo föl eins og nár.

„Varðmenn,“ sagði hún stillilega, en þó var eins og hún ætti örðugt með að ná andanum, og benti á stúlkuna, sem hafði verið að veita Sir Henry tilsögn eftir kenslureglum Wackfords Squeer, „líflátið þessa konu.“

Mennirnir hikuðu sig, eins og ekki var heldur furða.

„Ætlið þið að hlýða mér,“ sagði hún aftur með sama málrómi, „eða ætlið þið ekki að gera það.“

Þeir færðu sig þá nær stúlkunni með upplyftum spjótum. En nú var Sir Henry búinn að ná sér aftur, og sá, að öll líkindi voru til, að þessi gamanleikur mundi ætla að verða að sorgarleik.

„Standið þið kyrrir,“ hrópaði hann með þrumuraust og færði sig jafnframt fram fyrir stúlkuna dauðhrædda. „Skammastu þín, Nýlepþa — skammastu þín! Þú skalt ekki drepa hana.“

„Þú hefir vafalaust góða ástæðu til að vernda hana. Þú getur naumast minna gert, sóma þíns

vegna,“ svaraði drotningin bálreið; „en hún skal deyja — hún skal deyja,“ og hún stppaði niður litla fætinum.

„Gott og vel,“ svaraði hann; ,,eg ætla þá að deyja með henni. Eg er þjónn þinn, drotning mín! gerðu við mig hvað sem þér sýnist.“ Og svo hneigði hann sig fyrir henni, og hvesti á hana skíru augun fyrirlitlega.

Eg vildi helst lífláta þig líka,“ svaraði hún; „því þú dregur dár að mér;“ og svo fann hún, að hún hafði orðið undir, og vissi víst ekki, hvað hún átti til bragðs að taka, og þess vegna fór hún að gráta svo ákaft, og var svo drotningarlega elskuleg í ástríðu sinni og hrygð, að eg verð að kannast við það, að eg öfundaði Curtis af að halda utan um hana og verja hana falli, þó eg gamall væri. Það var æði hjákátlegt, að sjá hann halda henni í faðminum eftir það sem var nýafstaðið —og það var svo að sjá, sem henni dytti það í hug sjálfri, því að hún sleit sig alt í einu af honum, fór út og skildi okkur öll eftir mjög vandræðaleg.

En rétt á eftir kom annar varðmaðurinn aftur með þau skilaboð, að stúlkurnar skildu fara úr borginni til heimila sinna úti á landinu, og skyldi þeim þá ekkert mein verða gert; ef þær óhlýðnuðust, yrðu þær líflátnar. Þær fóru því, og sagði ein þeirra með spekingslegri stillingu, að það væri ekki hægt við því að gera, og að það væri þó nokkur bót í máli,, að þær hefðu kent okkur ofurlítið í zu-vendisku, sem okkur gæti komið að haldi. Mín kennarakona var einstaklega lagleg stúlka, og eg fyrirgaf henni hrekk-

inn með skorkvikindið,og gaf henni uppáhalds lukku-skildinginn minn, sem gat var á, þegar hún fór. Eftir það tóku okkar gömlu kennarar aftur við okkur, og þarf eg ekki að taka það fram, að mér létti mjög um hjartræturnar, þegar sú breyting var á orðin.

Um kveldið komum við óttaslegnir mjög að borði drotninganna, og fengum við þá að vita, að Nýlepþa lá í rúminu og hafði vondan höfuðverk. Þessi höfuðverkur stóð þrjá heila daga; en á fjórða degi var hún við kveldverðinn, eins og hún var vön, og rétti Sir Henry hendina með hinu náðarsamlegasta og yndislegasta brosi, til þess að hann skyldi leiða hana að borðinu. Ekk-rt var minst á atburð þann sem sagt hefir verið frá hér á undan, nema hvað Nýlepþa sagði ofur sakleysislega, að þegar hún hefði farið að vitja um okkur við nám okkar um daginn, þá hefði sér alt í einu orðið óglatt, og væri sér nú alveg nýbatnað. Svo bætti hún við með kýmni þeirri, sem henni er svo eiginleg, að hún héldi, að hún hefði ekki þolað að sjá menn leggja eins mikið á sig, eins og við hefðum gert.

Sir Henry svaraði þurlega að sér hefði fundist hún ekki hafa verið alveg eins og hún átti að sér þann dag; við það sendi hún honum eitt af þessum skyndilegu augntillitum, sem hlutu að ganga í gegnum hann eins og hnífur, ef hann hafði mannlegar tilfinningar. Og svo var aldrei minst á þetta atriði framar. Nýlepþa lét jafnvel svo lítið, að fara að halda próf yfir okkur, þegar kveldverður var afstaðinn, til þess að vita, hvað mikið við hefðum nú lært,

og lét hún í ljósi ánægju sína með frammistöðu okkar. Hún fór jafnvel sjálf að segja okkur til, einkum Sir Henry, og þótti okkur það mjög gaman.

Og alt af meðan við vorum að tala, eða öllu heldur reyna að tala, og hlæja, sat Sorais í útskorna fílabeinsstólnum og horfði á okkur og las hugsanir okkar, eins og hún væri að lesa á bók; að eins endrum og sinnum sagði hún fáein orð og brosti fljótlega eins og mikið byggi undir; bros hennar var líkara glampa af elding að sumarlagi en nokkru öðru. Og Good sat svo nærri henni, sem hann þorði, og tilbað hana í gegnum gleraugað sitt, því hann var farinn að verða alvarlega ástfanginn í þessar dökkhærðu, fögru konu, sem eg fyrir mitt leyti var óttalega hræddur við. Eg veitti henni nákvæmar gætur, og eg komst bráðum að því, að þrátt fyrir það, að hún léti sem sér stæði á sama um alla skapaða hluti, þá bar hún bitran öfundarhug til Nýlepþu. Að öðru komst eg líka, sem fylti mig kvíða; og það var það að henni var líka farið að lítast vel á Sir Henry Curtis. Auðvitað gat eg ekki verið viss um það; það var ekki auðvelt að lesa hugsanir jafn kuldalegrar og drambsamrar konu; en eg tók eftir enstöku smáatriðum, og eins og fílaveiðimenn vita, þá má sjá á þurru grasi, hvaðan vindurinn stendur.

Og svo liðu aðrir þrír mánuðir og hafði okkur þá farið allmikið fram í *Z*u-vendi-málinu, sem er næsta auðlært. Og þegar enn fram liðu stundir vorum við í miklum kærleik við fólkið og jafnvel við hirðmennina og vorum mjög lofaðir fyrir hæfieika okkar, og var það, eins og eg ætla að eg hafi sagt,

af því að Sir Henry gat sýnt þeim, hvernig að það ætti að tilbúa gler, en það kunnu menn eigi, svo var það og að þakka tuttugu ára gömlu almanaki, er við höfðum með okkur og gát við með því sagt fyrir ýmislegt um gang himintunglanna, er stjörnuspekingar þar í landi alls eigi höfðu nokkra vitneskju um. Okkur tókst jafnvel að sýna fræðimönnum þeirra fram á hina fyrstu undirstöðu gufuvélarinnar og urðu þeir þá mjög forviða; gerðum við og margt þessu líkt. Fór nú svo, að mönnum kom saman um að eigi skyldi okkur með nokkru móti leyft að fara úr landinu (en það var að vísu alsendis ómögulegt, enda þótt við hefðum viljað svo); komumst við nú í mikil metorð og vorum gerðir að fyrirliðum í lífverði drotninganna, og var okkur fenginn fastur bústaður og var leitað álits okkar um stjórnaraðferð landsins.

En þótt að himininn virtist vera heiður og blár var þó ský og það mikið á lofti. Við höfðum að vísu ekki heyrt frekar um þessa bansettu vatnahesta, en þó má ekki ætla að goðgá okkar hefði verið gleymt eða að dregið hefði úr fjandskap hins mikla og volduga klerkalýðs, er Agon var fyrir. Því fór mjög fjarri, heldur brann hann því ákafar sakir þess að nú varð að bæla hann niður, og það er í fyrstu ef til vill hafði að eins verið hræsni, var nú orðið að bersýnilegu hatri, er meðfram kom til af öfundssýki. Alt til þessa höfðu prestarnir verið hinir vitru menn í landinu og voru því hafðir í miklu áliti, enda þótt að nokkuð væri þetta af hjátrú. En koma okkar með hinni útlendu vizku okkar og undarlegu uppáfynd-

ingum og bendingum til hluta, er þá lítt grunaði, raskaði þessu illa og var ekki laust við að færi að fara um álit prestanna meðal hinna mentuðu *Zu*-vendi-manna. En eina mest blæddi þeim í augum hylli sú, er okkur var sýnd og traust það er haft var á okkur. Vorum við fyrir allar þessar sakir mjög hataðir af klerkastéttinni, er fyrir sakir samtakanna mátti sín mest þar í landi.

Þá var okkur önnur hætta búin, er reis af öfund höfðingja nokkurra, er Nasta var fyrir; hafði fjandskapur þeirra jafnan illa dulist, en nú lá við að hann brytist fram í ljósum loga. Nasta hafði um nokkur ár leitað ráðahags við Nýlepþu, og þá er við komum til sögunnar, ætla eg að öll líkindi hafi verið til þess að þetta mundi hafa tekist, enda þótt að margt væri því andstætt. En nú hafði alt þetta farið á annan veg; Nýlepþa brosti nú ekki lengur í þá áttina, og leið eigi á löngu að hann sæi hvernig á því stóð.

Olli þetta honum mikillar reiði og gremju og leitaði hann nú til við Sorais, en varð þess brátt áskynja, að eigi hefði verið ólíklegar fyrir hann að biðla til fjallshlíðanna. Fékk hann nú að heyra margt biturt hnífilyrði um hverflyndi sitt og svo luktust þær dyr að fullu og öllu fyrir honum. Duttu honum þá í hug hinar þrjátíu þúsundir viltra hermanna, er að boði hans mundu ryðjast gegn um norður í fjallaskörðin, og er eigi ólíklegt að hann hafi heitið því, að skreyta borgarhliðin á Milosis með höfðum okkar.

En fyrst kom honum til hugar, að því er okkur

var kunnugt, að gera enn eina tilraun og biðja Nýlepþu fyrir rétti, þá er farið hefði fram hin árlega athöfn, að lög þau væru staðfest, er drotningarnar höfðu sett á því ári.

Nýlepþa frétti af þessari fágætu nýlundu og fékst lítið um og sagði hún okkur frá því, er við sátum að kveldverði kveldið fyrir dag þann, er hin mikla athöfn átti að fara fram, að ritað væri undir lögin, en eigi var laust við að hálfgerður titringur væri á rödd hennar.

Sir Henry beit á varirnar, og þrátt fyrir allar tilraunir hans, mátti gjörla sjá hversu þetta fékk á hann.

„Og hvaða svar skyldi drotningunni þóknast að gefa hinum mikla höfðingja?“ spurði eg í gamni.

„Svar, Macumazahn“ (því við höfðum kosið að nefnast *Zúlú*-nöfnum okkar í *Zu*-vendi), mælti hún, og ypti um leið kímilega hinum fílabeinshvítu öxlum sínum. „Eg veit sannlega ekki; hvað á veslings stúlka að gera, þegar biðillinn hefir þrjátíu þúsundir sverða að baki sér til þess að styðja bónorð sitt?“

Og leit hún um leið undan hinum löngu augnahárum sínum til Curtis.

Stóðum við rétt í þessu upp frá borðum og gengum inn í næsta herbergi.

„Quatermain, heyrið þér fljótt,“ mælti Sir Henry til mín. „Takið eftir. Eg hefi aldrei minst á það, en þér getið nærri: Eg elska Nýlepþu. Hvað á eg að gera?“

Til allrar hamingju hafði eg oft velt þessu fyrir

mér og var því viðbúinn að svara á þann hátt, er mér þótti bezt við eiga.

„Þér verðið að tala við Nýlepþu í kveld," svaraði eg. „Það er annað hvort að gera nú eða aldrei. Heyrið þér. Nálgist hana í setuherberginu og hvíslið að henni að hitta yður um miðnætti hjá Rademas líkneskjunum við endann á stóra salnum. Eg skal halda þar vörð fyrir yður. Nú eða aldrei, Curtis."

Gengum við nú inn í hitt herbergið. Nýlepþa sat þar með hendurnar í keltunni og var einhver dapur hrygðarsvipur á hinu elskuverða andliti hennar. Skamt frá var Sorais að tala við Good í hinum hæga, seinfara tón, er henni var eðlilegur.

Nú leið tíminn og vissi eg að eftir fjórðung stundar mundu drotningarnar að vana sínum ganga í burtu. En Sir Henry hafði enn ekki gefist neitt neitt tækifæri til að mæla nokkurt orð einslega við Nýlepþu, því þó að við að vísu sæum hinar konunglegu systur oft, var þó alls enginn hægðarleikur að hitta þær einar. Eg botnvelti þessu fyrir mér og loksins kom mér eitt til hugar.

„Þóknast drotningunni," mælti eg og hneigði mig djúpt fyrir Sorais, „að syngja fyrir okkur þjóna sína. Hjörtu okkar eru döpur í kveld; syngið fyrir okkur, Lafði Næturinnar" (var það uppáhaldsnafn Sorais meðal fólks hennar).

„Söngur minn, Macumazahn, er eigi lagaður til þess að svala hryggu hjarta, en þó skal eg syngja, ef þig fýsir þess,' svaraði hún og gekk að borði einu, þar er hljóðfæri, eigi ósvipað gýgju, lá og léku fingur hennar snöggvast ofur hægt um strengi þess.

Þá hóf hún alt í einu upp rödd sína, var það líkt og djúpraddaður fuglasöngur, og tók að syngja svo frámunandi sætlega en þó með slíkri hrygð og viðkvæmni, að við sjálft lá, að blóðrásin stöðvaðist í æðum þeirra, er á heyrðu. Upp, upp liðu hinir gull-legu tónar, er virtust hverfa álengdar og þó vakna á ný og aftur að berast á burt, þrungnir af öllum harmi þessa heims og allri örvæntingu missisins. Það var aðdáanlegur söngur, en eg hafði eigi nægan tíma til að taka réttilega eftir honum. En eg fékk síðar textann og er hér þýðing af honum að því er frekast er unt að þýða hann:

SÖNGUR SORAIS DROTNINGAR.

Eins og ramviltur fugl yfir sænum, er leitar sér
landa,
eins og hönd, er mót dauðans högginu reynir að
banda,
svo er lífið, er blæs inn í söng minn sinn ástríðu-
anda.

Eins og náttgalans söngur, er fyllir með unaði alla,
eins og sálin, er dirfist til drottins himnanna að
kalla,
svo er ástin, er vængbrotin verður að lokum að
falla.

Eins og hersveita fótdun, er friðinn á jörðu skal
rjúfa,
eins og stormguðsins öskur, er eldingar skýsort-
ann kljúfa,

svo er valdið, er hnígur að lokum, sem dauða-
særð dúfa.

Svo stutt er vort líf, en svo langt þó, að alt okkur
svíkur,
einn fánýtur draumur, er aldrei af augunum víkur,
unz dauðinn á hælum vor hönd um oss nákaldri
strýkur.

*Viðkvæði.*

Fagur er morgun í dögun — dögun — dögun.
En sólin hún sezt í blóði — í blóðinu sólin sest.

Eg vildi að eins að eg gæti líka skrifað upp lagið.

„Nú, Curtis, nú,“ hvíslaði eg, þegar Sorais byrjaði á öðru vísuerindinu, og svo sneri eg mér frá honum.

„Nýlepþa,“ sagði hann — því að taugar mínar voru í svo miklum spenningi, að eg heyrði hvert orð, þó að lágt væri talað, og þrátt fyrir hinn guðdómlega söng Sorais drotningar — „Nýlepþa, eg verð að tala við þig í kveld, þó að það eigi að kosta líf mitt. Neitaðu mér ekki, ó, neitaðu mér ekki!“

„Hvernig á eg að geta talað við þig“ svaraði hún, og horfði fast fram undan sér; „drotningar eru ekki eins og annað fólk. Það eru njósnarmenn alt umhverfis mig.“

„Hlustaðu nú á mig, Nýlepþa. Eg verð fyrir framan Rademas líkneskjuna í stóra salnum um miðnætti. Eg hefi inngönguorð og get komist inn. Macumazahn verður þar og heldur vörð, og *Zúlúinn* með honum. Ó, kondu, drotning mín, og synjaðu mér ekki!“

„Það er eigi sæmilegt,“ tautaði hún, „og á morgun—“

Rétt í því þögnuðu síðustu sorgartónar viðkvæðisins, og Sorais sneri sér hægt við.

„Eg skal koma,“ sagði Nýlepha í snatri; „en líf þitt liggur við ef þú bregst mér.“

---

## XVI. KAPITULI.

*Fyrir framan líkneskjuna.*

Það var nótt — mið nótt — og þögn grúfði yfir hinni gnæfandi borg líkt og ský.

Sir Henry, Umslopagaas og eg sjálfur læddumst nú á laun eins og aðrir ódáðamenn eftir göngunum yfir að auka-inngangi einum til hins mikla hásætissals. Það var að eins einu sinni, sem varðmaðurinn kallaði til okkar með miklum róm. Eg varð fyrir svörum og maðurinn reisti aftur spjótið sitt og leyfði okkur að halda áfram.

Við vorum líka foringjar í lífverði drotninganna og höfðum því leyfi til að fara og koma óspurðir.

Við komumst heilir á hófi til salsins. Svo var tómlegt og kyrt þar, að hljóðið af fótsporum okkar barst á eftir okkur bergmálandi upp hina háu veggi, og lék hægt og titrandi gegn um hvelfda þakið, líkt og væru það svipir fótspora dáinna manna, er nú

gengu aftur á stað þeim, er þeir eitt sinn voru vanir að fara um.

Þetta var draugalegur staður, og þótti mér nóg um. Tunglið var í fyllingu og varpaði um hin háu gluggalausu op á veggjunum stórum birtublettum, er lágu hreinir og fagrir á hinu svarta marmaragólfi, líkt og hvít blóm í líkkistu. Féll ein af þessum silfurörfum á líkneskju hins sofandi Rademas og á engilinn, er laut yfir honum, og lýsti þar og lítinn hring umhverfis með mjúkri, skýrri birtu, er minti mig á hversu kaþólskir menn skreyta ölturin í kirkjum sínum.

Námum vér hér staðar hjá líkneskjunni og biðum. Sir Henry og eg stóðum saman, en Umslopagaas lítið eitt frá í myrkrinu, svo að eg gat að eins óljóslega greint hina hávöxnu mynd hans , þar sem hann studdist fram á eitthvað, sem virtist vera öxi.

Við biðum hér svo lengi, að mér lá við að sofna þar sem eg studdist upp við hinn kalda marmara, en eg hrökk kalt í einu við, er eg heyrði Curtis soga fljótt í sig andann. Heyrðist þá langt í burtu hægt hljóð, líkt og líkneskjurnar, sem stóðu með fram veggjunum, væru að hvíslast á einhverjum mikilsverðum fréttum.

Það var óljóst skrjáf af kvenmannskjól. Hann færðist nær og nær. Sáum við þá, hvar mynd læddist frá einum tunglsskinsblettinum á annan og heyrðum enda hið mjúka fall fóta, er klæddir voru ilskóm. Samstundis sá eg hinn dökka skugga hins gamla Zúlú-manns, er hann hóf upp handlegg sinn með

þegjandi kveðju og Nýlepþa stóð frammi fyrir okkur.

Hve fögur var hún eigi er hún stundarkorn nam staðar innan í tunglsskins hringnum! Hún hafði þrýst hendinni að hjarta sér og hið hvíta brjóst hennar bærðist upp og niður undir hendinni. Um höfuð henni var lauslega fleygt útsaumuðum dúk, er að nokkru leyti skygði á hið fullkomna andlit hennar, og gerði það jafnvel enn elskuverðara, með því að fegurðin, sem að vissu leyti er komin undir ímyndunaraflinu, er aldrei meiri en þá hún er hálf-hulin. Þarna stóð hún skínandi en hálf hikandi, tignarleg en þó svo sæt. Það var að eins eitt augabragð, en það var og samstundis að eg varð ástfangin í henni, því vissulega var hún líkari engli af himnum en elskandi, ákaflyndri, dauðlegri veru.

Hneigðum við okkur djúpt fyrir henni, og þá tók hún til máls:

„Eg er komin,“ hvíslaði hún, „en það var mikil áhætta. Þið vitið eigi, hversu mín er gætt. Prestarnir gæta mín. Sórais gætir mín með þessum stóru augum sínum. Sjálfir varðmenn mínir njósna um mig. Nasta gerir það einnig. En fari hann varlega að!“ og hún stappaði hinum litla fæti sínum. „Fari hann varlega; eg er kona, og læt því eigi bjóða mér hvað eina. Jú, og eg er líka drotning og get enn þá hefnt mín. Fari hann varlega, segi eg, svo að eigi fari svo, að eg taki höfuð hans í stað þess að gefa honum hönd mína“, og lauk hún svo orðum sínum með hálfgerðu andvarpi og sendi okkur töfrandi bros og hló.

„Þú hefir beðið mig að koma hingað, Incubu lávarður“ (Curtis hafði kent henni að nefna hann svo). „Það er eflaust fyrir eitthvað, er snertir ríkið, því eg veit að þú ert jafnan fullur af miklum hugmyndum og fyriræltlunum um velferð mína og þjóðar minnar.“

Þegar hér var komið, þótti mér viturlegast að ganga lítið eitt til hliðar, því að eigi átti leyndarmál „ríkisins“ að vera almennings eign, en hún vildi eigi að eg færi langt og bauð mér fastlega að nema staðar, er eg hafði gengið ein fimm fet; kvaðst hún óttast, að komið kynni að verða að okkur. Fór því svo, að eg heyrði alt það, er fram fór, enda þó að mér væri það mjög á móti skapi.

„Þú veizt vel, Nýlepþa,“ mælti Sir Henry„ „að það var ekki fyrir sakir nokkurs þess að eg bað þig að hitta mig á þessum afskekta stað, Nýlepþa, eyð eigi tímanum með gamanyrðum en hlustaðu á mig, því — eg elska þig.“

Tók eg eftir því hversu andlit hennar breyttist og varð sem alt annað, er hann mælti þessi orð; gletnin var farin, en í stað hennar skein þar mikið ljós elskunnar, er virtist gera það dýrðlegt og svipað andliti marmara engilins yfir höfðum þeirra. Mér kom ósjálfrátt til hugar, að það hlyti að hafa verið snertur af spámannlegri andagift, er kom Rademas, er nú fyrir löngu var dáinn, til þess að gera svo mikla líking . með andlitsdráttum engilshugsjónar sinnar og þessa niðja sjálfs síns. Sir Henry hlýtur að hafa tekið eftir þessari líkingu, því þegar hann sá svipinn í andliti Nýlepþu, leit hann fljótlega af því

upp til líkneskjunnar, er tunglsskinið féll á, og þá aftur á ástmey sína.

„Þú segist elska mig,“ sagði hún með lágri rödd, „og svo er að heyra á málrómi þínum að þú segir þetta satt, en hversu get eg vitað, að þú mælir sannleika?“

„Þó að eg,“ mælti hún enn fremur með stakri auðmýkt og í hinni viðhafnarmiklu þriðju persónu, er *Zu*-vendis menn mjög viðhafa, „sé sem ekkert í augum lávarðar míns“, og hún hneigði sig fyrir honum, „er kemur frá furðulegri þjóð, en fólk mitt er að eins börn hjá henni, þá er eg þó drotning hér og leiðtogi manna, og ef eg vildi ganga til bardaga munu hundrað þúsundir spjóta leiftra í kring um mig líkt og stjörnurnar er glitra eftir braut hins hallandi tungls. Og þó að fegurð mín sé eigi mikil í augum lávarðar míns,“ og hún lyfti lítilsháttar hinu útsaumaða pilsi sínu og hneigði sig, „þá er eg þó hér meðal minna eigin manna, haldin all-lagleg, og jafnan hafa hinir miklu höfðingjar í ríki mínu deilt um mig frá því að eg var gjafvaxta, alveg eins og eg væri dýr, sem hungraðasti úlfurinn mætti rífa í sig, eða hestur, sem seldur er hæstbjóðanda,“ bætti hún við, og það brá fyrir reiði í rödd hennar. „Lávarður minn fyrirgefi mér, ef eg þreyti hann, en lávarði mínum hefir þóknast að segja, að hann elski mig, Nýlepþu, drotningu *Zu*-vendi manna, og þess vegna langaði mig til að segja það, , að þó að hönd mín og ást mín sé ef til vill ekki mikils virði fyrir lávarð minn, þá er mér það dýrmætara en alt annað.

„Ó!“ sagði hún og kom alt í einu skjálfti í rödd-

ina, og viðhafnar keimurinn, sem var að ræðu hennar, minkaði. „Ó, hvernig get eg vitað það, að þú elskir enga aðra en mig? Hvernig get eg vitað það, að þú þreytist ekki á mér, og leitir aftur til heimkynna þinna og skiljir mig eftir huggunarlausa? Hver getur sagt mér, að þú elskir ekki einhverja aðra konu, einhverja fagra konu, sem eg þekki ekki, en konu, sem dregur enn andann undir þessu sama tungli, sem skín á mig í kveld? Segðu mér, *hvernig* á eg að vita þetta?“ Og hún spenti greipar og rétti fram hendurnar til hans og leit bænaraugum í andlit honum.

„Nýlepþa,“ svaraði Sir Henry, og viðhafði sama orðalagið eins og tíðkast meðal Zu-vendi manna; „eg hefi sagt þér, að eg elska þig; hvernig á eg að geta skýrt þér frá því, hve mjög eg elska þig? Er til nokkur mælikvarði á ástina? Og þó vil eg reyna það. Eg segi ekki, að mér hafi aldrei litist vel á neina konu, en það segi eg, að eg elska þig af öllu mínu lífi og af öllum mínum mætti, að eg elska þig nú og mun elska þig, þangað til kuldi dauðans grípur mig, og jafnvel, eftir því sem eg trúi, eftir dauðann og að eilífu. Eg segi að rödd þín sé sönglist í mínum eyrum, og að þú sért mér það sama sem vatnið er fyrir skraufþurt land, að þegar þú ert hjá mér, þá sé heimurinn yndislegur í mínum augum, og að það sé eins og ljósið sé slokknað, þegar eg sé þig ekki. Ó, Nýlepþa, eg mun aldrei yfirgefa þig; fyrir þína skuld mun eg gleyma þjóð minni og húsi föður míns, og jafnvel sleppa tilkalli til þess alls. Við þína hlið vil eg lifa, Nýlepþa, og við þína hlið vil eg deyja.“

Hann þagnaði og leit á hana alvarlega, en hún drúpti höfðinu líkt og lilja, og sagði ekki nokkurt orð.

„Lít þú á,“ hélt hann áfram, og benti á líkneskjuna, sem tunglið skein svo glatt á. „Þú sér kvennengilinn, sem styður hendi sinni á enni hins sofandi manns, og þú sér hvernig sál hans blossar upp við það að engillinn snertir hann, og eins og skín út um hold hans, eins og lampakveikur blossar, þegar eldurinn kemur við hann; svo er mér og þér varið, Nýlepþa. Þú hefir vakið sál mína og kallað hana fram, og nú, Nýlepþa, er hún ekki lengur mín, heldur *þín*, þín að eins. Eg hefi ekkert meira að segja; líf mitt er í þínum höndum,“ og hann hallaði sér aftur á bak upp að undirstöðu líkneskjunnar, og var mjög fölur og augun glampandi, en tignarlegur var hann og fallegur eins og guðir Grikkja.

Hægt, hægt lyfti hún upp höfðinu, og hvesti dásamlegu augun, er glömpuðu af mikilleik ástríðunnar, á andlit honum, eins og hún ætlaði að lesa sál hans. Svo tók hún að lokum til máls, lágt að sönnu, en röddin var skær eins og hljómurinn í silfurklukku.

„Sannlega trúi eg þér, enda er eg veik kona. Óheilla dagur verður það fyrir mig, og fyrir þig líka, ef það eru forlög mín að komast að því, að eg hafi nú trúað lýgi. Og hlusta þú nú á mig maður, maður, sem komið hefir hingað langan veg til að stela hjarta mínu og fá mig alla á þitt vald. Eg legg hönd mína ofan á þína hönd, og kyssi þig á ennið, eg, sem aldrei hefi kyst nokkurn mann fyr, og nú sver eg það, að fyrir þig skal eg lifa og deyja — eg sver það

við hönd mína og við þenna fyrsta og helga koss, já, eg sver það jafnvel við velferð þjóðar minnar og við hásæti mitt, sem ekki er ólíklegt að eg missi fyrir þína skuld — við nafn minnar tignu ættar sver eg það, við hinn helga stein, og við hina eilífu hátign sólarinnar. Og eg sver að eg elska þig, og þig einan, til dauðans og jafnvel eftir dauðann, og að þinn vilji skal vera minn vilji og þínir vegir mínir vegir.

„Ó, sjá þú, sjá, lávarður minn! Þú veizt ekki, hve auðmjúk sú kona er, sem elskar; eg, sem er drotning, eg krýp frammi fyrir þér, frammi fyrir fótum þínum og auðsýni þér lotningu, “og hin yndislega ástríðurík̄a kona fleygði sér niður á hnén á kaldan marmarann frammi fyrir honum. Og eftir það veit eg í sannleika ekki, hvað gerðist, því að eg gat ekki staðist þetta lengur, og labbaði burt til þess að hressa mig dálítið á samtali við Umslopagaas gamla, og lét þau vera ein um að ráða fram ur málinu; og þau voru fjarskalega lengi að því.

Gamli bardagamaðurinn hallaðist fram á Inkosikaas, þegar eg kom til hans, eins og hann var vanur, og horfði á það sem var að gerast í tunglsljósinu með hrottalegu gamanbrosi.

„Ó, Macumazahn,“ sagði hann, „eg býst við, að það sé af því að eg er farinn að gerast aldraður, að eg get ekki hugsað mér, að mér takist nokkurn tíma að skilja háttalag ykkar hvítu mannanna. Gerðu nú svo vel og líttu á; þau eru laglegar dúfur, en hvað á öll þessi rekistefna að þýða, Macumazahn? Hann vill fá sér konu og hún vill fá sér mann; hvers vegna

rekur hann þá ekki til hennar kýr sýnar tafarlaust*) eins og maður og lætur svo þar við sitja? Það væri fyrirhafnarminna, og þá fengjum við líka að sofa í næði. En þarna eru þau masandi, masandi, masandi, og kyssandi, kyssandi, kyssandi, eins og þau séu gengin af göflunum. Slíkt og þvílíkt!"

Eftir eina þrjá fjórðu hluta stundar komu „dúfurnar" í hægðum sínum til okkar. Curtis var ofurlítið kindarlegur, og Nýlepþa gat þess einstaklega stillilega, að það væri ljómandi fallegt að tunglsljósið á marmaranum. Svo tók hún í hönd mína, því að hún var í einstaklega náðugu skapi, og sagði að eg væri bezti vinur „lávarðar hennar", og þess vegna hlyti henni líka að þykja innilega vænt um mig — ekki eitt einasta orð fyrir mína eigin skuld, eins og þér sjáið. Þar næst lyfti hún upp exi Umslopagaas, skoðaði hana með forvitnisaugum, og sagði, að það gæti verið að hann þyrfti áður en langt um liði á öxinni sinni að halda til þess að verja hana.

Eftir það kinkaði hún snoturlega kolli til okkar allra, leit snöggvast blíðlega til elskhuga síns, og leið svo frá okkur út í myrkrið líkast yndislegri draumsjón.

Við komumst slysalaust aftur til herbergja okkar. Curtis spurði mig í gamansömum róm, um hvað eg væri að hugsa.

„Eg er að hugsa um það," sagði eg, „hvaða réttlæti í því er, að sumir menn koma yndisfögrum

---

*) lítur til kvonbæna venju meðal *Zúlúmanna*.
A. Q.

drotningum til að fá ást á sér, þar sem aðrir ná ekki ástum nokkurrar konu, eða verra en það; og eg er líka að hugsa um það, hve margir vaskir menn muni láta lífið fyrir það sem gerst hefir í nótt.“ Þetta var ef til vill illmannlega sagt af mér, en því er einhvern veginn svo varið, að það gufa ekki allar tilfinningar út úr mönnum með aldrinum, og eg gat ekki að því gert, að eg öfundaði minn gamla vin dálítið af hepni sinni. Svona er hégómagirnin, synir mínir, hégómagirnin á hæsta stigi!

Morguninn eftir var Good skýrt frá þeim gleðilega atburði, sem gerzt hafði, og það komu á andlitið á honum hreinar og beinar brosöldur, sem áttu upp tök sín einhvers staðar nálægt munninum, og færðust svo smátt og smátt upp eftir andlitinu á honum líkt og bylgjuhringir á tjörn, þangað til þær flóðu út yfir röndina á glerauganu hans, og hurfu svo eins og önnur bros. En sannleikurinn var sá, að Good hafði persónulegar ástæður til að fagna út af þessum atburði. Hann tilbað Sorais alveg eins alvarlega eins og Sir Henry tilbað Nýlepþu, og tilbeiðsla hans hafði alls enga áheyrn fengið. Honum hafði sannast að segja virst það sama sem mér, að þessari dökkhærðu drotningu, mundi lítast miklu betur á Curtis, heldur en á hann, þóað hún hefði lag á að dylja hugarfar sitt. Það var því mikill léttir fyrir hann að fá að vita, að þessi maður, sem óafvitandi var keppinautur hans, hefði hugann til fulls og alls annars staðar. Reyndar sljákkaði dálítið í honum fögnuðurinn, þegar honum var sagt, að það ætti að fara með þetta eins og mannsmorð, og einkum yrði að dylja Sorais

þess fyrst um sinn, með því að það pólitíska uppnám, sem alt mundi komast í, ef þetta væri látið uppskátt þá sem stæði, mundi verða miklu meira en svo, að hægt væri þá að reisa rönd við, og ef þetta væri látuppi of snemma, og þá gæti það vel orðið til þess, að Nýlepþa misti völdin.

Um morguninn komum við aftur í hásætissalinn og eg gat ekki annað en brosað, þegar eg bar saman þá komu okkar við komuna þangað næst á undan, og eg fór að hugsa um það, að ef veggirnir gætu talað, þá mundu þeir hafa ýmsar undarlegar sögur að segja.

Miklir leikarar eru konur! Þarna sat hin fagra Nýlepþa á hinu gullna hásæti sínu, klædd hinni skínandi tignarskykkju sinni, og þá er Sir Henry kom inn litlu síðar í fullum einkennisbúningi lífvarðar hennar og laut henni með auðmýkt, þá var sem hún varla tæki kveðju hans og sneri kuldalega höfði sínu til hliðar. Var mikið fjölmenni þar saman komið við hirðina, því eigi að eins hafði athöfn þessi, að rita undir lögin, dregið marga þangað auk þeirra, er voru skyldir að vera þar viðstaddir ,heldur hafði og borist út sá kvitur, að Nasta ætlaði sér opinberlega að biðja Nýlepþu. Var því hinn mikli salur troðfullur af fólki.

Höfðu vinir okkar, prestarnir, fjölment þar mjög og gekk Agon fyrir þeim, og leit hann hefndaraugum til okkar; voru þeir mjög tignarlegir á að líta í hinum löngu, hvítu, útsaumuðu kápum er gyrtar voru gullinni keðju, en frá henni héngu hinar hreisturmynduðu gullplötur. Þar voru og fjölda

margir lávarðar, og fylgdi hverjum þeirra frítt föruneyti, en mest bar þar á Nasta, er hugsandi strauk hið svarta skegg sitt og var næsta svipljótur ásýndar. Var það ljómandi og áhrifamikil sjón, einkum þá er foringinn hafði lesið upp hvert einstakt lagaatriði og það var rétt drotningunum til undirskriftar; var þá blásið í lúðra og lífverðir drotninganna slógu, fyrir virðingarsakir, spjótum sínum með miklu braki í gólfið. Tók lestur og undirskrift laganna langan tíma, en loks var það búið; var svo mælt fyrir í hinu síðasta þeirrar, að „þar sem mikilsháttar útlendingar nokkrir" o. s. frv., og fór það fram á að veita þremur af okkur lávarðatign auk nokkurs konar herstjórnar; fylgdi og með því miklar eignir, er drotningarnar gáfu okkur. Þegar hún var að lesa þetta, gullu við lúðrarnir og spjótunum var slegið með miklu braki í gólfið eins og vant var, en eg tók eftir því, að nokkrir af lávörðunum sneru sér við og hvísluðust á, en Nasta nísti tönnum. Geðjaðist þeim eigi að góðvild þeirri, er okkur var sýnd og var það, er á alt var litið, ef til vill eigi óeðlilegt.

Það varð þögn og Nasta gekk fram og hneigði sig auðmjúklega, þó að vísu eigi væri mikla auðmýkt að sjá í augum hans, og beiddist bónar af hendi Nýlepþu drotningar.

Nýlepþa fölnaði lítið eitt, en hneigði sig mildilega og bauð hinum „áskjæra höfðingja" að halda áfram og bað hann hennar þá með fáum orðum, er mælt voru fram hreint og beint á hermannlegan hátt.

En áður en að henni tókst að koma orðum fyrir

sig, tók Agon, æðsti prestur, til máls og benti með mikilli málsnild á, hversu mikla hagsmuni að þetta samband hefði í för með sér, hversu það mundi styrkja ríkið — því eignir Nasta, er hann í raun réttri var konungur yfir, voru gegn Zu-vendis líkt því, er Skotland var fyrrmeir gegn Englandi; tók hann og fram, hversu mjög að það mundi falla í geð hinum viltu fjallabúum og verða vinsælt meðal hermannanna, því Nasta væri frægur hershöfðingi; hversu að það mundi styrkja ætt hennar til valda og afla henni blessunar og lofs „Sólarinnar", það er að segja, æðstaprests-embættisins; mælti hann og margt fleira á þessa leið. Eigi var efi á því, að margar ástæður hans voru sannar og réttar, og ef litið var á mál þetta stjórnfræðislega, var og margt með því. En til allrar óhamingju er örðugt að leika pólitískan leik við ungar og elskuverðar drotningar, eins og þær væru fílabeins myndir sjálfra sín á skákborði. Var lítt hægt að lýsa andliti Nýlepþu á meðan að Agon rausaði þessu upp úr sér; hún brosti að vísu, en á bak við brosið var það sem steinn og augu hennar tóku að leiftra ískyggilega.

Loks þagnaði Agon, og bjóst Nýlepþa til að svara honum. En áður en hún gerði svo hallaði Sorais sér að henni og sagði svo hátt að mér tókst að heyra orð hennar: „hugsa þig vel um, systir mín, áður en þú talar, því mér lízt svo, sem að ríki okkar sé komið undir orðum þínum."

Nýlepþa svaraði engu og Sorais ypti öxlunum og brosti og hallaði sér á ný aftur og hlýddi til.

„Vissulega hefir mér verið sýnd mikil sæmd,"

mælti hún, „að eigi skyldi að eins verða beðið mín vesællar, en að Agon auk þess skyldi verða svo fljótur að lýsa blessan sólarinnar yfir samteningu þessari. Eg ætla jafnvel, að hann á næstu mínútu hefði gift okkur saman, áður en brúðurin hefði átt kost á að svara nokkru. Nasta, eg þakka þér, og skal eg hugsa til orða þinna, en nú sem stendur hefi eg engan hug á hjónabandi. Það er drykkur, er enginn veit hvernig er á bragðið, fyrr en drukkið hefir. Eg þakka þér enn, Nasta“, og lét hún sem hún mundi rísa á fætur.

Andlit hins mikla lávarðar varð nærri því eins svart af ofsareiði og skegg hans, því að hann vissi vel, að í loforðunum lá beint afsvar bónorðs hans.

„Þakkir séu drotningunni fyrir hin mildiríku orð hennar,“ mælti hann og átti örðugt með að stilla sig, og var alt annað en þakklátur á að líta; „hjarta mitt mun vissulega varðveita þau. Og nú beiðist eg annarar bónar, en það er konunglegs leyfis til að hverfa aftur til hinna lítilshátta borga minna norður í landi, þar til drotningin svarar nei eða já til bónorðs míns. Má vera,“ bætti hann háðslega við, „að drotningunni kunni að þóknast að heimsækja mig þar og hafa með sér þessa útlendu lávarða,“ og leit hann illilega yfir til okkar. „Landið er fátækt, hrjóstugt, en við erum harðfengir fjallabúar, og þrjátíu þúsundum hermanna skal verða safnað saman til þess að æpa fagnaðaróp gegn henni.“

Var hlýtt á ræðu þessa, sem nær því var yfirlýsing uppreistar, með algerðri þögn, en Nýlepþa rauk upp og svaraði henni einarðlega.

„Ó, vissulega, Nasta, mun eg koma og hinir út-

lendu lávarðar munu verða í fylgd minni, og fyrir hvern mann af fjallabúum þínum, er kallar þig höfðingja, mun eg hafa með mér tvo, er nefna mig drotningu og skulum við sjá hvert kynið er styrkast. Kveð eg þig svo að sinni.“

Lúðrarnir gullu við, og drotningarnar risu á fætur og þingheimurinn skildi með allmikilli háreisti, og að því, er sjálfan mig snerti, þá fór eg heim í þungu skapi, því að eg þóttist sjá fyrir borgarastríð.

Var nú eftir þetta alt með kyrð í nokkrar vikur. Curtis og drotningin hittust sjaldan og guldu hinni mestu varúð við, að eigi kæmist upp hvernig kunningsskap þeirra væri í raun réttri varið; en það var til lítils, því flugufregnir, er jafn örðugt var að rekja eins og flug suðandi flugu í dimmu herbergi, fóru að suða hingað og þangað og bárust loks að hásæti hennar.

---

## XVII. KAPITULI.

### *Stormurinn skellur á.*

Vandræði þau, er í fyrstu að eins höfðu verið ský eigi stærra en mannshönd, fóru nú að verða heldur ískyggilegri, en það kom af því hversu Sorais hneigðist að Sir Henry. Eg sá hversu stormurinn færðist nær og nær, og hann sá það og sjálfur veslingurinn. Að vísu var svo, að eigi gat nokkur maður litið á ást svo elskuverðrar og tiginnar konu sem

ógæfu, en er litið var til þess, hversu åstatt fyrir Curtis, þá var það þungbær byrði að rísa undir.

Því þótt Nýlepþa að vísu væri í alla staði einkar yndisleg, þá var hún engu að síður næsta afbrýðissöm að skapferli, og var eigi laust við, að henni kynni að koma til hugar, að láta reiði sína lenda á höfði elskhuga síns fyrir sakir þess, hve miklum hávegum hin konunglega systir hennar hafði hann í, að því er Alfonse lét sér um munn fara. Þá bættist og við,að Curtis varð að draga dulur á hversu komið var með Nýlepþu og honum og aftraði það honum frá því að nota eitthvert tækifæri til þess að koma í veg fyrir brygðular vonir, eða að minsta kosti að reyna það, með því að segja Sorais eins og af tilviljun en þó í trúnaði, að hann ætlaði að ganga að eiga systur hennar. Þá olli það og Sir Henry allmikillar áhyggju, að honum var það kunnugt að Good falslaust og einlægnislega unni hinni dularfullu og yndislegu „konu næturinnar“.

En aumingja Bougwan veslaðist upp hennar vegna og var sem alt fjör væri farið úr honum; varð hann svo horaður í andliti, að augnagler hans hafði þar vart nokkra festu; en að því er hana sjálfa snerti þá pipraði hún hann (að eins svo) með einhverri hugsanlegri glettni, til þess að halda honum í horfinu, því líklega ætlaði hún að nota mætti hann sem nokkurs konar yfirhylming. Eg reyndi að benda honum á þetta eins varlega og mér var unt, en hann stökk upp á nef sér og vildi ekki fara að orðum mínum; hugsaði eg því, að eg skyldi ekki skifta mér af þessu, svo að eigi yrði verra úr. Veslings Good var

sannlega hlægilegur í öngum sínum, og fann nú upp á alls konar flónsku og þóttist með því bæta kvonbænir sínar. Eitt þessara bragða hans var að rita — með aðstoð eins hinna alvörugefnu og æruverðugu herra, er kendu okkur, en þó eigi kunnu vitund í bragarhætti, hversu sem kunnátta þeirra kann annars að hafa verið — endalaust ástarkvæði á *Z*u-vendimáli, og var þar jafnan viðkvæði, er var eitthvað á þessa leið: „Eg vil kyssa þig; ó, já, eg vil kyssa þig. Nú er það meðal *Z*u-vendi-manna almennur næsta græskulaus siður, að ungir menn flytja konum söng að næturþeli, eins og eg ætla að gert sé í suðurlöndum Evrópu, og syngja þá allskonar þvættings kvæði til þeirra. Það kann að vera að hinum ungu mönnum sé stundum alvara, en eigi er þetta gert í neinum illum tilgangi, og er eigi heldur tekið á þann veg, því enda tignar konur líta á þetta eins og ensk stúlka mundi taka hverjum hæverskum fagurgala.

Good notaði sér af sið þessum, og hugsaði sér að syngja fyrir Sorais; voru herbergi sjálfrar hennar og þjónustumeyja hennar rétt gagnvart herbergjum okkar við ytri hliðina á mjóum garði, er aðskildi eina deild hinnar miklu hallar frá hinni. Tók hann þá gýgju þarlendra manna, og gat hann hæglega leikið á hana, því hann hafði talsverða æfingu að leika á almenn strengja hljóðfæri, og lagði af stað um miðnæturskeið — en það er hinn vanalegi tími fyrir slikt spangól, er gerir nóttina ofboðslega með ástarvæli sínu. Eg var sofandi, þá er söngur þessi hófst, en vaknaði bráðlega — því Good hefir fjarskamikla rödd og kann lítt að syngja eftir réttu hljóðfalli—og hljóp

eg út að glugga mínum, til þess að sjá hvað á gengi. Sá eg þá hvar Good stóð þar í tunglsljósinu í garðinum, og hafði hann á höfði sér afar mikla strútsfjöður og var klæddur flögrandi silkikápu; en það er hinn rétti búningur við slík tækifæri, og orgaði hann hinn hræðilega söng sinn, er hann og gamli maðurinn höfðu hnoðað saman, og lék hann undir á hið marrandi, ósamhljóma hljóðfæri sitt. Heyrðist nú frá herbergjum heiðursmeyjanna óljóst fliss, en í herbergjum Sorais sjálfrar—eg kendi sárt í brjósti um hana að hún skyldi vera þar — var kyrð og þögn grafarinnar. Það var eins og að enginn endir ætlaði að verða á þessum söng með hinu eilífa viðkvæði: „eg vil kyssa þig!“ og loks gátum við hvorugur, eg eða Sir Henry, staðist þetta lengur, en eg hafði kallað á hann til að virða þessa sjón fyrir sér; datt mér því í hug hin gamla góða saga, og rak höfuðið út um gluggann og kallaði hátt:í „í guðs nafni, Good, vertu vertu ekki að stagast á því, en kystu hana, og förum við svo að sofa. Þetta dugði, og sönglistin hans hætti.

Var þetta alt næsta hlægilegur atburður í vandræðaleik þessum. Hve þakklátir ættum vér eigi að vera, að jafnvel hin alvarlegustu mál hafa oftast nær einnig eitthvað kátlegt við sig, ef að menn að eins gætu séð það. Tilfinningin fyrir gamni, er mjög mikils verð í lífinu, og ætti að leggja meiri rækt við hana í skólunum, einkum á Skotlandi.

En því meir, sem Sir Henry stilti sig, því meir leitaði Sorais á, eins og oft vill verða, þegar líkt er

ástatt og hér var, og fór nú mál þetta að verða heldur skoplegt.

Virtist svo, sem henni væri eigi auðið, fyrir einhverri einþykni að sjá hversu að hér var komið,og eg fyrir mitt leyti kveið mjög fyrir stund þeirri er hún kynni að vakna. Sorais var hættu-kona að eiga við, hvort sem það var fúslega gert eða móti skapi manns. Loks kom óhappa stundin, eins og eg hafði búist við. Dag einn, er Good hafði farið á veiðar með hankann, en Sir Henry og eg sátum og vorum í rósemd að ræða mál þetta, einkum að því er Sorais snerti, kom sendiboði frá hirðinni með miða, er okkur veitti hálförðugt að stafa okkur fram úr, en efni hans var á þá leið: „að Sorais drotning bauð Incubu lávarði að koma til herbergja sjálfra hennar, og mundi sendiboðinn fylgja honum þangað.“

„Nei, hve skollinn!“ andvarpaði Sir Henry. „Getur þú ekki farið fyrir mig, kunningi?“

„Nei, hitt er heldur,“ svaraði eg skorinort. „Eg mundi heldur kjósa að standa gagnvart særðum fíl með haglabyssu. Sjáið nú fyrir sjálfum yður, piltur minn. Ef að þér viljið vera svona tilfýsilegur, þá verðið þér að taka afleiðingunum. Það er nú laglega komið fyrir yður, eða er eigi svo?“

„Þér minnið mig á þegar að átti að strýkja mig í skóla og hinir drengirnir komu að hugga mig,“ mælti hann dapurlega. „Mér þætti gaman að vita, hvern rétt þessi bannsetta drotning hefir til þess að bjóða mér að koma? Eg fer alls ekki.“

„En þér verðið að gjöra svo; þér eruð einn af foringjum hennar, og skyldir að hlýða henni, og hún

veit það. Og þegar öllu er á botninn hvolft, þá stendur eigi lengi á þessu.“

„Þetta er einmitt það, er þeir sögðu,“ mælti hann aftur. „Eg vona að eins, að hún reki eigi hníf í mig, þó eg haldi að hún sé til með það.“

Lagði hann svo á stað, en var fremur huglaus, og var það engin furða.

Eg sat og beið, og þá er um fjörutíu mínútur voru liðnar, kom hann aftur og var þá talsvert daprari á svipinn en þegar hann fór.

„Gefið mér eitthvað að drekka,“ mælti hann með all-mikilli hæsi.

Eg rétti honum bolla af víni, og spurði hann hvað nú væri að.

„Hvað nú er að? Já, ef nokkru sinni var illa farið, þá er það núna. Þér vitið hve nær eg skildi við yður? Mér var vísað beint inn í herbergi Sorais sjálfrar, og var það undrunarsamlegur staður: sat hún þar alveg einsömul á silkimjúkum hvílubekkk í öðrum enda herbergisins og lék hægt a gýgju sína. Eg staðnæmist frammi fyrir henni og gat hún í fyrstu engan gaum að mér en hélt áfram að leika of syngja lítið eitt, og var það sætur söngur. Loksins leit hún upp og brosti.

„Þú ert þá kominn,“ mælti hún. „Mér datt í hug, að þú hefðir farið erindum Nýlepþu drotningar. Þú gefur þig mjög við henni, og efast eg um að þú sért hollur og dyggur þjónn.“

Eg hneigði mig að eins við orð þessi, og sagði að eg væri hér kominn til að heyra boð drotningarinnar.

„Já, eg ætlaði að tala við þig, en seztu niður. Eg get eigi lyft höfði mínu svo hátt,“ og rýmdi hún fyrir mér við hlið sér á hvílubekknum og hallaði sér upp að öðrum enda hans, til þess að geta horft í andlit mér.

„Það sómir sér eigi,“ mælti eg, „að eg geri mig jafnan drotningunni.“

„Eg sagði þér að setjast,‘ ‘var svar hennar, og settist eg því niður, og fór hún þá að virða mig fyrir sér, með þessum dökku augum sínum. Sat hún þar, sem líkamlegur andi fegurðar; talaði hún lítið eitt, og þá er hún gerði það, var það í hálfum hljóðum, en starði jafnan á mig. Hafði hún blátt blóm í hinu svarta hári sínu og reyndi eg að hafa augun á því, og telja blöðin, en það var árangurslaust.

Fanst mér loksins, að eg vera í nokkurs konar dáleiðslu, en eigi var mér ljóst hvort það var af því, að hún blíndi á mig eða af ilm þeim, er lagði af hári hennar eða af einhverjum öðrum ástæðum. Um síðir leit hún upp.

„Incubu,“ mælti hún, „hefir þú miklar mætur á völdum?“

Eg svaraði, að eg ætlaði að flestum mönnum þætti mikið til valda koma.

„Þú skalt fá þau,“ mælti hún. „Elskar þú auðlegð?“

Eg svaraði mér þætti vænt um auðlegð, sakir þess er henni fylgdi.

„Þú skalt fá hana,“ mælti hún. „Og elskar þú fegurð “

Eg svaraði því á þann hátt, að eg kvaðst hafa

miklar mætur á myndasmíði og byggingarlist, og þess háttar, og gretti hún sig yfir því svari, og varð svo þögn. Um þetta leyti voru taugar mínar komnar í slíkan spenning, að eg skalf eins og laufblað. Eg vissi, að nú var von á einhverju óttalegu, en það var eins og hún hefði einhver töfra-áhrif á mig, og eg hafði ekki fult vald yfir mér.

„Incubu," sagði hún loksins, „vildir þú vera konungur? Hlustaðu á mig, vildir þú vera konungur? Lít þú á, ókunni maður, eg hefi hug á að gera þig að konungi yfir öllum Zu-vendi mönnum, og að eiginmanni Sorais, sem kend er við nóttina. Vertu rólegur, og hlustaðu á mig. Fyrir engum manni meðal þjóðar minnar mundi eg þannig hafa lokið upp fylgsnum hjarta míns, en þú ert útlendingur, og þess vegna tala eg við þig án þess að blygðast mín, með því að eg veit, hve mikið það er, sem eg býð, og hve örðugt þú hefðir átt með að beiðast þess. Líttu á, kórónan liggur fyrir fótum þínum, Incubu, lávarður minn, og ásamt henni kona, sem nokkrir menn hafa litið ástaraugum. Nú getur þú svarað."

„Ó, Sorais", sagði eg, „gerðu það fyrir mig að tala ekki þannig"—eins og þér sjáið, hafði eg engan tíma til að velja orð mín vandlega — „því þú ert með þessu að koma okkur báðum í vandræði. Eg ætla að ganga að eiga Nýlepþu systur þína, Sorais, og eg ann henni hugástum."

Á næsta augnabliki datt mér í hug að mér mundi hafa viljað til voðaleg glópska, þar sem eg hafði komist svo að orði, og eg bjóst við illum afleiðingum. Meðan eg hafði talað, hafði Sorais haldið

höndunum fyrir andlit sér, en svo lyfti hún upp höfðinu hægt og hægt, og mér varð ekki um sel, þegar eg sá framan í hana. Andlitið var öskugrátt, og eldur brann úr augum hennar. Hún stóð upp, og það var eins og hún ætlaði að kafna, en hræðilegast var þó, hvað hún var róleg. Einu sinni leit hún á hliðarborð eitt, sem daggarður lá á, og þaðan á mig; en hún tók ekki daggarðinn. Loksins sagði hún eitt einasta orð:

„Farðu!“

Og svo fór eg, og þóttist góður að sleppa, og hér er eg nú kominn. Gerið þér svo vel að gefa mér annan bikar af víni, og segið mér, hvað nú á til bragðs að taka.“

„Eg hristi höfuðið, því að þetta var sannarlega alvarlegt mál. Það er satt, sem eitt af skáldunum hefir sagt, að ekkert mannvonzkuæði er til í helvíti, er jafnast við ástríðu konu, sem orðið hefir fyrir fyrirlitningu, einkum og sérstaklega ef sú kona er drotning, og með sömu tilfinningum sem Sorais; eg bjóst við öllu því versta, þar á meðal því, að lífi okkakr mundi vera bráð hætta búin.

„Það verður að segja Nýlepþu tafarlaust frá öllu þessu,“ sagði eg, „og það getur verið það sé bezt eg geri það; það gæti verið, að hún tæki sögu þinni með tortrygni.“

„Hver er yfirmaður lífvarðarins í nótt?“

„Good.“

„Gott og vel, það er þá engin hætta á að komist verði til hennar. Þú skalt ekki furða þig á því sem eg segi. Eg held ekki að systir hennar mundi hika

sig við að sjá fyrir henni. Eg býst við, að við verðum að segja Good söguna."

„Ó, eg veit ekki," sagði Sir Henry. „Það mundi særa tilfinningar hans, veslingsins. Þér vitið, að honum lízt æði vel á Sorais."

„Satt er það; vera má að það sé engin þörf á að segja honum þetta. Hann mun nógu snemma komast að sannleikanum. Takið þér nú eftir því, sem eg segi: Sorais mun ganga í bandalag við Nasta, sem er kominn norður í land og er í illu skapi og nú verður slíkur ófriður, að slíkt hefir ekki fyrir komið í Zu-vendi um margar aldir. Lítið þér á!" og eg benti á tvo hirðar sendiboða, sem fóru með flýti frá dyrunum á prívat bústað Sorais drotningar. „Komið þér með mér,' 'og svo stökk eg upp stiga, er lá upp í turn einn, sem var yfir okkar bústað; eg hafði með mér sjónpípu og leit út yfir hallargarðinn. Það fyrsta sem við sáum, var að annar sendiboðinn var á fleygingsferð í áttina til musterisins, og flutti vafalaust skilaboð frá drotningunni til Agons æðsta prestsins; hinn sendimanninn gat eg ekki séð. Rétt á eftir sá eg samt mann ríða alt hvað af tók út um norðurhlið borgarinnar, og þekti eg að það var hinn sendiboðinn.

„Ó!" sagði eg, „Sorais er fjörkona. Hún ætlar tafarlaust að taka til starfa, og höggva bæði hart og skyndilega. Þér hafið móðgað hana, góði minn, og blóðið mun renna í árstraumum, áður en sá móðgunarblettur verður af þveginn, og yðar blóð líka, ef hún nær í yður. Gott og vel, eg ætla að finna Nýlepþu tafarlaust. Bíðið þér hér, kunningi, og reynið að

koma taugum yðar í samt lag. Þér þurfið á þeim að halda, það get eg sagt yður, nema eg botni ekkert í mannlegri náttúru, eftir að hafa um 50 ár veitt henni athygli, þegar vondi gallinn er á henni.“ Og svo fór eg.

Eg náði fundi drotningarinnar tafarlaust. Hún átti von á Curtis, og henni þótti ekki sem allra vænst um, að sjá í hans stað mahogný-litaða andlitið á mér.

„Gengur nokkuð að lávarði mínum, Macumazahn, fyrst hann kemur ekki að finna mig? Er hann sjúkur?“

Eg sagði henni, að ekkert gengi að honum, og svo byrjaði eg á sögu minni, án frekari formála, sagði hana frá upphafi til enda. Ó, hvað hún varð fokvond! Það var sjón að sjá hana eins yndisleg og hún var.

„Hvernig dirfist þú að koma með slíka skröksögu?“ hrópaði hún. „Það er lygi, að lávarður minn hafi verið að biðla til Sorais, systur minnar.“

„Fyrirgefðu mér, drotning mín,“ svaraði eg, „eg sagði, að Sorais hefði verið að biðla til lávarðar þíns.“

„Vertu ekki að búa til neinar orðaflækjur. Er það ekki alveg það sama? Annað gefur, hitt tekur; en gjöfin er gefin, og hvað gerir það til, hvort þeirra er sekara? Sorais! ó eg hata hana—Sorais er drotning og systir mín. Hún hefði ekki gert svo lítið úr sér, ef hann hefði ekki gefið henni undir fótinn! Ó, sönn eru þau orð skáldsins, að karlmaðurinn sé eins og höggormur, sem sé eitraður viðkomu og ekki verði haldið föstum.“

„Þetta er ljómandi vel sagt, drotning mín, en mér dettur í hug, að þú kunnir að hafa misskilið skáldið. Nýlepþa,“ hélt eg áfram, „þú veizt vel, að það er bull, sem þú ert að fara með, og að nú er enginn tími til neinnar glópsku.“

„Hvernig dirfist þú að tala þannig,“ tók hún fram í og stappaði niður fætinum. „Hefir lávarður minn, svikaseggurinn, sent þig til mín til þess að svívirða mig líka. Hver ert þú, útlendi maður, að þú skulir tala við mig, drotninguna, á þessa leið. Hvernig dirfist þú að gera það?“

„Já, eg dirfist að gera það. Hlustaðu á. Augnablik þau, sem þú eyðir í fánýtri reiði geta vel kostað þig kórónu þína og okkur öll lífið. Hestmenn Sorais eru þegar lagðir af stað og kalla menn saman til vopna. Innan þriggja daga mun Nasta rísa á fætur í köstulum sínum, eins og ljón rís á fætur á kveldin, og öskur hans mun heyrast um allan norðurhluta landsins. „Frú næturinnar“ (Sorais) hefir ljúfa rödd, og hún mun ekki syngja árangurslaust. Hennar merki mun verða borið frá einni hæð til annarar, frá einum dalnum til annars, og þar sem það hefir farið um, munu bardagamenn þjóta upp eins og ryk í hvirfilvindi. Hálft herliðið mun endurtaka heróp hennar. Og í hverju þorpi og smábæ úti um þetta mikla land munu prestarnir heita á fólkið til fylgis móti þessum útlendingum, og prédika um málefni Sorais drotningar sem heilagt málefni. Eg hefi lokið máli mínu, drotning mín!“

Nýlepþa var nú alveg orðin róleg; afbrýðis-reiði hennar var um garð gengin, hún var ekki lengur ynd-

ísleg og þrálynd frú að eins, heldur og drotning og kona, sem miklum störfum hefir að sinna, og umskiftin urðu með slíkum hraða og svo alger,sem þessþessari konu einni var lagið.

„Orð þín eru mjög viturleg, Macumazahn. Fyrirgefðu glópsku mína. Ó, hvað eg skyldi verða mikil drotning, ef eg hefði ekkert hjarta! Að vera tilfinningarlaus — það þýðir að vinna hvervetna sigur. Ástríðan er eins og eldingin, hún er fögur, og bindur himininn við jörðina, en hún blindar menn, því miður!

„Og þú heldur að Sorais systir mín muni vilja hefja stríð á hendur mér. Látum svo vera. Hún skal ekki vinna bug á mér. Eg á líka vini og áhangendur. Vertu viss um að það verða margir, sem hrópa „Nýlepþa!“ þegar fáni minn verður dreginn upp, og ljósið af varðeldum mínum skýzt frá einum klettinum til annars í kveld, og ber fregnina um ófrið þann er eg á í. Eg mun brjóta á bak aftur liðsafla hennar og sundra hersveitum hennar. Eilíf nótt skal verða hlútskifti „Næturfrúarinnar.“ Fáðu mér pergamentið þarna og blekið. Gott og vel. Kallaðu nú á liðsforingjann í framherberginu. Það er áreiðanlegur maður.“

Eg gerði það sem mér var skipað. Og maðurinn, gamall og stillilegur maður úr lífverðinum, Kara að nafni, kom inn og hneigði sig djúpt.

„Taktu við þessu pergamenti,‘ sagði Nýlepþa; „þar standa skipanir þær, sem þú átt eftir að fara; gættu hvers einasta inn- og útgangs að bústað Sórais systur minnar, „Næturfrúarinnar“, og drotningar

yfir *Z*u-vendi. Láttu engan komast þar inn og engan fara þar út; annars skaltu lífið láta.“

Það kom undrunarsvipur á andlitið á manninum, en hann sagði að eins: „Skipan drotningarinnar skal fullnægt verða,“ og svo fór hann. Nýlepþa sendi svo eftir Sir Henry, og kom hann tafarlaust, og var óvenjulega vandræðalegur. Eg hélt, að nú mundi ný þrumuskúr dynja yfir, en hættir kvenna eru undarlegir; hún mintist ekki á Sorais með einu einasta orði, né heldúr á staðfestuleysi það, sem hún hugði að hefði átt sér stað hjá honum, heldur heilsaði hún honum með því að kinka kolli til hans vingjarnlega, og sagði blátt áfram, að hún þarfnaðist ráða hans viðvíkjandi mikilsverðum málum. En samt sem áður var einhver svipur í augunum og einhver niðurbældur þróttur í viðmóti hennar við hann, sem kemur mér til að halda að hún muni ekki hafa verið búinn að gleyma viðskiftum hans og Sorais, en hafi haft í huga að minnast á þau við hann í einrúmi.

Þegar Sir Henry var nýkominn inn, kom liðsforingi einn og færði þá frétt, að Sorais væri *farin.* Hún var komin á leiðina til musterisins og kvaðst fara til þess að eyða nóttinni í hugleiðingum frammi fyrir altarinu, eins og hefðarkonur í *Z*u-vendi gera stundum. Við litum hvert á annað, og skildum hvar fiskur lá undir steini. Sorais ætlaði ekki að láta standa á sér.

Svo tókum við til starfa.

Yfirliðsforingjar, sem treysta mátti, voru sóttir, og hverjum um sig var sagt svo mikið, sem æskilegt þótti, viðvíkjandi málefnum ríkisins, og var þeim

stranglega boðið að hafa til taks allan sinn liðsafla. Eins var farið að við þá af hinum voldugri lávörðum, er Nýlepþa vissi, að hún mátti reiða sig á, og lögðu ýmsir þeirra af stað þegar sama daginn til fjarlægra landshluta, til þess að safna saman skyldmennum sínum og áhangendum. Innsiglaðar skipanir voru sendar til stjórnenda fjarlægra borga, og eitthvað tuttugu sendiboðar voru látnir fara af stað og skyldu halda áfram ferð sinni látlaust nótt og nýtan dag, þangað til þeir kæmu til höfðingja þeirra, er bréfin áttu að fá. Margir njósnarmenn voru og settir til starfa. Allan síðara hluta dagsins og kveldið sátum við að verki, og hjálpuðu okkur nokkrir ritarar, sem óhætt var að trúa. Nýlepþa sýndi svo mikið þrek og ráðkænsku, að mig furðaði stórum á því, og kl. var orðin 8 áður en við komumst aftur til híbýla okkar. Alfonse, sem aftur var orðinn matreiðslumaður, og var sorgmæddur mjög af því að við höfðum ekki komið fyrr heim og miðdagsmaturinn hafði því orðið ónýtur, sagði okkur, að Good væri kominn heim af fuglaveiðum sínum og væri nú að gegna sínum embættisverkum. Yfirmaður ytri varðsveitarinnar hafði þegar fengið skipan um að hafa helmingi fleiri varðmenn við hliðið en venjulega, og við höfðum enga ástæðu til að óttast bráða hættu; þess vegna þótti okkur ekki ómaksins vert að fara að leita að Good, og segja honum af því er gerst hafði um daginn, enda var það, eftir því sem á stóð, eitt af þeim verkum, sem menn kjósa helzt að draga. Þess vegna bjuggumst við til að leggja okkur út af, þegar við höfðum fengið okkur dálitla næringu, enda var okkur þörf á

hvíldinni. En áður en við lögðumst til svefns, datt Curtis í hug, að segja Umslopagaas gamla að vera á verði nálægt prívatherbergjum Nýlepþu. Umslopagaas var nú alþektur þar í höllinni, og lofuðu varðmennirnir honum eftir skipan drotninganna að fara aftur og fram hvert sem honum sýndist. Það leyfi notaði hann oft, og var að ráfa um höllina í næturkyrðinni, enda er það ekki óalgengt, að svertingjar hafa gaman að slíku. Það var því ekki líklegt, að neitt umtal mundi verða út af því, þó að hann sæist í hallargöngunum. *Zúlúinn* tók öxi sina athugasemdalaust og fór, og við fórum í rúmið.

Mér fanst eg ekki hafa sofið nema fáeinar mínútur, þegar eg vaknaði við það, að mér fanst mér standa beigur af einhverju. Eg fann, að einhver var inni í herberginu, og horfði á mig, og eg settist tafarlaust upp. Mér til mikillar furðu sá eg, að dagur var runninn, og það var Umslopagaas, sem kominn var; hann stóð við fótgaflinn á legubekk mínum, og var einkennilega hræðilegur og hrikalegur í gráa ljósinu.

„Hvað hefirðu verið hér lengi?“ spurði eg önuglega, því að það er ekki þægilegt að vera vakinn á slíkan hátt.

„Líklegast svo sem hálfa stund, Macumazahn. Eg þarf að segja þér nokkuð.“

„Talaðu,“ sagði eg, og var nú orðinn glaðvakandi.

„Eg fór eins og eg var beðinn í gærkveldi til híbýla hvítu drotningarinnar, og faldi mig fyrir aftan súlu í innra framrúminu, þar sem svefnherbergi

drotningarinnar er inn af. Bougwan (Good) var einn í fremra herberginu, og fyrir utan dyratjaldið á því herbergi var varðmaður; mig langaði til að komast inn án þess sæju mig, og það tókst mér; eg laumaðist fyrir aftan bökin á þeim báðum. Þar beið eg margar stundir, þangað til eg sá alt í einu dökk klædda veru og fór hún mjög hljóðlega. Þetta var kona og hún hélt á daggarði í hendinni. Á eftir henni kom önnur vera, og sá konan ekki förunaut sinn. Það var Bougwan, og var hann að elta konuna. Hann hafði tekið af sér skóna, og honum tókst eftirförin laglega, jafn-feitur maður og hann er. Konan fó fram hjá mér, og stjörnuljósið féll á andlt henni."

„Hver var það?" spurði eg óþolinmóðlega.

„Það var andlit „Næturfrúarinnar", sem eg sá, og sannlega ber hún nafn með rentu.

„Eg stóð kyr, og Bougwan fór líka fram hjá mér. Þá lagði eg af stað á eftir. Þannig héldum við áfram hægt og hægt og án þess að gefa nokkurt hljóð frá okkur eftir þessum langa sal. Konan var á undan, svo Bougwan, svo eg; og konan sá ekki Bougwan, og Bougwan sá ekki mig. Loksins kom „Næturfrúin" að dyratjöldunum, sem eru fyrir svefnherbergi hvítu drotningarinnar, og rétti fram vinstri hönd sína til þess að taka þau sundur. Hún fór inn, og Bougwan líka, og eg sömuleiðis. Í þeim endanum, sem fjær okkur var, er rúm drotningarinnar, og í því lá hún í fasta svefni. Eg gat heyrt hana draga andann, og eg sá hvítan handlegg ofan á ábreiðunni, líkastan snjórák á þurru grasi. „Næturfrúin" fór í kuðung, og kraup að rúminu með daggarðinn á lofti.

Svo fast starði hún á rúmið, að henni kom aldrei til hugar að líta aftur fyrir sig. Þegar hún var komin fast að rúminu, kom Bougwan við handlegginn á henni, og hún hrökk saman og sneri sér við; eg sá hnífnum bregða fyrir glampandi, og heyrði þegar honum var lagt. Vel kom það sér þá fyrir Bougwan, að hann hafði á sér járnskinnið; annars hefði hnífurinn farið í gegnum hann. Þá sá hann fyrsta sinni, hver konan var, og þá hrökk hann aftur á bak forviða og gat engu orði upp komið. Hún var líka hissa og sagði ekkert, en lagði alt í einu fingurna á varir sér, og gekk að dyra tjöldunum og svo út um þau, og Bougwan á eftir henni. Svo nærri mér fór hún að föt hennar komu við mig, og það var rétt að mér komið að drepa hana þá. Í næsta herbergi fyrir framan talaði hún eitthvað við Bougwan í hljóði, og fórnaði höndunum og grátbændi hann um eitthvað, en ekki heyrði eg hvað hún sagði. Og svona héldu þau áfram fram í hitt herbergið—hún var alt af að biðja hann um eitthvað, en hann hristi höfuðið og sagði: „Nei, nei, nei.“ Og mér sýndist vera rétt komið að honum að kalla á varðmanninn, en þá hætti hún að tala og leit á hann stóru augunum, og eg sá, að hann töfraðist af fegurð hennar. Þá rétti hún út hend sína, og hann kysti á hana, og eg bjóst til að ganga að drotningunni og taka hana fasta, því að eg sá, að Bougwan var orðinn kona en ekki karlmaður, og þekti ekki lengur gott frá illu. En, sjá! þá var hún horfin.“

„Horfin!“ hrópaði eg.

„Já, horfin, og þar stóð Bougwan og starði á

vegginn eins og maður sem gengur í svefni, og rétt á eftir fór hann líka út, og eg beið stundarkorn, og svo fór eg sömuleiðis.“

„Ertu vissum það, Umslopogaas,‘ ‘sagði eg, „að þig hafi ekki dreymt þetta í nótt.“

Hann opnaði vinstri hendina í svars skyni, og sýndi mér her um bil þrjá þumlunga af dagarðsblaði úr hinu bezta stáli. „Ef mig hefir dreymt, Macumazahn, þá sjá hvað draumurinn hefir skilið eftir hjá mér. Hnífurinn brotnaði á brjósti Bougwans, og þetta tók eg upp í svefnsal hvítu drotningarinnar.“

---

## XVIII. KAPITULI.

*Stríð! Blóðugt stríð!*

Eg sagði Umslopagaas að bíða, rauk í fötin og fór með hann til herbergja Sir Henrys; þar sagði *Z*úlúinn sögu sína aftur orð fyrir orð. Það var sjón að sjá andlitið á Curtis, þegar hann heyrði hana.

„Guð minn góður!“ sagði hann; „hér hefi eg legið hrjótandi, meðan rétt hefir verið að því komið, að Nýleppa yrði myrt — og það fyrir mína skuld. Einstakur kvendjöfull hlýtur þessi Sórais að vera! Hún hefði átt það skilið að Umslopagaas hefði drepið hana, þegar hann stóð hana að verkinu.“

„Já,“ sagði *Z*úlúinn. „En vertu ekkert hræddur; eg mundi hafa drepið hana áður en hún hefði

lagt til systur sinnar. Eg var að eins að bíða eftir því augnabliki.“

Eg sagði ekkert, en gat ekki að mér gert að fara að hugsa um það, að mörg þúsund dauðadæmdra manna mundu hafa haldið lífi, ef hann hefði látið Sorais sæta þeim örlögum, sem hún ætlaði systur sinni. Og það kom síðar fram, að eg var getspakur í það sinn.

Þegar Umslopagaas hafði lokið sögu sinni, fór hann burt til þess að fá sér morgunmat, eins og ekkert væri um að vera, en við Sir Henry fórum að tala saman.

Hann var í fyrstu gramur við Good, sagði að honum væri ekki lengur treystandi, þar sem hann hefði viljandi látið Sórais sleppa út um einhverjar leynidyr, í stað þess að það hefði verið skylda hans, að selja hana réttvísinni í hendur. Sannast að segja var hann í fyrstu æði harðorður um þetta atriði. Eg lét hann ausa úr sér stundarkorn, og var að hugsa um það með sjálfum mér, hve létt okkur félli að taka hart á yfirsjónum annara manna, en hve vægilega við færum með okkar eigin bresti.

„Góðurinn minn,“ sagði eg að lokum, „engum, sem heyrði yður tala svona, mundi koma til hugar að þér væruð maðurinn, sem áttuð tal við þessa sömu konu í gær, maðurinn, sem átti nokkuð örðugt með að standa á móti töfraafli hennar, þrátt fyrir það, að þér eruð bundinn einni af hinum elskulegustu og ástríkustu konum, sem til eru í heiminum. Hugsið yður nú, að það hefði verið Nýleppa, sem reynt hefði að myrða Sorais, og að *þér* hefðuð náð í hana og

Í sjálfu sér var þetta atriði ómerkilegt, en eg segi frá því vegna þess, að það hafði alvarlegar afleiðingar. Jafnskjótt sem Alfonse hafði stöðvað blóðrásina úr skrámum sínum og þvegið sér, þá fór hann, og var enn bölvandi; og vissi eg af reynslunni, að þess mundi langt að bíða, að skap hans kæmist aftur í samt lag. Þegar hann var farinn, fór eg að ávíta Umslopagaas og sagðist skammast mín fyrir framferði hans.

„Eg skal segja þér, Macumazahn,“ sagði hann, „þú verður að vera mér vægur, því að eg á ekki hér heima. Eg er þreyttur á þessum stað, dauðþreyttur á að eta og drekka og sofa og vera viðstaddur brúðkaup manna. Eg ann ekki þessu hóglífi í steinhúsahúsum, sem tekur hjartað út úr mönnum og breytir styrkleikanum í vatn og holdinu í fitu. Eg ann ekki þessum hvíta skrúða og þessum veikbygðu konum, þessum lúðurþyt og haukaflugi. Þegar við börðumst við Masaiana við þorpið hinu megin við fjöllin, þá var lífið þess vert, að það væri lifað, en hér gefur enginn öðrum högg í reiði, og eg er farinn að halda, að eg muni safnast til minna feðra, og aldrei lyfta Inkosi-kaas upp framar“, og hann hélt upp exinni og leit á hana með sorgarsvip.

„Ó“, sagði eg, „svo það er undan þessu, að þú kvartar. Þú ert blóð-sjúkur, er ekki svo? Og það á þínum aldri. Skammastu þín, Umslopagaas!“

„Já, Macumazahn, atvinna mín er blóðug, og þó er hún betri og heiðarlegri en atvinna sumra annara manna. Betra er að lífláta mann í bardaga, þar sem báðir standa jafnt að vígi, heldur en að sjúga hjarta-

—þá heyrði eg alt í einu hávaða mikinn í garðinum fyrir utan, og gat greint þar raddir Umslopagaas og Alfonse; Umslopagaas var að bölva ofsalega, og Alfonse veinaði af skelfingu.

Eg flýtti mér út til þess að vita, hvað um væri að vera, og sá þá skrítna sjón. Litli Franzmaðurinn stökk eftir garðinum með afar miklum hraða, og á eftir honum þaut Umslopagaas líkt og stór mjóhundur. Í sama bili sem eg kom út náði hann í Alfonse, lyfti honum upp frá jörðinni, bar hann nokkur skref að ljómandi fallegum en mjög þéttum blómrunni, sem þakinn var stuttum þyrnum. Alfonse lamdist um af alefli, en gat ekkert, og Umslopagaas þeytti honum á höfuðið ofan í runninn, svo að ekkert sást af honum nema fæturnir upp að hnjám. Zúlúinn var ánægður með það sem hann hafði gert, krosslagði handleggina og horfði mannvonzkulega á umbrot Franzmannsins og hlustaði á óp hans, sem voru óttaleg.

„Hvað ertu að gera?“ sagði eg og hljóp að honum. „Ætlarðu að drepa manninn Dragðu hann út úr runnanum.“

Hann hlýddi með villimannlegu ólundarnöldri, þreif í fótinn á Alfonse veslingnum um öklann, hnykti á, svo að lítið hlýtur að hafa vantað á, að fóturinn gengi úr liði, og reif manninn út úr runnanum. Aldrei hefi eg séð aðra eins sjón eins og Alfonse þá; fötin voru hálf-rifin af bakinu á honum, og allur var hann blóðugur af hvössum þyrnum. Þarna lá hann grenjandi og kútveltist, og það var ómögulegt að fá nokkurt orð af viti út úr honum.

Loksins komst hann þó á fætur, leitaði sér hælis fyrir aftan mig, bölvaði Umslopagaas gamla í gríð og ergi, og sór það við blóð hetjunnar afa síns, að hann skyldi gefa honum inn eitur og hefna sín.

Að lokum komst eg að sannleikanum í þessu efni Alfonse var vanur að sjóða graut handa Umslopagaas, sem *Zú*lúinn át á morgnana í einu horninu á garðinum, alveg eins og hann mundi hafa gert í *Zú*lúlandi, úr stórum holum ávexti einum og með trêspæni. Nú hafði Umslopagaas, eins og margir *Z*úlúar megna andstygð á fiski—taldi fiska eina tegund af vatnsormum; en Alfonse, sem var hrekkjóttur eins og api, og auk þess snillingur við matreiðslu,, staðréð að koma fisk ofan í hann. Í því skyni reif hann sundur mjög smátt töluvert af hvítum fiski, og hrærði hann saman við graut *Z*úlúans; Umslopagaas hakkaði þetta í sig, og hafði ekki hugmynd um, hvað það var, sem hann var að borða. En því miður fyrir Alfonse gat hann ekki leynt fögnuði sínum við þessa sjón, og var að hoppa og gægjast þar í kring, þangað til loksins að Umslopagaas, sem var mjög slunginn karl á sinn máta, fór að gruna, að mundi vera bogið við þetta, og eftir að hann hafði skoðað vandlega leifarnar af graut sínum, komst hann að „hrekk vísundakvígunnar“, og hefndi sín á þann hátt, er eg hefi frá skýrt. Væskillinn var sannarlega heppinn, að Umslopagaas skyldi ekki hálsbrjóta hann fyrir þennan leik; og það hefði mátt ætla, að hann hefði lært það af fimleik þeim, sem Umslopagaas hafði einu sinni áður á honum sýnt, að „svarti herrann“ var ekki vel valinn til þess að hafa hann að leiksoppi.

hún hefði grátbænt *yður* um að sleppa sér — munduð þér hafa verið svo fjarskalega áfjáður í að ofurselja hana opinberri svívirðing og láta brenna hana á báli? Lítið þér að eins á málið eina mínútu gegnum gleraugu Goods, áður en þér farið að tala um gamla vin yðar sem þorpara."

Hann hlustaði með undirgefni á þessar ávítur, og svo kannaðist hann drengilega við það, að hann hefði orðið of harðorður. Það er ein af beztu hliðunum á Sir Henry, að hann er ávalt reiðubúinn til að kannast við það, ef hann hefir haft á röngu að standa.

En þó að eg tæki þannig málstað Goods, þá duldist mér það ekki, að hvað eðlileg sem breytni hans kann að hafa verið, þá var það augsýnilegt, að hann hafði flækst inn í mjög óþægilegt og gruggugt mál. Tilraun hafði verið gerð til að fremja svívirðilegt morð, og hann hafði slept morðkonunni, og með því meðal annars lofað henni að ná fullu valdi yfir honum sjálfum. Hann var í sannleika á góðum vegi með að verða verkfæri í hendi hennar — og ekkert hörmulegra hlutskifti getur fallið í skaut nokkurs manns en það að verða verkfæri í höndum samvizkulausrar konu, eða í raun og veru nokkurrar konu. Það endar ávalt á eina leið: Þegar maðurinn er orðinn að aumingja, eða hefir gert henni það gagn, sem hún hefir ætlast til, þá er honum fleygt á burt — varpað út í heiminn og lofað að leita þar að þeirri virðing fyrir sjálfum sér, er hann hefir mist. Meðan eg var að grufla út í þetta, og hugleiða, hvað til bragðs skyldi taka — því að þetta var vandræðamál

blóð hans með kaupum og sölum og okri, eins og tíðkast meðal ykkar hvítu mannanna. Margan mann hefi eg drepið, en aldrei hefir sá maður verið til, að eg ekki dirfðist að líta í andlit honum aftur, og marga vini hefi eg átt, er mér þætti vænt um að geta tekið í nefið hjá. En skoðaðu til! Þú hefir þína hætti og eg mína, og hættir beggja okkar eru hættir okkar þjóðar og okkar heimkynnis. Hásléttu-uxinn deyr á frjósama skóglendinu, og svo er því varið með mig, Macumazahn. Eg er ruddalegur, eg veit það, og þegar blóðið í mér hitnar þá veit eg ekki, hvað eg geri, en þrátt fyrir það mun þér þykja fyrir, þegar nóttin gleypir mig, og eg týnist algerlega út í dimmuna, því í hjarta þínu elskar þú mig, faðir minn, þú refurinn Macumazahn, þó að eg sé ekkert annað en yfirbugaður stríðshundur — höfðingi, er eigi á sér neitt hæli í kofa sjálfs síns, útlagi og vegfarandi um ókunna staði; já, eg elska þig, Macumazahn, því að við höfum gerzt gráir fyrir hærum saman og eitthvað það er milli okkar, er eigi má sjá, en sem þó er of sterkt til að rofið verði,“ og tók hann þá tóbaksdósir sínar, er gerðar voru úr gömlum látúns púðurstikli, úr klaufinni á eyra sínu, en þar bar hann þær jafnan, og rétti hann þær að mér til þess að eg tæki í nefið úr þeim.

Tók eg í nefið með allmikilli geðshræring. Það var dagsatt að mér var mjög vel til hins gamla grimma bófa. Eg veit ekki hvað tilfýsilegt var við lunderni hans, en eitthvað var það; ef til vill var það hin ómentaða ráðvendni hans, og hve hreinn og beinn hann var. Má og vera, að menn hafi dáðst að hinni

tröllauknu kunnáttu hans og afli, eða það kann að hafa verið fyrir það hve sérstaklega einstakur hann var. Satt að segja hefi eg aldrei þekt mann fyllilega líkan honum og er eg þó næsta kunnugur villimönnum; hann var svo vitur en þó svo mikið barn og þó að hlægilegt virðist að segja svo, var hann „viðkvæmur“ eins og hetjan í Yankee-háðsögunni. En hversu sem því nú var varið, var mér vel til hans, enda þó að mér aldrei kæmi til hugar að segja honum frá því.

„Já, gamli úlfur,‘ ‘mælti eg; „ást þín er skrítin. Þú mundir kljúfa mig niður í höku ef eg væri í vegi fyrir þér á morgun.“

„Þú mælir satt, Macumazahn, það mundi eg gera ef að skyldan byði mér svo, en eg mundi þó elska þig engu að síður ,þá er höggið hefði hrifið. Eru nokkur líkindi til þess að hér verði barist, Macumazahn?“ hélt hann áfram með smjaðursrödd. „Mér virtist að það, er eg sá í gærkveldi, benda til þess að hinum tveimur miklu drotningum væri gramt í geði hvorri til annarar. Annars mundi eigi „Næturfrúin“ hafa haft daggarðinn með sér.“

Eg var honum sammála í því, að svo virtist sem að meira eða minna sundurlyndi og gremja væri milli þeirra og skýrði eg honum frá hversu komið væri og að þær deildu um Incubu.

„Nú, er það svo?“ kallaði hann og stökk upp af gleði, „þá mun verða stríð, eins vissulega og að ár vaxa í rigningum — stríð til fulls. Konum þykir ljúft að geta slegið hið síðasta högg og mælt hið síðasta orð, og þegar þær berjast fyrir sakir ástar, eru þær miskunnarlausar, sem særður vísundur. Líttu á,

Macumazahn, kona mun synda gegn um blóð að óskum sínum og eigi hirða neitt um. Með þessum augum hefi eg séð það eitt sinn og einnig tvisvar sinnum. Já, Macumazahn, við fáum að sjá þennan fagra stað húsa brenna og við munum heyra herópið berast upp götuna. Eftir alt saman hefi eg eigi farið til einskis. Haldið þér að þetta fólk geti barist?“

Rétt í þessu kom Sir Henry til okkar og Good kom líka úr annari átt og var mjög fölur á að líta og tekinn til augnanna. Þegar Umslopagaas sá hinn síðarnefnda, hætti hann grimdartali sínu og heilsaði honum.

„Bougwan,“ kallaði hann, „sæll vert þú Inkoos, þú ert vissulega þreyttur. Varst þú um of á veiðum í gærdag?“

Beið hann eigi svars en hélt áfram:

„Hlýddu á Bougwan, og eg skal segja þér sögu; hún er um konu; þess vegna muntu vilja heyra hana, er ekki svo?“

„Það var maður og hann átti bróður, og það var kona, er elskaði bróður mannsins, og var aftur elskuð af honum. En bróðir mannsins átti uppáhaldskonu og elskaði eigi konuna og hafði hana að háði. Þá ráðgaðist konan, er var slægvitur og fýsti mjög hefnda, við sjálfa sig og mælti til mannsins: „Eg elska þig, og ef þú vilt fara í ófrið við bróður þinn mun eg giftast þér.“ Og hann vissi, að það var lýgi, en sakir hinnar miklu ástar, er hann hafði á konunni, er var mjög fríð, hlýddi hann á orð hennar og fór í stríð. Og þegar margt manna hafði verið drepið, sendi bróðir hans til hans og mælti: „Hvers

vegna situr þú um líf mitt? Hvern miska hefi eg gert þér? Hefi eg ekki elskað þig frá blautu barnsbeini? Þegar þú varst barn að aldri, hjúkraði eg þér þá eigi, og höfum við eigi lagt í hernað saman og skift með okkur fénaðinum, stúlku fyrir stúlku, naut fyrir naut og kú fyrir kú. Hvers vegna situr þú um líf mitt, bróðir minn, sonur móður minnar?“

„Þá hrygðist maðurinn og vissi að hann gekk á vegi vondskapar og hann hratt frá sér freistingu konunnar og hætti stríði við bróður sinn og lifði í friði í sama kofa og hann. Og eftir nokkra stund kom konan og sagði: „Eg hefi tapað liðnum tíma, eg vil verða kona þín,“ og í hjarta sínu vissi hann að það var lygi og að hún hugsaði ilt eitt; en fyrir sakir ástar tók hann hana sér fyrir konu.

„Og einmitt kveld það er þau giftust og þegar maðurinn var fallinn í fasta svefn, reis konan á fætur og tók öxina úr höndum hans og skreið inn í kofa bróður hans og drap hann í svefni hans. Læddist hún svo til baka líkt og kvenljón, er gleypt hefir bráð sína og smokkaði lykkjunni á blóðugri öxinni aftur upp á úlnlið honum og fór svo leiðar sinnar.

„Og um aftureldingu gekk fólkið inn og æpti hástöfum: „Lousta hefir verið myrtur í nótt,“ og það kom í kofa mannsins og þar lá hann sofandi og hjá honum hin blóðuga öxi. Þá mundu þeir eftir stríðinu og mæltu: „Sjá, hann hefir vissulega myrt bróður sinn“, og þeir mundu hafa tekið hann og drepið hann, en hann reis á fætur og flýði skyndilega, og er hann flýtti sér á burt drap hann konuna.

„En dauðinn gat eigi afmáð hið illa er hún hafði

gert og á honum hvíldi byrði allra synda hennar. Því er hann útlægur og nafn hans fyrirlitið meðal fólks hans, því á honum og eingöngu á honum hvílir byrði hennar, er sveik. Þess vegna flakkar hann víðs vegar án kofa og án uxa eða konu, og því mun hann deyja í fjarlægð líkt og særður hafur, og nafn hans mun verða bölvað frá kynslóð til kynslóðar, því fólkið segir, að hann hafi drepið bróður sinn, Lousta, með svikum á næturþeli.“

Hinn gamli *Zúlú*-maður þagnaði, og sá eg hann komst mjög við af sögu sjálfs síns. Alt í einu lyfti hann höfði sínu, er hann hafði beygt á brjóst niður, og hélt áfram:

„Eg var maðurinn, Bougwan. Ó, eg var maðurinn, og heyrðu nú! Alveg eins og eg munt þú verða —verkfæri, leikfang, áburðar-uxi, til þess að bera illverk annara. Heyrðu! Þegar þú skreiðst á eftir „Næturfrúnni“, var *eg* á hælum þér. Þegar hún rak rak í þig hnífinn í svefnstað hinnar Hvítu Drotningingar, þá var *eg* þar líka; þegar þú lézt hana sleppa á burt líkt og höggorm milli steina, þá sá eg þig og eg vissi að hún hafði töfrað þig og að sannur maður hafði horfið frá sannleikanum, og að sá er fyr meir elskaði hina beinu braut, hafði nú kosið krókóttan stíg. Fyrirgef mér, faðir minn, ef að orð mín eru hvöss, en töluð eru þau af fullu hjarta. Líttu eigi framar til hennar og þú munt fara með sæmd í gröf þína. Annars munt þú sakir konu fegurðar, er hún ber eins og loðkápu, verða líkur því sem eg er, og ef til vill af fullri ástæðu.

Eg hefi talað.“

Good þagði á meðan að stóð á þessari löngu og mælsku ræðu, en þegar hann varð þess áskynja að hún fór að snerta hann sjálfan, roðnaði hann og varð nú mjög dapur í bragði, er hann sá að augljóst var, að tekið hafði verið eftir því, er farið hafði fram milli hans og Sorais. Og er hann nú loks talaði, var það með auðmýktar róm, er honum var næsta óeðlilegur.

„Eg verð að segja,“ mælti hann og hló biturlega, „að eg ætlaði varla að eg mundi lifa þá stund, að *Z*úlúmaður þyrfti að kenna mér hver skylda mín væri; en þetta sýnir að eins hversu langt að menn kunna að verða leiddir. Eg ætla, að þið, kunningjar mínir, skiljið lítt, hversu auðmýktur eg er nú, en sárast er, að eg á það fyllilega skilið. Auðvitað er, að eg átti að láta varðmennina taka hana, en eg gat það eigi, og það er sannleikur. Eg lét hana fara, og eg lofaði að segja eigi neitt, og er það mér til lítils sóma. Hún sagði mér, að ef eg vildi vera með henni, vildi hún giftast mér og gera mig að konungi yfir landinu, en guði sé lof, að eg hafði þor til að segja henni að eg gæti eigi yfirgefið vini mínu jafnvel þó það væri til þess að giftast henni. Og nú getið þið gert hvað sem ykkur þóknast; eg á það alt skilið. Alt það, er eg hefi að segja, er, að eg vona að aldrei liggi fyrir ykkur að elska konu af öllu hjarta og verða svo biturlega freistaðir af henni“, og hann sneri sér við til þess að ganga burt.

„Heyrið, gamli kunningi,“ sagði Sir Henry, „bíðið við eina mínútu. Eg hefi stutta sögu að segja

yður.“ Og hann fór að segja frá því, er borið hafði við daginn áður milli Sorais og hans sjálfs.

Þetta fór loks algerlega með veslings Good. Það er eigi þægilegt fyrir nokkurn mann, að láta segja sér, að hann hafi verið hafður fyrir verkfæri; en þegar öll atvik eru jafn sérstaklega hörmuleg eins og hér var, þá er þetta sárara en flest annað.

„Vitið þið,“ mælti hann, „eg held að ykkur hafi tekist að lækna mig,“ og hann sneri við og gekk burt, og tók mig sárt til hans. Já, ef að flugurnar vildu ávalt forðast ljósið, hversu fáir brendir vængir væru þá eigi!

Þessi dagur var réttardagur, þá er drotningarnar sátu í hinum mikla sal og tóku við bænarskrám, og ræddu lög og fleira, og gengum við þangað stuttu eftir. Á leiðinni kom Good til okkar og var hann mjög hnugginn ásýndum og var það engin furða.

Þegar við komum inn í salinnn, var Nýlepþa gengin til hásætis síns og tekin til starfa eins og vant var og voru þar með henni ráðgjafar, hirðmenn, lagamenn, prestar, og óvenjumargir varðmenn. En auðséð var af geðshræringum þeim, og eftirvæntingu er var á svip allra þeirrar, er viðstaddir voru, að enginn gaf því mikinn gaum er fram fór, og var það af því að borist höfðu þær fréttir, að borgarastríð vofði nú yfir. Við heilsuðum Nýlepþu og gengum til venjulegra sæta okkar, og fór nú um stund alt fram eins og venja var til; en þá gullu alt í einu lúðrarnir við fyrir utan höllina, og hinn mikli manngrúi, er þar var saman kominn og virtist vera að bíða eft-

ir einhverjum óvenjulegum atburði, æpti hástöfum: „Sorais, Sorais!“

Heyrðist þá til margra vagnhjóla og voru þá hin miklu tjöld fyrir enda salsins dregin til hliðar og „Næturfrúin“ sjálf gekk inn. Og eigi kom hún einsömul. Gekk Agon æðstiprestur á undan henni og var hann klæddur hinum skrautlegasta búningi sínum og á báðar hliðar hans gengu aðrir prestar. Var auðséð hversu á þessu stóð, því að goðgá hefði verið að reyna að halda henni aftur, þar sem hún kom með þeim. Að baki henni var fjöldi hinna miklu lávarða og á eftir þeim gekk lítill hópur útvaldra varðmanna. Mátti vel sjá á Sorais, að eigi var erindi hennar friðsamlegt, því í stað hins gullsaumaða „kaf“ var hún klædd í skínandi skykkju, er gerð var af hreisturmynduðum gullplötum og á höfðinu hafði hún hjálm úr gulli. Í hendinni hafði hún og lítið spjót, er var mjög fagurlega gert af eintómu silfri. Gekk hún nú inn salinn, og var á að líta tíguleg og fögur sem kvenljón, og er hún kom nær hörfuðu áhorfendurnir á bak aftur, hneigðu sig og rýmdu til fyrir henni. Nam hún staðar við hinn helga stein og lagði hönd sína á hann og kallaði með hárri rödd til Nýlepþu í hásætinu: „Heil sértu, ó, drotning!“

„Heil sértu, systir mín!“ svaraði Nýlepþa. „Kom þú nær. Hræðst þú eigi. Þér er óhætt.“

Sorais svaraði engu, en setti á sig þóttasvip og gekk inn salinn, þar til hún stóð beint fram undan hásætinu.

„Gerðu nokkuð fyrir mig drotning!“ kallaði hún aftur.

„Talaðu, systir mín; hvað er það, sem eg get veitt þér, er átt hálft konungsríkið okkar?“

„Þú getur sagt mér satt — mér og Zu-vendis-þjóðinni. Ætlar þú eða ætlar þú eigi, að taka þennan útlenda úlf,“ og hún benti á Sir Henry með spjóti sínu, „þér til eiginmanns og hvílast með honum og setja hann í hásætið?“

Curtis varð órótt við þetta og sneri sér að Sorais og mælti til hennar í lágum róm: „Mér virtist sem þú kallaðir mig í gær með öðrum nöfnum en úlf, ó, drotning!“ og sá eg að hún beit á varirnar, en blóðið streymdi út í andlit hennar. En Nýleppa, sem að minsta kosti er einkennileg, sá nú að alt var komið upp og að eigi var neitt grætt á laununug, svaraði spurningu þessari á nýstárlegan hátt, og gekk henni til þess að því er eg fastlega ætla, bæði löngun til að ganga í augun á unnusta sínum og til þess að hrósa sigri yfir keppinaut sínum.

Hún stóð á fætur og gekk niður af hásætinu og fór í allri dýrð sinnar konunglegu tignar þangað er elskhugi hennar stóð. Þar nam hún staðar og vafði sundur hinn gullna höggorm er var um handlegg hennar. Bauð hún honum þá að falla á kné, og féll hann á annað hnéð á marmarann frammi fyrir henni, og tók hún þar næst gullorminn með báðum höndum og vafði hinum hreina mjúka málmi um háls honum og þegar hann var þar fastur, kysti hún Curtis stillilega á ennið, og kallaði hann sinn „elskaða lávarð.“

„Þú sér,“ sagði hún, þegar háreisti áhorfendanna var hætt, og sneri sér að systur sinni um leið og Sir Henry reis á fætur, „eg hefi sett hálshring minn

um ‚háls úlfsins‘, og sjá! hann skal verða varðhundur minn og þetta er svar mitt, Sorais, systir mín, og þeirra, sem með þér eru. Hræðstu eigi,“ mælti hún enn fremur og brosti ástúðlega til elskhuga síns og benti á gullorminn, er hún hafði vafið um hinn gilda háls hans, „ef ok mitt er þungt, þá er það þó úr hreinu gulli og skal eigi meiða þig.“

Sneri hún sér þá til áheyrendanna og hélt áfram með skýrri tígulegri rödd: „Já, Næturfrú, lávarðar, prestar og menn þeir, er hér eru saman komnir, með þessu merki tek eg útlendinginn mér til eiginmanns einmitt frammi fyrir ykkur öllum. Er eg drotning, og er mér þá eigi frjálst að kjósa mann þann, er eg elska? Eg ætti þá að vera minniháttar en hin auðvirðilegasta stúlka í öllum fylkjum ríkis míns. Já, hann fékk ást mína, og með henni fer hönd mín og hásætið og alt það, er eg á — já þó að hann hefði verið beiningamaður, í stað þess að vera mikil lávarður, fríðari og sterkari en nokkur annar hér og vitrari og fróðari um undarlega hætti, þá hefði eg gefið honum alt, og hvers vegna skyldi eg þá eigi miklu fremur gera það, þar sem honum er þannig varið?“ Og hún tók í hönd hans og leit til hans með ánægju svip og svo leit hún einarðlega til fólksins. Og svo mikill var yndisleikur hennar og máttur og tign persónu hennar, og svo fögur var hún ásýndum, er hún stóð við hlið elskhuga síns og hélt um hönd hans, og svo örugg var hún, að því er sjálfa hana og hann snerti og svo albúin var hún þess að leggja alt á hættu og þola alt fyrir sakir hans, að flestir þeirra er sáu sýn þessa, er eg fullviss að enginn þeirra muni

nokkru sinni gleyma, urðu snortnir af eldinum í augum hennar og hinum glaðlega litarhætti í andliti hennar, sem farið var að roðna, og æptu frá sér numdir fagnaðaróp. Þetta var ofdirfsku tiltæki af henni, og var sem það hrifi ímyndunarafl manna; en mannlegt eðli í *Z*u-vendi, eins og annars staðar, elskar það, sem djarft er, og eigi hræðist að rjúfa almennar reglur; svo er það og sérstaklega móttækilegt fyrir það, er talar til hinnar skáldlegu hliðar manneðlisins.

Og svo æpti fólkið fagnaðaróp þar til að tók undir í þakinu, en Sorais, frú næturinnar, stóð þar niðurlút, því að hún þoldi eigi að sjá sigurhrós systur sinnar, er svifti hana manni þeim, er hún hafði vonast eftir að ná sjálf í og titraði hún nú af ofsalegri afbrýðissemi, og bliknaði líkt og ösp fyrir vindi. Eg ætla að eg hafi einhvers staðar sagt um hana, að hún minti mig á sjóinn á lygnum degi, því að yfir henni var hinn sami blær sofandi afls. En nú var máttur þessi vakandi og líkt og yfirborð hins ólganda hafs ofbauð hann mér og töfraði mig þó um leið. Það er jafnan fögur sjón að sjá sannarlega fríða konu í ofsaæði sínu, en slíka fegurð og slíkt æði hefi eg aldrei fyrri séð sameinað, og eg verð að segja það, að áhrifin voru fyllilega samboðin hvorutveggja.

Hún lyfti upp föla andlitinu; purpurarauðir hringir voru fyrir neðan glampandi augun, og tennurnar nístust saman. Þrisvar reyndi hún að taka til máls, og þrisvar mistókst henni það. En loksins náði hún rödd sinni. Hún lyfti upp silfursverðinu og

hristi það, og það glampaði á það og gullhreistrið á hjálminum hennar.

„Og heldur þú, Nýlepþa,“ sagði hún svo hátt að glumdi við í hinum mikla sal, „heldur þú, að eg, drotning Zu-vendi þjóðarinnar, muni þola það, að ógöfugur útlendingur setjist í hásæti föður míns, og geti kynblendinga í stað hinnar miklu Stiga-ættar? Aldrei, aldrei geri eg það, meðan lífið er í brjósti mínu, og nokkur maður er til að fylgja mér og nokkurt sverð, er höggvið verði með. Hver er mín megin! Hver?

„Framsel þú nú þennan útlenda úlf til bálsins, og þá sem með honum komu til þess að ræna þetta land, því hafa þeir ekki drýgt dauðasynd gegn sólinni — annars hef eg stríð gegn þér, Nýlepþa—blóðugt stríð! Já, eg tilkynni þér það, að vegur ástríðu þinnar skal verða auðkendur með bálinu upp af borgum þínum, og vökvaður með blóði þeirra, sem halda fast við þig. Á þínu höfði hvíli þungi hryðjuverkanna, og í eyrum þínum hljómi stunur hinna deyjandi manna og vein ekknanna og barnanna, sem föðurlaus verða, til eilífðar.

„Eg lýsi yfir því, Nýlepþa, hvíta drotningin, að eg skal rífa þig frá hásæti þínu, og að þér skal verða hrundið — já, hrundið jafnvel frá efstu tröppunni á stiganum mikla niður að jörðu, af því að þú hefir hulið ættarnafn þess manns, er stigann reisti, með svartri svívirðing. Og eg segi ykkur það, útlendu menn, öllum nema þér, Bougwan — þér ætla eg að gefa grið, af því að þú hefir gert mér greiða, ef þú vilt yfirgefa þessa menn og fylgja mér (nú fór vesl-

ings Good að hrista höfuðið í ákafa og kalla á ensku: „Get það ekki“)—ykkur segi eg það, að eg skal vefja ykkur innan í gullblöðum og hengja ykkur lifandi í hlekkjum á fjóra gulllúðrana á hinum fjórum englum, sem fljúga austur og vestur og norður og suður frá hæstu toppunum á musterinu, svo að þið getið verið landinu til viðvörunar. Og hvað þér viðvíkur, Incubu, þá skalt þú deyja á enn annan hátt, sem eg ætla ekki að segja þér nú!“

Hún þagnaði og átti örðugt með að ná andanum, því að ástríðan hristi hana eins og stormur, og um salinn fór suða, sumpart af skelfingu, sumpart af aðdáun. Svo svaraði Nýleppa stillilega og tígulega:

„Illa mundi það sóma stöðu minni og tign, systir mín, að tala á sama hátt sem þú hefir talað, og að hafa í frammi slíkar hótanir, sem þér hafa um munn farið. En ef þú ætlar að heyja stríð, þá mun eg reyna að verjast þér, því að þó að hönd mín sýnist mjúk, þá muntu samt komast að raun um, að hún er úr járni, þegar hún grípur utan um háls hersveita þinna. Sorais, eg er ekki hrædd við þig. Eg tárast yfir þeirri óhamingju, sem þú ætlar að leiða yfir þessa þjóð, og yfir sjálfa þig, en að því er sjálfa mig snertir, er eg alls óhrædd. En þú, sem jafnvel í gær reyndir að ginna frá mér elskhuga minn og lávarð, sem þú kallar í dag „útlendan úlf“, til þess hann skyldi verða *þinn* elskhugi og *þinn* lávarður“ (nú datt ofan yfir alla í salnum), „þú sem jafnvel í nótt, sem leið, laumaðist, eftir því sem eg hefi fengið að vita síðan þú komst hingað inn í salinn, þú, sem jafnvel í nótt, sem leið, segi eg, skreiðst eins og högg-

ormur inn í svefnherbergi mitt, — og það jafnvel inn um leynigöng, og mundir hafa myrt mig, systur þína, á níðingshátt, þar sem eg lá sofandi—“

„Þetta er ósatt, þetta er ósatt!“ grenjaði Agon og einir tuttugu aðrir.

Það er ekki ósatt“, sagði eg, dró fram oddinn, sem brotnað hafði af daggarðinum, og hélt honum upp. „Hvar er skaftið, sem þetta brotnaði frá, Sorais?“

„Það er ekki ósatt,‘ ‘hrópaði Good; hann hafði loksins ráðið við sig, að fara að eins og maður. „Eg náði í hana við rúm drotningarinnar, og daggarðurinn brotnaði í brjóstinu á mér.“

„Hver er mín megin?‘ ‘hrópaði Sorais, og hristi silfursverðið, því hún sá, að hugir manna voru að snúast frá henni. „Hvað er þetta, Bougwan, kemur þú ekki?“ sagði hún við Good, sem stóð fast hjá henni, í lágum róm, og lagði mikla áherzlu á orðin. „Sálar-fölva flónið þitt, þér skal verða goldið með því, að ást þín til mín skal eta upp hjarta þitt, og þó ekki fá nægju sína — og þú hefðir getað orðið eiginmaður minn og konungur. Þér held eg að minsta kosti í fjötrum, sem ekki geta brotnað.

„*Stríð, stríð, stríð!*“ hrópaði hún. „Hér með hönd mína á þessum helga steini, sem haldast mun óskemdur, eftir því sem spáð hefir verið, þangað til Zu-vendiþjóðin beygir háls sinn undir útlent ok, hér lýsi eg yfir því, að barist skal verða þangað til til skarar skríður. Hver fylgir Sorais, frú næturinnar, til sigurs og sæmda?“

Á sama vetfangi komst óumræðilegur ruglingur

á mannfjöldann, sem þar var saman kominn. Margir flýttu sér að ganga í lið með „næturfrúnni“, en nokkrir komu frá henni til okkar. Meðal þeirra, sem gengu í hennar lið, var undir hershöfðingi úr lífverði Nýlepþu; hann sneri sér skyndilega við og þaut sem fætur toguðu að hliðinu, sem menn Sorais voru þegar farnir að fara út um. Umslopagaas var við staddur, og hafði veitt öllu nákvæma eftirtekt, og með sínu aðdáanlega snarræði sá hann, að ef þessi hermaður kæmist burt, mundu aðrir fara sömu leiðina, og því tók hann í manninn. Hermaðurinn tók sverð sitt og hjó til hans. *Zúlúinn* stökk aftur á bak með orgi, brá sér alt af undan höggunum, en fór að hjakka í fjandmanninn með sinni voðalegu exi, þangað til maðurinn hneig niður eftir fáeinar sekúndur, og skal lmeð glamri niður á marmaragólfið, steindauður.

Þetta var fyrsta blóðið, sem út var helt í stríðinu.

„Lokið hliðinu!“ hrópaði eg, og hélt, að okkur kynni að takast að ná Sorais á þennan hátt, og gerði eg mér enga samvizku út af, að fremja þá goðgá. En skipanin kom of seint, varðmenn hennar voru þegar að fara út um hliðin, og eftir svo sem eina mínútu kváðu strætin við af æðislegum hestastökkum og vagnaglamri.

Sorais dró þannig með sér hálfa þjóðina, og innan skamms fór hún eins og hvirfilvindur um Borgina Ógnandi á leið til aðal herstöðva sinna við M'Arstuna, kastala, sem var 130 mílur norður frá Milosis.

Og eftir það var eigi annað sjá og heyra í borg-

inni en endalaust hersveitaþramm og ófriðarviðbúnað, og Umslopagaas gamli fór enn að sitja í sólskininu og brýna rakhnífseggina á Inkosi-kaas.

---

## XIX. KAPITULI.

### *Einkennleg hjónavígsla.*

En það var einn maður, sem ekki tókst að komast út í tíma áður en hliðunum var lokað, og það var Agon æðsti prestur, sem var, eftir því sem við höfðum fulla ástæðu til að halda, aðalbandamaður Sorais, og lífið og sálin í flokk hennar. Þessi undirförli og harðlyndi öldungur hafði enn ekki fyrirgefið okkur dráp vatnahestanna, eða að minsta kosti barði hann því við. Sannleikurinn var sá, að hann ætlaði sér ekki að þola það, að sjóndeildarhringur þjóðarinnar yrði eins rúmur eins og okkar var, og að útlendur lærdómur og útlend áhrif næðu fótfestu í landinu, svo framarlega sem nokkurt færi væri á að afmá okkur. Hann vissi jafnframt að við vorum annarar trúar, og hefir vafalaust daglega borið sáran kvíðboga fyrir því,að við færum að reyna að koma trúarbrögðum okkar inn hjá Zu-vendi mönnum. Einu sinni spurði hann mig, hvort við hefðum nokkur trúarbrögð í okkar landi, og svaraði eg honum, að eftir því sem eg bezt myndi, væru í okkar landi 95 mismunandi trúarbrögð. Það hefði mátt velta honum um með því að snerta hann fjöður einni, þegar hann

heyrði þetta, svo bylt varð honum við; enda er sannarlega ástæða til að vorkenna æðstapresti í þjóðkirkju, sem stendur föstum fótum, þegar sú hugsun fer að ofsækja hann, að von kunni að vera á alt að 95 nýjum trúarbrögðum.

Þegar við fengum að vita, að Agon hefði náðst, fórum við Nýlepþa og Sir Henry að ráðgast um, hvað gera skyldi við hann. Eg lagði það til, að honum yrði haldið ströngu varðhaldi, en Nýlepþa hristi höfuðið og sagði, að það mundi hafa hin verstu áhrif út um landið. „Ó,“ sagði hún og stappaði niður fætinum, „ef eg vinn og verð nokkurn tíma drotning í raun og veru, þá skal eg brjóta á bak aftur vald þessara presta, með þeirra helgisiðum og næturdrykkjum og undirferlis ráðabruggi.“ Eg vildi að eins, að Agon gamli hefði heyrt til hennar; honum mundi hafa brugðið í brún.

„Jæja,‘ sagði Sir Henry, „ef við eigum ekki að taka hann fastan, þá býst eg við að best sé fyrir okkur að sleppa honum. Ekkert gagn gerir hann hér.“

Nýlepþa leit til hans skrítilega, og sagði svo lágt og þurlega: „Heldurðu það, lávarður minn?“

„Já,‘ ‘sagði Curtis, „eg sé ekki að það sé neitt gagn í að halda honum.“

Hún sagði ekker; en hélt áfram að horfa á hann; svipurinn á henni var jafn feimnislegur eins og hann var elskulegur.

Svo skildi hann hana loksins.

„Fyrirgefðu mér, Nýlepþa,“ og var ekki laust við að fát væri á honum, „áttu við það, að þú viljir giftast mér og það jafnvel nú “

„Nei—eg veit ekki; lávarður minn ræður því," sagði hún í flýti, „en ef lávarður minn vill það, þá er presturinn þarna og altarið er þarna"—og hún benti á dyr á prívat-kapellu—,,og er eg ekki reiðubúin að gera vilja lávarðar míns? Hlustaðu á mig, lávarður minn; eftir átta daga eða skemmri tíma verður þú að yfirgefa mig og fara í stríðið, því að þú átt að vera foringi fyrir hersveitum mínum, og — stundum falla menn í ófriði, — en þó svo fari, þá hefi eg notið þín til fulls ofurlítinn tíma, og það vil eg, þó ekki sé nema fyrir sakir endurminningarinnar einnar"; og tárin fyltu hin yndislegu augu hennar og ultu ofan andlitið, líkt og þungir daggardropar velta ofan eftir rauða rósar-bláminu.

„Það getur og verið," hélt hún áfram, „að eg missi kórónu mína, og með kórónu minni fari líf mitt og þitt sömuleiðis. Sorais er kjarkmikil, mjög og frámunalega reið, og vinni hún sigur, þá sýnir hún enga vægð. Hver getur vitað um ókomna tímann? Ánægjan er heimsins hvíti fugl; han nsetur sig sjáldan niður, og hann flýgur hart og langt, þangað til hann hverfur að lokum með öllu uppi í skýjunum. Þess vegna ættum við að halda honum föstum, ef það kemur fyrir, að hann setur sig niður ofur litla stund á hönd okkar. Það er ekki hyggilegt að vanrækja yfirstandandi tíma vegna framtíðarinnar, því að hver veit, hvað framtíðin hefir í skauti sínu, Incubu? Látum okkur tína blóm okkar meðan döggin situr á þeim, þvi að þegar sólin er komin á loft upp, þá skrælna þau, og á morgun blómgast aðrar jurtir, sem við fáum aldrei að sjá." Og hún lyfti upp á

móti honum yndislega andlitinu og brosti inn í augu hans, og enn fann eg til hræðilegra afbrýðissemiskvalar, og sneri mér frá þeim og fór burt. Þau hirtu aldrei mikið um það, hvort eg var viðstaddur eða ekki, hafa víst talið mig gamalt flón, og haldið að það gerði ekki til né frá með mig, og sannast að segja held eg, að það hafi verið rétt skoðað.

Eg fór svo aftur til híbýla okkar og velti fyrir mér gangi hlutanna yfir höfuð, og horfði á Umslopagaas gamla, þar sem hann var að brýna öxina sína fyrir utan gluggann, eins og gammur brýnir nef sitt við hliðina á deyjandi uxa.

Og eftir svo sem hálfan tíma kom Sir Henry á hendings-stökki í ákaflegri fagnaðar-geðshræringu, og var að sækja Good og mig og jafnvel Umslopagaas, og spurði okkur, hvort við vildum ekki vera til aðstoðar við eina verulega hjónavígslu. Við játtum því, eins og nærri má geta, og lögðum af stað til kapellunnar; þar fundum við Agon, og var hann eins ólundarlegur ásvipinn, eins og nokkur æðsti prestur getur verið, enda var það engin furða. Það kom upp að honum og Nýlepðu hafði ekki alveg komið saman um athöfn þá, sem nú var fyrir hendi. Hann hafði afdráttarlaust neitað að vígja þau, eða leyfa nokkrum af prestum sínum að gera það, og því hafði Nýlepþå reiðst mjög, og hafði sagt honum, að þar sem hún væri drotning, þá væri hún höfuð kirkjunnar, og ætlaði að láta hlýða sér. Hún kom þar í raun og veru fram sem nokkurs konar Hinrik 8. Zu-vendimanna, og varð ekki af því skekin, að ef hún vildi

láta gifta sig, þá skyldi hún líka verða gift, og það skyldi einmitt hann gera. *)

Hann neitaði enn, svo að hún beitti við hann eftirfylgjandi röksemdaleiðslu:

„Jæja, eg get ekki líflátið æðsta prestinn, því það mundi þykja ósvinna, jafnvel þó sú skoðun sé fráleitur hleypidómur, og eg get ekki sett hann í fangelsi, af því allir undirmenn hans mundu gera slíkt veður út af því, að stjörnurnar mundu hrapa ofan á *Zu*-vendis og merja landið sundur, en eg get lofað honum að virða fyrir sér altari sólarinnar mat-arlausum, af því það er hans eðlilega köllun, og ef þú vilt ekki gifta mig, Agon, þá skalt þú verða sett-ur þarna fyrir framan altarið og ekkert fá nema of-urlítið af vatni, þangað til þú hefir hugleitt málið af nýju.“

Nú vildi svo til, að Agon hafði farið á stað um morguninn í flýti og engan morgunmat fengið, og hann var þegar orðinn glorhungraður; hann lét því undan tafarlaust og kvaðst skyldi gefa þau saman, en jafnframt sagðist hann þvo að sínum höndum alla ábyrgð á málinu.

Og svo kom Nýlepþa tafarlaust, og fylgdu henni að eins tvær af uppáhalds þernum hennar. Hún var niðurlút en ánægjuroði var á andlitinu, og hún var í mjallahvítum klæðum; á þeim var alls enginn út-saumur, eins og siður virðist vera við slík tækifæri í

---

*) Í *Zu*-vendis verður æðsti presturinn eða lög-legur varamaður hans að gefa saman í hjónaband það fólk, sem heyrir konungsættinni til.

flestum löndum heimsins. Engan einasta skrautgrip hafði hún á sér, hafði enda tekið af sér gullhringana, og fanst mér hún vera enn yndislegri, ef það var annars mögulegt, án þeirra, enda er því svo varið með konur, sem eru óvenjulega fagrar.

Hún kom, hneigði sig djúpt fyrir Sir Henry, tók svo í hönd hans og leiddi hann upp að altarinu, og eftir ofurlitla þögn sagði hún með hægum skýrum rómi eftirfylgjandi orð, eins og venja er til í *Zu-vendis*, ef brúðurin vill og brúðguminn gefur samþykki sitt:

„Þú sver við sólina, að þú skulir aldrei taka þér neina aðra konu fyrir eiginkonu, nema eg leggi á hana hend mína og bjóði henni að koma?“

„Eg sver það,“ svaraði Sir Henry; og svo bætti hann við á ensku: „Ein kona, er alveg nóg fyrir mig.“

Agon hafði setið með ólundarsvip í horni einu nálægt altarinu; nú kom hann fram og tautaði eitthvað í skeggið og bar svo ótt á, að eg gat ekki fylgdst með, en mér virtist það vera bæn til Sólarinnar um að blessa þetta hjónaband og gera það ávaxtarsamt.

Eg tók eftir því að Nýleppa hlustaði mjög vandlega á hvert einasta orð, og síðar fékk eg að vita, að hún hafði óttast að Agon gamli mundi leika á hana og skilja þau í stað þess að gifta þau, með því að lesa ákallið til sólarinnar aftur á bak. Í lok hjónavígslunnar voru þau spurð, eins og tíðkast hjá oss hvort þau ætluðu að taka hvort annað fyrir eiginmann og eiginkonu, og þegar þau kváðu já við því,

kystust þau fyrir framan altarið, og þar með var hjónavígslunni lokið, að svo miklu leyti, sem þarlenda helgisiði snerti. En mér fanst eitthvað vanta enn, og svo dró eg upp bænabók, sem eg hafði haft með mér á öllum mínum síðari ferðum, ásamt Helgisögum Ingoldsbys, er eg les oft í, þegar eg ligg vakandi á nóttunum. Eg gaf vesalings drengnum mínum, Harry, þessa bænabók fyrir nokkrum árum, og þegar hann var dáinn, fann eg hana í munum hans og tók hana aftur til mín.

„Curtis,“ sagði eg, „eg er ekki prestur, og eg veit ekki, hvort það er leyfilegt,sem eg hefi í hyggju —eg veit, að það hefir ekkert lagagildi—en ef þér og drotningin hafið ekkert á móti því, þá langar mig til að lesa yfir ykkur enska hjónavígslu-formálann. Það er mikilsvarðandi spor, sem þér eruð nú að stíga, og mér finst, að þér ættuð, að svo miklu leyti, sem í yðar valdi stendur, að koma að yðar eigin trúarbrögðum.“

„Eg hefi hugsað um þetta,“ sagði hann, „og mig langar til að þér gerið þetta. Mér finst ekki eg vera hálfkvæntur enn.“

Nýlepþa hafði ekkert á móti þessu, því að hún skildi til fulls, að mann hennar langaði til að láta hjónavígsluna fram fara samkvæmt þeirri venju, sem tíðkast í hans eigin landi, og því tók eg til starfa og las formálann frá upphafi til enda eins vel og eg gat; og þegar eg kom að þessu: „Eg, Henry, tek þig Nýlepþa,“ þá lagði eg orðin út, og sömuleiðs orðin: „Eg, Nýlepþa, tek þig Henry,“ og hafði hún vel eftir mér hvert orð. Svo tók Sir Henry gullhring

af litla fingri sínum og lét hann á fingur hennar, og svo framvegis þ,angað til öllu var lokið. Hringurinn hafði verið giftingarhringur móður Curtis, og eg gat ekki að mér gert að fara að hugsa um, hve forviða blessuð Yorkshire-frúin mundi hafa orðið, ef hún hefði getað séð fram í tímann og fengið að vita að giftingarhringur hennar ætti að verða giftingarhringur Nýlepþu, *Z*u-vendi-drotningar.

Af Agon er það að segja, að það var örðugt að halda honum í stilli meðan þessi síðari hjónavígsla fór fram, því hann skildi þegar í stað, að hún var trúarbragðaleg í eðli sínu, og fór vafalaust að hugsa um þessi 95 ný trúarbrögð, sem honum stóð svo mikill stuggur af. Hann hélt sannarlega þá þegar, að eg mundi vera keppinautur hans um æðsta prests embættið, og hataði mig þar af leiðandi. En hvað sem því leið, þá fór hann út á endanum, og ætlaði alveg að rifna af vonsku. Eg vissi að við máttum eiga von á hættu úr þeirri átt.

Og svo fórum við Good út; og Umslopogaas sömuleiðis, og skildum hin sælu brúðhjón eftir ein, en vorum sjálfir í mjög daufu skapi. Það er talið svo, sem hjónavígslur séu gleðiatburðir, en reynsla mín er sú, að því sé alveg öfugt varið, nema ef til vill fyrir þær tvær persónur, sem sérstaklega eiga þar hlut að máli. Með hjónavígslunni slitna svo og svo mörg gömul bönd, og þá knýtast svo og svo mörg ný bönd , og það er ávalt eitthvað raunalegt við þá breytingu. Eg skal nú taka til dæmis þessa hjónavígslu: Sir Henry er einhver sé bezti maður og vinur, sem til er í heiminum, en hann hefir aldrei verið

alveg sami maðurinn síðan þessi litli atburður gerðist í kapellunni. Það er alt af Nýlepþa sem hann er að hugsa um—Nýlepþa frá morgni til kvelds, hvort sem hún er nefnd eða ekki. Og gömlu vinirnir hans—ja, þeir eru auðvitað komnir á það sæti, sem gamlir vinir eiga að skipa, sæti, sem konur láta sér venjulega ant um að þeir skuli skipa, þegar einhver hefir kvænst, og það er óæðra sætið. Já,honum mundi þykja það, ef nokkur segði þetta, en satt er það samt sem áður. Hann er ekki alveg sami maðurinn, og Nýlepþa er undur elskuleg og undur yndisleg, en eg held, að henni þyki gaman að gera honum það skiljanlegt, að hún hafi gifst *honum*, en hvorki Quatermain, né Good eða neinum öðrum. En hvaða gagn er að þessu nöldri og nuddi? Þett er alt rétt og alveg eins og það á að vera ,eins og hver einasta gift kona mun með hægu móti geta sýnt fram á, og eg er eigingjarn og afprýðisamur karlfauskur, þó að eg voni, að eg láti aldrei á því bera.

Svo við Good fórum og mötuðumst steinþegjandi og fengum okkur svo aukreitis góða flösku af gömlu Zu-vendi-víni til þess að hressa upp hugann. En svo kom rétt á eftir einn af aðstoðarmönnum okkar og sagði okkur sögu, og út af henni fengum við nóg að hugsa.

Lesarinn kann að minnast þess, að Alfonse hafði eftir deiluna við Umslopogaas farið burt í frámunalega illu skapi út af rispum þeim er hann hafði fengið. Það er svo að sjá, sem hann hafi farið rétt fram hjá sólarmusterinu, ofan brekkuna, sem musterið stendur efst á, og þaðan inn í yndislega skemti-

garðinn, sem plantaður hefir verið rétt hinu megin við ytri borgarvegginn. Eftir að hann hafði reikað þar fram og aftur dálitla stund, lagði hann af stað heimleiðis, en mætti vagnatrossu Sorais drotningar við ytra hliðið, og var hún á fljúgandi ferð norður-eftir brautinni. Þegar Sorais kom auga á Alfonse, lét hún nema staðar og kallaði á hann. Hann færði sig nær, og var hann þá tafarlaust tekinn höndum, dreginn inn í einn vagninn og fluttur á burt, og grenjaði hann þá hátt, eftir því sem sögumaður okkar sagði, enda get eg vel trúað því, af þeirri þekkingu, sem eg hafði á manninum.

Í fyrstu gat eg enga grein gert mér fyrir því, hvað Sorais gæti gengið til, að vera að flytja vesalings franzmanninn burt með sér Hún gat naumast gert svo lítið úr sér, að reyna að skeyta skapi sínu á manni, sem hún viss að var að eins þjónn. Það var ekki henni líkt, að gera slíkt. En að lokum kom mér ein getgáta til hugar. Eins og held, að eg hafi áður sagt,, báru *Z*u-vendi-menn mikla lotningu fyrir okkur þremur, bæði vegna þess, að við vorum fyrstu útlendingarnir, sem þeir höfðu nokkurn tíma séð, og af því fólk hélt, að við mundum vera næstum því yfirnáttúrlega vitrir. Jafnvel þó tignu mennirnir og prestarnir mundu áreiðanlega taka vel æsingum Sorais gegn „útlendu úlfunum“—“útlendu hýenunum“ væri þó nákvæmari þýðing, þá var, eftir því sem við heyrðum, eigi líklegt að slíkt mundi hafa mikil áhrif á meginþorra þjóðarinnar. *Z*u-vendimenn eru, eins og Aþenumenn forðum daga, alt af að leita að einhverju nýju, og einmitt af því að við vorum svo

nyir meðal þeirra, þá þótti þeim mikið til okkar koma. Jafnframt hafði Sir Henrys tignarlega persóna haft mikil áhrif á þennan þjóðflokk, sem hefir innilegri ást á fegurðinni en nokkur annar þjóðflokkur, sem eg hefi kynnst við. Mönnum kann að þykja mikið varið í fegurðina í öðrum löndum, en í *Z*uvendis er hún næstum því tilbeðin, eins og bezt sést á ást þeirri, sem þjóðin ber til standmynda. Fólkið sagði opinberlega á mörkuðunum, að enginn maður í landinu jafnaðist við Curtis, að því er líkamsfegurð snerti, eins og eingin kona gæti kept við Nýlepþu, að Sorais einni undantekinni, og að því væri jafnt á komið með þeim; og sömuleiðis sagði fólkið, að hann hefði verið sendur af sólinni til þess að verða eiginmaður drotningar þeirra. Af öllu þessu liggur í augum uppi, að æsingarnar gegn okkur voru að mjög miklu leyti út í loftið, og enginn vissi það betur en Sorais sjálf. Þess vegna kom mér til hugar, að hún mundi hafa haldið, að úti um landið, meðal sveitafólksins, mundi vera betra að færa aðrar ástæður fyrir deilunni mill systranna heldur en hjónaband þeirra Nýlepþu og útlendingsins.

Það var enginn vandi í því landi, þar sem svo mörg borgarstríð höfðu átt sér stað, að vekja upp einhverja gamla vonsku ,róta upp í endurminningum um gamlar deilur, og henni tókst það líka innan skamms. En þar sem þessu var nú þannig varið, þá var það þýðingarmikið fyrir hana að hafa sín megin einn af hinum ókunnu, útlendu mönnum, er hún gæti sýnt almúganum sem mikinn útlending, er hefði fundist svo mjög til um, hve málstaður hennar

væri réttlátur, að hann hefði valið þann kost að yfirgefa félaga sína og fylgja hennar merki.

Þetta var vafalaust ástæðan til þess, hve ant henni var um að ná í Good; hann mundi hún hafa notað, ef hún hefði getað, þangað til hann gat ekki lengur gert henni neitt gagn, og svo slept af honum hendinni. En þegar Good hafði komist úr klóm hennar, notaði hún tækifærið til að ná í Alfonse, því að þó hann væri minni vexti en Good, þá voru þeir ekki alveg ólíkir, og ætlaði hún vafalaust að sýna hann í borgunum út í sveitunum, og telja mönnum trú um, að þetta væri hinn mikli Bougwan sjálfur. Eg sagði Good, að eg hygði að þetta mundi vera fyrirætlan hennar ,og það var sjón að sjá framan í hann þá—svo mikil skelfing greip hann við þá hugsun.

„Hvað,“ sagði hann, „ætlar hún að skinna upp það ómenni og láta sem það sé eg. Eg verð að hafa mig burt úr landinu! Mannorð mitt fer gersamlega í hundana.“

Eg hughreysti hann svo vel sem eg gat, en það er ekki þægilegt að verða fyrir því, að afleitur heigull sé sýndur í manns stað um þvert og endilangt land, sem maður er ókunnugur í, og eg gat tekið fullan þátt í gremju hans.

En hvað sem því leið, þá borðuðum við Good um kveldið í þögn, og okkur fanst fremur við hafa komið frá jarðarför vinar okkar en hjónavígslu hans, og morguninn eftir byrjaði starfið fyrir fult og alt. Orðsendingar þær og skipanir, sem Nýlepþa hafði út frá sér sent tveim dögum áður, fóru nú að komast

í framkvæmd, og ógrynni vopnaðra manna streymdi inn í borgina. Við sáum, eins og nærri má geta, Nýlepþu mjög sjaldan, og urðum ekki sérlega mikið varir við Curtis heldur fáeina næstu dagana, en við Good sátum daglega á ráðstefnu með hershöfðingjum og lávörðum, bjuggum til uppdrætti af því, hvernig orustum skyldi tilhaga, ráðstöfuðum því er herliðið skyldi hafa til viðurværis og fata, settum menn til liðsforingja, og gerðum ótal margt annað. Menn komu óspart, og allan daginn sáust á löngu brautunum, sem liggja inn í Milosis, ný og ný hermerki lávarðanna, sem voru að koma frá fjarlægum stöðum til þess að ganga í lið með Nýlepþu

Eftir fyrstu tvo dagana var það augljóst orðið, að við mundum í byrjun ófriðarins eiga yfir að ráða hér um bil 40 þúsundum fótgönguliðs og 20 þúsundum riddaraliðs, og var það all álitlegur liðsafli, þegar þess er gætt, hve tími til að safna liði var skammur, og að hér um bil helmingur af fasta hernum hafði kosið að fylgja Sorais.

En þó að liðsafli okkar væri mikill, þá var þó lið Sorais miklu meira samkvæmt fréttum þeim er njósnarmenn okkar fluttu dag eftir dag. Hún hafði valið sér aðalstöðvar við ramlega víggirtan smábæ, er kallaður var M'Arstuna, og er hann, eins og eg hefi áður sagt, í norður frá Milosis og flyktust allir undir merki hennar í sveitunum þar umhverfis. Nasta hafði lagt á stað ofan úr hálendum sínum og var nú á leiðinni til hennar með hvorki meira né minna en 25 þúsundir fjallabúa, og voru það hræðilegustu hermennirnir, sem til voru í öllu landinu.

Annar voldugur lávarður, Belusha að nafni, er átti heima í héraði því þar, sem mest er alið upp af hestum, hafði komið til liðs við Sorais með 12 þúsundir riddaraliðs, og svo framvegis. Það vår sannarlega ekki annað fyrirsjáanlegt, en að hún mundi fá safnað alt að 100 þúsundum vel vopnaðra manna.

Og svo komu þær fréttir, að hún ætlaði sér að leggja upp frá herbúðum sínum, halda liðinu til Borgarinnar Ógnandi, og eyða landið þar sem hún ætti leið um. Þá varð sú spurning fyrir mönnum, hvort betra mundi vera að eiga orustu við Sorais við Milosis, eða að leggja af stað og berjast við hana á leiðinni. Þegar við Good vorum spurðir til ráða um það atriði, svöruðum við hiklaust, að við hygðum betra að leggja af stað til móts við hana. Við hugðum að það mundi verða talið óttamerki, ef við lokuðum okkur inni í bænum og biðum þangað til á okkur væri ráðist. Það er svo einkar nauðsynlegt, sérstaklega, þegar líkt stendur á og í þetta skifti, og svo ofboðs lítið kann að verða nóg til að snúa hugum manna í eina átt eður aðra—þá er svo einkar nauðsynegt, segi eg, að hafast eitthvað að. Áhuginn fyrir hverju málefni sem er gufar fljótt burt, ef alt stendur í stað. Þess vegna lögðum við það til, að farið yrði af stað og lagt yrði til orustu, þegar við mættum liðsafla Sorais, í stað þess að við biðum þangað til við yrðum dregnir út úr víggirðingum okkar eins og greifingi út úr holu.

Sir Henry var á sama máli og við, og það þarf svo sem ekki að taka það fram, að Nýleppa var það líka, enda var hún líkust tinnu, sem alt af má slá

eld á. Stór uppdráttur af landinu var sóttur og lagður fram fyrir hana. Hér um bil 30 mílur hér megin við M'Astruna, þar sem Sorais var, og rúmar 90 mílur frá Milosis, lá vegurinn yfir skarð, sem var eitthvað hálf þriðja míla á breidd, og voru beggja megin við það skarð skógivaxnar hæðir, sem voru að sönnu ekki háar, en þó ómögulegt að komast um þær með herlið, er mikinn farangur hefði meðferðis. Nýlepþa leit alvarlega á uppdráttinn, og svo kom fram hjá henni þessi skilningshraði, sem er samvaxinn eðli sumra kvenna; hún lagði fingurinn á skarðið, sneri sér að manni sínum og sagði með trúartrausts svip og kinkaði dálítið ljósgula kollinum:

„Hér skalt þú mæta hersveitum Sorais. Eg þekki staðinn; hér skaltu mæta þeim og þyrla þeim á undan þér eins og stormurinn þyrlar dustinu.“

En Curtis var alvarlegur á svipinn og sagði ekkert.

---

## XX. KAPITULI.

### *Bardaginn í skarðinu.*

Á þriðja morgni eftir þennan atburð lögðum við Sir Henry af stað. Að undanteknu fámennu varðliði hafði allur hinn mikli her farið af stað nóttina áður, og var mjög þegjandalegt og tómlegt eftir í borginni Ógnandi. Það var ómögulegt að skilja eftir í borginni neitt setulið, að undanteknum varðmanna-

hóp, er gæta skyldi Nýlepþu sjálfrar, og hér um bil 1,000 mönnum, er af sjúkdóm eða einhverjum öðrum orsökum gátu ekki fylgst með hernum; en með því að það var í rauninni ómögulegt að brjótast inn í borgina, og með því að fjandmenn okkar voru fram undan okkur, en ekki að baki okkar, þá gerði mannfæðin í borginni ekki mikið til.

Good og Umslopagaas höfðu farið með liðinu, en Nýlepþa fylgdi Sir Henry og mér að borgarhliðunum; hún reið á ljómandi fallegum hvítum hesti, sem kallaður var Dagur, og var haldið að hann mundi vera fljótasti og þolnasti hesturinn í *Zu*-vendis. Andlit hennar bar merki um að hún hefði grátið nýlega, en nú voru engin tár í augum hennar, og hún bar skilnaðinn mjög vel, þó að hann hafi hlotið að vera sár raun fyrir hana. Við hliðið tók hún í taumana á hesti sínum og kvaddi okkur. Daginn áður hafði hún litið yfir liðsforingjahóp sinn og ávarpað hann, og hún hafði talað af svo mikilli mælsku, og látið í ljósi svo afdráttarlaust traust á vaskleik þeirra og sigri að lokum, að þeim hafði gengist mjög hugur við, og þegar hún reið fram með röðunum, æptu þeir fagnaðaróp fyrir henni, svo að jörðin hristist. Og þennan dag virtist mér hún vera í sama skapi.

„Vertu sæll, Macumazahn,“ sagði hún. „Mundu að eg treysti hyggni þinni, sem er eins miklu skarpari en hyggni minna manna, eins og nálin er oddhvassari en handfang á spjóti; eg treysti þér til að frelsa okkur frá Sorais. Eg veit, að þú munir gera skyldu þína.“

Eg hneigði mig og skýrði fyrir henni, hvílíka

andstygð eg hefði á orustum, og eg væri hræddur um að eg mundi tapa snarræðinu og rænunni. Hún hló góðmannlega og sneri sér að Curtis.

„Vertu sæll, lávarður minn!“ sagði hún. „Kondu aftur með sigri, og sem konungur, eða á spjótum hermanna þinna.”*)

Sir Henry sagði ekkert, en sneri við hesti sínum til að leggja af stað; vera kann, að kökkur hafi setið í hálsinum á honum. Menn ná sér eftir slíkt, þegar frá líður, en annar eins skilnaður og þetta er örðugur eftir að hafa verið í hjónabandi eina viku að eins.

„Hér,“ bætti Nýlepþa við, „mun eg heilsa þér, þegar þú kemur aftur sigrihrósandi. Og verið nú enn sæll, lávarður minn!“

Svo héldum við leiðar okkar, en þegar við vorum komnir hér um bil 75 faðma, snerum við okkur við, og sáum Sorais sitja á hesti sínum á sama staðnum, skygði hendinni fyrir augun og horfði á okkur, og svo sáum við hana ekki framar. En þegar við vorum komnir hér um bil eina mílu vegar, heyrðum við jódyn á bak við okkur; við litum við og sáum hermann einn koma ríðandi, og teymdi hann Dag, hinn makalausa gæðing Nýlepþu.

„Drotningin sendir hvíta gæðinginn, sem kveðjugjöf til lávarðar síns, Incubu, og biður mig að skila því til lávarðar míns, að þessi hestur sé sá fljótasti og þolnasti, sem til er í öllu landinu,“ sagði hermað-

---

*) Lýtur að þeim sið meðal *Z*u-vendimanna, að bera dauða liðsforingja á grind, sem búin er til úr spjótum.

urinn og hneigði sig fyrir okkur niður að söðulbríkinni.

Sir Henry vildi fyrst ekki taka við hestinum, sagði hann væri of góður fyrir slíka slarkferð, en eg fékk hann til að gera það, með því að eg hélt að Nýlepþu mundi mislíka, ef hann dræpi hendi við honum. Eg hafði þá litla hugmynd um, að hve miklu gagni þessi ágæta skepna mundi koma okkur, þegar okkur lá mest á. Það er skrítið að líta aftur í tímann, og virða fyrir sér, hvernig miklir atburðir snúast á lítilfjörlegum atvikum, sem sýnast hafa orðið af hendingu einni, eins léttilega og eðlilega eins og hurð snýst á hjörum sínum.

Jæja, við tókum við hestinum, og gullfallegur var hann; það var hrein unun að sjá hreyfingar hans, og þegar Curtis hafði beðið manninn að skila aftur kveðju sinni og þakklæti, þá héldum við áfram ferð okkar.

Um hádegi náðum við aftasta hluta herliðsins, og tók Sir Henry nú þegar formlega að sér yfirstjórnina. Því var mikil ábyrgð samfara, og hún lá þungt á honum, en fyrirmæli drotningarinnar í því efni voru svo afdráttarlaus, að annars var ekki kostur en fara eftir þeim. Hann var farinn að finna til þess, að vandi fylgir vegsemd hverri ekki síður en frægð.

Svo héldum við áfram án þess að verða fyrir nokkurri mótstöðu, og sannast að segja næstum því án þess að sjá nokkurn mann, því að íbúar bæjanna og þorpanna, sem leið okkar lá fram hjá, höfðu flestir flúið, með því að þeir höfðu óttast að lenda á milli

hersveitanna og merjast sundur eins og korn malast í smátt milli tveggja kvarnarsteina.

Að kveldi hins fjórða dags tjölduðum við tvær mílur hérna megin við skarð það, er eg hefi áður getið um, því að, eins og eðlilegt var, gekk okkur seint ferðin, þar sem mannfjöldinn var svo mikill. Útverðir okkar færðu okkur þá fregn, að Sorais væri á leiðinni til móts við okkur með alt sitt lið, og hefði tjaldað það kveld 10 mílur hinum megin við skarðið.

Við sendum því fyrir dögun á undan okkur 1500 riddaraliðs til þess að búast fyrir í skarðinu. En naumast var sá flokkur þangað kominn, þegar hér um bil jafn mannmörg riddarasveit úr liði Sorais gerði áhlaup á hann, og tókst þar snörp orusta. Um 30 af okkar mönnum féllu. En þegar fleira bar að af okkar liði, þá létu menn Sorais undan síga, og fluttu með sér þá er fallið höfðu eða særzt af þeirra liði.

Allur þorri liðsins kom í skarðið um miðdagsverðar leytið, og eg verð að segja það, að Nýlepþa hafði valið viturlega; þetta var ágætur orustuvöllur, einkum fyrir þá er liðfærri voru.

Á einni mílu vegar eða meira var svo ógreitt yfirferðar, með fram veginum í skarðinu, að ómögulegt var að koma að miklu liði, þangað til komið var upp á háhrygginn á stórri, grænni landöldu; svo var aflíðandi niður af öldunni hinum megin niður að bökkunum á dálítilli á; og svo lá vegurinn aftur upp á móti eftir enn minni halla, þangað til komið var út á sléttuna hinum megin; frá ölduhryggnum ofan að

ánni var dálítið meira en hálf míla, og frá ánni upp að sléttunni hinum megin var ofurlítið skemmra. Þar sem aldan var hæst var hún tvær mílur og einn fjórðungur mílu á lengd, og var það nákvæmlega breiddin á skarðinu milli skógivöxnu hæðanna; beggja megin við skarðið var jarðvegurinn klettóttur og vaxinn kjarri, og var þar ágætt skjól fyrir hliðarsveitir liðsins, og næstum því ómögulegt að reka þær á flótta þar.

Það var í þeim hallanum á skarðinu, sem nær okkur var, að Curtis skipaði niður liði sínu á þann hátt, sem hann hafði, eftir samráði við æðstu hershöfðingja sína og okkur Good, afráðið að fylkingaskipunin skyldi vera í þeirri miklu orustu, er nú virtist vera fyrir höndum.

Okkar sextíu þúsund mönnum var skipt niður hér um bil á þessa leið: Í miðjunni var þéttskipað 20 þúsundum fótgönguliðs, búnum spjótum, sverðum og skjöldum úr vatnshestahúðum, brjóst -og bakplötum. Þessi liðsafli var brjóst liðsins, og honum til styrktar var varalið, sem saman stóð af fimm þúsundum fótgönguliðs og þrem þusundum riddaraliðs. Beggja megin brjóstsins voru settar sjö þúsundir riddaraliðs í breiðum tígulegum flokkum; en þar fyrir utan, og ofurlítið framar, voru aftur tveir flokkar, og voru í hvorum hér um sjö þúsund og fimm hundruð spjótmenn; það voru hægri og vinstri armar liðsins og voru þeim til styrktar eitthvað fimtán hundruð riddaraliðs. Þetta verða samtals 60 þúsundir manna.

Curtis var yfirforinginn; eg var foringi þeirra

sjö þúsunda riddaraliðs, sem voru milli brjóstsins og hægra armsins; fyrir honum réði Good, og svo voru Zu-vendi foringjar fyrir hinum öðrum herdeildum.

Óðar en við höfðum búist þarna fyrir tók hið mikla lið Sorais að streyma upp á hallann gagnvart okkur, hér um bil mílu fram undan okkur, þangað til alt skarðið sýndist úa og grúa af spjótafjöldanum og jörðin skalf af þrammi hersveitanna. Það var augsýnilegt, að njósnarmenn okkar höfðu ekki farið með neinar ýkjur; andstæðingarnir voru liðfleiri, svo að minsta kosti munaði um þriðjung. Í fyrstu áttum við von á, að Sorais mundi ráða á okkur tafarlaust, því að riddarasveitirnar, sem yzt voru í her hennar, létu nokkuð ófriðlega, en hún hugsaði sig betur um, og þann dag varð engin orusta. Fylkingaskipan í hennar mikla liði get eg ekki lýst nú nákvæmlega, enda yrði það ekki til annars en að rugla lesandann, ef eg færi til þess, en eg get sagt það svona yfir höfuð, að hennar fylkingaskipan var í aðalatriðunum lík okkar fylkingaskipun, nema hvað hennar varalið var miklu meira.

Í vinstra herarmi Sorais, beint á móti okkar hægra armi, var mikill fjöldi dökkleitra villimannlegra manna; þeir höfðu að eins sverð og skjöld að vopnum, og var mér sagt, að það væru tuttugu og fimm þúsundirnar, sem Nasta kom með ofan úr hálöndunum; þeir voru grimmir mjög.

„Eg segi yður satt, Good,“ sagði eg, þegar eg sá þá, „þér vitið af því, þegar þessir piltar fara að ráða á ykkur á morgun!“ Það kom áhyggjusvipur á andlitið á Good, sem ekki var heldur nein furða.

Allan daginn stóðum við á verði og biðum, en ekkert gerðist tíðinda, og að lokum datt nóttin á, og þúsundir varðelda glömpuðu glaðlega á höllunum og fölnuðu svo og dóu eins og stjörnuglamparnir, þegar lengra leið á nóttina, og smátt og smátt varð hljóðara og hljóðara í hverutveggju herbúðunum.

Það var mjög þreytandi nótt, því að auk þess sem líta þurfti eftir óendanlega mörgu, þá var hættan, sem yfir okkur vofði, nagandi. Við vissum að bardaginn, sem við áttum að fá að sjá næsta dag, mundi verða svo stórkostlegur, og mannfallið svo hræðilegt, að það þurfti sannarlega kjarkmikið hjarta til þess að láta ekki alveg bugast af þeirri tilhugsun. Og þegar eg hugsaði um alt það, sem undir úrslitunum var komið, þá kannast eg við að mér varð ilt, og eg varð mjög hryggur af að hugleiða að þessum mikla mannfjölda skyldi vera safnað saman til eyðileggingar, blátt áfram í því skyni að seðja afbrýðissemis-reiði konu einnar. Reiði þessarar konu var það leynda afl, er sendi af stað þennan þétta grúa riddaraliðs, er skauzt eins og eldingar í mannlíki yfir sléttuna, og það var þetta afl, er lét hinar harðsnúnu hersveitir velta saman eins og ský, þegar einn skýstrokkurinn rekst á annan. Það var voðaleg hugsun, og kom mér til að hugsa um ábyrgð þá er hvílir á stórmennum jarðarinnar. Þarna sátum við um hánóttina með föl andlit og hrygg hjörtu og réð-

Og þannig leið tíminn, þangað til alt var búið undir manndráp þau, sem nú fóru í hönd. Og eg lagðist út af og hugsaði og reyndi að fá ofurlitla hvíld, en gat ekki fest svefninn af ótta fyrir morgun-

deginum —því að hver gat sagt, hvað morgundagurinn mundi með sér færa? Eymd og dauða—það var víst og áreiðanlegt; meira vissum við ekki, og eg kannast við það, að eg var mjög hræddur. En eg fann það þá, að það er til einskis að reyna að ráða hina eilífu gátu, framtíðina.

Og svo hætti eg að lokum að brjóta heilann, fann að eg varð auðmjúklega að leggja ráð okkar í hendur forsjónarinnar, sem öllu heldur í jafnvægi, og bíða morgundagsins.

Og að lokum kom upp rauð sólin, og alt komst á kreik í hinum afarmiklu herbúðum með braki og orgi og menn bjuggust til að leggja til orustu. Það var fögur sjón og óttaleg,og gamli Umslopagaas studdist fram á öxi sína og horfði á hana með mannvonzkulegum fögnuði.

„Aldrei hefi eg séð neitt þessu líkt, Macumazahn, aldrei,“ sagði hann. „Orustur minnar þjóðar eru eins og barnaleikur í samanburði við það, sem þetta verður. Heldurðu að þeir berjist þangað til að skríður til skara?“

„Já,‘ ‘svaraði eg dapurlega, „þeir berjast meðan þeir geta uppi staðið. Vertu nú ánægður, því að nú færðu einu sinni fylli þína.“

Tíminn leið, og enn voru engin merki um atlögu. Riddarasveit úr liði Sorais fór yfir ána og reið hægt með fram framfylkingum okkar, og voru þeir augsýnilega að gæta að, hvernig að við ættum aðstöðu og hve mannmargir við værum. Við reyndum ekki að skifta okkur neitt af þeim, því að við höfðum fastráðið að verjast að eins og leggja ekki líf eins ein-

asta manns í sölurnar að óþörfu. Liðið neytti morgunverðar og lagði ekki af sér vopnin, og hver stundin leið af annari. Á hádegi borðuðu mennirnir miðdegisverð, því að við hugðum, þeir mundu verða vaskari í framgöngu, ef þeir væru saddir, og á meðan máltíðin stóð yfir kvað við ópið „*Sorais, Sorais*“ eins og þrumuhljóð úst úr hægra herarmi fjandmanna okkar. Eg tók sjónpípuna, og sá þá greinilega sjálfa „Næturfrúna“; hún var umkringd af glæsilegum liðsforingjaflokki og reið hægt fram með hersveitum sínum. Og jafnframt því sem hún færðist áfram valt áfram þetta öfluga, þrumandi org, líkast skröltinu af tíu þúsund kerrum, eða orgi hafsins, þegar vindurinn snýr sé snögglega, og flytur sævargnauðið til eyrna áheyrendanna, þangað til jörðin hristist og loftið verður fult af hátign hljómsins.

Við gátum þess til að þetta mundi vera inngangurinn að byrjun bardagans, og héldum kyrru fyrir og bjuggumst til að veita viðnám.

Við þurftum ekki lengi að bíða. Alt í einu skutust fram tvær bungumyndaðar riddarasveitir, líkt og logi fram úr fallbyssukjafti, og stefndu ofan hallann suður að árspænunni, fóru fyrst hægt en hertu ferðina meira og meira. Áður en þeir komust ofan að ánni, kom til mín skipan frá Sir Henry um að senda fimm þúsund riddara til þess að mæta liðsaflanum gagnvart mér á því augnabliki, sem riddarasveitir óvinanna tóku að fara upp á hallabrúnina hér um bil 200 faðma fyrir framan fylkingar okkar. Sir Henry var auðsjáanlega hræddur um, að ef slíkum liðsafla, sem þessum riddarasveitum væri lof-

að að ráðast á fótgönguliðokkar, án þess að neinar ráðstafanir væru gerðar, þá mundi fótgönguliðið ekki fá staðist. Eg gerði sem mér var boðið, en hélt sjálfur kyrru fyrir með afganginn af mínum mönnum.

Þessir fimm þúsund riddarar lögðu af stað í fleygmynduðum flokki, og eg verð að segja það, að yfirforingja þeirra tókst mjög vel að stýra þeim. Hann fór á brokki fyrstu hundrað og fimtíu faðmana, og reið svo beint að endanum á bungumynduðu riddarasveitinni, sem eftir því sem eg gat bezt séð, samanstóð af hér um bil átta þúsund mönnum, og var á leiðinni móti okkur. Svo beygði hann alt í einu af leið til hægri handar og hraðaði ferðinni meira, og eg sá stóra fleyginn taka á sig bugðu, og áður en fjandmennirnir gát stillt ferð sína, og snúið sér við gegn okkar mönnum, sá eg að fleygurinn réði á tunguna hér um bil miðja, og varð þá brak mikið, líkt og þegar stórir ísflákar leysast sundur. Mikli fleygurinn gekk inn í hjarta fjandmannasveitar innar, og beggja megin við hann riðluðust riddararnir hundruðum saman, rétt eins og jörðin veltist við fyrir plógnum, eða þó öllu heldur eins og freiðandi vatnið hringar sig og veltist um fyrir framstafni brunandi skips. Alt af stingst fleygurin nlengra og lengra inn, og það er til einksis að tunguendarnir engjast sundur og saman, eins og særður höggormur, og reyna að vernda miðju hennar; enn lengra inn—hamingjunni sé lof! alveg í gegn,og hvert fagnaðarópið kveður við eftir annað frá þúsundum okkar, sem á leikinn horfa; og svo snýr fleygurinn sér

aftur að aðskildum endunum, lemur þá niður, rekur þá áfram eins og hvassviðrið rekur áfram særokið, þangað til loksins að hin mikla riddarasveit fjandmanna vorra fellur saman eins og tómur vetlingur innan um hundruð af þjótandi mannlausum hestum, glampandi sverð og siguróp mótstöðumanna sinna, og svo snýr hún við og hleypir á harða stökki og reglulaust til sinna eigin fylkinga til þess að forða lífinu.

Eg held ekki að þangað hafi komið aftur meira en tveir þriðju af þeim sem lagt höfðu á stað 10 mínútum áður. Fylkingarnar, sem nú voru á leiðinni á móti okkur, til þess að gera áhlaup, lukust upp og sulgu þá, og mínir menn sneru aftur; af þeim höfðu ekki fallið meira en hér um bil fimm hundruð og þótti mér það ekki mikið, þegar eg hugleiddi, hve hörð rimman hafði verið. Eg gat líka séð, að riddarasveitir þær sem voru gengt vinstra herarmi okkar voru að dragast aftur, en um vopnaviðskifti þar veit eg ekki gjörla. Eg get ekki meira gert en lýst því sem gerðist rétt í kringum mig.

Um þetta leiti var hinn þétti manngrúi í vinstra herarmi fjandmanna okkar kominn yfir árspænuna; þar voru nær því eingögu bardagamenn Nöstu; þeir grenjuðu á víxl „Nasta“ eða „Sorais“, og flyktust upp hallann á móti okkur líkt og mauragrúi með blaktandi fánum og blikandi sverðum.

Aftur fékk eg skipan um að reyna að hamla þessum flokki að fara lengra og sömuleiðis átti eg að stöðva aðaláhlaupið gegn brjóstinu á liði voru; til þessa hvortveggja skyldi eg beita riddurum mínum,

og það gerði eg eftir því sem eg frekast gat; eg sendi hvað eftir annað gegn fjandmönnunum riddarasveitir, og voru um þúsund manns í hverri sveit. Riddarasveitir þessar gerðu óvinum okkar mikið tjón og það var dýrðleg sjón að sjá þær skjótast niður hallann og grafa sig, eins og lifandi hnífur, í hjarta fjandmanna liðsins. En við mistum líka margan manninn, því að eftir að óvinir okkar höfðu orðið fyrir einum tveimur af þessum áhlaupum, sem dregið höfðu nokkurs konar St. Andrésar kross gegn um miðbikið á liðsafla Nöstu, þá reyndu þeir ekki lengur að standa ósveigjanlegir fyrir þessu ofurefli, heldur rufu þeir fylkingarnar og létu riddara okkar þeisa í gegn, fleygðu sér niður á jörðina og skáru á hásinarnar á hestum okkar á hlaupunum hundruðum saman.

Og svo færðust óvinir okkar nær og nær; þrátt fyrir alt, sem okkur var unt að gera, þangað til þeir loksins réðust á þær sjö þúsund og fimm hundruð fótgönguliðs, sem Good réð fyrir, og fylkt hafði verið í þremur sterkum ferhyrningum. Á sama tíma heyrði eg líka hræðilegt brak, og réði eg af því, að áhlaup mundi sömuleiðis hafa verið gert á miðbik liðs okkar og vinstra herarminn. Eg stóð upp í ístöðunum og horfði til vinstri hliðar við mig; svo langt sem augað eygði var að sjá einn langan, skínandi stálglampa, því að sólin blikaði á fallandi sverðin og fljúgandi spjótin.

Aftur og fram liðuðust raðirnar í þessari voðarimmu; stundum létu þær undan, stundum fengu þær þokað óvinum sínum ofurlítið aftur á bak í

þessari æðislegu en þó reglulegu áhlaups- og varnariðu. En eg gat ekki veitt athygli öðru en því, sem gerðist okkar megin; og með því riddaraliðið hafði á þessu augnabliki dregið sig aftur fyrir þá þrjá fótgönguliðs-ferhyrninga, sem Good réð fyrir, þá gat eg vel séð hvað gerðist í okkar herarmi.

Hinir æðisgengnu bardagamenn Nöstu ultu í rauðum öldum upp að ferhyrningunum, sem stóðu óbifanlegir eins og klettar. Hvað eftir annað ráku hálendingarnir upp heróp sín, og sentust eins og vitstola á þrjár löngu spjóta-raðirnar, en alt af ultu þeir aftur eins og bylgjur, er þær rekast á klettinn.

Og þannig var barist fjóra langa klukkutíma, svo að segja án þess nokkurt hlé yrði á, og að þeim tíma liðnum höfðu óvinirnir engan bilbug unnið á okkur, þó að við hefðum að hinu leytinu ekkert getað bugað þá. Tvær tilraunir höfðu verið gerðar til þess að snúa við vinstri herarmi okkar, með því að brjótast gegn um skóginn, en þær höfðu ekki tekist; og enn sem komið var hafði mönnum Nöstu, hvernig sem þeir höfðu hamast, alveg mistekist að rjúfa hina þrjá ferhyrninga Goods, þó að Good hefði mist fullan þriðjung af sínum mönnum.

Af brjósti herliðsins, þar sem Sir Henry var með aðstoðarforingja sína og Uslopagaas,er það að segja, að þar hafði orðið manntjón hræðilegt, en samt sem áður höfðu menn okkar þar varist með sóma og ekki látið bugast; og hið sama má segja um vinstra arm herliðsins.

Loksins dró úr áhlaupinu, og herlið Sorais dró sig til baka, og fór eg að halda, að henni mundi nú-

þykja nóg komið. En brátt komst eg að raun um, að mér hafði skjátlast í því efni, því að hún skifti riddaraliði sínu í tiltölulega smáar sveitir, og með þeim gerði hún ofsalegt áhlaup á alla framhlið okkar, og enn ultu tugir þúsunda fótgönguliðs yfir sveitir okkar og ferhyrninga, sem nú voru farnir að veikjast. Sorais stýrði sjál áhlaupinu og hugprúð eins og ljónsynja var hún sjálf þar sem bardaginn stóð. Þeir streymdu áfram eins og snjóflóð — eg sá gullhjálm hennar í fararbroddi — og riddaraliði okkar mishepnaðist algerlega að halda þeim aftur. Þegar þeir réðust á okkur, svignaði miðbik liðs okkar eins og bogi fyrir ofurefli — og rofnaði, og hefðu ekki tíu þúsundirnar, er bak við stóðu sem varalið komið til hjálpar, þá hefði verið úti um þann hluta liðsins. Af hinum þremur ferhyrningum Goods er það að segja, að þeir hröktust afturábak, eins og bátur berst til lands fyrir flóði, og fremsti ferhyrningurinn rofnaði og féll helmingurinn af þeim,sem þar voru eftir, En áhlaupið var of ákaft og hræðilegt til þess að það gæti staðið lengi. Alt í einu var eins og bardaginn tæki breytingu, og svo sem eina eða tvær mínútur gekk ekkert né rak.

Svo fór að koma á hreifing í áttina til herbúða Sorais. Og rétt í því létu hinir áköfu og næstum því ósigrandi hálendingar Nöstu undan síga, annað hvort af því, að þeir höfðu mist huginn við mannfall það, sem orðið hafði þeirra á meðal, eða af kænsku, og hinir fræknu ferhyrningar Goods tóku að fara úr stellingum þeim er þeir höfðu í verið svo margar klukkustundir, ráku upp ofsaleg fagnaðaróp, og voru

svo ógætnir að elta fjandmennina ofan hallann, en þá sneri hálendinga-múgurinn sér við, og luktist utan um þá með óhljóðum. Það sem eftir var af fyrsta ferhyrningnum féll skyndilega, þar sem það þannig var umkringt á alla vegu, og eg sá að annar ferhyrningurinn var rétt kominn að því að verða upprættur; í honum sá eg Good vera að fara á bak stórum hesti. Eftir fáeinar mínútur var og sá ferhyrningur rofinn, og hinir blaktandi fánar hans hingu niður, og eg misti sjónar á Good í því uppnámi og þeim hroðalegu manndrápum, sem nú fóru í hönd.

En rétt á eftir kom rjómalitur hestur með snjóhvítt fax og tagl þjótandi út úr þeim litlu leifum, er eftir voru af ferhyrningnum; hann sentist fram hjá mér mannlaus og taumarnir lömdust út í loftið. Eg þekti, að þetta var hestur sá, er Good hafði riðið. Þá hikaði eg ekki lengur, heldur tók með mér helminginn af því riddaraliði, sem eftir var hjá mér, sem var milli fjögur og fimm þúsund manns, fól mig guði á vald og stefndi beint að mönnum Nöstu, án þess að bíða eftir neinum skipunum. Jódunurinn aðvaraði þá, og þegar þeir sáu til okkar, sneru þeir sér við flestir og veittu okkur snarplegar viðtökur. Þeir vildu ekki víkja einn einasta þumlung; við hjuggum þá niður og riðum á þá ofan, og það var líkast því sem við plægðum upp breiðan, rauðan skurð gegn um þúsundir þeirra, en það varð árangurslaust; þeir sýndust spretta aftur upp hundruðum saman, þeir stungu sínum voðalegu hvössu sverðum inn í hesta okkar, eða skáru með þeim sundur hásinarnar á þeim, og svo hjuggu þeir með þeim menn okkar, þegar

þeir komu til jarðar, svo að segja í smástykki. Minn hestur var skyndilega drepinn undir mér, en til allrar hamingju hafði eg annan hest, því að uppáhaldsskepnan mín, kolsvört hryssa, sem Nýlepþa hafði gefið mér,var höfð til vara fyrir aftan mig,og fór eg síðar á bak henni. En stund varð eg að sjá um mig sjálfan eftir því sem eg bezt gat, því að mínir menn höfðu alveg mist sjónar á mér í uppnáminu.

Auðvitað heyrðu menn ekki, þó eg hrópaði innan um alt vopnabrakið og reiði- og kvala-orgin. Alt í einu varð eg þess var, að eg var kominn inn í hópinn, sem eftir var af ferhyrningnum; þeir höfðu safnast í kringum leiðtoga sinn, Good, og börðust eins og óðir væru til að bjarga lífi sínu. Eg rak mig á einhvern, leit niður og kom auga á glerauga Goods. Hann hafði fallið á kné. Uppi yfir honum stóð stór maðu og veifaði þungu sverði. Mér tókst einhvernveginn að reka hann í gegn með sverðinu, sem eg hafði náð frá-Masaianum,er eg hafði skorið hendina af. En um leið og eg gerða það, kom hann voðalegu höggi með sverði sínu á vinstri síðuna og brjóstið á mér, og þó að hringaskyrtan bjargaði lífi mínu, fann eg að eg hafði meiðst illilega. Eg hneig niður á hendur mínar og kné, og lá þar stundarkorn innan um dauða menn og deyjandi, því það leið yfir mig. Þegar eg raknaði við aftur,, sá eg að menn Nöstu, eða öllu heldur þeir af þeim, sem enn voru á lífi, hörðu látið undan síga og voru að fara yfir ána, og að Good var hjá mér og brosti mjög feginsamlega.

„Nærri lá að illa færi,“ hrópaði hann, „en alt er gott, þegar endirinn er góður.“

Eg lét í ljósi, að eg væri á sama máli, en jafnframt gat eg ekki að því gert, að mér fanst endirinn ekki hafa verið góður fyrir mig. Eg kendi mjög mikið til af meiðslinu.

Rétt í þessu bili sáum við hina minni riddaraflokka, sem settir höfðu verið yst í herarma okkar til hægri og vinstri handar, skjótast fram líkt og örvar og ráða á hliðarsveitir Sorais, er nú voru teknar nokkuð að riðlast; þessar riddarasveitir okkar höfðu nú fengið nýjan styrk, því að inn í þær höfðu gengið þær þrjár þúsundir riddara, sem hafðar höfðu verið til vara, og þetta áhlaup gerði út um bardagann. Eftir svo sem eina eða tvær mínútur var farið að hopa hægt á hæl yfir ána, og þar fyrir handan ána fylkti liðið sér enn af nýju. Svo varð aftur hlé á bardaganum, og meðan á því stóð, tókst mér að ná í hinn hestinn minn, og fékk skipan frá Sir Henry um að halda áfram með mína menn, svo heyrðist djúpt, grimmilegt öskur, fánar blöktuðu og stálvopnin glömruðu, og það sem eftir var af liði okkar tók nú að færa sig ofan eftir, hægt að sönnu, en þó með ómótstæðilegum krafti, frá stöðvum þeim, sem það hafði haldið svo vasklega allan daginn.

Loksins var nú sókn en ekki vörn af okkar hendi.

Áfram færðumst við, yfir háar hrúgur af dauðum og deyjandi mönnum, og vorum rétt komnir niður að ánni, þegar eg alt í einu sá óvenjulega sjón. Ríðandi maður kom á móti okkur, og fór geysihart; hann hélt dauðahaldi utan um hálsinn á hesti sínum og þrýsti náfölri kinninni fast niður í makkann;

hann var kæddur í allan einkenningsbúning zu-vendiskra yfirforingja, en þegar hann kom nær sáum við að þetta var enginn annar en Alfonse okkar, sem við höfðum mist. Það var jafnvel þá ómögulegt annað en þekkja þetta hringsnúna, svart yfirskegg. Svo sem eina mínútu þeysti hann gegnum fylkingar okkar, og slapp með nauðung undan að verða höggvinn sundur, þangað til loksins einhver náði í beislið á hesti hans,og var hann færður til mín meðan augnabliks viðnám átti sér stað til þess að lofa því sem eftir var af okkar tvístruðu ferhyrningum að fylkja sér af nýju.

„Ó, monsieur,“ sagði hann og stóð á öndinni og talaði svo óskýrt af ótta, að örðugt var að greina orðaskil. „guði sé lof, að það eruð þér! Ó, hvað eg hefi liðið! En þér vinnið, monsieur, þér vinnið sigur. Þeir flýja, slóðarnir. En heyrið þér, monsieur — eg gleymdi því, að það er alt til einkis; það á að myrða drotninguna í dögun á morgun í Milosis höllinni; varðmenn hennar ætla að svíkjast af varðstöðvunum og prestarnir ætla að drepa hana. Ó já! þá grunaði það síst, en eg hafði falið mig bak við fána, og heyrði það alt saman.“

„Hvað “ sagði eg, lostinn af skelfingu; „við hvað eigið þér?“

„Eg á við það sem eg er að segja, monsieur; þessi manndjöfull Nasta lagði á stað í nótt til þess að semja um þetta við erkibiskupinn [Agon]. Varðmennirnir ætla að skilja eftir opið litla hliðið, sem liggur frá mikla stiganum, og Nasta og prestar Ag-

ons ætla að fara þar inn og drepa hana. Þeir vildu ekki drepa hana sjálfir.“

„Komið þér með mér,“ sagði eg, hrópaði til þess liðsforingjans, sem var næstur mér, að taka við stjórninni, þreif í beislið á hesti Alfonse og hleypti svo hart sem eg gat í áttina til þess staðar, sem eg sá konungsmerkið blakta; þangað var frá einum fjórða úr mílu til hálfrar mílu, og eg vissi, að þar mundi Curtis vera, ef hann var enn á lífi. Áfram þeystum við, og hestar okkar stukku yfir hrúgur af dauðum og deyjandi mönnum og ösluðu gegnum blóðtjarninrar, áfram fram hjá löngu, rofnu, fótgönguliðs fylkingunum, þangað sem eg sá Sir Henry gnæfa yfir liðsforingja þá er umkringdu hann; hann sat á hvíta hestinum, er Nýlepþa hafði sent honum sem skilnaðargjöf.

Í sama bili og við náðum honum var aftur lagt af stað. Blóðugur dúkur var bundinn um höfuð honum, en eg sá, að auga hans var eins skært og skarplegt og nokkru sinni áður. Við hlið hans var Umslopogaas gamli; öxi hans var rauð af blóði, en sjálfur var hann hress á svipinn og ósærður.

„Hvað er að, Quatermain?“ hrópaði hann.

„Alt. Það hafa verið gerð samtök til að myrða drotninguna á morgun í dögun. Alfonse hérna, sem er nýsloppinn frá Sorais, hefir heyrt alt þetta,“ og eg sagði honum það sem Franzmaðurinn hafði sagt mér, og bar ört á.

Curtis varð náfölur í framan og það kom óstyrkur á kjálka hans.

„Í dögun,“ sagði hann og stóð á öndinni, „og

nú er komið sólsetur; það dagar fyrir klukkan fjögur, og við erum nálega hundrað mílur burtu — níu stundir eftir. Hvað eigum við að gera?“

Mér datt nokkuð í hug. „Er hesturinn yðar óþreyttur?“ sagði eg.

„Já, eg er nýkominn á bak honum — tók hann þegar minn síðasti hestur var drepinn, og honum hefir verið gefið fóður.‘

„Eins er um minn hest. Farið þér af baki, og látið Umslopogaas fara á bak honm; hann er reiðmaður góður. Við verðum komnir til Milosis fyrir dögun, eða ef við verðum það ekki — getum við ekki að því gert. Nei, nei; það er ómögulegt fyrir yður að fara héðan nú. Þér munduð sjást, og það mundi verða til þess að við biðum ósigur. Við höfum enn ekki unnið sigur. Hermennirnir mundu halda, að þér væruð að flýja. Flýtið þér yður nú.“

Eftir eitt augnablik var hann kominn af baki,og Umslopogaas stökk í tóman söðulinn eftir skipan minni.

„Verið þér nú sælir,“ sagði eg. „Sendið þúsund riddara og hesta á eftir okkur innan klukkustundar, ef yður er það mögulegt. Bíðið þér við, sendið yfirherforingja til vinstra herarmsins til þess að taka við stjórninni af mér, og skýra fyrir mönnum þar, hvernig stendur á burtför minni.“

„Þér gerið alt, sem yður er unt, til að bjarga henni, Quatermain,“ sagði hann með grátstaf í kverkunum.

„Já, eg skal gera það. Haldið þér áfram; þér eruð orðinn á eftir.“

Hann leit enn á okkur einu sinni, og svo þeysti hann af stað ásamt aðstoðarforingjum sínum til þess að ná liðinu; það var um þetta leyti að fara yfir ár-spænuna, og var hún nú orðin rauð af blóði hinna föllnu manna.

Af Umslopogaas og mér er það að segja, að við þeyttum burt af vígvellinum eins og örvar þeytast af boga, og fáum mínútum síðar vorum við komnir svo langt, að við gátum ekki séð manndrápin, né fundið lyktina af blóðinu, né heyrt gauraganginn og óhlóðin, sem að eins bárust að eyrum okkar í fjarska, líkt og hlómurinn af brimi langt í burtu.

---

## XXI. KAPITULI.

### *Áfram! Áfram!*

Efst uppi á hallanum námum við staðar svo sem sekúndu til þess að lofa hestum okkar að kasta mæðinni, við snerum okkur við og litum á bardagann fyrir neðan okkur; geislar sólarinnar, sem nú var að ganga undir, lituðu alt svæðið rautt, og sýndist vígvöllurinn líkari einhverju tröllslegu málverki en vanalegum orustuvelli. Hið áhrifamesta, er sást úr þessari fjarlægð, voru ljósglamparnir, sem köstuðust frá sverðunum og spjótunum ;að öðru leyti var sýnin ekki eins tilkomu mikil eins og búast hefði mátt við. Það var eins og stóra, græna graskvosin, sem barist var í, bogadregnu jaðrarnir á hæðunum, og víðáttu-

mikla sléttan hinu megin,—það var, segi eg, eins og þetta alt hjálpaðist til að draga úr sýn þeirri er við nú horfðum á; bardaginn var full voðalegur, þegar maður stóð mitt í honum, en varð lítilfjörlegur, þegar hann sást úr þessari fjarlægð. En er því eigi svo varið með öll málefni og störf mannkynsins? Vér blásum í lúðra fyrir þeim og gerum einstakt númer út af þeim. En hve smávaxin, og siðferðislega og líkamlega aumingjaleg hljóta þau ekki að vera fyrir hinum ástríðulausu augum, er á þau horfa frá hinum bogadregnu himindjúpum uppi yfir okkur!

„Við vinnum, Macumazahn," sagði Umslopogaas gamli; hans æfða auga sá á augabragði, hvernig sakir stóðu. „Sko, hvernig lið Næturfrúarinnar lætur undan á allar hliðar; það er engin harka eftir í því, heldur beygist það eins og heitt járn og berst að eins með hálfu hjartanu. En því miður, það skríður ekki alveg til skara, því myrkrið legst nú yfir, og hersveitirnar geta ekki rekið flóttann og drepið!" og hann hristi höfuðið með sorgarsvip. „En," bætti hann við, „eg held ekki að þeir fari aftur að berjast, við höfum leikið þá of grátt. Ó! það er gott að hafa lifað! Loksins hefi eg séð orustu, sem vert var að sjá."

Um þetta leyti vorum við aftur lagðir af stað, og þar sem við riðum nú samsíða sagði eg honum, hvert erindi okkar væri, og hvernig öll þau mannslíf, sem farist hefðu um daginn, hefðu farist til ónýtis, ef ef við fengjum ekki erindi okkar fram komið.

„Ó," sagði hann, „nærri því hundrað mílur að fara, og þetta einu hestarnir, sem við höfum, og svo

eigum við að vera komnir þangað fyrir dögun! Jæja —áfram! áfram! Það má reyna það, Macumazahn, og hver veit nema við komum í tíma til að kljúfa hauskúpuna á gamla karlinum [Agon]. Einu sinni langaði hann til að brenna okkur, var ekki svo? Og nú ætlar hann að setja snöru fyrir móður mína [Nýlepþa]. Gott og vel! Svo sannarlega sem eg heiti það sem eg heiti, svo sannarlega skal eg kljúfa hann í herðar niður, hvort sem móðir mín er lifandi eða dauð. Já, eg sver það við höfuð T'Chöku!" Og hann veifaði Inkosi-kaas á stökkinu. Nú var farið að dimma en til allrar hamingju var von á tunglinu síðar, og vegurinn var góður.

Áfram þeystum við í rökkrinu; báðir ágætu hestarnir voru nú orðnir liðugir, og þeir linuðu aldrei á sér, hverja míluna eftir aðra. Ofan hallana hleyptum við hestunum á harða stökki, og yfir dalina, sem náðu að rótum hæða, sem enn voru langt í burtu. Nær og nær færðumst við bláu hæðunum; og svo fórum við að færast upp eftir þeim, komumst yfir þær og héldum til annara hæða, er spruttu upp líkt og draumsjónir langt, langt burtu í skuggsýninu.

Áfram! aldrei námum við staðar né hægðum á okkur; áfram í hinni algerðu kyrð næturinnar; áfram, fram hjá mannlausum þorpum, þar sem þunglyndis ýlfur í hungruðum hundum, er gleymst höfðu voru einu kveðjurnar, sem við fengum; áfram, fram hjá einmanalegum víggirtum íbúðarhúsum; áfram í hvíta blettótta tunglsljósinu, er lá kuldalegt á hinu breiða brjósti jarðarinnar, eins og það væri enginn

ylur í því; áfram stig af stigi, eina klukkustundina eftir aðra.

Við mæltum ekki orð frá munni, en hölluðum okkur fram á makkanan á þessum dýrðlegu hestum, og hlustuðum á djúpa, langa andardráttinn þeirra, þegar þeir fyltu stóru lungun, og á reglubundna, staðfasta glamrið af kringlóttu hófunum þeirra. Svartur og geigvænlegur var Umslopogaas sannarlega ásýndum þarna við hliðina á mér, þar sem hann sat á stóra hvíta hestinum, líkur dauðanum í Opinberunarbók Jóhannesar; hann lyfti við og við upp harðneskjulega andlitinu, horfði fram eftir veginum og benti með exinni á hinar og aðrar fjarlægar hæðir eða hús.

Þannig héldum við áfram í sífellu, án þess nokkurn tíma að nema staðar, hvern klukkutímann eftir annan.

Loksins fann eg, að skepnan, sem bar mig, var farin að lýjast, þó ágæt væri. Eg leit á úrið mitt; það var komið fram undir miðnætti,, og við vorum komnir töluvert meira en hálfa leiðina. Efst uppi á hæð einni var ofurlítill lækur, sem eg mundi eftir því að eg hafði sofið við hann fáum nóttum áður, og þar gaf eg Umslopogaas bending um að nema staðar, því að eg hafði afráðið, að lofa hestunum og okkur sjálfum, að kasta þar mæðinni tíu mínútur. Hann gerði það, og við fórum af baki—það er að segja Umslopogaas fór af baki, og hjálpaði mér svo ofan, því svo var eg af mér kominn af þreytu, stirðleik og tilkenning í sárinu að eg komst ekki af baki hjálparlaust; og gæðingarnir okkar stóðu þar og másuðu,

stóðu í fæturna til skiftis, svitinn lak af þeim í dropatali og gufan út frá þeim rauk upp í loftið og hékk svo kyr í næturkyrðinni.

Eg lét Umslopogaas halda í hestana, skjökti að læknum og teygaði ljúffenga vatnið. Eg hafði ekkert fengið nema einn gúlsopa af víni síðan um hádegi, er bardaginn hafði byrjað, og eg var eins og skrælnaður innvortis, þó að eg fyndi ekki til hungurs fyrir þreytunni. Því næst laugaði eg brennheitt höfuðið og hendurnar, og sneri svo aftur, og fór *Zúlúinn* þá að fá sér að drekka. Svo lofuðum við hestunum að fá sér tvo gúlsopa hvorum—ekki meira; og slík og þvílík barátta það var, að ná aumingja skepnunum frá vatninu! Enn voru eftir tvær mínútur, og eg varði þeim til að hökta fram og aftur til þess að reyna að liðka mig dálítið, og gæta að því, í hvaða ástandi hestar okkar væru. Hryssan mín var auðsjáanlega mjög af sér gengin, þó að hún væri ágætisskepna: hún hengdi niður höfuðið og augun voru aumingaleg og deyfðarleg; en Dagur, afbragðið hennar Nýlepþu—sem ætti það skilið að eta úr gulljötu það sem eftir er æfinnar, eins og gæðingurinn, sem bjargaði lífi Rameses, þegar honum lá mest á—Dagur, segi eg, var enn tiltölulega vel hress, þó að hann hefði haft miklu þyngri byrði að bera. Hann var að sönnu nokkuð slæptur og þreyttur í fótunum, en augun voru skýr og hressileg, og fagra höfðinu hélt hann upp réttu og hann horfði út í dimmuna umhverfis sig svo skerpulega, sem hann væri með því að gefa til kynna, að hver sem brygðist þá væri *honum* óhætt með þær fjörutíu og fimm mílur, sem

eftir voru til Milosis. Umslopogaas hjálpaði mér því næst á bak, og svo var þessi gamli skrælingi fjörugur, að hann stökk upp í sinn söðul án þess að snerta ístaðið, og svo héldum við af stað aftur, hryssan mín var mjög stirð og mikið af henni dregið. En það var eins og hún næði sér aftur uppi áhæðinni, og hún brokkaði aftur ofan á móti í löngum krampakendum skrefum, og saup öðru hvoru hveljur. Við fórum þær þrjár til fjórar mílurnar harðara en við höfðum farið nokkurn annan spöl á þessari geysireið okkar, en eg fann, að þetta var hennar síðasta tilraun, enda skjátlaðist mér ekki. Alt í einu beit aumingja skepnan saman tönnunum og þaut áfram eins og óð væri eina 150 til 200 faðma eftir sléttum velli, og svo stakst hún beint á höfuðið, en eg velti mér af henni um leið. Þegar eg var að rísa á fætur, reisti blessuð skepnan upp höfuðið og leit á mig með aumkvunarlegum blóðhlaupnum augum, og svo lét hún höfuðið síga og stundi við og dó. Hjartað hafði sprungið.

Umslopogaas nam staðar við hræið, og eg leit á hann vandræðalega. Enn þurftum við að fara meir en 20 mílur fyrir dögun, og hvering áttum við að komast það á einum hesti? Það sýndist ómögulegt, en eg hafði gleymt því, hver einstakur hlaupagarpur gamli *Zúlúinn* var.

Án þess að segja eitt einasta orð stökk hann úr söðlinum og fór að lyfta mér upp í hann.

„Hvað ætlar þú að gera?“ spurði eg.

„Hlaupa,“ sagði hann og tók í ístaðsólina mína.

Svo lögðum við aftur af stað, og fórum nálega eins hart eins og áður; og hvílík hvíld var það fyrir

mig, að fá hestskiftin! Hver sem riðið hefir langan veg hvíldarlaust veit, hvað slíkt hefir mikla þýðingu.

Dagur þaut áfram með löngu stökki og létti undir *Z*úlúanum með hverju spori. Það var dásamlegt að sjá Umslopogaas gamla hlaupa hverja míluna eftir aðra, með varirnar ofurlítið opnar og nasirnar galopnar eins og á hestinum. Eftir hverjar fimm mílur eða svo námum við staðar í fáeinar mínútur til að lofa honum kasta mæðinni, og svo flugum við aftur á stað.

„Geturðu hlaupið lengra,“ sagði eg þegar við námum þannig staðar í þriðja sinn, „eða á eg að skilja þig hér eftir og eiga von á þér seinna?“

Hann benti með exinni sinni á dimma þústu fram undan okkur. Það var musteri sólarinnar og var nú ekki meira en fimm mílur burtu.

„Eg ætla að ná þangað eða deyja,“ sagði hann másandi,

Ó, þessar síðustu fimm mílur! Skinnið var nuggað af fótunum á mér að innan, og eg kvaldist við hverja einustu hreyfingu, sem hesturinn minn tók. En það var ekki þar með búið. Eg var kominn að niðurfalli af þreytu, matarleysi og svefnleysi, og eg þjáðist líka mikið af högginu, sem eg hafði fengið á vinstri síðuna; það var eins og beinpartur eða eitthvað annað væri að skerast hægt og hægt inn í lungun á mér. Það var líka farið að sverfa hart að aumingja Degi, enda var það ekki nein furða. En það var dögunarlykt í loftinu, og við máttum ekkert standa við; betra var að við dæjum allir þrír á veginum heldur en við tefðum meðan nokkur líftóra var

í okkur.—Loftið var þykt og þungt, eins og það er stundum rétt fyrir dögunina, og einstöku kongulær flutu um það í löngum, seigum vefum—og er það annað óbrygðult merki þess í sumum pörtum Zuvendis, að dögun sé í nánd. Fjöldi af þessum árvökru dýrum, eða réttara sagt vefir þeirra, festust utan í okkur og hestunum, og með því að við höfðum hvorki tíma né þrek til að dusta þá af okkur, þá þeyttum við áfram þaktir hundruðum af löngum, gráum þráðum,, sem flöksuðust hálfan faðm eða meira aftur af okkur—og hefir því hlotið að vera undarleg sjón að sjá okkur.

Og nú stóðu fyrir framan okkur hin miklu málmhlið á víggarði Borgarinnar Ógnandi, og kom þá ný og voðaleg hræsla í hug minn: Hvernig fer ef þeir hleypa okkur ekki inn?

„*Opnið þið! Opnið þið!*“ hrópaði eg valdsmannslega, og gaf jafnframt hið konunglega umgangsorð: „*Opnið þið! Opnið þið!* eg er sendiboði, sendiboði með tíðindi úr stríðinu!“

„Hvaða tíðindi?“ hrópaði varðmaðurinn. „Og hver ert þú, sem ríður svo æðislega, og hver er sá, sem tungan lafir út úr“—og það var satt—„og hleypur með þér líkt og hundur hleypur með kerru?“

„Eg er lávarðurinn Macumazahn, og með honum er hundurinn hans, svarti hundurinn hans. *Opnaðu! Opnaðu!* Eg flyt tíðindi.“

Mikla hliðhurðin snerist við á hjörum sínum, og vindubrúin féll niður með braki og glamri; við þeystum inn um hliðið og yfir brúna.

„Hvað er að frétta, lávarður minn, hvað er að frétta?“ hrópaði varðmaðurinn.

„Incubu veltir Sorais aftur á bak, eins og vindurinn veltir skýi,“ sagði eg og fór með það sama.

Hertu nú einu sinni að þér, vaski hestur, og þú enn vaskari maður!

Dettu nú ekki, Dagur, og haltu í þér líinu, þó ekki sé nema einar fimtán minútur enn, gamli zúlúski kappinn, og þá munu nöfn ykkar geymast um aldur og æfi í annálum þessa lands.

Áfram höldum við, og glömruðu hófarnir við sofandi strætin. Nú erum við að fara fram hjá blómmusterinu—ein míla eftir, ekki nema ein stutt míla —standið þið ykkur, haldið þið í ykkur lífinu, sko, húsin hlaupa sjálf fram hjá okkur. Áfram, góði klárinn minn, áfram—nú eru ekki nema 25 faðmar. Ó! þú sér húsið þitt og skjöktir áfram af öllum mætti.

Guði sé lof, loksins erum við komnir að höllinni! og sjá, fyrstu örvar dagsljóssins eru að hitta gullna hvolfþakið á musterinu. En skyldi eg geta komist inn, eða skal glæpurinn þegar hafa verið framinn og hliðin vera lokuð?

Aftur segi eg umgönguorðið og hrópa: *Opnið þið! opnið þið!“*

Ekkert svar og mér fór að verða ilt fyrir hjartanu.

Aftur kalla eg, og í þetta skifti er svarað, og mér til mikils fagnaðar þekki eg að sá sem undir tekur er Kara, einn af foringjum í lífverði Nýleppu, maður, sem eg vissi að var eins heiðarlegur eins og

dagsljósið—einmitt sami maðurinn, sem Nýlepþa hafði sent til að taka Sorais fasta, daginn sem hún flúði til musterisins.

„Ert það þú, Kara,“ hrópaði eg, „eg er Macumazahn. Segðu varðmönnunum að hleypa niður brúnni og opna hliðið. Fljótt, fljótt!“

Svo leið nokkur tími, sem mér fanst aldrei ætla að taka enda, en að lokum seig brúin niður,og hálfu hliðinu var lokið upp, og við komumst inn í garðinn, og þar féll loksins Dagur niður undir mér og hélt eg í fyrstu að hann væri dauður. Eg reif mig af honum, hallaði mér upp að stólpa einum og leit í kringum mig. Enginn sást, nema Kara, og hann var æðislegur ásýndum og fötin utan á honum voru öll táin. Hann hafði opnað hliðið og hleypt niður brúnnni einn, og var nú að loka hvorutveggju aftur [því að svo var fyrirkomulagið haganlegt, að einn maður átti auðvelt með að gera þetta, enda voru venjulega ekki fleiri við það verk].

„Hvar eru varðmennirnir?“ sagði eg með öndina í hálsinum, og var hræddari við svarið, heldur en eg hafði nokkurn tíma verið við nokkuð áður.

„Eg veit ekki,“ svaraði hann; „fyrir tveimur stundum var eg tekinn í svefni og bundinn, og það var rétt á þessu augnabliki, að mér tókst að slíta af mér böndin með tönnunum. Eg er hræddur, mjög hræddur, um að hér séu svik í tafli.“

Orð hans gáfu mér nýjan þrótt. Eg tók í hendina á honum og staulaðist yfir garðinn; inn mikla salinn, sem var þögull eins og gröfin, að svefnherbergi drotningarinnar. Umslcpogaas fór með okkur

og reikaði eins og drukkinn maður.

Við komum fyrst inn í fremra svefnherbergiz—engir varðmenn; svo inn í hið innra, og þar voru ekki heldur neinir varðmenn. Glæpurinn hafði vafalausa verið drýgður! eftir allar þrautirnar komum við of seint, of seint! Þögnin og mannleysið í þessum stóru herbergjum var hræðilegt, og þjakaði mér líkt og ljótur draumur. Áfram skjögruðum við eins hart og við gátum inn í svefnherbergi Nýlepþu, hugsjúkir og bjuggumst við því versta; við sáum að ljós var í því, og einhevr hélt á ljósinu. Ó! guði sé lof! það er hvíta drotningin sjálf, drotningin heil á hófi. Þarna stendur hún á náttklæðunum, komin upp úr rúminu, hefir vaknað við harkið frá okkur, svefndoðinn er enn yfir augum hennar, og hræðsla og feimnisroði breiðist um hið yndislega brjóst hennar og kinnar.

„Hver er þar?" hrópaði hún. „Hvað á þetta að þýða Ó, Macumazahn, ert það þú? Hví lítur þú út sem sért þú æðisgenginn? Þú kemur eins og sá er illar fréttir færir—og lávarður minn—ó, seg ekki að lávarður minn sé dauður—ekki dauður!" veinaði hún og nísti saman hvítu höndunum.

„Eg skildi við Incubu særðan, en í gærkveldi um sólarlag var hann að stýra árásinni á lið Sorais; vertu þess vegna hughraust. Sorais hefir beðið algerðan ósigur, og herlið þitt ræður yfir landinu."

„Eg vissi það," hrópaði hún upp yfir sig sigri hrósandi. „Eg vissi að hann mundi vinna sigur; og þeir kölluðu hann útlending, og hristu á sér sérviskuhöfuðin, þegar eg fékk honum yfirstjórnina í

hendur! Í gærkveldi um sólsetur, segirðu, og nú er enn ekki dagað? Þetta er — "

„Fleygðu yfir þig skykkju, Nýlepþa," tók eg fram í, „og gefðu okkur vín að drekka; já, og kallaðu á þernur þínar skyndilega, ef þú vilt forða lífinu. Hikaðu nú ekki.

Þegar hún hafði fengið þessa áskorun, hljóp hún að dyratjöldum nokkrum og kallaði inn í eitthvert herbergi hinu megin við þau. Svo lét hún á sig ilskó í flýti og varpaði yfir sig þykkri skykkju, og nú fóru eitthvað 12 hálfklæddar konur að streyma inn í herbergið.

„Komið þið með okkur og mælið ekki orð frá munni," sagði eg við þær; þær störðu á mig eins og tröll á heiðríkju, og héldu sér hver í aðra. Svo fórum við inn í annað framherbergið.

„Gefið þið okkur nú vín að drekka," sagði eg, „og mat, ef þið hafið hann til, því við erum nær dauða en lífi."

Herbergið var notað sem borðstofa fyrir foringjana í lífverðinum, og voru nú nokkrar vínflöskur og dálítið af köldu keti tekið út úr borðskáp einum, og við Umslopogaas drukkum, og fanst okkur lífið koma aftur í æðar okkar, þegar við vorum að renna góða víninu niður.

„Hlusta þú á mig, Nýlepþa," sagði eg um leið og eg setti frá mér tóman bikarinn. „Eru nokkrar tvær þagmælskar konur innan um þessar þernur þínar?"

„Já," sagði hún, „svo er víst."

„Biddu þær þá að fara út um hliðarganginn og

leita til allra þeirra borgara, sem þú getur ímyndað þér að séu þér trúir, og skipaðu þeim að koma með alla þá heiðarlega menn, sem þeir geta saman safnað, til þess að bjarga lífi þínu. Nei, spyr mig einkis; gerðu eins og eg segi þér, og það fljótt. Kara, sem hér stendur, mun ljúka upp fyrir hirðmeyjunum.“

Hún sneri sér við, valdi tvær stúlkur úr hópnum, tók upp aftur það sem eg hafði sagt, og fékk þeim auk þess lista yfir menn þá er hvor þeirra skyldi hlaupa til.

„Farið hratt en leynilega; farið eins og þið ættuð sjálfar lífið að leysa,“ bætti eg við.

Á næsta augnabliki voru þær farnar út úr herberginu með Köru; honum sagði eg að hitta okkur við dyrnar, er lágu frá mikla garðinum að stiganum, jafnskjótt sem hann hefði lokað á eftir stúlkunum. Þangað fórum við Umslopogaas líka, og drotningin og konur hennar með okkur. Á leiðinni rifum við í okkur nokkra munnbita af mat, og þess á milli sagði eg drotningunni það sem eg vissi um hættu þá er yfir henni vofði,og hvernig við höfðum fundið Köru, og hvernig allur lífvörðurinn og þjónarnir væru farnir, og að hún væri alein í þessari miklu höll með konum sínum; og hún sagði mér að sá orðrómur hefði breiðst út um borgina, að okkar herlið hefði verið strádrepið, og að Sorais væri á leiðinni til Milosis sigri hrósandi, og að þar af leiðandi hefðu allir snúið bakinu við henni sjálfri (Nýlepþu).

Þó að nokkurn tíma hafi þurft til að segja frá öllu þessu þá höfðum við ekki verið nema sex eða sjö mínútur í höllinni; og jafnvel þótt sólin væri

farið að glampa á gullþakið á musterinu, af því að það var svo geysihátt, þá var enn ekki kominn dagur, og ekki von á honum fyr en eftir einar tíu mínútur. Við vorum nú í garðinum, og eg hafði svo miklar kvalir í sárinu, að eg varð að láta Nýlepþu leiða mig, en Umslopagaas slingraði á eftir okkur jetandi.

Nú vorum við komnir yfir garðinn og að þröngva hliðinu gegn um hallarvegginn, er lá að stiganum mikla.

Eg leit inn og varð ekki um sel, enda ekki að ástæðulausu. Hurðin var farin, og sömuleiðis ytri málmhurðin — gersamlega horfnar. Þær höfðu verið teknar af hjörunum, og eftir því sem við fengum að vita síðar, hafði þeim verið þeytt frá stiganum niður á jörð, tvö hundruð fet. Þarna fyrir framan okkur var dálítill pallur í hálfhringslögun, hér um bil helmingi stærri en stórt sporöskjulagað matborð, og tíu útskornu svörtu marmaratröppurnar, sem lágu að aðalstiganum — og ekkert annað.

---

## XXII. KAPITULI.

### *Hvernig Umslopagaas varði stigann.*

Við litum hvert á annað.

„Þú sér,“ sagði eg, „að þeir hafa tekið burt hurðina. Er nokkuð til, sem hægt er að fylla upp með í hennar stað? Svaraðu skjótt, því þeir verða

komnir fyrir dögun.“ Eg talaði þannig af því að eg vissi, að annað hvort yrðum við að verja þennan stað eða gefast upp, með því að engar hurðir voru inni í höllinni, ekkert nema tjöld, er greindi eitt herbergið frá öðru. Eg vissi líka, að ef við gætum með nokkrum móti varið þennan gang, gátu morðingjarnir hvergi annars staðar komist inn; því að það var ómögulegt neins staðar annars staðar inn að komast síðan hlaðið hafði verið, eftir skipan Nýlepþu, upp í leynidyrnar, sem Sorais hafði farið um eftirminnilegu nóttina, þegar hún reyndi að myrða systur sína.

„Nú veit eg hvað við eigum að gera,“ sagði Nýlepþa; hún varð venjulega því ráðbetri, sem meira lá á og brást ekki heldur nú. „Hinum megin í garðinum eru höggvin marmarastykki — verkamennirnir fluttu þau þangað nýlega; þau áttu að verða undirstaða undir nýja líkneskju af Incubu lávarði mínum; við skulum hlaða upp í dyrnar með þeim.“

Mér þótti þetta óskaráð; og svo sendi eg eina af stúlkum þeim, sem eftir voru hjá okkur, ofan mikla stigann, til þess að vita, hvort hún gæti ekki fengið neina hjálp í skipakvíunum þar fyrir neðan, því að faðir hennar, sem var auðugur kaupmaður og hafði marga menn í vinnu, hafðist þar við. Aðra stúlku setti eg til að standa á verði og horfa út um hliðið. Þar næst fórum við aftur yfir garðinn, þangað sem höggni marmarinn var; og þar mættum við Köru, sem hafði verið að hleypa út tveim fyrstu sendiboðunum. Þarna var marmarinn, breið, þung stykki,ð hér um bil sex þumlungar á þykt, og hér um bil 80 pund hvert. Þar voru líka einar tvennar litlar börur, sem

verkamennirnir notuðu til að bera marmarann. Við lögðum tafarlaust nokkur stykki á börurnar,og stúlkurnar báru þau að hliðinu.

„Hlusta þú á mig, Macumazahn,“ sagði Umslopagaas, „ef þeir koma þessir piltar, þá ætla eg að verja stigann fyrir þeim, þangað til búið verður að hlaða upp í dyrnar. Nei, nei, það verður hvers manns bani, sem gerir það, farðu ekki neitt að þrefa við mig, gamli vinur. Þetta hefir verið góður dagur, við skulum láta nóttina verða líka góða. Sko, eg ætla að fleygja mér niður og hvíla mig hérna á marmaranum; vektu mig þegar þú heyrir fótatak þeirra nærri, en ekki fyrr, því eg þarf á styrkleik mínum að halda,“ og án þess að segja nokkurt orð frekar, fór hann út fyrir, fleygði sér niður á marmarann og var sofnaður á augabragði.

Nú var eg líka yfirkominn af magnleysi, og varð að setja mig niður við hliðið, og láta mér nægja að segja fyrir um viðbúnaðinn. Stúlkurnar báru að marmarahellurnar, og Kara og Nýlepþa hlóðu þeim upp í hliðið, sem var sex fet á breidd, höfðu helluröðina þrefalda, því að garðurinn hefði orðið gagnslaus, ef hann hefði verið hafður þynnri. En það þurfti að bera marmarann 20 faðma, og þó að stúlkurnar hertu frábærlega mikið að sér, svo að sumar þeirra roguðust jafnvel ein og ein með hellu í fanginu, þá gekk verkið seint, hræðilega seint.

Nú var farið að birta, enda heyrðum við líka í kyrðinni,að komið var að þeim endanum á stiganum sem fjær okkur var, og að vopn glömruðu þar saman, þó að hljóðið væri óglögt. Enn var garðurinn

ekki orðinn nema tvö fet á hæð, og við höfðum verið átján mínútur að hlaða hann. Svo þarna komu þeir. Alfonse hafði þá heyrt rétt.

Vopnabrakið færðist nær; í draugalegu gráu morgunskýmunni gátum við grilt í langar raðir af mönnum, á að gizka fimtíu menn samtals, sem laumuðust hægt upp eftir stiganum. Þeir voru nú komnir miðja vegu upp á pallinn, sem hvíldi á boganum mikla; en þar urðu þeir þess varir, að eitthvað var verið að hafast að uppi yfir þeim, og héldu kyrru fyrir einar þrjár eða fjórar mínútur og réðu ráðum sínum; varð sú bið okkur til mikils gagns; svo lögðu þeir af stað aftur hægt og varlega.

Við höfðum nú verið nálega fjórðung stundar að hleðslunni. Og garðurinn var orðinn nær þrjú fet á hæð.

Þá vakti eg Umslopagaas. Hinn mikli maður stóð upp, teygði úr sér og veifaði Inkosi-kaas yfir höfði sér.

„Gott og vel,“ sagði hann. „Mér finst eg vera ungur maður af nýju. Afl mitt er komið aftur, rétt eins og lampinn blossar upp áður en ljósið deyr. Vertu óhræddur, eg skal berjast vel; vínið og svefninn haf sett í mig nýtt hjarta.

„Macumazahn, mig dreymdi draum. Mér þótti við tveir standa saman á stjörnu einni, og líta ofan yfir heiminn, og þú varst eins og andi, Macumazahn, því ljós skein út í gegn um hold þitt, en eg gat ekki séð, hvernig mínu eigin andliti var háttað. Stundin er komin fyrir okkur, gamli veiðimaður. Látum svo vera; við höfum lifað okkar lífi, en eg vil óska, að

mér hefði auðnast að sjá um dagana fleiri slíkar orustur sem í gær.

„Láttu þá jarða mig eftir sið minnar þjóðar, Macumazahn, og láttu augu mín snúa í áttina til *Zú*lúlands“; og hann tók í hönd mér og hristi hana, og svo sneri hann sér móti fjandmönnunum, sem voru að færast nær.

Rétt í því bili kleif, mér til mikillar furðu, zúvendiski liðsforinginn Kara yfir garðinn á sinn stillilega og þrekmikla hátt, nam staðar hjá *Z*úlúanum og dró um leið sverð sitt úr sliðrum.

„Hvað er þetta, kemur þú líka “ sagði gamli bardagamaðurinn hlæjandi. „Velkominn — velkominn sért þú, hugrakki maður! Heill sé hverjum þeim, sem kann að deyja eins og maður! Gaman er að greipum dauðans og stálglamrinu! Við erum albúnir. Við vætum á okkur nefin líkt og arnir, spjót okkar glampa í sólinni; við hristum axir okkar, og erum hungraðir eftir bardaga. Hver vill heilsa Inkosi-kaas? Hver vill smakka koss hennar, sem hefir dauðann í för með sér? Eg, viðarhöggvarinn, manndráparinn, hinn fótþrái! Eg, Umslopagaas af kynþætti Maquilisins, af Amazulu-þjóðinni, foringi fyrherdeildinni, sem kend er við Nkomabakosi; eg, Umslopagaas Indabazimbisson, Apissonar, Mosilikaatzesona, af konungsætt T'Chöku, eg maðurinn af konungsættinni, hringmaðurinn, eg Induaninn, eg kalla á þá eins og hafur kallar, eg skora á þá að koma, eg bíð þeirra. Ó, það ert þú, það ert þú!“

Meðan hann var að mæla fram, eða öllu heldur tóna, sinn æðislega bardagasöng, komu vopnaðir

menn þjótandi upp stigann, og í skýmunni, sem alt af fór vaxandi, þekti eg þá Nöstu og Agon. Einn stór maður með þungu spjóti þaut upp tíu hálfhringmynduðu tröppurnar á undan félögum sínum og lagði til *Z*úlúans mikla með spjóti sínu. Umslopagaas hreyfði til líkamann en ekki fæturna, svo að maðurinn misti hans, og á næsta augnabliki mölvaði Inkosi-kaas höfuðskelina á honum, og lík hans valt glamrandi ofan stigann. Um leið og hann hneig niður féll kringlótti skjöldurinn úr vatnahestshúðinni úr hendi hans niður á marmarann. *Z*úlúinn laut niður og tók skjöldinn upp — og alt af tónaði hann.

Á næstu sekúndu hafði Kara líka vegið mann, og svo byrjaði slík sýning, að annað eins hefi eg aldrei vitað um.

Upp sóttu árásarmennirnir, einn, tveir, þrír í einu, og jafnóðum og þá bar að molaði öxin og söng í sverðinu. og ofan ultu þeir, dauðir eða deyjandi. Og eftir því sem hríðin harðnaði, virtust augu gamla *Z*úlúans verða hvassari og armleggur hans styrkari. Hann rak upp herorg sín og þuldi upp nöfn höfðingja þeirra sem hann hafði vegið, og höggum axarinnar hræðilegu rigndi niður jafnt og þétt, og lömdust inn úr öllu, sem fyrir varð. Við þessa síðustu ódauðlegu orustu sína viðhafði hann ekki vísindalegu aðferðina, sem honum þótti svo mikið varið í; hann hafði engan tíma til þess, heldur barði hann með öllu sínu afli, og við hvert einasta högg hneig maður niður og valt glamrandi ofan marmaratröppurnar.

Þeir reyndu að höggva hann og saxa með sverðum og spjótum, og særðu hann á einum tólf stöðum,

þangað til blóðlækirnir runnu um hann allan; en skjöldurinn hlífði höfðinu á honum og stálskyrtan öðrum helztu líkamspörtunum, og hverja mínútu eftir aðra varði hann stigann með tilstyrk hins vaska *Zú*-vendimanns.

Loksins brotnaði sverð Köru, hann tók þann fangbrögðum er hann átti þá í höggi við, og þeir ultu saman ofan stigann, og hann hjóst sundur í smáparta og lét lífið eins og dugandi maður, sem hann líka var.

Umslopogaas var nú aleinn, en hvorki hörfaäi hann undan eða sneri sér við. Alt af rak hann upp einhver æðisleg zúlúsk orustuorg, og lamdi niður hvern fjandmann sinn á fætur öðrum, þangað til þeir að lokum hörfuðu aftur á bak ofan af sleipum, blóðvotum tröppunum og störðu á hann frá sér numdir í þeirri ímyndun, að hann væri ekki dauðlegur maður.

Marmaraveggurinn var nú orðinn fjögur fet og sex þumlungar á hæð, og vonin glæddist í hjarta mínu þar sem eg studdist upp að honum eins og aumur, hjálparlaus trédrumbur, og nísti tönnum og horfði á þessar dýrðlegu aðfarir. Meira gat eg ekki gert, því að eg hafði mist skammbyssu mína í bardaganum. Og gamli Umslopogaas, hann studdist líka upp við öxina sína góðu, og þó af honum væri farið að draga vegna sáranna, þá stríddi hann þeim, kallaði þá „konur“ — gamli ágæti bardagamaðurinn, sem stóð þarna einn á móti svo mörgum! Og dálitla stund fékst enginn til að ganga móti honum, þrátt fyrir eggjanir Nöstu, þangað til loksins gamli Agon, sem var hugprúður maður —

það mátti hann eiga — skók mikla spjótið, sem hann hélt á og þaut upp blautar tröppurnar; hann var sem æðisgenginn af reiði, enda sá hann, að garðhleðslunni mundi bráðum lokið, og með því voru fyrirætlanir hans að engu orðnar. „Ó! ó!“ grenjaði *Zúluinn*, þegar hann þekti hvíta flaksandi skeggið á prestinum, „ert það þú, gamli galdraseggurinn! Kondu! Eg bíð eftir þér, hvíti meðalasullarinn; kondu, kondu! Eg hefi svarið að drepa þig, og eg stend æfinlega við eiða mína.“

Hann kom, eins og Umslopagaas sagði honum, og lagði mikla spjótinu til hans af svo miklu afli, að það fór beint í gegn um seiga skjöldinn og særði Umslopagaas á hálsinum. Umslopagaas fleygði niður skildinum, og það var síðasta augnablikið í lífi Agons, því að áður en hann gat losað spjótið aftur úr skildinum og lagt því af nýju, grenjaði Umslopagaas: „*Hafðu þetta, galdrahundurinn þinn!*“ greipaði Inkosi-kaas með báðum höndum, veifaði henni hátt upp í loftinu og rak hana beint niður í velæruverðuga höfuðið á honum, svo að Agon valt dauður niður á lík morðfélaga sinna, og lýkur þar sögunni af honum og undirferlisbrögðum hans. Og í sama bili sem hann féll, heyrðist óp mikið frá neðri enda stigans; við litum út gegn um þann hluta hliðsins, sem enn hafði ekki verið hlaðið upp í, og sáum við þá vopnaða menn þjóta upp okkur til hjálpar, og tókum að kallast á við þá. Þá sneru morðingjarnir, sem enn voru eftir í stiganum — og meðal þeirra sá eg allmarga presta — sér við og ætluðu að flýja, en þeir gátu ekkert komist og

voru höggnir niður þar sem þeir stóðu. Að eins einn maður var eftir, og það var Nasta, lávarðurinn mikli, sem beðið hafði Nýlepþu og hugsað út samsærið. Eitt augnablik stóð þessi svartskeggjaði maður, hneigði höfuðið og studdist við langa sverðið sitt eins og í örvænting, og svo rak hann upp hræðilegt org, þaut líka upp að *Z*úlúanum, veifaði glampandi sverðinu yfir höfði sér og hjó hann svo miklu höggi, að beitta stáleggin á þessu þunga blaði skarst alla leið inn úr hringaskyrtunni og langt inn í síðuna á Umslopagaas, og misti hann máttinn eitt augnablik og lét öxina falla úr hendi sér.

Nasta stökk aftur áfram með uppiyftu sverðinu til þess að gera út af við hann, en hann þekti ekki vel andstæðing sinn. *Z*úlúinn skók sig og rak upp ofsalegt reiðiorg, stökk svo á Nasta og tók utan um hálsinn á honum, eins og eg hefi stundum séð særð ljón stökkva. Nasta var efst í stiganum, og löngu handleggirnir á Umslopagaas vöfðust utan um hann eins og bönd, og svo ultu þeir báðir ofan og brutust um ákaflega. Nasta var sterkur maður og lamdist um af örvæntingaræði, en hann var ekki jafningi sterkasta mannsins í *Z*úlúlandi, sem hafði krafta á við naut, þó að hann væri sár mjög. Eftir eina mínútu var öllu lokið. Eg sá Umslopagaas gamla staulast á fætur, Nasta barðist um, en samt þreif *Z*úlúinn hann upp, rak upp sigurorg og þeytti honum út fyrir hliðargarðinn á brúninni, og molaði hann í smátt á björgunum tvö hundruð fetum fyrir neðan.

Liðstyrkur sá er stúlka sú hafði sótt, sem farið

hafði ofan stigann, áður en morðingjarnir komu upp eftir honum, var nú kominn, og af háu hrópunum, sem bárust inn til okkar frá ytri hliðunum, réðum við, að hreyfing væri komin á í bænum, og að mennirnir, sem stúlkurnar höfðu vakið, væru að kalla til okkar að hleypa sér inn. Nokkrar af hinum hugprúðu hirðmeyjum Nýlepþu, sem starfað höfðu svo vasklega að því að hlaða upp í göngin gegn um vegginn, á náttkjólunum og með hárið flaksandi aftur af höfðunum, alveg eins og þær höfðu komið upp úr rúmunum, fóru nú af stað til þess að hleypa mönnunum inn um hliðargöngin, en aftur fóru aðrar, ásamt hjálparliði því sem komið var, að rífa niður marmarahellurnar, sem þær höfðu lagt svo mikið að sér við að hlaða upp.

Innan skamms var lokið við að rífa hellurnar niður, og þá staulaðist Umslopagaas gamli, og með honum hópur af mönnum þeim er til liðs höfðu komið, inn um göngin, og var hræðilegt að sjá hann, þó að það væri að hinu leytinu eitthvað dýrðlegt við hann. Maðurinn var allur þakinn sárum, og þegar eg leit inn í æðislegu augun í honum, sá eg þegar að hann var kominn að bana. Hringurinn á höfði hans hafði höggvist sundur á tveim stöðum af sverðum, og hafði annað höggið komið rétt fyrir ofan skrítnu holuna á hauskúpunni á honum, og blóðið streymdi í bogum ofan eftir andlitinu á honum. Hægra megin aftan á hálsinum hafði Agon líka komið á hann spjótslagi; djúpur skurður var á vinstra handlegg hans rétt fyrir neðan ermina á hringaskyrtunni, og á vinstri síðunni var sex þuml-

unga langur skurður á hringaskyrtunni; þar hafði hið mikla sverð Nöstu skorist inn úr og langt inn í innýfli mannsins.

Áfram staulaðist hann, ágæti villimaðurinn, með öxina sína í hendinni, hræðilegur ásýndum, og konurnar gleymdu að láta líða yfir sig við að sjá blóð, og æptu að honum fagnaðarópum, eins og þær líka höfðu ástæðu til að gera, en hann nam eigi staðar og leit hvorki til hægri né vinstri. Með útbreidda armana staulaðist hann áfram og slingraði, og við fylgdum honum öll eftir breiða, skeljum stráða ganginum, sem lá yfir garðinn, fram hjá staðnum, þar sem marmarahellurnar lágu, gegn um hliðið með bogaþakinu og inn um þykku tjöldin, sem voru innan við það, inn stutta ganginn og inn í salinn mikla, sem nú var að fyllast af mönnum, er vopnast höfðu skyndilega, og streymdu inn um hliðardyrnar. Beint inn eftir salnum hélt hann, og lá eftir blóðrák á marmaragólfinu, þangað til hann kom loks að steininum helga, sem stóð í miðjum salnum; þá var eins og máttur hans hyrfi, hann nam staðar og studdist upp við öxina sína. Svo hóf hann alt í einu upp raust sína og hrópaði hátt:

„Eg dey, eg dey — en þetta var konungleg senna. Hvar eru þeir, sem komu upp stigann mikla Eg sé þá ekki .Ert þú þar, Macumazahn, eða ertu farinn á undan mér út í dimmuna, sem eg legg nú út í? Blóðið blindar mig — staðurinn hringsnýst — eg heyri nið vatna.“

Svo var eins og honum kæmi nýtt til hugar; hann lyfti upp blóðugri öxinni og kysti blaðið.

„Vertu sæl, Inkosi-kaas,“ hrópaði hann. „Nei, nei, við skulum verða samferða; við getum ekki skilið, þú og eg. Við höfum lifað of lengi hvort með öðru, þú og eg.“

„Eitt högg enn þá, að eins eitt! Gott högg! beint högg! - sterklegt högg!“ Og svo rétti hann úr sér til fulls, rak upp æðislegt hjartaskerandi óp, og tók að veifa öxinni með báðum höndum umhverfis höfuð sér, þangað til hún sýndist eins og glampandi stálhringur. Þar næst rak hann hana niður af voðaafli, ofan í steininn helga. Sægur af neistum flaug upp í loftið, og svo var höggið næstum því yfirnáttúrlega hart, að marmaraklöppin sundraðist með braki miklu í fjölda stykkja, en af Inkosi-kaas sást ekki annað eftir en nokkur stálbrot og upptáið, mölbrotið hornstykki, sem hafði verið skaftið. Brakandi féllu brot hins helga steins niður á gólfið, og brakandi féll á þau ofan gamli vaski *Zúlúinn* — *dauður*, og hélt enn dauðahaldi utan um handfangið á Inkosi-kaas. Þau urðu endalok þeirrar hetju.

Allir, sem horfðu á þessa óvanalegu sjón, stóðu á öndinni af undrun, og svo hrópaði einhver: *Spádómurinn! spádómurinn!* Hann er búinn að mylja sundur steininn helga!“ Og nú varð tafarlaust kliður í salnum.

„Já,“ sagði Nýleppa, með snarræði því sem einkendi hana. „Já, þjóð mín, hann hefir molað sundur steininn helga, og sjá, spádómurinn hefir ræzst, því útlendur konungur ræður yfir Zu-vendislandi. Incubu, lávarður minn, hefir rekið lið Sorais af höndum sér, og eg óttast hana ekki framar, og

sá maður skal sannarlega kórónu fá, sem hefir frelsað hana. Og þessi maður,“ sagði hún og sneri sér að mér og lagði hönd sína á herðar mér, „þessi maður skuluð þið vita að hefir riðið, þótt hann særðist í orustunni í gær, ásamt þessum gamla bardagamanni, sem þarna liggur, eitt hundrað mílur milli sólseturs og sólaruppkomu til þess að frelsa mig úr morðingja-höndum. Já, og hann hefir frelsað mig, þó að litlu munaði, að honum yrði það ómögulegt, og þess vegna skal, fyrir afreksverk þau er hann hefir unnið—afreksverk, sem eru svo dýrðleg, að saga lands vors getur ekki bent á önnur slík —þess vegna, segi eg, skal nafn Macumazahns og nafn hins dauða Umslopagaass, já, og nafn Köru, þjóns míns, sem hjálpaði honum til að verja stigann, verða greipt með gullstöfum yfir hásæti mínu, og verða dýrðleg um aldur og æfi, meðan landið stendur. Eg, drotningin, hefi sagt það.“

Þessari fjörugu ræðu var tekið með hvellum fagnaðarópum, og eg sagði, að í raun og veru hefðum við ekkert gert annað en skyldu okkar, eins og bæði Englendingar og Zúlúmenn séu vanir að gera, og það væri ekki ástæða til að gera neitt veður út af þessu; og þá æptu þeir enn meiri fagnaðaróp, og svo var eg studdur yfir ytri garðinn til minna gömlu híbýla, til þess að eg gæti komist í rúmið. Á þeirri leið varð mér litið á góða hestinn, Dag, sem lá þar á jörðinni og teygði frá sér höfuðið, alveg eins og hann hafði dottið, þegar hann kom inn í garðinn; eg sagði þeim, sem studdu mig, að fara með mig til hans, svo að mér mætti auðnast einu

sinni að lítà á þessa ágætu skepnu, áður en hann væri dreginn burt. Og þegar eg leit á hann, opnaði hann augun, mér til mikillar furðu, lyfti upp höfðinu ofurlítið og hneggjaði veiklega. Eg hefði getað hljóðað upp yfir mig af fögnuði út af því, að hann var ekki dauður, hefði nokkurt hljóð verið til eftir í mér, en þar sem hann nú reyndist lifandi, þá var sent eftir hestasveininum, og honum var lyft upp og víni var helt ofan í hálsinn á honum, og eftir einn hálfan mánuð var hann orðinn eins heilbrigður og hraustur eins og hann hafði nokkru sinni áður verið, og alt fólkið í Milosis þykist af honum og elskar hann; hvenær sem það sér hann, þá bendir það litlu börnunum á hann og segir: „Þarna er hesturinn, sem bjargaði lífi hvítu drotningarinnar.“

Svo hélt eg áfram, fór í rúmið, var þveginn og klæddur úr hringaskyrtunni. Eg kendi allmikið til, meðan á því stóð að koma mér úr henni, enda var það engin furða, því að á vinstra brjóstinu og síðunni var svartur marblettur á undirbolla stærð.

Það næsta, sem eg man, er að eg heyrði jódyn fyrir utan hallargarðinn einum tíu stundum síðar. Eg reis upp í rúminu og spurði, hvað um væri að vera, og mér var sagt að Curtis hefði sent stóran riddaraflokk drotningunni til hjálpar; flokkurinn hefði farið af vígvellinum tveim stundum eftir sólsetur og væri nú kominn. Þegar sá flokkur hafði lagt af stað voru leifarnar af herliði Sorais í hröðu undanhaldi til M'Arstuna, og alt það riddaralið okkar, sem við varð komið, var að veita því eftir-

för. Sir Henry hafði tjaldað yfir leifarnar af sínu örþreytta liði á þeim stöðvum, sem Sorais hafði dvalið á nóttina á undan, og ætlaði að halda til M'Arstuna næsta morgun. Þegar eg hafði heyrt þetta, fann eg að eg gat dáið með rólegum huga, og svo vissi eg ekki af mér meira.

Þegar eg vaknaði næst var kringlótt, vingjarnlegt glerauga það fyrsta sem eg sá, og bak við það glerauga var Good.

„Hvernig líður yður, kunningi?“ sagði rödd einhvers staðar nálægt glerauganu.

„Hvað eruð þér hér að gera?“ spurði eg með veikri rödd. „Þér ættuð að vera við M'Arstuna — hafið þér hlaupist á brott, eða hvað?“

„M'Arstuna,“ svaraði hann glaðlega. „Ó, M'-Arstuna gafst upp í síðustu viku — þér hafið verið meðvitundarlaus hálfan mánuð, sjáið þér — M'-Arstuna gafst upp með öllum viðhafnarmerkjum ófriðar, lúðrahljómi og flaksandi fánum, alveg eins og þeir hefðu unnið, en þá langaði samt sem áður til að komast út úr öllu saman. Ísrael hélt til tjalda sinna, get eg sagt yður — eg hefi aldrei séð aðra eins sjón á minni æfi.“

„Og Sorais?“ spuri eg.

„Sorais — ó, Sorais var tekin höndum; þeir framseldu hana, þorpararnir,“ bætti hann við og röddin breyttist um leið, — „lögðu drotningu sína í sölurnar til þess að halda lífinu í sjálfum sér, sjáið þér. Það er verið að flytja hana hingað, og eg veit ekki, hvað um hana kann að verða, aumingjann!“ og hann andvarpaði.

„Hvar er Curtis?“ spurði eg.

„Hann er hjá Nýlepþu. Hún reið til móts við okkur í dag , og eg get sagt yður það, að viðhöfnin var ekki lítil. Hann kemur að finna yður á morgun; læknarnir (því það er læknaskóli í *Z*u-vendis eins og hvar annars staðar) „héldu að það væri betra að hann kæmi ekki í dag.“

Eg sagði ekkert, en mér fanst einhvern veginn með sjálfum mér, að hann hefði getað litið inn til mín, hvað sem læknarnir segðu; en það gengur svona, að þegar einhver er nýkvæntur og er nýbúinn að vinna mikinn sigur, þá á það vel við hann að hlusta á ráð læknanna, enda er það og alveg rétt gert.

Rétt í þessu heyrði eg rödd, sem eg kannaðist vel við, og sagði hún: „Monsieur verður nú að bæla sig niður aftur“; eg leit upp, og sá afarmikla svarta skeggið á Alfonso hringa sig út í loftið.

„Svo þér eruð hér “ sagði eg.

„Mais oui, Monsieur; stríðið er nú á enda, hernaðar-tilhneigingum mínum er nú fullnægt, og eg er hingað kominn aftur til þess að stunda Monsieur í legunni.“

Eg hló, eða öllu heldur reyndi að hlæja; en hvaða galla sem Alfonse kann að hafa haft sem hermaður (og eg er hræddur um að hann hafi ekki jafnast við hetjuna hann afa sinn í því efni, og sannast það þar, að það er ilt að forfeður manna hafi verið miklu meiri menn en maður sjálfur), þá er það víst, að aldrei hefir nokkur maður hlynt að veikum betur og góðmannlegar en Alfonse gerði.

Vesalings Alfonse! Eg vona að hann hugsi ávalt jafn hlýtt til mín eins og eg hugsa til hans.

Morguninn eftir sá eg Curtis, og Nýlepþu með honum, og hann sagði mér alla söguna af því er gerzt hafði síðan við Umslopagaas þeystum eins og æðisgengnir burt úr orustunni til þess að bjarga lífi drotningarinnar. Mér virtist stjórn hans hafa verið frábærlega góð, og hann hafa sýnt hæfiieika mikla sem herforingi. En vitaskuld hafði manntjónið í okkar liði orðið hræðilega mikið— eg er sannast að segja ekki viss um, hve margir hafa fallið í þeirri afskaplegu orustu, sem eg hefi lýst, en það veit eg að mannfallið var svo mikið, að menn finna glögt til þess, hve miklu færa er eftir en áður af karlmönnum í landinu. Honum þótti mjög vænt um að sjá mig, enda er hann allra bezti maður, og hann þakkaði mér með tárin í augunum fyrir það litla, sem eg hafði getað gert. En eg sá, að hann hrökk hastarlega við, þegar honum varð litið framan í mig.

Af Nýlepþu er það að segja, að fögnuðurinn skein beinlínis út úr henni, vegna þess að nú var „hennar ástkæri lávarður“ kominn heim aftur, jafngóður nema að því leyti að hann hafði ljóta skrámu á enninu. Eg held ekki, að hún hafi látið þau voðalegu manndráp, sem orðið höfðu, skerða hið minsta fögnuð sinn út af því eina atriði; og eg get ekki láð henni það, því það er eðli elskandi kvenna að líta á alla hluti gegnum gleraugu ástarinnar, og þær hirða lítið um eymdir fjöldans, ef ónægju þess *eina* er óhætt. Þetta er mannlegt eðli,

og Pósitívistarnir segja oss að það sé fullkomið einmitt eins og það er; svo það er sjálfsagt rétt.

„Og hvað ætlarðu að gera við Sorais “ spurði eg hana.

Bjarta brúnin á henni fór á augabragði að yglast.

„Sorais,” sagði hún og stappaði fætinum ofurlítið niður; „ó, en Sorais!“

Sir Henry flýtti sér að skifta um umræðuefni.

„Þér komist bráðum á fætur aftur og verðið alfrískur, gamli kunningi,“ sagði hann.

Eg hristi höfuðið og hló.

„Verið þér ekki að draga yður á tálar,“ sagði eg. „Eg kann að geta verið á róli eitthvað dálítið, en eg verð aldrei frískur aftur. Eg er dauðans matur, Curtis. Eg kann að deyja hægt, en deyja hlýt eg. Vitið þér, að eg hefi verið að spýta blóði allan morguninn? Eg skal segja yður það, það er eitthvað að erfiða sig inn í lungun á mér; eg finn það. Látið þér það ekki fá á yður; eg hefi lifað sómasamlega lengi, og eg er reiðubúinn til að deyja. Viltu gera svo vel og rétta mér spegil? Mig langar til að sjá mig.“

Hann færðist einhvernveginn undan því, en eg skildi, hvað hann fór, og lét ekki undan; og að lokum rétti hann mér einn af þessum póleruðu silfurdiskum, sem settir eru í tréumgjörð og notaðir sem speglar í *Z*u-vendis. Eg leit í spegilinn og lagði hann aftur frá mér.

„Einmitt það,“ sagði eg rólega, „eg bjóst við þessu; og þér eruð að tala um, að eg verði frískur

aftur!“ Eg vildi ekki láta þau sjá, hve mikið mér í raun og veru hnykti við að sjá, hvernig eg var ásýndum. Gráa, stríða hárið var orðið snjóhvítt, og gula andlitið á mér hrukkaðist saman eins og á gamalli kerlingu, og tveir dökkrauðir hringir voru fyrir neðan augun.

Nú fór Nýlepþa að gráta, og Sir Henry breytti aftur til um umræðuefnið, sagði mér að myndasmiðirnir hefðu steypt mynd af líki Umslopogaass gamla, og að reisa ætti af honum stóra líkneskju úr svörtum marmara, er sýndi hann þegar hann var að sundra steininum helga, og svo ætti að vera gagnvart henni önnur líkneskja úr hvítum marmara er sýndi mig og hestinn Dag,eins og hann var ásýndum, þegar hann hneig niður undir mér í hallargarðinum, er hinni æðislegu þeysireið var lokið. Eg hefi síðan séð þessar líkneskjur; þær eru, þegar þetta er ritað, sex mánuðum eftir orustuna nær því fullgerðar; og ljómandi fallegar eru þær, einkum líkneskjan af Umslopogaas, sem er alveg eins og hann. Af myndinni af mér er það að segja, að hún er góð, en ljóta andlitið á mér hefir verið gert dálítið fallegra en það er í raun og veru, og er það ef til vill rétt, með því að þúsundir manna sjá að líkindum þessa mynd á komandi öldum, og það er ekki viðfeldið að horfa á það sem ljótt er.

Svo sögðu þau mér, að síðustu ósk Umslopogaas hefði verið fullnægt, og í stað þess að verða brendur, eins og fyrir mér á að liggja, samkvæmt siðvenjunni hér, höfðu kné hans verið bundin uppundir hökuna eftir sið *Zúlúmanna*; svo var hann

vafinn innan í næfurþunna gullblæju og grafinn í holu, sem höggvin var út úr hálfhringmynduðu stéttinni, sem er ofan við stiga þann er hann varði svo ágætlega, og veit stiginn, að svo miklu leyti, sem við getum gert okkur grein fyrir, svo að segja beint í áttina til *Zúlúalands*. Þar situr hann, og mun sitja um aldur og ævi, því að hann var smurður rotnunarvarnandi smyrslum og látinn í lofthelda steinkistu, og heldur vörð fyrir neðan stað þann er hann varði einn fyrir miklum mannfjölda; og fólkið segir, að á nóttunni komi svipur hans upp úr gröfinni og standi og skaki Inksoi-kaas móti vofu-féndum. Og mjög eru menn hræddir við að fara í dimmu þar um, sem hetjan er grafin.

Skrýtið er það líka, að ný saga eða spádómur hefir myndast og breiðst út um landið á þann óskiljanlega hátt sem slíkar sögur myndast meðal viltra og hálfmentaðra þjóða; það er með þær eins og vindinn, að enginn veit hvaðan þær koma, eða hvert þær fara. Eftir þessum spádómi, á sú nýja stigaætt, sem rekur uppruna sinn til hjónabands Englendingsins og Nýlepþu, að ráða ríkjum og blómgast, svo lengi sem *Zúlúinn* gamli situr þarna og horfir ofan á stigann, sem hann varði í lifanda lífi; en þegar hann verður tekinn þaðan á burt, eða þegar bein hans verða, eftir margar aldir, orðin að dufti, þá á ættin að veltast úr völdum, og stiginn að hrynja, og þá á *Zu*-vendi-þjóðin að líða undir lok.

---

## XXIII. KAPITULI.

*Eg hefi lokið máli mínu.*

Það var einni viku eftir að Nýleppa heimsótti mig að eg fór að komast ofur lítið á flakk um miðjan daginn, og kom þá til mín maður með þau skilaboð frá Sir Henry að Sorais mundi verða leidd fram fyrir þau um hádegið í innra herbergi drotningarinnar, og bað hann mig að vera þara viðstaddan, ef mér væri það mögulegt. Eg lagðist því út í að staulast þangað með hjálp litla, góðlynda Franzmannsins, sem er sannarlegur fjársjóður fyrir mig, og annars þjóns, og gekk mér mikið til forvitni eftir að sjá þessa ógæfusömu konu enn einu sinni. Eg komst þangað á undan öllum öðrum, að undanteknum fáeinum æðstu embættismönnum hirðarinnar, sem boðið hafði verið að vera viðstöddum, og eg var naumast seztur niður, þegar Sorais var flutt inn af varðmannaflokki. Hún var eins yndislega fögur og eins hrokaleg eins og hún hafði nokkru sinni áður verið, en það var þreytusvipur á stoltlega andlitinu á henni. Hún var, eins og hún hafði verið áður vön, klædd í konunglegu skykkjuna með merki sólarinnar og í hægri hendinni hélt hún enn þá á litla silfursverðinu. Eg fékk verk fyrir hjartað af

aðdaun og meðaumkvun, þegar eg leit á hana, staulaðist á fætur og hneigði mig djúpt, og gat þess jafnframt, að það hrygði mig að heilsu minni væri svo varið, að eg gæti ekki sæðið frammi fyrir henni.

Hún roðnaði ofurlítið, og hló svo kuldalega. „Þú gleymir því, Macumazahn," sagði hún, „að eg er ekki lengur drotning, nema að ættinni til; eg er afhrak og fangi, sem allir menn eiga að fyrirlíta, og enginn ætti að sýna mér virðingarmerki."

„Þú ert þó að minsta kosti kona," svaraði eg, „og fyrir það eitt ber að sýna þér virðingarmerki. Þú ert líka í nauðum stödd, og þess vegna átt þú tvöfalda heimting á því."

„Ó," sagði hún og hló við lágt, „þú gleymir því, að eg ætlaði að vefja mig innan í gullblæju og hengja þig á engilslúðurinn á efsta tindi musterisins."

„Nei," svaraði eg, „eg segi þér satt, eg hefi ekki gleymt því; eg hugsaði sannarlega oft um það, þegar mér virtist við ætla að bera lægra hlut í orustunni í skarðinu, en lúðurinn er enn þar sem hann er vanur að vera, og eg er hér enn, þó að það verði ef til vill ekki lengi, og til hvers er svo að vera að tala um þetta nú?"

„Ó," hélt hún áfram, „orustan! orustan! Ó, eg vildi að eg væri enn einu sinni drotning, þó ekki væri nema eina stutta stund, til þess að geta hefnt mín á þessum bölvuðum hrædýrum, sem sviku mig, þegar mér lá mest á; menn skyldu ekki tala um þá hefnd nema í hljóði; þessar konur, þessir kynblendingar með dúfuhjörtun, sem létu taka sig," og hún

ætlaði ekki að ná andanum af vonzku. „Já, og þessi litli heigull við hliðina á þér,“ hélt hún áfram og benti á Alfonse með silfursverðinu, svo honum fór ekki að verða um sel; „hann slapp frá mér og kom upp fyrirætlunum mínum. Eg reyndi að gera hann að herforingja, sagði hermönnum mínum að hann væri Bougwan ,og eg reyndi að lemja inn í hann hugrekki“ (Alfonse fór að skjálfa, þegar hann var þannig mintur á þá óskemtilegu ráðningu), „en það kom alt fyrir ekki. Hann faldi sig undir fána í tjaldi mínu, og heyrði á þann hátt allar mínar fyrirætlanir. Eg vildi eg hefði drepið hann, en því miður gerði eg það ekki.“

„Og þú, Macumazahn, eg hefi heyrt hvað þú gerðir; þú ert vaskur maður og trygglyndur. Og svarti maðurinn líka; já, það var *karlmaður.* Mér skyldi hafa þótt gaman, að sjá hann þeyta Nöstu ofan stigann.“

„Þú ert undarleg kona, Sorais,“ sagði eg; „nú bið eg þig að biðja drotninguna Nýlepþu vægðar, ef 'ske kynni að hún miskunnaði þér.“

Hún hló hátt. „*Eg* biðja vægðar!“ sagði hún, og á því augnabliki kom drotningin inn, og með henni Sir Henry og Good. Hún settist niður, og andlitið var rólegt, eins og ekkert væri um að vera. Af Good veslingnum er það að segja, að honum var augsýnilega innilega órótt.

„Heil sért þú, Sorais!“ sagði Nýlepþa eftir stutta þögn. „Þú hefir rifið sundur konungsríkið eins og dulu, þú hefir drepið þúsundir af þjóð minni, þú hefir tvisvar sinnum haft þá óhæfu fyrir

stafni að reyna að myrða mig, þú hefir svarið að lífláta lávarð minn og þeyta mér ofan stigann. Hvað hefir þú að segja, því til sönnunar, að þú eigir ekki skilið að deyja. Tala þú, Sorais!“

„Mér virðist drotningin, systir mín, hafa gleymt þyngstu sökinni,“ svaraði Sorais með sinni hægu, hljómfögru rödd. „Og sökin er þessi: Þú reyndir að vinna ást lávarðar míns, Incubu. Það er fyrir þennan glæp, sem systir mín ætlar að lífláta mig, en ekki fyrir það að eg háði ófrið. Það hefir ef til vill komið sér vel fyrir þig, Nýlepþa, að eg varð of sein til að ráða af að ná ást þessa manns.“

„Hlustaðu á mig,“ sagði hún og brýndi raustina. „Eg hefi ekkert að segja annað en það, að eg vildi að eg hefði unnið, í stað þess sem eg hefi tapað. Ger þú við mig það sem þér þóknast, drotning mín, og lát þú lávarð minn, konunginn þarna“ (hún benti á Sir Henry), „því að nú verður hann konungur, fullnægja dómnum; það er vel til fallið að hann geri það, að hann leiði bölið til lykta, eins og hann átti upptökin að því.“ Og hún teygði úr sér og leit á hann reiðilegu djúpu augunum, og svo fór hún að leika sér að sverðinu sínu.

Sir Henry laut áfram að Nýlepþu, og hvíslaði að henni einhverju, sem eg gat ekki heyrt, og svo tók drotningin til máls.

„Sorais, ávalt hefi eg verið þér góð systir. Þegar faðir okkar dó, var mikið talað um það í landinu, hvort þú ættir að sitja í hásætinu með mér, með því að eg var eldri; þá mælti eg með þér og sagði: „Sannarlega skal hún ráða ríkjum með mér. Við

erum tvíburar; hvers vegna skyldi önnur vera tekin fram yfir hina.“ Og svo hefir ávalt verið gott okkar á milli, systir mín. En nú veizt þú á hvern hátt þú hefir endurgoldið mér, en eg hefi orðið yfirsterkari, og þú hefir fyrirgert lífi þínu, Sorais. Samt sem áður ert þú systir mín, fædd sama daginn sem eg, og við höfum leikið okkur saman í barnæsku, og elskað hvor aðra mjög, og um nætur sváfum við saman í rúminu, og héldum handleggjunum hvor utan um annarar háls, og þess vegna tekur mig sárt til þín, jafnvel nú, Sorais.

„En ekki mundi eg samt vilja vægja lífi þínu fyrir þá skuld, Sorais, því að brot þitt hefir verið of þungt; það dregur niður hina stóru vængi miskunnar minnar,, dregur þá niður að jörð. Og svo mun aldrei verða friður í landinu meðan þú ert á lífi.

„En samt sem áður skalt þú ekki deyja, Sorais, af því að hinn ástkæri lávarður hér hefir grátbænt mig um líf þitt sem miskunnargjöf; þess vegna gef eg þig honum af miskunn minni og sem brúður hans, og má hann gera við þig það sem hann vill, enda veit eg, að þó að þú elskir hann, þá elskar hann þig ekki, Sorais, þrátt fyrir allan fríðleik þinn. Já, sannarlega er því svo varið, og þótt þú, Næturfrúin, sért yndisleg eins og nóttin með öllum hennar stjörnum, þá er það samt eg, konan hans, sem hann elskar, en þig elskar hann ekki, og þess vegna gef eg honum líf þitt.‘ ‘

Sorais roðnaði upp að augum og sagði ekkert, og eg held ekki að eg hafi nokkurn tíma séð mann

aumkvunarlegri ásýndum heldur en Sir Henry var á þessu augnabliki. Því var einhvern veginn svo varið, að enda þótt skýring Nýlepþu á málinu væri sönn og full skilmerkileg, þá var hún ekki eiginlega þægileg.

„Mér skilst,“ sagði Curtis stamandi og leit á Good, „mér skilst sem yður hafi þótt vænt — hm —vænt um — um Sorais drotningu. Mér er — hm —ekki kunnugt um, hvað — í stuttu máli, hvernig tilfinningum yðar er varið, rétt nú; en ef þær skyldu hneigjast í þá átt, þá hefir mér dottið í hug — í stuttu máli, að þá mætti leiða þessi vandræði til lykta á viðunanlegan hátt. Frúin á líka nægar prívateignir, og eg er viss um, að hún fengi að njóta þeirra í friði af okkar hálfu, ekki satt, Nýlepþa? Þetta er auðvitað ekki annað en bending frá mér.“

„Hvað mig snertir,“ sagði Good og roðnaði, „þá er eg fús á að gleyma liðna tímanum; og ef Næturfrúin hyggur mig þess verðan, þá skal eg ganga að eiga hana á morgun, eða hvenær sem hún vill, og reyna að verða henni góður eiginmaður.“

Allir litu til Sorais; það var sama hægðarbrosið á yndislega andlitinu á henni, eins og eg hafði tekið eftir að þar var frá því fyrsta að eg sá hana. Hún þagði ofurlitla stund og ræksti sig, og svo hneigði hún sig djúpt þrisvar sinnum, einu sinni fyrir Nýlepþu, einu sinni fyrr Curtis og einu sinni fyrir Good, og svo tók hún til máls með stillilegri rödd:

„Eg þakka þér, allra mildasta drotning og systir mín, fyrir alla þá ást og blíðu, sem þú hefir

synt mér alt frá barnæsku minni, og sérstaklega fyrir það, að þér hefir þóknast að gefa Incubu lávarði — konunginum tilvonandi — á vald persónu mína og forlög mín. Eg óska, að farsæld, friður og allsnægtir megi líkt og blómkransar þekja æfiferil þeirrar konu, sem svo er mild og góð. Eg óska, að þú megir lengi ráða ríkjum, njóta til fulls ástar eiginmanns þíns, og eignast marga sonu og dætur. Og eg þakka þér, Incubu, lávarður minn og konungsefni, eg þakka þér þúsund sinnum fyrir það, að þér hefir þóknazt að þiggja þessa náðarsamlegu gjöf og gefa hana aftur samriddara þínum, Bougwan lávarði. Og svo þakka eg að síðustu þér, Bougwan lávarður, sem hefir látið svo lítið að þiggja mig og minn vesala fríðleik. Eg þakka þér mikillega, og eg vil bæta því við, að þú ert góður maður, heiðursmaður, og eg legg höndina á hjartað og vinn eið að því, að eg vildi óska að eg gæti gefið þér jáyrði. Og nú, þegar eg hefi þakkað ykkur öllum"—og nú brosti hún aftur — „ætla eg að bæta við fáeinum orðum:

„Lítið skilur þú í eðlisfari mínu, Nýlepþa, og þið, lávarðar mínir, ef þið vitið ekki, að fyrir mig er ekki til neinn millivegur, að eg fyrirlít meðaumkvun ykkar, og hata ykkur fyrir hana, að eg hafna fyrirgefningu ykkar, eins og hún væri höggormsbit, og þó að eg standi hér, svikin, yfirgefin, svívirt og alein, þá hrósa eg samt sigri yfir ykkur, erti ykkur, og býð ykkur byrginn, hverju út af fyrir sig, og öllum til samans, og *svona* svara eg ykkur," og svo rak hún í einu vetfangi, áður en nokk-

urn gat grunað, hvað henni bjó í huga, silfursverðið, sem hún hélt á í hendinni, inn í síðuna á sér með svo styrkri mund, að hvassi oddurinn gekk út um bakið og hneig hún svo áfram niður á gólfið.

Nýlepþa rak upp hljóð, og það lá við að það liði yfir Good veslingin, en við hinir þutum til hennar. En Sorais, Næturfrúin, reis sjálf upp við olboga, hvesti eitt augnablik dýrðlegu augun á andlitið á Curtis, eins og hún vildi kunngera honum eitthvað með augnaráðinu, hneigði svo höfuðið og andvarpaði, og með því andvarpi leið upp af henni hennar harða og þó ágæta önd.

En hvað um það, hún var jörðuð með konunglegri viðhöfn, og svo var ekki meira um hana.

* * *

Það var einum mánuði eftir að síðasti þátturinn í sorgarleik Sorais drotningar gerðist, að viðhafnarmikill atburður fór fram í blómmusterinu; þá var á formlegan hátt lýst yfir því, að Curtis væri konungur yfir *Z*u-vendi ásamt drotningu sinni. Eg var of lasinn til að fara sjálfur; og sannast að segja hefi eg skömm á öllu þess konar, með mannsöfnuðinum og lúðurblæstrinum og fánaslættinum; en Good, sem var þar (í öllum einkennisbúningi) fanst mikið um, og hann sagði mér, að Nýlepþa hefði verið yndisleg, og að Curtis hefði verið verulega konunglegur í framgöngu sinni, og að honum hefði verið tekið með svo miklum fagnaðarlátum, að enginn vafi væri á því hve ástsæll hann væri hjá

alþýðu manna. Sömuleiðis sagði hann mér, að þegar hesturinn Dagur hefði verið leiddur fram í prósessíunni, þá hefði manngrúinn hrópað: „*Macumazahn! Macumazahn!*“ þangað til allir hefðu verið orðnir hásir, og menn hefðu ekki hætt að grenja fyrr en Good hafði staðið upp í vagni sínum og sagt þeim, að eg væri svo veikur, að eg hefði ekki getað verið viðstaddur.

Síðan kom Sir Henry, eða öllu heldur konungurinn að finna mig. Hann var mjög þreytulegur á svipinn, og fullyrti, að sér hefði aldrei leiðst eins mikið á æfi sinni. En eg er viss um, að það hafa verið dálitlar ýkjur. Það er ekki samkvæmt mannlegu eðli, að finna ekki til neins annars en leiðinda við jafn-óvenjulegt tækifæri; enda benti eg honum á það, að það væri makalaust, að maður, sem fyrir litlu meira en einu einasta ári síðan hefði komið í stórt land, og ekki vera annað en óþektur ferðalangur, og skyldi nú vera kvæntur landsins indælu og ástsælu drotningu, og settur á veldisstólinn af fagnandi þjóðinni, og eg fór jafnvel svo langt, að skora á hann að láta ekki dramb og viðhöfn óbundna einveldisins fá vald yfir sér, heldur leitast ávalt við að minnast þess, að fyrst og fremst væri hann kristinn gentlemaður, og þar næst þjónn almennings, sem forsjónin hefði sýnt mikla og nær því dæmalausa tiltrú. Það hefði ekki verið neitt undarlegt, þó að hann hefði þykst við þessar athugasemdir, en hann sýndi mér þau vinahót að taka þeim með þolinmæði og jafnvel þakka mér fyrir þær.

Það var rétt eftir þennan viðhafnar-atburð, að

eg lét flytja mig í hús það, sem eg er nú að skrifa í. Það er á mjög skemtilegum stað úti á landinu, hér um bil tvær mílur fyrir utan Borgina Ógnandi, og sést yfir hana héðan. Síðan eru liðnir fimm mánuðir, og hefi eg verið við rúmið síðan, en varið þessum tómstundum mínum til þess að taka saman þessa sögu um ferðalag okkar, og hefi eg sumpart farið eftir dagbók minni, sumpart eftir minni okkar félaganna sameiginlega. Líklegt er, að hún verði aldrei lesin, en það gerir ekkert til, hvort það verður eða ekki; eg hefi að minsta kosti getað stytt mér margar þrautastundir með þessu starfi, því að eg hefi haft miklar þrautir á síðustu tímum. En guði sé lof fyrir, að nú eru þær á enda áður en langt líður.

* * *

Vika er liðin síðan eg ritaði það, sem hér stendur að ofan, og nú tek eg mér penna í hönd í síðasta sinn, því eg veit að stundin er komin. Ráð mitt og ræna er enn óskert og eg get skrifað, en á þó örðugt með það. Kvölin í lungunum í mér hefir verið mjög ill síðastliðna viku, en nú er hún alt í einu gersamlega horfin, og í hennar stað hefir komið tilfinningarleysi, og getur mér ekki skjátlast viðvíkjandi því, hvers fyrirboði það muni vera. Og jafnframt því sem kvölin hefir horfið,, þá hefir og alt í einu horfið með henni öll hræðsla við dauðann og eg hefi enga aðra tilfinningu en þá, að nú eigi fyrir mér að liggja að fá óumræðilega hvíld. Eg

legst út af í faðminn á dauða-englinum glaður, ánægður, og með sömu öryggistilfinningunni, sem börnin hafa, þegar þau leggjast út af í skaut móður sinnar. Nú er horfinn allur þessi skelkur, allur þessi kveljandi ótti, sem hefir ofsótt mig alt mitt líf, er mér virðist nú orðið langt, þegar eg lít yfir það; stormarnir eru um garð gengnir, og stjarna vorrar eilífu vonar skín björt og stöðug á sjóndeildarhringnum, sem virðist svo fjarri manni, og er þó svo nærri mér í kveld.

Svo þannig er nú endalyktin; stuttur vandræða tími, fáein hvíldarlaus angistar-ár, og svo faðmurinn á hinum mikla engli dauðans. Mörgum sinnum hefi eg nærri honum verið,margan félaga minn hefir sá faðmur lukzt utan um jafnvel rétt við hliðina á mér, og nú er loksins að mér sjálfum komið, og það er vel farið. Eftir tuttugu og fjórar stundir verður heimurinn horfinn sjónum mínum, og með honum allar hans vonir og allur hans ótti. Loftið lokast yfir það rúm, sem eg hefi fylt, og eg þekkist ekki framar þar sem eg hefi áður verið; því að andi gleymskunnar í heiminum blæs fyrst óskýrri móðu á endurminninguna um mig, og þurkar hana svo út til fulls og alls, , og þá verð eg í sannleika dauður. Svo er því varið með oss alla. Hve margar miljónir manna hafa ekki legið eins og eg ligg, og hugsað þessar sömu hugsanir og gleymzt! fyrir mörgum, mörgum þúsundum ára hugsuðu þeir þær, þessir deyjandi menn í hinni dimmu fortíð; og mörgum, mörgum þúsundum ára hér á eftir munu niðjar þeirra hugsa þær, og gleymast sömuleiðis. "Eins

og andi uxans að vetrarlagi, eins og fljóta stjarnan, sem þýtur fram með skýinu, eins og litli skugginn, sem hverfur við sólsetrið“, eins og eg heyrði einu sinni *Zúlúa* einn, Ignosi að nafni, komast að orði, svo er líf vort, lífið, sem líður á braut.

Jæja, þetta er ekki góður heimur—enginn getur sagt, að svo sé, nema sá sem viljandi lokar augum sínum fyrir sannleikanum. Hvernig getur sá heimur verið góður, sem hefir peningana fyrir hreyfiafl, og sjálfselskuna fyrir leiðarstjörnu? Það er ekki undarlegt, að hann er vondur, en hitt er meiri furða, að nokkuð gott skuli vera eftir í honum.

Samt sem áður þykir mér nú, þegar lífið er liðið, vænt um að hafa lifað; mér þykir vænt um að hafa þekt andann af konuást, og þá sönnu vináttu, sem getur jafnvel yfirstígið ást konunnar; mér þykir vænt um að hafa heyrt hlátur litlu barnanna, að hafa séð sólina, og tunglið og stjörnurnar, að hafa fundið koss salta sjávarins á andliti mínu, og að hafa horft á veiðidýrin, þegar þau ganga í halarófu ofan að vatninu í tunglsljósinu. En mig mundi ekki langa til að lifa lífið aftur, þó að eg ætti kost á því.

Alt er að breytast fyrir mér. Dimman er að færast nær og ljósið hverfur á braut. Og þó virðist mér eg geta gegn um þessa dimmu séð nú þegar fagnaðar-kveðju á mörgu andliti,sem eg fyrir löngu átti á bak að sjá. Harry er þar og fleiri; eina konu sé eg þar öllum betur, hana, sem mér hefir þótt yndislegust og fullkomnust af öllum konum, sem

nokkurn tíma hafa glatt menn á þessari leiðindajörð. En um hana hefi eg annars staðar ritað, og það nokkuð langt mál, svo til hvers er að vera að tala um hana hér? Hvers vegna ætti eg að fara að tala um hana eftir þessa löngu þögn, þar sem hún er nú svo nærri mér!

Sólin er að setjast, og gullþakið á musterinu mikla er eins og einn blossi, og fingurnir á mér eru orðnir þreyttir.

Svo rétti eg út hönd mína frá þessari fjarlægu strönd til allra, sem hafa þekt mig, eða geta hugsað hlýlega til gamla veiðimannsins, og kveð þá í síðasta sinni.

Og nú fel eg anda minn í hendur almáttugs guðs, sem sendi hann.

„Eg hefi lokið máli mínu," eins og Zúlúarnir segja.

---

## XXIV. KAPITULI.

### *Ritað af öðrum.*

Eitt ár er liðið síðan okkar ástkæri vinur, Allan Quatermain, ritaði orðin: *„Eg hefi lokið máli mínu"* í lok sögunnar af æfintýrum okkar. Eg hefði ekki dirfst að bæta neinu við þá sögu, hefði ekki svo viljað til, að mjög undarlegur möguleiki til að koma henni til Englands hefir komið upp. Það er

að sönnu mjög tvísýnt, að hún komist nokkurn tíma alla leið, en með því að ekki eru nein líkindi til að það verði framar nokkur tök á því meðan við Good lifum, þá höldum við að bezt sé að nota þetta tækifæri, þó að það sé ekki betra en það er. Um síðustu sex mánuði hafa ýmsir umboðsmenn stjórnarinanr verið að starfa hér og þar á landamærum *Z*ú-vendis, og leita að því, hvort nokkurs staðar sé hægt að komast út úr landinu eða inn á það, og áranguriinn af þeirri leit er sá, að fundist hafa göng, sem hægt er að komast um inn og út, og hafa menn ekki vitað af þeim göngum áður. Það virðist svo, sem þetta séu einu göngin, sem til eru, og nú á að fara að loka þeim til fulls og alls. (Eg hefi komist að því, að það var um þessi göng, að Afríkumaður sá komst inn í landið, sem að lokum komst að trúboðastöð Mr. Mackenzies; því að það var satt, að hann kom til landsins hér um bil þremur árum á undan okkur, en prestarnir, sem hann var færður til, fóru af einhverjum ástæðum með komu hans og burtrekstur úr landinu, eins og mannsmorð). En áður en göngunum verður lokað, á að senda mann með þetta handrit, og sömuleiðis á hann að fara með eitt eða tvö bréf frá Good til vina hans, og með bréf frá mér til Georgs bróður míns; mig hryggir sárt að hugsa til þess að fá aldrei að sjá hann aftur; efnið í þessum bréfum okkar Goods er það, að vinum hans og Georg bróður mínum sé velkomið að kasta eignarrétti á eigur okkar á Englandi, svo framarlega sem erfðadómstóllinn leyfir það, með því að við erum staðráðnir í að fara aldrei

aftur til Norðurálfunnar. Snnleikurinn er líka sá, að okkur væri ómögulegt að komast hér eftir út úr *Zú*-vendis, jafnvel þótt okkur langaði til þess.

Sendimaðurinn, sem á að fara þessa ferð, er Afonse, og eg óska honum góðrar ferðar. Hann er fyrir löngu orðinn dauðþreyttur á *Zú*-vendis, og íbúum þess. „Oh, oui, c'est beau“, segir hann, og yptir öxlum; „mais je m'ennui: ce n'est pas chic.“ Svo kvartar hann hræðilega um, að hér séu engin veitingahús né leikhús, og andvarpar sí og æ út af Annettu sinni, enda dreymir hann hana þrisvar á viku. Alla Frakka langar heim til ættjarðar sinnar, og Alfonse líka, en annars held eg að aðalorsökin til óbeitar þeirrar sem hann hefir á landinu sé sú, þó hann láti ekki á því bera, að fólk hlær að honum svo neyðarlega fyrir frammistöðu hans í orustunni miklu í skarðinu fyrir hér um bil átján mánuðum, þegar hann faldi sig undir fána í tjaldi Sorais til að komast hjá því að verða sendur af stað til að berjast; hann segir, að það hefði verið gagnstætt sinni samvizku. Jafnvel litlir drengir kalla til hans á strætunum svo hann fyrirverður sig, og lífið er honum óbærilegt fyrir þetta. Að minsta kosti er hann staðráðinn í að leggja út í ógnir þessarar ferðar, sem næstum því dæmalausir örðugleikar og hættur eru bundnar við, og sömuleiðis að hætta á það að lenda í höndunum á frösku lögreglunni út úr ofurlítilli ógætni, sem honum varð á fyrir nokkrum árum (þó að eg haldi ekki að það mál sé sérstaklega alvarlegt); hann vill alt þetta heldur en dvelja lengur í þessu leiðinda landi. Veslings

Alfonse! okkur þykir mjög fyrir að skilja við hann; en eg treysti því einlæglega bæði hans vegna og vegna þessarar sögu, sem er, að því er eg held, þess verð að heimurinn fái að lesa hana, að hann komist alla leið heill á hófi. Ef honum tekst það, og hann getur borðið fjárstjóð þann í óstimpluðum gullklumpum, sem við höfðum búið hann út með, þá verður hann tiltölulega ríkur maður alla sína æfi, og þá hefir hann þá efni á að ganga að eiga Annetta sína, ef hún er enn í tölu lifandi manna og vill giftast Alfonse sínum.

En hvað sem því líður, þá ætla eg að bæta fáeinum orðum við sögu míns ástkæra vinar, Quatermains gamla, í þeirri veiku von, að hún kunni að komast til skila.

Hann dó um sólaruppkomu daginn eftir að hann hafði skrifað síðustu orðin í síðasta kapitulanum. Við Nýlepþa og Good vorum viðstödd andlát hans, og það var frámunalega átakanlegur, og þó á sinn hátt yndislega fagur atburður. Einni stundu fyrir dögun var okkur það ljóst, að hann átti skamt eftir ólifað, og sorg okkar var sár. Good fór jafvel að gráta við þá umhugsun, og við það blossaði upp gamansemin í okkar deyjandi vini í síðasta sinni, því að jafnvel þá gat hann gert að gamni sínu. Andlitsvöðvarnir á Good höfðu mist afl sitt, vegna þeirrar geðshræringar, sem hann var í, og svo datt gleraugað af þeim stað, sem það var vant að sitja á, eins og ekkert var nema eðlilegt. Quatermain tók ávalt eftir öllu, og hann tók einnig eftir þessu.

„Loksins,“ sagði hann og átti bágt með að koma orðunum út úr sér, en reyndi þó til að brosa, „loksins hefi eg séð Good gleraugalausan.”

Eftir það sagði hann ekkert, þangað til dagur rann; þá bað hann okkur að reisa sig upp, til þess að hann skyldi geta horft á sóluppkomuna í síðasta sinni.

„Eftir mjög fáar mínútur,“ sagði hann, þegar hann hafði horft með alvörugefni á sólina ofurlitla stund, „verð eg kominn gegnum þessi gullhlið.“

Tíu mínútum síðar reis hann upp sjálfur og leit framan í okkur.

„Eg er nú að leggja út í undarlegri ferð en nokkra þá, sem við höfu mfarið í félagi. Hugsið þið um mig við og við,“ sagði hann í hálfum hljóðum. Guð blessi ykkur öll. Eg ætla að bíða eftir ykkur öllum saman.“ Og svo andvarpaði hann og hneig aftur á bak dauður.

Og þannig leið burt úr þessum heimi maður, sem eg held að hafi verið fullkomnuninni eins nærri eins og nokkur annar, sem mér hefir auðnast að eiga nokkuð saman við að sælda.

Hann var blíðlyndur, staðfastur í lund, gamansamur og hafði marga af þeim eiginlegleikum, sem skáld verða að hafa, en samt sem áður liggur við, að enginn hafi jafnast á við hann sem starfsmann og heimsborgara. Eg hefi aldrei þekt nokkurn mann, sem var eins fær að dæma um menn og hugarfar þeirra. „Eg hefi lagt stund á að þekkja mannlegt eðli alla mína ævi,“ sagði hann oft, „svo að eg ætti eitthvað um það að vita,“ og hann var

því líka sannarlega kunnugur. Hann hafði að eins tvo galla; annar var sá, hve óhæfilega lítið hann gerði úr sjálfum sér, og hinn gallinn var dálítil tilhneiging, sem hann hafði til afbrýðissemi gegn hverjum þeim sem honum þótti mjög vænt um. Hver einasti maður, sem les það sem Quatermain hefir ritað mun geta sjálfur gert sér grein fyrir hinu fyrnefnda af göllum þessum; en samt ætla eg að læta við einu einasta dæmi því til skýringar.

Eins og lesarinn sjálfsagt man, talar Quatermain mjög oft um sjálfan sig sem huglítinn mann, þar sem sannleikurinn var aftur á móti sá, að hann var frámunalega djarfur maður, jafnvel þó hann væri mjög gætinn, og, það sem meira var, honum varð aldrei ráðafátt. Eftir því sem hann segir söguna af bardaganum mikla í skarðinu, þar sem hann fekk sár það er að lokum leiddi hann til bana, mundu menn, ætla, að það hefði verið af hendingu einni, að hann fékk höggið í orustunni. Sannleikurinn var samt sem áður sá, að hann særðist í mjög vasklegri tilraun til að frelsa líf Goods, tilraun, sem heppnaðist ágætlega, og að lokum kostaði hann sjálfan lífið. Good var fallinn til jarðar og einn af hálendingum Nöstu var að því kominn að vinna á honum. Þá fleigði Quatermain sér ofan á Good, tók sjálfur við högginu, sem honum hafði verið ætlað, stóð svo á fætur og drap hálendinginn.

Að því er afprýðisemi hans snertir, þá mun hún verða mönnum ljós af einu dæmi, sem eg set hér til að réttlæta sjálfan mig og Nýleppu. Lesar-

inn minnist þess ef til vill, að Quatermain gefur það í skyn á einum eða tveimur stöðum, að eg hafi ekki getað farið þvers fótar fyrir Nýlepþu, og að við höfum bæði skift okkur fremur lítið af honum. Auðvitað er Nýlepþa ekki alfullkomin, fremur en aðrar konur, og hún getur stundum haft nokkra tilhneiging til að fara eftir sínu eigin höfði, en að því er Quatermain snertir, þá var þetta ekkert annað en ímyndun. Hann talar meðal annars, um það að eg hafi ekki komið að finna sig, þegar hann lá veikur; sannleikurinn er sá, að eg sárbað læknana að lofa mér að finna hann, en þeir bönnuðu mér það strengilega. Eg tók mér mjög nærri slíkar athugasemdir hans, þegar eg las þær, því eg elskaði Quatermain eins innilega eins og hann hefði verið faðir minn, og mér hefði aldrei komið til hugar að láta hjónaband mitt koma í bága við þá tilfinning. En sleppum því; þetta var, þegar alls er gætt, ekki nema lítill breyskleiki, og hans gætir ekki mikið innan um jafn margar og jafn elskuverðar dygðir.

Hvað um það, hann dó, og Good las yfir honum greftrunar formálann í viðurvist minni og Nýlepþu, og svo var lík hans jarðað, eða öllu heldur brent, með mikilli viðhöfn, samkvæmt kröfum almennings. En eg gat ekki að mér gert, þegar eg var á leiðinni til mutserisins í hinni glæsilegu prósessíu, þá fór eg að hugsa um, hve megna óbeit hann mundi hafa haft á þessu öllu, ef hann hefði getað verið viðstaddur og séð það, því hann hafði andstygð á allri sundurgerð.

málmgólfið ...
látinn bíða þess, að síðasti sólargeisl...
lit honum. Geislinn kom rétt á eftir eins og gullör, krýndi hinar fölu brúnir með dýrðarljóma, og svo var blásið í lúðra, og gólfið opnaðist, og leifar okkar ástkæra vinar hnigu niður í eldinn, sem fyrir neðan var.

Eg mun aldrei sjá hans jafningja framar, þó eg lifi hundrað ár. Hann var afburðamaður, sannarlegasti gentlemaður, trygglyndasti vinur, ágætis íþróttamaður, og, að því er eg held, bezta skyttan í allri Suðurálfunni.

Og þannig endaði hið merkilega ævintýralíf Quatermains veiðimanns.

* * *

Síðan hefir okkur gengið vel. Good hefir verið, og er enn önnum kafinn við að koma upp skipaflota á Milosis-vatninu og öðrum stórvötnunum,og vonum við með því að geta aukið verzlun og viðskifti, og sömuleiðis unnið bug á mjög óróagjörnum og herskáum hluta landsbúa, sem hafast við á landamærunum. Vesalings Good! hann er farinn að ná sér aftur eftir hinn hryggilega dauðdaga þessarar afvegaleiddu en töfrandi konu, Sorais, en hann hefir tekið sér mjög nærri, hvernig um hana fór, því að hann unni henni sannarlega mjög heitt. Eg vona samt sem áður, að hann muni, þegar tímar líða fram, fá hæfilegt kvonfang, og ná þessari óheillasögu út úr höfðinu á sér. Nýlega hefir í

... hefir of-
... erlistilhneigingunum og drambi föður síns til þess að mér geðjist að henni.

Af sjálfum mér er það að segja, að eg veit naumast, hvar eg ætti að byrja, ef eg færi að ... rá mínum eigin gerðum, og þess vegna er bezt, að eg skýri alls ekkert frá þeim, og láti mér nægja að segja, að mér hefir gengið mjög vel í minni skrítilegu konungsstöðu — sannast að segja betur en eg hafði nokkurn rétt til að búast við. En vitaskuld fellur ekki alt í ljúfa löð, og mér þykir mjög þung ábyrgðin, sem eg hefi tekið mér á herðar. Samt sem áður vona eg, að mér muni takast með tímanum að koma nokkru góðu til leiðar, og eg ætla að verja lífi mínu til að fá tveim atriðum framgengt; annað er það, að sameina hina ýmsu flokka, sem *Z*u-vendi-þjóðin skiftist í, koma þeim undir eins öfluga sambandsstjórn; hitt er það, að draga úr valdi klerkastéttarinnar. Hin fyrri af þessum endurbótum mun, ef henni verður framgegnt, fyrirbyggja borgarstríðin, sem öld eftir öld hafa eytt landið og gert svo mikið tjón; og hin síðarnefnda mun, auk þess sem hún ryður úr vegi mikilli pólitískri hættu, greiða veginn fyrir innleiðslu hinnar sönnu trúar, í stað þessarar vitlausu sólartilbeiðslu. Eg von að fá að sjá skuggann af krossi Krists falla á gullþakið á Blómmusterinu; eða, ef eg fæ ekki að sjá það, þá muni eftirkomendum mínum auðnast það.

Enn er eitt, sem eg ætla mér að leggja mikla áherslu á, og það er það, að útiloka gersamlega útlendinga frá *Zu*-vendis. Annars er ekki líklegt að nokkur þeirra komist hingað nokkurn tíma, en ef þeir skyldu samt sem áður koma, þá læt eg þá fyrirfram vita það, að þeim verður vísað styztu leiðina út úr landinu. Eg segi þetta ekki af neinni ógestrisni, heldur vegna þess að eg er sannfærður um, að það sé heilög skylda, sem á mér hvíli, að varðveita fyrir þessa þjóð, sem í heild sinni er hreinskilin og göfuglynd, þá blessun sem samfara er tiltölulega lítilli þjóðmentun. Hvernig mundi fara um allan minn hrausta her, ef einhver framtakssamur fantur færi að ráðast á hann með fallbyssum, og Martini-Henrys byssum. Eg get ekki séð, að púður, telegrafar, gufa, dagblöð, kosningarréttur fyrir alla, o. s. frv., o. s. frv. hafi gert mannkynið einu hóti sælla en það var áður, og eg er sannfærður um að því hefir verið mikið illt samfara. Mér dettur ekki í hug að láta af hendi þetta yndislega land, og láta það verða sundurtætt og um það rifist af spekúlöntum, ferðalöngum, stjórnmálamönnum og kennurum, sem mundu koma sér álíka vel saman, eins og mönnunum kom saman við Babelsturninn, álíka vel eins og þessum hræðilegu illyrmum, sem ryfu sundur og börðust um hræið af villisvaninum í dalnum, sem liggur að ánni, er rennur niðri í jörðunni; og eg ætla mér ekki held...
rennur niðri í jörðinni; og eg ætla mér ekki heldur að gæða landið á þeirri ágirndargræðgi, ofdrykkju, nýjum sjúkdómum, púðri og almennri siðspillingu,

sem eru helstu einkenni mentunarinnar, þegar hún er að ryðja sér braut meðal þjóða, sem lifað hafa einföldu lífi. Ef forsjóninni þóknast að opna Zuvendi fyrir heiminum á hentugum tíma, þá er það annað mál; en sjálfur ætla eg ekki að taka upp á mig ábyrgðina, og eg get bætt því við, að Good er mér fyllilega sammála í þessu efni. Guðsfriði.

*Henry Curtis.*

15. Desember 18—

P. S. Eg gleymdi alveg að geta um það, að fyrir hér um bil níu mánuðum fæddi Nýleppa mér son og erfingja. (Henni líður prýðilega, og hún er, að minsta kosti í mínum augum, yndislegri en nokkru sinni áður.) Sonurinn er hrokkinhærður, bláeygur ungur Englendingur að yfirlitum, og þó að honum sé ætlað, ef hann lifir, að erfa Zu-vendiskonungsríkið, þá vona eg, að eg verði fær um að ala hann svo upp, að hann verði það, sem enskur gentlemaður á að vera, og venjulega er — enda er það í mínum huga jafnvel göfugra og tígulegra heldur en að vera fæddur ríkiserfingi í hinni miklu Stigaætt, og sannast að segja sú æðsta tign, sem nokkur maður getur öðlast á þessari jörð.

*H. C.*